SIGURÐUR NORDAL

# SNORRI STURLUSON



REYKJAVÍK 1920
ÞÓR. B. ÞORLÁKSSON

## Formáli.

Bók þessi er þannig til orðin, að ég þykist ekki geta látið hana frá mér fara án þess að segja sögu hennar í fám orðum. Síðan á stúdentsárum mínum hef ég fengist allmikið við verk Snorra Sturlusonar og æfisögu, kynt mér eftir föngum alt sem um það efni hefur verið ritað og reynt að leysa þar úr gömlum deiluatriðum og rannsaka það, sem mér þótti öðrum hafa yfirsézt. Verk Snorra voru kjörsvið mitt til meistaraprófs og prófritgerð mína (1911) skrifaði ég um meðferð hans á dróttkvæðum til söguheimilda (smbr. sjötta þátt, II—V). Doktorsritgerð mín (1914) fjallaði um flóknustu spurningarnar viðvíkjandi heimildum Heimskringlu og uppruna hennar (smbr. fyrsta þátt, III—IV). Veturinn 1915—16 skrifaði ég stutta mannlýsingu Snorra, sem prentuð var í Skírni, og nú er (allmikið breytt og aukin) annar þáttur í þessari bók. Og fyrsta kensluár mitt hér við háskólann (1918—19) hélt ég fyrirlestra um Snorra-Eddu, og eru nokkur atriði úr þeim efnið í II. kapítula fyrsta þáttar og þriðja og fjórða þætti. Ætlun mín var að semja rækilegt rit um Snorra og verk hans, þar sem leyst væri til auðinnar hlítar úr öllum vafaatriðum, manninum og verkum hans lýst hvoru fyrir sig og hvoru í sambandi við annað, hvorttveggja borið saman við íslenzk og erlend dæmi o. s. frv.

En slíkt rit mundi hafa þurft margra ára undirbúnings enn þá, og ég sé mér ekki fært að leysa það af hendi að sinni. Valda því einkum störf mín við háskólann. Nauðsyn krefur, að sem fyrst verði komið upp yfirliti yfir bókmentasögu Íslendinga eftir siðaskifti, a. m. k. fyrir nemendur, en það er bæði mikið

verk og torvelt. En áður en ég hyrfi að þessu, og frá Snorra, fanst mér ég verða að reyna að færa saman í litla bók það úr rannsóknum mínum, sem mér lá mest á að segja. Ef mér síðar skyldi endast tími til þess að skrifa nánar um sama efni, getur líka verið gott, að sum atriði í þessari bók hafi verið dæmd og rædd.

En af þessu mun auðsætt, að þetta rit er sanngjarnara að meta eftir því, sem í því er, en hinu sem í það vantar. Víða hef ég orðið að fara fljótt yfir sögu, og ekki getað rökstutt allar skoðanir mínar eins og æskilegt hefði verið. Á ég hér einkum við fyrsta, fimta og sjöunda þátt. En ég vona að þeir þættir séu þó ekki að því skapi vanhugsaðir né á litlum rannsóknum bygðir. Annarsstaðar, eins og í sjötta þætti, getur val dæma og sjónarmiða orkað tvímælis. Og víða vænti ég þess sjálfur að vaxa enn í skilningi á þessu efni. Því hef ég þózt þurfa að afsaka það, að ég gef bók þessa út nú og í þessari mynd.

En eitt er, sem ég hvorki vil né get afsakað: ég hef af veikum mætti, og eftir því sem efnið og þroski minn leyfðu, reynt að skrifa þessa bók um lifandi rit fyrir lifandi menn. Þetta býzt ég við, að sumum fræðimönnum muni þykja ærin ástæða til þess að telja hana óvísindalega og einskis virði, þó að sömu menn hefðu verið harðánægðir, ef ég hefði rutt efni því, sem ég hef safnað til hennar, ómeltu og ósköpuðu í prentsmiðjuna. En þau vísindi, sem eru fólgin í tómum fræðatíningi, upptalningum í stað ályktana og skilnings, bókaskrám í stað dómgreindar, þykja mér lítils virði. Hinar vísindalegu „aðferðir" geta verið góð leiðbeining fyrir þá, sem til slíkra starfa eru fæddir, en andleg störf verða ekki unnin af vélum, og aðferðunum er ofvaxið að gera vélgenga þumbara að vísindamönnum. Hugsanaleti (og miklir afkastamenn, sem hvorki nenna að kryfja hlutina til mergjar, né melta efni sitt svo, að því verði fenginn sæmilegur búningur, geta átt mikið af henni) og óheilbrigð lífsskoðun hafa leitt norræna ritskýringu alt of fjarri leiðum lifandi manna, vísindin kunna að hafa grætt, en bók-

mentirnar hafa tapað áhrifum sínum. Þó að „andríki“ geti verið smekklaust og óþolandi, þá er eitthvað bogið við þegar það er orðið smánaryrði meðal vísindamanna, er fást við algerlega óhagnýta fræðigrein, svo að hið andlega gildi hennar eitt gefur henni tilverurétt. Norræn ritskýring siglir nú með lík í lestinni, af því að hún hefur gleymt að spyrja sífelt, hvað væri *rannsóknar virði,* og hvernig hún ætti að gera rannsóknina lifandi þátt í menningu og þjóðlífi. Forlög hennar hljóta að vera hverjum starfsmanni hennar áhyggjuefni á þessum byltingartímum lífsskoðana og lífshátta, þegar mörgum skurðgoðum mun steypt af stóli og mörg gildi endurmetin. En einmitt til þess að kjarninn verði ekki brendur með hisminu, verða endurbætur hennar að koma *innan að,* frá ritskýrendunum sjálfum, sem þekkinguna hafa, ef þeir vilja sjáandi sjá og heyrandi heyra og skilja. Um sjálfan mig veit ég vel, að þótt ég sjái gallana og mér sé sízt í skapi að hlíta dómi þeirra manna, sem vilja taka þá í kosta tölu, þá er ég enn of skamt á veg kominn til þess að geta skrifað um forna menningu og bókmentir á þann hátt, sem ég helzt kysi. Þessi bók hefur einmitt sannfært mig bezt um það. Hún fer að mínum dómi alt of skamt í þá stefnu, sem ýmsir munu telja henni mest til foráttu. En meðan svo er, mun ég ekki telja það skaða, þótt langt kunni að líða þangað til ég læt annað rit af þessu tæi frá mér fara.

* * *

Ég get að sjálfsögðu ekki stært mig af að hafa lesið öll rit, sem snerta þetta efni og eitthvað væri óbeinlínis á að græða. Samt hef ég lesið fjölda rita og ritgerða í aðdrátta skyni til þessa rits, án þess ég hafi þózt finna ástæðu til þess að vitna til þeirra. Og þykir mér þarfleysa að telja þau hér, því að öllum fræðimönnum er kunnugt hvar slíkar bókaskrár er að finna. Til dæmis skal ég taka, að úr riti Boesens: Snorre Sturlesön (København 1879), laglegu riti, sem ég hef lesið oftar en einu sinni, hef ég varla tekið neitt sérstakt atriði, þó að sitthvað sé sama í hans bók og minni. En öðrum ritgerðum er ég alveg ósamdóma

(t. d. ritgerð Kohts, Sagaernes opfatning av vor gamle historie, (Norsk) Hist. Tidsskrift 5. R. II, 379 o. áfr.), án þess ég hafi haft rúm til þess að deila á þær.

Tilvitnanir í rit Snorra eru allar í útgáfur Finns Jónssonar: Eddu, Reykjavík 1907, Heimskringlu, Köbenhavn 1911 (tilvitnanirnar í kapítula, sem, að Har. s. hárf. undantekinni, eru hinir sömu í stærri útgáfunni, K-n, 1893-1900). Sú útgáfa er bæði góð og ódýr (aðeins 12 kr.) og ætti að vera keypt mikið hér á landi, því það er bæði skömm og skaði, hve lítið Heimskringla er þekt af sjálfum Íslendingum. Allar tilvísanir til konungasagna (Ól. s. Tr., Ól. s. h. o. s. frv.), þar sem ekki er öðruvísi ákveðið, eru til Heimskringlu, og munu öllum auðskildar. Svo mun og vera um aðrar skammstafanir, en þær eru þessar helztar:

Aarb(öger): Aarböger for nordisk Oldkyndighed og Historie.
Ágrip: Ágrip af Noregskonungasögum, 1880 (sjá bls. 36).
Arkiv: Arkiv for nordisk filologi.
Bisk: Biskupasögur, I—II, Kaupmannahöfn 1858—78.
Elzta saga: Elzta sagan um Ólaf helga (sjá bls. 40).
Flat: Flateyjarbók, I—III, Christiania 1860—68.
Fsk: Fagurskinna (sjá bls. 33).
Helgisagan: Ólafs saga hins helga, Christiania 1849 (sjá bls. 41).
Holm: Saga Ólafs konungs Tryggvasonar eftir Odd munk Snorrason, Stokkhólmshandritið, gefið út af P. A. Munch, Christiania 1853.
Holm 2 = Ól. s. h. (1853).
K: Konungsbók Snorra-Edda.
Litt. hist: Finnur Jónsson, Den oldnorske og oldislandske litteraturs historie, I—III, Köbenhavn 1894—1902.
Miðsagan: týnd saga um Ólaf helga (sjá bls. 40—41)
Mork: Morkinskinna. Udgiven af C. R. Unger, Christiania 1867.
Om O. h.: Sigurður Nordal, Om Olaf den helliges saga. København 1914.
Otte brudst: Otte brudstykker af den ældste saga om Olav

den hellige, ved G. Storm, Christiania 1893 (sjá bls. 40).

Ól. s. h. (1853): Stokkhólmshandritið (Holm 2 4to) af hinni sérstöku Ólafs sögu Snorra (sjá bls. 26).

Skjaldedigtningen: Den norsk-islandske skjaldedigtning, ved Finnur Jónsson, I--II, Köbenhavn 1912--15.

Sn. Hist: Gustav Storm, Snorre Sturlassöns Historieskrivning, Köbenhavn 1873.

Sturl: Sturlunga saga, I—IV, Reykjavík 1908—15.

U: Uppsalabók af Snorra Eddu.

* * *

Þar sem ég hef tekið setningar og kafla úr fornritum, einkum Sturlunga sögu, upp í beina frásögn, hef ég fært þá til nútíma-stafsetningar, en haldið fornri stafsetningu, þar sem mér þótti undir því komið, að stílblærinn héldist (dæmi úr ritum Snorra og heimildum hans). En auðvitað er sú stafsetning ekki fyllilega sjálfri sér samkvæm, fremur en hún er með einu og sama móti í útgáfunum, og auk þess er hún dregin til hæginda með því að gera ekki mun æ og œ, ø og ö o. s. frv. Munu málfræðingar sjá slíkt, en engum er ætlað að læra forna hljóðfræði af þessu riti.

Ýmis orð, ný eða fátíð, eins og andlægni (objektivitet), einlyndi, marglyndi, sýnd, eftirrit (smbr. rita eftir bókum) o. s. frv., vona ég séu auðskilin í sambandinu, og skal ekki fjölyrða um þau. En um orðið dróttkvæði vildi ég segja fáein orð. Þó að undarlegt sé, höfum vér orðið að taka úr dönsku nafn á hinum forna skáldskap vorum, sem er utan Sæmundar-Eddu, og hefur hann verið kallaður skáldakvæði. „Skjaldekvad'' er gott orð, því að skjald er á dönsku aðeins haft um norræn fornskáld. En allra skálda kvæði (jafnvel leirskálda) eru á íslenzku skáldakvæði. Dróttkvæði hátturinn („með þeima hætti er flest ort, þat er vandat er; þessi er upphaf allra hátta, sem málrúnar eru fyrir öðrum rúnum“, Háttatal, skýringar við 1. vísu) og samband skáldanna við konungana (drótt

Böðvars var Valgerður, dóttir Markúsar lögsögumanns og skálds Skeggjasonar.

Guðný Böðvarsdóttir virðist hafa verið nokkuð eyðslusöm og líklega allmikil heimskona, en skörungur og vel að sér ger. Bera þeir synir hennar því vitni, Þórður, Sighvatur og Snorri, að þeim hafi verið fengið gott móðerni, því að mjög bera þeir af börnum þeim, er Sturla gat við öðrum konum. En fátt eitt er um Guðnýju ritað. Aftur á móti er mikil saga frá Sturlu. Hann tók ungur við mannaforráðum af föður sínum, og er honum lýst svo í upphafi sögu sinnar, að hann þótti „mikilmenni og ættstór og líklegur til höfðingja" (Sturl. I, 84). Um þær mundir tók og við mannaforráðum Einar, sonur Þorgils Oddasonar á Staðarhóli. Var hann þá mestur höfðingi vestur þar, og þó meir fyrir auðs sakir og frændstyrks, en skörungsskapar eða mannkosta. Gekk Sturla á það lagið, og átti hver sá vísa liðveizlu hans, er Einari þóttist eiga grátt að gjalda. Áttu þeir margar deilur og smáar, og mátti lengi ekki í milli sjá. Voru báðir ójafnaðarmenn og ekki hlutvandir, en Sturla miklu gætnari og vitrari. Ekki var málum þessum lokið þegar Sturla andaðist, en Sturlu saga segir svo frá, að eftir bardagann á Sælingsdalsheiði (Heiðarvíg, smbr. Sturl. I, 182) haustið 1171, hafi það verið „mál flestra manna, að á þeim fundi skifti um mannvirðing með þeim Sturlu og Einari" (Sturl. I, 126). Mátti úr því telja Sturlu í helztu höfðingja röð.

Á efri árum sínum veitti Sturla lið Böðvari tengdaföður sínum í erfðamálum hans við Pál prest Sölvason í Reykjaholti. Mun Sturlu hafa verið mjög um kent, hversu kappsamlega Böðvar sótti málin. Þorbjörg kona Páls prests var grimmúðug í skapi, og á sáttafundi, sem haldinn var í Reykjaholti, veitti hún Sturlu tilræði með knífi og stefndi í augað, og mælti þetta: „Hví skal eg eigi gera þig þeim líkastan, er þú vill líkastur vera, en það er Óðinn" (Sturl. I, 148. Smbr. Völsungakviðu ina fornu, 37. v.: einn veldr Óðinn öllu bölvi, þvít með sifjungum sakrúnar bar). En hún var tekin, og kom lagið í

kinnina og var það svöðusár. Páll prestur seldi Sturlu sjálfdæmi fyrir áverkann, og gerði Sturla sér 200 (240) hundraða í sárabætur. Þótti slíkur ójöfnuður svo úr hófi keyra, að líklegt er, að upphaf hefði orðið nýrra og illra málaferla, ef Jón Loftsson í Odda hefði ekki skorist í leikinn á alþingi 1181. Ógnaði hann Sturlu til þess að leggja málið á sitt vald, og gerði hæfilegar bætur, 30 hundraða. En til þess að mýkja hug Sturlu bauð Jón honum barnfóstur, og bauð heim Snorra syni hans og honum sjálfum til kirkjudags í Odda. Fylgdi Sturla suður sveininum og þá síðan virðulegar gjafir af Jóni. Tveim árum síðan andaðist Sturla, en Snorri ólst upp í Odda.

Þegar Jón Loftsson andaðist (1197), var Snorri kominn á þann aldur, að mál var að leita honum staðfestu. Sjálfur hafði hann hvorki fé né mannaforráð, því að Guðný móðir hans hafði eytt þeim 40 hundruðum, er hann átti að taka í arf eftir föður sinn, en Sighvatur bróðir hans fór með Snorrungagoðorð. En þeir Sæmundur fóstbróðir hans og Þórður bróðir hans neyttu þess, að Snorri var stórættaður og vænn til höfðingja, en átti auk þess mikillar styrktar von af Oddaverjum og bræðrum sínum, og báðu til handa honum Herdísar Bersadóttur á Borg. Bersi prestur faðir hennar, er kallaður var inn auðgi, átti átta hundruð hundraða, og auk þess vafalaust goðorð þeirra Mýramanna. Guðný lagði þá Hvammsland til kvánarmundar Snorra, og var brúðkaup þeirra Herdísar haldið í Hvammi, síðla sumars 1199. Að því brúðkaupi var meðal annara Guðmundur prestur Arason, síðar biskup (Sturl. I, 199). Ingibjörg Þorgeirsdóttir, fyrri kona Hvamm-Sturlu, var föðursystir Guðmundar. Um haustið fóru þau Snorri og Herdís í Odda, og voru þar um veturinn. Er Snorra þá og sumarið eftir getið við mál þeirra Sæmundar Jónssonar og Sigurðar Ormssonar. Bersi prestur andaðist 1201 (1202 segir þó Konungsannáll, en Sturl. II, 28 miðar við lát Brands biskups, sem var 1201), tók Snorri allan arf eftir hann og réðst þá til bús

til Borgar og bjó þar nokkra vetur[1]). Þá gaf Þórður móðurbróðir hans í Görðum honum hálft Lundarmanna goðorð, og hafði Snorri þá allmikil mannaforráð. Ekki er getið annara tíðinda frá þeim árum, sem Snorri bjó á Borg, en deilu hans við vetursetumann sinn, Þorkel rostung, orkneyskan kaupmann, bróðurson Bjarna biskups Kolbeinssonar. Sýndi Snorri talsverðan ójöfnuð í þeim málum, en kaupmenn sluppu þó heilir úr greipum hans.

Svo er talið, að Snorri muni hafa verið fimm ár á Borg, og fluzt að Reykjaholti árið 1206. Náði Snorri þeim stað með samningum við Magnús prest Pálsson, er þar bjó, og Þórð Böðvarsson og tvo menn aðra, er tilkall þóttust eiga til staðarvarðveizlu. Fól Magnús sig, konu sína og sonu tvo í forsjá Snorra. Annar hluti Reykjaholts máldaga er skrifaður þegar Snorri tók við staðnum, en þriðji hlutinn eftir að Hallveig Ormsdóttir var komin að Reykjaholti og sjötti hlutinn (kálfskinna-skráin) líklega um sama leyti og sá þriðji. Má af máldaganum fá allskýra hugmynd um búnað kirkjunnar og ítök staðarins.

Herdís varð eftir á Borg, og var þá lokið samförum þeirra Snorra. Hún andaðist 1133. Með henni átti Snorri tvö börn, sem úr barnæsku komust, Hallberu og Jón murt. Hann átti son er Órækja hét, við Þuríði dóttur Halls Órækjusonar. Hann

---

[1]) Hér verður farið fljótt yfir sögu um æfiferil Snorra, því að mörgum helztu viðburðunum er nánar lýst í næsta þætti. En hér er reynt að setja aðalatriðin í rétta tímaröð, svo að frásögur næsta þáttar megi falla inn í þá umgerð. Flest af því, sem frá Snorra er sagt, er fólgið í Sturlunga sögu (einkum II. bindi) og mun hún í höndum flestra þeirra, sem þessa bók lesa. Aðrar frumheimildir eru: Hákonar saga Hákonarsonar, Biskupa sögur, Íslenzkir annálar (útg. af Gustav Storm) og Íslenzkt fornbréfasafn I. bindi (auk þess sérstök útgáfa af Reykjaholts máldaga, gerð af Kr. Kålund).

átti og börn við Guðrúnu, dóttur Hreins Hermundarsonar (af ætt Gilsbekkinga, og þá líklega frændkonu Styrmis fróða) og komst Ingibjörg ein úr barnæsku. Þórdís var enn dóttir hans, og hét Oddný hennar móðir.

Í Reykjaholti græddist Snorra fé mikið. Hefur hann vafalaust hýst staðinn vel, og virki lét hann gera um bæinn. En ekki sést nú eftir af mannvirkjum hans, nema ef vera skyldi eitthvað af umbúnaðinum um Snorralaug. Þó að laug þessi sé kend við Snorra, skal þess getið, að um laug í Reykjaholti er talað þegar á 10. öld (Landn. 112), og Snorralaug hefur verið gerð upp oftar en einu sinni á síðari öldum, seinast 1858. En hitt er víst, að Snorri hefur haft miklar mætur á lauginni og sjálfsagt látið gera eitthvað við hana. Það sést af Sturlungu, að gangur var milli laugarinnar og húsanna (sbr. II, 150, 253), og hefur sjálfsagt verið bygt yfir hana, svo að nota mætti hana hvernig sem viðraði. Með staðnum fylgdi Reykhyltinga goðorð, og enn jukust mannaforráð Snorra, er Þorsteinn Ívarsson gaf honum hálft Ávellingagoðorð í Húnaþingi. Varð það til þess að Snorri varð að skerast í deilur þeirra Miðfirðinga og Víðdæla (um 1214). Hann var og með öðrum höfðingjum í atför að Guðmundi biskupi Arasyni eftir víg Kolbeins Tumasonar (1208), en sýndi vináttu sína við biskup með því að hafa hann heim með sér í Reykjaholt. Var biskup þar veturinn 1209—10, „vel haldinn á þann sið sem þá var í landi“ (Bisk. II, 76). Þegar Arnór Tumason fór utan (1213), skipaði hann Snorra ríki sitt í Skagafirði. Lét Snorri þá gera kastala (virki) á Víðimýri, og hefur líklega dvalið norður þar um skeið (smbr. Sturl. II, 59, 169).

Snorri var lögsögumaður 1215—18 (og annað sinn 1222—31). Á þeim árum átti hann þingdeilu minni háttar við Sæmund í Odda og Magnús allsherjargoða. Hlaut Sæmundur að gera um málið, og undi Snorri lítt við. Hefndi hann sín með því að ráða arf Jórunnar auðgu undan Magnúsi með brögðum, en þó þótti hann vaxa af þeim málum. Hann var nú orðinn kunnur

utan lands og innan fyrir skáldskap sinn, og var vegur hans allmikill á þessum árum.

Sumarið 1218 réðst Snorri til utanfarar. Var hann um veturinn með Hákoni konungi og Skúla jarli, en sumarið eftir fór hann austur á Gautland að sækja heim frú Kristínu, er átt hafði Hákon jarl galinn, en nú var gift Áskeli lögmanni. Þá Snorri þar sæmilegar gjafir, og fór um haustið aftur til Skúla jarls, og var þar annan vetur í allgóðu yfirlæti. Lögðu þeir konungur og jarl virðingar miklar á Snorra og gerðu hann skutilsvein sinn. En vorið 1220, þegar Snorri ætlaði út, höfðu Norðmenn ráðið að herja til Íslands um sumarið. Hafði þrútnað fjandskapur með Oddaverjum og Björgynjar kaupmönnum, og voru þau upptök að, að Sæmundur Jónsson kendi Björgynjarmönnum, að þeir hefðu flæmt burtu úr kaupstaðnum Pál son hans með gemsi sínu, en Páll druknaði fyrir Staði á leið frá Björgyn til Þrándheims. Fór Sæmundur að kaupmönnum á Eyrum og tók af þeim 300 hundraða vaðmála (1217). Árið eftir hefndu kaupmenn sín með því að taka af lífi Orm Jónsson, bróður Sæmundar, er engan hlut hafði átt í deilum þessum, nema til sátta væri. En Björn Þorvaldsson, Gissurarsonar, sem var kvæntur Hallveigu, dóttur Orms, lét draga austmann úr kirkju á Bjargi í Miðfirði og drepa (Hákonar saga, k. 59, sjá Sturl. IV, 221). En Snorri skarst í mál þessi og reyndi að miðla þeim. Kallaði það betra ráð að friða fyrir kaupmönnum og ná síðan yfirráðum yfir landinu með vinmálum og samningum, en eigi hernaði. Hét til þess fylgi sínu og bræðra sinna. Við slíkar fortölur slæfaðist skap jarls, enda voru flestir hinir vitrari menn mjög ófúsir til ferðarinnar. Varð nú sómi Snorra enn meiri en áður. Þeir Hákon og Skúli gerðu hann lendan mann sinn, en jarl gaf honum skipið, það er hann fór á, og 15 stórgjafir (smbr. Háttatal, 95. v.). En senda skyldi Snorri utan Jón son sinn til gíslingar með jarli, að það endist, er mælt var (Sturl. II, 86—87). „En öngu kom Snorri við lands-

menn áleiðis; flutti hann og lítt. En frið höfðu kaupmenn góðan þann tíma á Íslandi" (Hákonar s., sjá Sturl. IV, 222).

Ekki kunnu tengdamenn Orms Jónssonar Snorra neinar þakkir fyrir afskifti hans af þessum málum. Gerði Björn Þorvaldsson sig beran að fjandskap við hann og leitaði honum ýmissa skaprauna. Af þessu var Snorri í ráðum með Lofti biskupssyni (syni Páls Jónssonar) í deilum þeirra Bjarnar, er lauk með því að Björn var veginn. En síðan skildist Snorri við mál Lofts, og varð hann sekur. Sumarið 1221 sendi Snorri Jón murt utan, og var hann þrjá vetur með Skúla jarli, en hvarf þá heim aftur. Verður ekki séð, að jarl hafi reynt að kyrrsetja hann.

Fyrir áeggjan heimamanns síns Sturlu Bárðarsonar og þeirra Jónssona, Ingimundar, er utan hafði farið með Snorra, og Bergþórs, skarst Snorri í deilur þeirra bræðra við Þorvald Snorrason í Vatnsfirði, og var það upphaf afskifta hans af málum Vestfirðinga. Ekki auðnaðist þeim Jónssonum að standa yfir höfuðsvörðum Þorvalds, en Snorri lét sumarið 1223 lýsa hernaðarsök á hendur honum, og fór með það mál Órækja Snorrason, 18 vetra gamall. Varð Þorvaldur á þinginu sekur skógarmaður og sekt fé hans alt og goðorð. En það sama sumar sættust þeir Snorri og Þorvaldur, og mest fyrir meðalgöngu Sighvats, og árið eftir gaf Snorri Þorvaldi Þórdísi dóttur sína. Þá fékk og Gissur Þorvaldsson Ingibjargar dóttur hans, en Snorri gerði sjálfur helmingafélag við Hallveigu Ormsdóttur, ekkju Bjarnar Þorvaldssonar, er þá var auðugust kona á Íslandi. Voru brúðkaup þessi haldin, annað í Stafaholti, en hitt í Reykjaholti, og voru inar veglegustu veizlur. Hallberu, dóttur sína og Herdísar, hafði Snorri gift Árna Magnússyni óreiðu í Brautarholti árið 1218, en sambúð þeirra var allill, og þegar hér var komið (1224), gerði Snorri fjárskifti þeirra og tók þá Brautarholt af Árna, en hann keypti Saurbæ á Kjalarnesi. Þrem árum síðar gifti hann Hallberu í annað sinn, Kolbeini

unga, en þau skildu eftir rúma árs sambúð, og fór Hallbera að Borg til móður sinnar og andaðist þar 1231.

Eftir að Sturla Sighvatsson hafði fengið Sólveigar frá Odda (1223) tók að grennast vináttan með þeim Snorra frændum. Fékk Snorri Þórð bróður sinn í lið með sér til þess að heimta af Sturlu Snorrungagoðorð, er Sighvatur hafði fengið syni sínum til kvánarmundar. Varð um þetta allmikið þóf með þeim Sturlungum, en Snorri hafði þá eflt sig svo að mágsemdum, er hann hafði lið Vatnsfirðinga, Ásbirninga og Haukdæla, að Sturla mátti eigi viðnám veita, og tók Snorri trúnaðareiða af Dalamönnum árið 1228. Sama sumar brendu þeir synir Hrafns á Eyri Þorvald Vatnsfirðing inni. Kendu þeir Þorvaldssynir þau ráð þeim Sighvati og Sturlu, og varð það orsök hinnar alræmdu Sauðafellsfarar. Seldu þeir bræður Sturlu sjálfdæmi fyrir, og var sú sætt gerð með eiðum, og var Snorri í þeim ráðum öllum með þeim stjúpsonum dóttur sinnar. En Sturla rauf þau grið og tók þá bræður af lífi, er þeir voru á leið til Reykjaholts (1232). En þá hafði Snorri hafið deilur við Kolbein unga, eftir skilnað þeirra Hallberu, og kallaði eftir hálfum mannaforráðum hans í hendur honum. Var hann þá sáttfús við aðra höfðingja. Gissuri Þorvaldssyni hafði kent verið, að hann hefði verið í ráðum með Ólafi svartaskáldi, er hann vo Jón murt Snorrason í Björgyn (1231). En Gissur synjaði þess með fimtardómseiði, og lét Snorri sér það alt vel skiljast. Hann gaf og Ormi Svínfellingi upp fégjald það, er hann hafði gert á hendur honum eftir þingdeilu þeirra 1231. Og hann gerði Sturlu furðu auðvelda sættina fyrir víg Þorvaldssona. Var þá lið Snorra svo mikið á þinginu 1232, að Kolbeinn sá þann kost vænstan að sættast við Snorra, og var Snorri þess allfús. Skyldi Órækja Snorrason fá Arnbjargar systur Kolbeins, en Kolbeinn fara með hlut Snorra af goðorðum Ásbirninga fyrir hans hönd. Tveim árum síðar rauf Kolbeinn ungi sætt sína við Snorra fyrir litlar sakir og settist í bú hans fyrir sunnan land, og gerði þar bæði skaða mikinn og óspektir.

Með útkomu Sturlu Sighvatssonar haustið 1235, með erindum Hákonar konungs, hefst nýr þáttur í sögu landsins. Sturla hófst fyrst handa gegn Snorra. Hafði hann að yfirvarpi atferli Órækju, sem Snorri hafði sent vestur í Vatnsfjörð. Hafði Órækja farið óspaklega með völdum sínum og verið áleitinn við vini Sturlu. En bæði var forn fjandskapur með þeim frændum, enda mun Sturlu hafa þótt hyggilegt að snúa sér í upphafi að Snorra, því að þar var til mikils ríkis að vinna og vörn ekki skelegg að því skapi. Snorri hafði njósnir af því eftir jól um veturinn, að þeir Sturla og Sighvatur mundu ætla á hendur honum. Kom Órækja að vestan með 600 (720) manna til liðs við hann. Þá voru þeir og komnir í Reykjaholt Þórður Sturluson og Þorleifur í Görðum, sonur Þórðar Böðvarssonar. Var það þá margra ráð að verða fyrri að bragði og halda liðinu norður, en Snorri kaus heldur að leita um sættir. En af þeim sáttum varð eigi, og sóttu þeir Sturla suður um páskaleytið (1236) og tóku undir sig bú Snorra og ríki í Borgarfirði, en hann flýði sjálfur suður á Nes. Órækju náði Sturla á vald sitt með svikum, og var hann meiddur á hinn svívirðilegasta hátt, og síðan sendur utan. Snorri leitaði enn sambands við Þorleif í Görðum, og vildi þá fara að Sturlu með litlu liði, og koma að honum óvörum. En Þorleifi þótti það ekki ráð, og reið Snorri þá burt. Skömmu seinna áttu þeir Þorleifur og Sturla bardaga í Bæ, og beið Þorleifur ósigur. Það sumar (1237) fór Snorri utan. Mun hann hafa skilið, að til stórtíðinda dró á Íslandi, og þótt gott að vera þá fjarri.

Sumarið eftir að Snorri fór utan tók Sturla Sighvatsson Gissur Þorvaldsson við Apavatn og lét hann sverja sér trúnaðareiða, en seinna um sumarið feldu þeir Gissur og Kolbeinn ungi Sighvat og Sturlu á Örlygsstöðum. Frétti Snorri þessi tíðindi til Noregs um haustið. Var hann þann vetur í Niðarósi með Skúla hertoga. Vorið 1239, þegar Snorri var búinn til Íslands, komu bréf konungs, er bönnuðu þeim öllum Íslendingum að fara út á því sumri. En Snorri virði bann konungs

að vettugi, enda tók hann aftur ríki sitt viðstöðulaust, er til Íslands kom. Beitti hann nú valdi sínu mjúklega. Sólveig, ekkja Sturlu, fekk honum í hendur búið að Sauðafelli, er hún réðst til utanfarar, en hann fékk aftur Sturlu Þórðarsyni búið og þriðjung sinn í Snorrungagoðorði.

Það er bert af samningum Snorra við Skúla hertoga (sjá annan þátt, VIII. kap.), að hann hefur ætlað sér mikil völd á Íslandi, og hugsað, að hann réði enn við þá Gissur og Kolbein. En á hinn bóginn hefur Gissur verið ráðinn í því að láta Sturlungum ekki vera neinnar viðreisnar von eftir Örlygsstaðabardaga. Gissur hafði flesta þá kosti til að bera, er mundu hafa gert hann að góðum höfðingja á vel siðaðri öld. En hann var enginn klektunarmaður, hann beitti þeim vopnum, sem vegið var að honum sjálfum með, og þegar hann tók til eiðrofa og launráða, kunni hann að fylgja laginu betur eftir en Sturla Sighvatsson, sem ekki var að því skapi betri maður en Gissur sem hann var óvitrari. Eftir Apavatnsför er Gissur eins og híðbjörn, sem áreittur hefur verið um miðjan vetur. Og sízt af öllu var honum í skapi að eira þessum Dalamönnum, sem nýlega höfðu brotist fram til valda, voru manna hættulegastir, og þó varla samboðnir andstæðingar Haukdælum. Þessa galt nú Snorri. En auk þess skorti Gissur ekki átyllur. Hákon konungur, sem af ýmsum ástæðum bar þungan hug til Snorra, gerði bréf til Gissurar, að hann skyldi annaðhvort koma Snorra á sinn fund eða taka hann af lífi. Og Snorri sjálfur lagði vopnin upp í hendur honum með einum af skaplöstum sínum, fastheldni á fengið fé.

Hallveig Ormsdóttir andaðist sumarið 1241, „og þótti Snorra það allmikill skaði, sem honum var“ (Sturl. II, 347). Þeir Klængur og Ormur, synir hennar og Bjarnar Þorvaldssonar, riðu þá til Reykjaholts. „En er þeir töluðu um fjárskifti, þótti sinn veg hvorum; þóttust þeir eiga fé alt að helmingi, en Snorri kallaði Bláskógaheiði ráða eiga, kvað og

Bersastaði af sinni eigu keypta. Hann vildi og staðina eigi til skiftis leggja, Reykjaholt og Stafaholt". Það er að vísu erfitt að dæma um þetta mál, en undarlegt er að skifta arfi úr *helminga*félagi um Bláskógaheiði, og varla hefðu þeir bræður farið að hefja deilur við Snorra að óþörfu. Virðist Ormi hafa verið vel til hans, og hafði Snorri verið með honum á Breiðabólstað 1236 (Ísl. annálar). Þeir bræður kærðu mál sitt fyrir Gissuri föðurbróður sínum og hét hann þeim liðveizlu sinni, kvað „það ófallið, að þeir hefði eigi rétt skifti við Snorra".

Gissur hitti Kolbein unga á Kili síðla sumars, og gerðu þeir ráð sín. Síðan stefndi hann að sér mönnum, og voru þar ýmsir fornir vinir og tengdamenn Snorra. Hélt Gissur þá upp bréfum konungs, og kvaðst með engu móti vilja brjóta þau, kvaðst þá vildu til fara „og taka Snorra". Ormur vildi eigi vera í þessari ráðagerð.

Gissur kom í Reykjaholt um nóttina eftir Mauritiusmessu (22. sept. 1241) með sjö tigi manna. Brutu þeir upp skemmuna, er Snorri svaf í, en hann hljóp upp og úr skemmunni og í in litlu húsin, er voru við skemmuna. Fann hann þar Arnbjörn prest og talaði við hann. Réðu þeir það, að Snorri gekk í kjallarann, er var undir loftinu þar í húsunum. Þeir Gissur fóru að leita Snorra um húsin. Þá fann Gissur Arnbjörn prest og spurði, hvar Snorri væri. Hann kvaðst eigi vita. Gissur kvað þá eigi sættast mega, ef þeir fyndist eigi. Prestur kvað vera mega, að hann fyndist, ef honum væri griðum heitið. Eftir það urðu þeir varir við, hvar Snorri var, og gengu þeir í kjallarann Markús Marðarson, Símon knútur, Árni beiskur, Þorsteinn Guðinason, Þórarinn Ásgrímsson. Símon knútur bað Árna höggva hann. „Eigi skal höggva", sagði Snorri. „Högg þú", sagði Símon. „Eigi skal höggva", sagði Snorri. Eftir það veitti Árni honum banasár og báðir þeir Þorsteinn unnu á honum (Sturl. II, 350—51).

Þannig var Snorri Sturluson veginn, varnarlaus, á næturþeli, af ótíndum böðlum, án þess að hann fengi einu sinni að

tala við Gissur, né koma fyrir sig nokkrum boðum. Varð það síðar bert, að Hákon konungur mundi fremur hafa kosið, að Snorri lifði og snerist til hlýðni við sig (Hákonar saga, k. 244, smbr. Sturl. IV, 227), en samt var vígið vegið í konungsskjóli (smbr. Sturl. III, 136) og urðu því eftirmál minni en ella mundi. Órækja Snorrason lét taka af lífi Klæng Bjarnarson, en bar ekki giftu til þess að ráða niðurlögum Gissurar. Sveik Gissur hann í trygðum við Hvítárbrú, sumarið 1242, og varð Órækja að heita utanför sinni. Hann andaðist í Noregi 1245.

Símon knútur var tekinn af lífi 1243. Þá var og Þorsteinn Guðinason handhöggvinn, og gerði það Sigurður vegglágur, gamall heimamaður Snorra, „sagði sér það þá í hug, er þeir drápu húsbónda hans, að hann skyldi gera einhverjum þeirra ilt, er þar stóðu yfir, ef hann kæmist í betra færi um'' (Sturl. III, 55). Árni beiskur var veginn við Flugumýrarbrennu (1253): „man engi nú Snorra Sturluson, ef þú fær grið" (Sturl. III, 287). Og þó að hefndarhugur Sturlunga (smbr. t. d. orð Ólafs hvítaskálds, Sturl. III, 227) yrði aldrei Gissuri sjálfum að fjörlesti, þá kveikti hann Flugumýrarbrennu, og skildi svo við Gissur sonlausan, sem kvistaðan meið.

Hákon konungur þóttist eiga fé og ríki Snorra, að honum vegnum, og setti yfir það Þorgils skarða. Urðu um það langar deilur. Því kemst Oddaverja annáll svo að orði um Snorra: „hann kom fyrstur manna eignum undir kóng hér á landi, sem var Bessastaðir og Eyvindarstaðir", þótt ekki sé rétt að kalla það Snorra verk. Bessastaðir voru síðan í eigu konungs til ársins 1867, er Grímur Thomsen fékk þá í skiftum fyrir Belgsholt í Borgarfirði.

## II.

Af verkum Snorra eru vísur hans og kvæði þau, sem tvímælalausast verða eignuð honum. Enginn ber brigður á, að hann hafi kveðið Háttatal né vísur þær, sem Sturlunga saga og

aðrar heimildir (Hákonar saga, málfræðisritgerðir) beinlínis tilfæra með hans nafni. Þarf því ekki að fjölyrða um það efni í þessu sambandi. En hér er ástæða til að geta þess, að Snorra eru venjulega eignaðar tvær nafnlausar vísur í Sturlunga sögu, önnur um víg Bjarnar Þorvaldssonar (II, 96), hin um Dufgus Þorleifsson (II, 142). Þó þykir mér ekki ólíklegt, að síðari vísan gæti verið eftir Guðmund Galtason, heimamann Snorra. En fyrri vísuna, þar sem sveigt er að flími Sunnlendinga um kvæði Snorra, má telja víst, að hann hafi sjálfur kveðið.

Þá hefur Eugen Mogk (Arkiv f. nord. Filol. IV, 240 o. áfr.) reynt að færa rök að því, að kvæðið Noregskonungatal (Flateyjarbók II, 520 o. áfr.) muni vera ort af Snorra á æskuárum hans í Odda. Kvæði þetta er ort fyrir 1197; Finnur Jónsson gizkar á, að það sé frá því um 1190 (Litt. hist. II, 114), af því að svo er að sjá af því, sem Sverrir sé þá nýlega orðinn fastur í sessi. En þó að það væri ort aðeins 2—3 árum fyrir dauða Jóns Loftssonar, þá er ólíklegt, að Snorri sé höfundur þess fyrir aldurs sakir. Önnur rök, sem hægt er að færa fram með þessu og móti, eru heldur veigalítil. Snorri hefur hlotið að þekkja kvæðið, svo að þann veg mætti vel skýra einstakar samhljóðanir í orðavali við Háttatal, ef að slíkt þyrfti nokkurrar skýringar við. Á hinn bóginn er það lítils vert í þessu sambandi, að kvæðinu og Heimskringlu ber ekki allstaðar saman, því að þó að Snorri hefði ort kvæðið, gat hann vel hafa lært ýmislegt betur síðar. En annars er um þetta kvæði að segja, líkt og Sturlu sögu, að það er svo þurt og litlaust, að það mundi engu bæta við lýsingu Snorra og litlu við hróður hans.

Í nánu sambandi við skáldskap Snorra stendur rit það, sem venjulega er kent við nafn hans og kallað Snorra-Edda eða Edda Snorra Sturlusonar, einkum til þess að greina það frá Sæmundar-Eddu, sem rangnefnd hefur verið svo (sjá um það efni einkum útgáfu Sophus Bugge, Norræn fornkvæði, inng. LXIV o. áfr.) og nú er oftast farið að kalla Eddukvæði. Skoðanir fræðimanna um þessa bók hafa í sumu verið hver upp

á móti annari, og verður ekki hjá því komist að drepa hér á helztu deiluatriðin.

Nafn bókarinnar hefur verið skýrt á ýmsa vegu. Fjarstæðust er víst skýring Ihre (Schlözer-Ihre, Isländische Litteratur und Geschichte, I, Göttingen u. Gotha, 1773), að Edda væri dregið af *eða*, af því að það orð kæmi svo oft fyrir í bókinni. Þá var það lengi hald manna, að orðið væri sama og „edda", langamma, sem kemur fyrir í Rígsþulu. Væri bókinni með því líkt við fróða ömmu, sem færi með fornar sagnir. En auk þess sem slík nafngift mundi bera meira svip af rómantík 19. aldarinnar en hispursleysi hinnar 13., gleymdu menn því, að meginstefna bókarinnar er ekki sú, að segja sögur. Nú munu skoðanir manna vera skiftar milli tveggja skýringa. Er önnur upprunalega frá Árna Magnússyni komin, en venjulega kend við Konráð Gíslason, því að hann hefur fært að henni mest rök (Aarböger for nord. Oldk. 1884). Samkvæmt henni er Edda dregið af „óður" (líkt og greddir af gráðr, stedda af stóð, ledda af lóð, slydda af slúð), og merkir óðfræði (poetik). Konráð hugði, að nafnið væri síðar til orðið en bókin; en vel mætti hugsa sér, að það væri eldra og væri myndað í skólum hinna þjóðlegu fræða, og ef til vill fyrst í gamni, eins og sveinum er títt (smbr. bókanöfn eins og Kleifsi af Nucleus). Þessi skilningur nafnsins kemur vel heim við samsetningar eins og eddu-list, eddu-regla. Aftur á móti vildi Björn á Skarðsá færa stofn orðsins til bæjarnafnsins Oddi (smbr. broddr — bredda, þollr — þella), og hefur Eiríkur Magnússon helzt rökstutt þá skýringu (Sagabook of the Viking Club, 1896). Mundi þá í nafninu felast viðurkenning Snorra á fræðslu þeirri, er hann hafði hlotið í Odda, því að ekki er á hitt lítandi, sem Eiríkur hélt fram, að nafnið hefði fyrst verið haft um safn Eddukvæða, sem til hefði verið í Odda á uppvaxtarárum Snorra. Sjálfum þykir mjer skýring Konráðs að öllu samanlögðu tækilegri, en úrslitarök hafa þó fyrir hvorugri fram komið.

Fyrir því að Snorri sé höfundur bókarinnar eru gildari

rök en annars gerist um uppruna íslenzkra fornrita. Skal ég hér aðeins tilfæra fyrirsögn Uppsalabókar: „Bók þessi heitir Edda; hana hefir saman setta Snorri Sturlu sonr eptir þeim hætti, sem hér er skipat". Þó hefur þessu ekki verið með öllu ómótmælt. Rask áleit, að Snorri hefði ekki skrifað nema einhverja frumdrætti Gylfaginningar, og ætti alls engan hlut í Skáldskaparmálum: „innihaldið er mikils til of klámfengið og illa útlistað, sundurgreiningin og spurningarnar einnig miklu smásmuglegri og hégómlegri, og orðfærið miklu miður vandað, en von væri af inum víðfræga höfundi Heimskringlu" (Snorra-Edda, Stokkhólmi 1818). En flestum mun þykja Rask hér of strangur, enda verður ekki mikið bygt á slíkum tilfinningaröksemdum. Aftur á móti hafa af handritum bókarinnar verið dregnar ályktanir um samsetningu hennar, sem ekki verður hjá komist að athuga nánar.

Handritunum af Eddu ber svo mjög á milli, að í fyrstu getur virzt vonlítið að finna upprunalega mynd bókarinnar út úr þeirri truflun. En við nánari athugun verður málið einfaldara. Tvö af Eddubrotunum í Árnasafni, 748 4to og 757 4to, eru í raun réttri sjálfstæð samsteypurit, þar sem Skáldskaparmál hafa verið notuð í stórum stíl, en geta ekki talist handrit af Eddu. Má taka tillit til þeirra um orðamun, það sem þau ná, en alls ekki um samsetningu bókarinnar. Þriðja brotið í Árnasafni, venjulega kallað 1 e β, nú 748 II, er náskylt Konungsbók, og sama er að segja um pappírshandritið í Utrecht, gert um 1600 eftir skinnbók, sem nú er týnd (gefið út af W. v. Eeden, Codex Trajectinus, Leiden 1913). Eftir eru þá þrjú aðalhandritin: Konungsbók, Codex regius (Gml. kgl. Sml. 2367 4to), Wormsbók, Codex Wormianus (AM 242 fol.) og Uppsalabók (Delagardie-safn 11 4to). Af þeim er Wormsbók talin að vera frá síðasta fjórðungi 14. aldar, hin tvö frá öndverðri þeirri öld. Þeim Wormsbók og Konungsbók ber saman í mörgum aðalatriðum, en þó svo að Wormsbók bæði bætir inn í og sleppir úr texta Konungsbókar. En á Konungsbók eru allar síðari

útgáfur Eddu bygðar, og mun lítill ágreiningur verða um það, hvar á að taka hana fram yfir Wormsbók.

Aftur á móti er vonlaust að ætla sér að miðla málum milli Konungsbókar og Uppsalabókar. Rannsóknin á handritum Eddu verður því einkum í því fólgin að gera upp á milli þeirra tveggja handrita.

Uppsalabók (gefin út í II. bindi hinnar miklu Eddu-útgáfu Árna Magnússonar sjóðsins, Kaupmannahöfn 1848—87, eins og líka Eddubrotin, sem áður eru nefnd) hefur ýmislegt til að bera, sem bendir á náið samband handritsins við Snorra sjálfan og ættmenn hans. Eins og að framan er getið, er hún eina handritið, sem greinir nafn bókarinnar og höfundarins. Og inn í hana er skotið þremur skrám, sem vel gætu verið frá Snorra komnar. Er þar fyrst Skáldatal (gefið út í II. bindi A. M. útg.), sem líka hefur staðið í Kringlu, aðalhandritinu af Heimskringlu, og vel getur verið samantekið af Snorra sjálfum. Þá er ættartala Sturlunga frá Priamusi (smbr. formála Sn-E. kap. 3) og lögsögumannatal, sem endar á: „Snorri Sturluson í annað sinn" (Fornbréfasafn I 500 o. áfr., smbr. Safn til sögu Ísl. II, 13—29). Ættartala Sturlunga (Fornbréfasafn I 504 o. áfr.) er rakin til Egils, sonar þeirra Helgu, alsystur Snorra, og Sölmundar austmanns. Var Egill Sölmundarson (d. 1197) handgenginn Snorra og bjó eftir hann í Reykjaholti. Er hans víða getið í Sturlunga sögu. Hans son var Jón murti (d. 1320), sem Skáldatal í Uppsalabók nefnir meðal skálda Eiríks konungs Magnússonar. Hafði Jón Sigurðsson þegar sett Uppsalabók í samband við þessa grein Sturlunga (Sn-E. A. M. útg. III 248). Nú vill svo til, að í handritið er skrifað með dularletri, en annars sömu hendi og handritið sjálft: „Gunnar á mik". En í Íslenzkum annálum er þess getið, að sumarið 1319 komu þeir út Jón murti og Gunnar rásveinn til þess að taka hyllingareiða af landsmönnum. Hefur Finnur Jónsson getið þess til, að þessi Gunnar geti hafa átt bókina, og hún sé jafnvel fyrir hann rituð,

og þá eftir handriti, sem verið hafi í eigu Jóns (Sn-E. III, formáli, LXIV o. áfr.), og er það allsennilegt.

En ef vér tökum texta Uppsalabókar til athugunar, verða fyrir oss margir furðulegir hlutir. Hann er víða miklu fáorðari en hin handritin, og svo, að örðugt er að skilja hann. Og skipun efnisins í Skáldskaparmálum og meðferð Háttatals virðist miklu lakari en í Konungsbók og sumsstaðar fjarri allri skynsemi. Og eins virðast skrárnar þrjár, sem áður eru nefndar, alls ekki geta verið partur bókarinnar frá upphafi. Þrátt fyrir þetta hafa fræðimenn orðið til þess að halda því fram, að Uppsalabók væri upprunalegasta handritið. Það gerði Mogk í fyrra hluta ‚Untersuchungen ueber die Gylfaginning‘ (Halle 1879), en mjög er sú bók af vanefnum gerð. Er höf. altof trúaður á ágæti Uppsalabókar í hverju einstöku atriði, og auk þess er varhugavert að taka svo einn hluta bókarinnar út af fyrir sig. Müllenhoff (Deutsche Altertumskunde V, 165—230, smbr. greinina Wâra und Wara, Zeitschrift für deutsches Altertum 1873) aftur á móti tekur sérstaklega Skáldskaparmál til athugunar, og er hann víða alt annað en vægur í dómum sínum um ritara Uppsalabókar. Hann kemst að þeirri niðurstöðu, að Snorri hafi látið eftir sig uppkast að Eddu, skrifað í smákver með viðbótum á spássíunum og lausum seðlum innan í. Þetta hafi svo fallið í hendur einhvers erfingja hans, líklega Egils Sölmundarsonar, og hafi hann steypt því öllu saman á mjög hroðvirknislegan hátt, en þó svo, að enn megi geta sér til, hvernig Snorri hafi ætlað að setja bók sína saman. Eftir því handriti sé svo Uppsalabók rituð, og þó illa. Aftur á móti muni Ólafur hvítaskáld hafa sett saman Eddu eins og hún sé í Konungsbók, og lagað frumdrætti Snorra þar svo í hendi sér, að þeir séu orðnir lítt þekkjanlegir.

Gegn þeim Mogk og Müllenhoff ritaði Finnur Jónsson merka ritgerð í Aarböger for nord. Oldk. 1898: Edda Snorra Sturlusonar, dens oprindelige form og sammensætning. Ver

hann þar Konungsbók, og færir gild rök fyrir máli sínu. Hef ég rannsakað þetta mál eftir föngum, og fallist á skoðanir hans í öllum aðalatriðum. Mun ég síðar drepa á þau atriði, þar sem ég hygg hann hafi ekki nógu mikið traust á Konungsbók.

En hvernig á að skýra vinnuaðferð þess, sem skrifaði Uppsalabók? Er ekki ólíugsandi, að hann hefði getað spilt góðu verki svo, ef hann hefði haft fyrir sér handrit á borð við Konungsbók (smbr. Mogk í Pauls Grundriss II, 907)?

Fyrst er þá að geta þess, að Uppsalabók er víða sannanlega stytt. Neitar því enginn, jafnvel ekki Mogk í seinni tíð. Sumsstaðar er vísað til hluta, sem vantar í U., en standa í K. Vísunni Súðlöngum komt Sveiða (Skm. kap. 50) er slept í U., en þó stendur þar litlu síðar (eins og í K.): „Skipit er kallat hreinn; svá kvað Hallvarðr, *sem áðr er ritat*". Og á líkan hátt standa í U. orðin „sem fyrr var sagt" í upphafi 38. kap. Skm., þó að orðunum, sem til er vísað, hafi verið slept úr kap. 32 (smbr. Edzardi í Germania XXI, 442 o. áfr.). Annarsstaðar verður stíllinn líkastur símskeytum, svo mjög er skrifaranum um það hugað að rita sem fæst orð. Skal hér að eins tekið eitt dæmi, úr byrjun Skm.: „Þessir Æsir þágu heimboð at Ægi í Hlésey. Áðr hafði Óðinn honum heim boðit ...... Bragi segir Ægi frá mörgum tíðindum. Óðinn, Loki og Hænir fóru um fjall, fundu öxna flokk, taka eitt nautit ok snúa til seyðis, rjúfa tysvar seyðinn ok var eigi soðit" o. s. frv. Getur hver maður séð, að ekki líkist þetta stíl Snorra í Heimskringlu. Hvort sem styttingin stafar af bókfellsskorti, leti eða smekkleysi skrifarans, er hún staðreynd, sem eigi verður neitað. En hún skýrir aftur flesta af göllum U. í einstökum atriðum, og líka margt af því, sem henni hefur verið til gildis talið. Því að meðal þess, sem hún sleppir, er auðvitað ýmislegt, sem ekki er í samræmi við nútíðarþekkingu, þó að það sé eðlilegt í riti frá 13. öld.

Formálinn er í U. í líkri mynd og í K. En 1. kap. Gylfaginningar, um Gefjun og Gylfa, með vísu Braga, vantar í U.

Um þennan kafla hefur Finnur Jónsson fallist á röksemdir Mogks, og slept honum í Hafnar-útgáfu sinni af Eddu (1900). En flestar þær röksemdir eru bygðar á algerðum misskilningi á umgerð Gylfaginningar, og er hér hvorki rúm né þörf að fjölyrða um þær (smbr. líka ritdóm Detters í Anzeiger für deutsches Altertum, 1902, 329 o. áfr.). Skrifari U. hefur slept þessum kapítula af því að efni hans stendur líka í Ynglinga sögu, en í raun réttri á sagan miklu betur heima í Eddu, það eru viðskifti Gylfa við Gefjun, sem koma honum af stað. Nú sjáum vér af Skm., að Snorri þekti Ragnarsdrápu Braga þegar hann skrifaði Eddu, og hvað var þá eðlilegra en taka þessa sögu í umgerðina? Frásögn Yngl. sögu er aftur lík ágripi af þessum kapítula.

Þá vantar kap. 18—19, um vindinn og vetur og sumar, í U. Er erfitt að skýra, hversvegna skrifarinn hefur slept þeim, en vafalaust hafa þeir staðið í frumriti Snorra, því að efnið er úr Vafþrúðnismálum, en það kvæði notar hann út í æsar. Síðar hefur þó skrifarinn séð sig um hönd (líkt og oftar) og skotið kapítulanum um vindinn inn á fráleitum stað, milli tveggja vísnanna í kap. 41.

Skáldskaparmál byrja í U. líkt og í K. með 1. kap. og ágripi af 2. kap. (nokkrar Óðinskenningar taldar án vísnadæma). En þá tekur við saga Þórs og Hrungnis (Skm. k. 17), og byrjar líkt og í K.: „Nú skal segja, af hverju þær kenningar eru, er áðr eru dæmi sögð“ — þó að engar Þórskenningar séu komnar á undan. Síðan kemur ‚frá Geirröði jötni ok Þór‘, en engin kvæði með, og þá koma skrárnar þrjár, sem áður eru nefndar: Skáldatal, ættartala, lögsögumannatal.

Með þessum skrám hverfur skrifari U. bersýnilega frá Eddu, og upprunalega hefur hann ekki ætlað sér að skrifa meira af henni. Og nú virðist stefna hans augljós: að taka að eins goðsögulega efnið í bókinni, en sleppa skáldskaparfræðinni. Snorra-Edda er undarlega tvíþætt rit. Hún er kenslubók í

skáldskap, mikið af henni er það beinlínis, hinir partarnir óbeinlínis. En þrátt fyrir þennan hagnýta tilgang bókarinnar, telur Snorri ekki eftir sér að gera skýringarnar sem fróðlegastar og snjallastar, og sjálfa undirstöðuna, Gylfaginning, að listarheild út af fyrir sig. Stundum gleymir hann tilganginum í hita frásagnarinnar, segir þá frá til almenns fróðleiks og skemtunar, en hann missir aldrei svo sjónar á honum, að heildin bíði tjón við. Þannig eru vísindi og list ekki síður sameinuð í Eddu, en síðar mun sýnt um Heimskringlu. En það er ekki gefið nema stórmennunum og gullaldarmönnunum að sameina ýmsar stefnur og andstæður á þennan hátt. Þegar andlega lífinu fór að hnigna, urðu menn til þess að leysa rit Snorra sundur, af því að þeir kunnu hver um sig ekki að meta nema aðra hlið þess. Þá urðu Eddubrotin til, 748, 757, þar sem öllum sögum er slept, og einungis hugsað um það, sem skáldunum gat komið að beinustum notum. Og á sviplíkan hátt ætlaði skrifari U. sér að vinsa úr Eddu eftir sínum smekk.

En annaðhvort hefur sá, sem hann vann fyrir, ekki gert sig ánægðan með þetta, eða skrifarinn sjálfur hefur í óvenju ríkulegum mæli haft þann eiginleika mannanna barna, að sjá sig um hönd. Því að nú taka við í U. stórir kaflar úr Skáldskaparmálum, þar á meðal kapítulinn um Óðinskenningarnar, sem ágrip var komið af áður. En annað í brotum og frábrugðinni röð, og yrði of langt mál að lýsa því hér.

Þá tekur við 2. málfræðisritgerðin, sem svo er nefnd, og er fyrirsögn: „Hér segir af setningu Háttalykilsins“. Þeir sem átrúnað hafa á Uppsalabók, hafa auðvitað skilið þetta svo, að ritgerð þessari væri frá upphafi ætlað að vera inngangur að skýringunum við Háttatal, þó að hún væri ef til vill ekki rituð af Snorra sjálfum (Mogk í Zeitschrift für deutsche Philologie XXII, 129 o. áfr., Brenner í Zeitschrift f. d. Ph. XXI, 272 o. áfr.). En útgefandi þessarar ritgerðar (í Islands grammatiske litteratur, Kaupmannahöfn 1886), Finnur Jónsson, álítur hana algerlega óháða Eddu frá upphafi, og mun það sönnu nær.

Fyrirsögnin er ekki annað en viðleitni U.-skrifarans til þess að setja þessa ritgerð, sem að ýmsu leyti er fróðleg og skemtileg, í samband við Háttatal, sem á eftir átti að fara. En meðferðin á því kvæði er svo fáránleg í U., að hún virðist varla vera eftir manni með öllum mjalla. Fyrst koma upphafslínur (á víxl ein og tvær) 35 vísna (v. 1—34 og 36) með nöfnum háttanna fyrir ofan. Þá byrjar Háttatal (og hér er það nefnt réttu nafni) með skýringum, líkt og í K., og endar á 56. vísu: Hverr ali blóði byrsta. Meira hefur aldrei verið skrifað, og er síðasta blað handritsins að mestu leyti autt.

Það mun auðsætt af þessari lýsingu, þó að stutt sé, að mikið mundi breytast hugmynd vor um Eddu, ef vér læsum hana í útgáfu eftir Uppsalabók. En jafnvel Mogk hefur ekki treyst sér til að gefa Eddu svo út, eins og hann hafði heitið (Zeitchr. f. deutsche Philol. XVII, 381). Þó að ýmislegt verði löngum orpið nokkrum vafa um handrit Eddu, þá mun jafnan verða hollast að taka sem mest tillit til Konungsbókar, og er það vel farið, að þar eiga samleið skynsamleg vísindarök og óskir vorar að eiga ritið í sem fullkomnastri mynd frá Snorra hendi.

Hér verður enn, meðal allra þeirra efasemda, sem fram hafa komið um Eddu, og of langt yrði upp að telja, að geta tveggja, þótt eigi séu þær jafnróttækar og kenningar þær, sem á handritamúninum hafa verið reistar. Í ágætri ritgerð, sem Andreas Heusler hefur ritað um íslenzkar fræðikenningar um tilkomu Ása frá Suðurlöndum (Die gelehrte Urgeshichte im altisländischen Schrifttum, Berlín 1908), ber hann brigður á, að formáli Gylfaginningar muni vera eftir Snorra í sömu mynd og nú í handritunum. En mjög tel ég varhugavert að ganga svo gegn samhljóða vitnisburði K. og U. Og ekki má heldur leggja of mikla áherzlu á muninn á meðferð formálans og Yngl. sögu á sama efni. Snorri bæði óx að þekkingu og breytti smekk sínum á árunum milli þess sem hann skrifaði Eddu og fyrsta þriðjung Heimskringlu, og sumt af því, sem kynlegast er í for-

málanum, eins og t. d. „Európa eða Éneá", stendur líka í Yngl. sögu. Auk þess mundi líka Yngl. saga hafa haft meiri áhrif á formálann, en nú er hægt að sjá, ef hann væri síðar ritaður.

Loks hefur Möbius í útgáfu sinni af Háttatali (I—II, Halle 1879—81) haldið því fram, að skýringarnar við Háttatal væru ekki eftir Snorra sjálfan, en þó skrifaðar undir handarjaðri hans og umsjá. Ég verð hér enn að vera á sama máli og Finnur Jónsson (Litt. hist. II, 695—96). Þó að finna megi smáagnúa á þessum skýringum, þá er ekki að furða á slíku. Snorri var ekki óskeikull, enda efnið óþjált að rita um það og lítt í hendur búið. Það hefði ekki verið á margra færi að gera þá grein fyrir niðurröðun háttanna, sem gerð er í þessum skýringum, og allrasízt að taka upp refhvörfin (einkum 17. og 18. vísu) svo að þau verði jafnljós og þau eru nú. Ef vér auk þess athugum setningu eins og þessa (á undan 17. vísu): „En til þessa háttar er vant at finna öll orð gagnstaðlig, ok er hér fyrir því sum orð dregin til hæginda; en sýnt er í þessi vísu þat, at orðin munu finnask, ef vandliga er leitat, ok mun þat hér sýnask, at flest frumsmíð stendr til bóta". Það fer Snorra vel að afsaka sig svo, en ég veit ekki þann eftirmann hans í þeim listum og fræðum, sem hefði ekki verið ofrausn að gera það fyrir hans hönd. Þarna talar einmitt skáldið sjálft, sem í einu veit um örðugleikana og krafta sína.

Ef vér álítum, að Snorri hafi skrifað Eddu í líkri mynd og hún er í Konungsbók, þá er ekkert því til fyrirstöðu, að hún sé fyrst samin af þeim þrem ritum, sem honum eru eignuð með nokkurri vissu. Háttatal má með gildum rökum telja ort á árunum 1221—23 (smbr. ritgerð Konráðs Gíslasonar í Aarböger f. nord. Oldk. 1869, 147—48). Eftir það eru ekki sagnir af neinu kvæði eftir Snorra, að eins af lausavísum, en aftur á móti eru Ólafs saga og Heimskringla ekki skrifaðar fyr en eftir 1220. Það er því ekki ósennilegt að hugsa sér tvö skeið í þroska Snorra, hið fyrra fram yfir utanförina, þar sem

aðaláhuginn er á skáldskap, hið síðara eftir utanförina, þar sem sagnritunin er í fyrirrúmi. Edda er til orðin í nánu sambandi við kvæði Snorra. Líklegast þykir mér, að báðir fyrri hlutar hennar séu til orðnir á undan Háttatali, og þegar Snorri kvað það kvæði, hafi hann slegið tvær flugur í einu höggi, og fult eins mikið hugsað um, að hann var að bæta þriðja og síðasta hlutanum við Eddu sína og að hann var að mæra þá Hákon og Skúla.

Samanburðurinn við sagnarit Snorra bendir í sömu átt. Edda er í anda og stíl nær Ólafs sögu helga en 1. og 3. hluta Heimskringlu, eins og nánar mun skýrt síðar. Þegar talað er um ‚Ásgarð hinn forna' í Yngl. sögu (kap. 9), þá felst í því hinn sami greinarmunur á tveim Ásgörðum og Edda gerir ráð fyrir, og þar sem sagt er í kap. 5: „Mart áttusk þeir Óðinn við ok Gylfi í brögðum ok *sjónhverfingum*, ok urðu Æsir jafnan ríkri" — þá virðist beint vísað til umgerðar Gylfaginningar, sem er tilbúningur Snorra. Og Snorri veit betur í Har. s. hárf. k. 18, þar sem hann eignar Hornklofa vísuna ‚Á baki létu blíkja', en í Gylfag. 2, þar sem hann eignar hana Þjóðólfi (smbr. líka Skm., 9. vísu).

## III.

Röksemdir þær, sem færðar verða fram fyrir því, að Snorri sé höfundur Heimskringlu, eru mun veikari en um Eddu. Að vísu vitum vér með fullri vissu, að hann hefur samið sagnarit. Fyrir því eru ekki einungis orð Oddaverja annáls: „hann samsetti Eddu og margar aðrar fræðibækur, íslenzkar sögur", — heldur önnur og miklu merkari heimild, sjálf Íslendinga saga Sturlu Þórðarsonar. „Nú (þ. e. a. s. veturinn 1230—31) tók að batna með þeim Snorra og Sturlu (Sighvatssyni), og var Sturla löngum þá í Reykjaholti og lagði mikinn hug á að láta rita sögubækur eftir bókum þeim, er Snorri setti saman" (Sturl. II, 183). En hvernig verða færðar sönnur á, að þessar sögubækur hafi einmitt verið Heimskringla?

Nafnið Heimskringla er, eins og alkunnugt er, ekki fornt, heldur tekið (af Peringsköld) eftir tveim fyrstu orðunum í Ynglinga sögu. Að fornu hafa verið höfð nöfnin: Konunga sögur, Noregs konungasögur, Æfi Noregs konunga. Af þeim handritum bókarinnar, sem menn vita nú um, hefur Kringla verið bezt. Hún brann í Háskólabókhlöðunni í Kaupmannahöfn 1728, en ágæt pappírshandrit höfðu verið gerð eftir henni af Ásgeiri Jónssyni fyrir Árna Magnússon, og eitt blað hafði flækst til Stokkhólms og geymst þar, og af því má fá glöggva hugmynd um útlit og aldur hennar. Önnur kunnust handrit Heimskringlu, en nokkuð frábrugðin Kringlu, eru Frísbók (AM 45 fol.) og Jöfraskinna, sem sætti sömu forlögum og Kringla, svo að nú eru aðeins til af henni fáein blöð (sjá: De bevarede brudstykker af skindbögerne Kringla og Jöfraskinna, i fototypisk gengivelse, udg. ved Finnur Jónsson, 1895) og svo pappírsafrit. Jöfraskinna er skrifuð af Norðmanni, hin handritin af Íslendingum, en öll hafa handrit þessi verið í Noregi, og eru þaðan komin til Danmerkur. Heimskringla hefur í þeirri mynd, sem Snorri gekk frá henni, verið furðu lítið þekt á Íslandi bæði fyr og síðar.

Ekkert þessara handrita nefnir nú nafn Snorra. Heimskringla er í dönskum og norskum ritum frá því um aldamótin 1600 kend við Ísleif biskup og Ara prest, og jafnvel Arngrímur lærði veit ekki, hver samið hefur formála Heimskringlu, sem hann vitnar til í Crymogæa, og nefnir ekki annað rit Snorra en Eddu. En í útgáfu Óla Worms af þýðingu Peder Claussön, 1633, er Snorri kallaður höfundurinn, og svo hefur síðan alment verið talið. Gustav Storm, sem mest hefur rannsakað þetta mál (Snorre Sturlassöns Historieskrivning, 1—12, Arkiv f. nord. Filol. I, 47—61, Laurents Hanssöns Sagaoversættelse (Chria, 1899), formálinn, einkum bls. V), komst að lokum að þeirri niðurstöðu, að formálinn í þýðingu Peder Claussön væri (af Worm) tekinn úr þýðingu Laur. Hanssön, sem hafði bæði handritin Frísbók og Kringlu. Nú vantar formálann í (eftir-

ritin af) Kringlu, en L. H. hefur haft bókina heila, og þaðan telur þá Storm, að hann hafi haft nafn Snorra, að það hafi staðið þar í fyrirsögninni, líkt og í Uppsalabók af Eddu. Við þetta bætist, að vísað er til Snorra í íslenzkum sagnaritum frá 13. og 14. öld (Orkneyinga sögu, Ólafs sögu Tryggvasonar hinni meiri), og koma allar þær tilvísanir heim við það, sem í Heimskringlu stendur.

Mest er þó um það vert, að þessi vitnisburður utan að styrkist því meir sem maður ber saman Eddu og Heimskringlu og bæði ritin við það, sem menn vita um æfi Snorra og persónu. Að því leyti ætti öll þessi bók að styðja það mál, að Snorri sé höfundur Heimskringlu, og skal því ekki fjölyrt um það framar á þessum stað.

En þó að viðurkent sé, að Snorri sé höfundur Heimskringlu í einhverri mynd, þá er samt ekki loku skotið fyrir allar efasemdir. Svo hélt Guðbrandur Vigfússon því t. d. fast fram, að Ólafs saga Tryggvasonar væri stytt í Kringlu (Sturlunga, Oxford-útg., Prolegomena § 15 og víðar), og texta Snorra væri á köflum að leita í lengri sögunni (Fornm. s. I—III, Flat. I). W. P. Ker hefur hallast að þessari skoðun (Epic and Romance, 2. útg., 248). En í raun og veru var þetta ekki nema tilfinningamál. Guðbrandur saknaði í Kringlu-textanum sumra kafla úr Fornmannasögum, sem hann hafði tekið ástfóstri við, og vildi ekki trúa Snorra til þess að hafa slept þeim. En bæði er Snorri ekki óskeikull í smekk sínum, og auk þess hefur Guðbrandur ekki gert sér grein fyrir, hvað honum gat gengið til þess að sleppa ýmsum köflum. Mun síðar tækifæri til þess að færa fram dæmi þessu til stuðnings. En allar rannsóknir á samsetningu hinna auknu Ólafa sagna og á handritum Heimskringlu virðast mér styrkja það mál, að Kringlu sé bezt trúandi til þess að hafa varðveitt texta Snorra óskemdan og óblandaðan.

Aftur á móti bar Konrad Maurer fram kenningu um sagnaritun Snorra, sem á endanum hefur leitt til merkilegrar niðurstöðu. Maurer bar brigður á, að Snorri hefði skrifað Heims-

kringlu í heilu líki, heldur hefði hann skrifað einstakar sögur (fjórar talsins), og sögurnar um tímabilið eftir 1130 væru alls ekki eftir hann (sjá Über die Ausdrücke o. s. frv., einkum Anm. 25, bls. 600—606). Bygði Maurer þetta mikið á því, að til er Ólafs saga helga, að mestu samhljóða þeirri, sem í Heimskringlu stendur, og þar er inngangur, sem vantar í Heimskringlu, sem von er, þar sem frá sama efni er þar sagt miklu nákvæmar í fyrsta þriðjungi hennar. Þessi sérstaka Ólafs saga er til í miklu fleiri handritum, auknum og óauknum, en Heimskringla sjálf. Aftur á móti vantar Ólafs sögu helga alveg í Frísbók, og í Jöfraskinnu er hún skrifuð eftir handriti af sérstöku sögunni.

Um þetta efni hafði mikið verið ritað, og hver höndin upp á móti annari. A. D. Jörgensen o. fl. höfðu bent á ýmis atriði því til sönnunar, að Ólafs saga hefði verið skrifuð sem sjálfstætt rit. En samt var skoðun P. A. Munchs, Storms o. fl., að sérstaka Ólafssagan væri ekkert annað en ágrip og eftirrit af Heimskringlu, og ekki einu sinni gerð eftir fyrirsögn Snorra, alment ríkjandi, þangað til ég tók þetta efni til nýrrar meðferðar í 10. þætti doktorsritgerðar minnar, Om Olaf den helliges saga, 1914. Með rannsóknum mínum á handritum sérstöku sögunnar, sem mörg hafa ekki verið notuð við neina útgáfu, tókst mér að sanna, að formála hennar, sem er til í tveim myndum og mestum örðugleikum hafði valdið um rannsóknina, væri síðar við bætt, enda vantar hann í sum handritin. Og því næst sýndi ég, að Ólafs sagan öll, bæði inngangurinn (yfirlit yfir sögu Noregskonunga frá Hálfdani svarta) og jarteinirnar aftan við, í þeirri mynd, sem hún er gefin út af P. A. Munch og Unger, Kristjaníu 1853, væri samin á undan 1. og 3. þriðjungi Heimskringlu, og þá auðvitað af Snorra. Allir helztu fræðimenn á íslenzkar bókmentir hafa síðan fallist á þessa skoðun.

En þetta leyfir oss í fyrsta sinn að skygnast nánar inn í það, hvernig Heimskringla er til orðin.

Oddi, æskuheimili Snorra, var ekki einungis hæli almennra

fræða, heldur alveg sérstaklega sögu Noregs konunga. Jón Loftsson var dóttursonur Magnúsar berfætts, en um leið var konunga-æfin orðinn þáttur, og glæsilegasti þátturinn, í ættarsögu Oddaverja. Má óbeinlínis ráða af frásögninni um skifti Páls Sæmundarsonar og Björgynjarmanna (Sturl. II, 73—74), að Páll hafi haldið þar mjög á lofti frændsemi sinni við konungsættina. Og þegar lofkvæði er ort um Jón Loftsson, þá verður það Noregskonungatal frá Hálfdani svarta til Sverris og Jóns. Auk þess var Jón sjálfur kunnugur í Noregi og hafði verið þar sjónarvottur merkra viðburða. Hefur hann sagt Snorra frá árás Vinda á Konungahellu, vígslu Magnúsar Erlingssonar og vafalaust fleiri samtímaviðburðum, þótt Snorri geti hans ekki nema á þeim tveim stöðum.

Snorri hefur því borið frá Odda margvíslegan fróðleik um Noregs konunga og lifandi áhuga á sögu þeirra. Sá áhugi hlaut enn að glæðast við nánari og nánari kynni af dróttkvæðunum, sem hann að vísu einkum lagði stund á vegna skáldskapar síns og skáldskaparfræði, en auk þess voru þrungin söguefni, sem ekki hafði verið notað til hlítar né með fullum skilningi í sögum þeim, er til voru. Þá bættist enn við ferðalag hans til Noregs, þar sem hann kom á forna sögustaði, kyntist áhuga norskra höfðingja á íslenzkri sagnaritun og lærði sum atriði öðruvísi en í söguritunum stóð. Svo hefur t. d. Storm (Sn. Hist., 184) getið þess til, að það sé beint frá Skúla hertoga þegar Snorri ( Har. s. harðr. k. 98) rekur ætt hertogans öðruvísi en gert er í Morkinskinnu; og er það sennilegt. En þriggja atriða verður einkum að geta, sem bera til skilnings á því, að Snorri tók sér fyrst fyrir hendur að skrifa um Ólaf konung helga.

Um 1220 voru til, eins og bráðum mun nánar skýrt, einstakar sögur um ýmsa Noregs konunga, og a. m. k. eitt yfirlitsrit fyrir utan rit þeirra Ara og Sæmundar. Af þessum sögum voru þær, sem fjölluðu um tímabilið eftir 1035 og nú standa í Morkinskinnu, bæði svo áreiðanlegar og vel ritaðar, að lítil

ástæða var til þess að byrja á því að reyna að bæta um þær. Um Ólaf Tryggvason var og til allgóð saga eftir Odd Snorrason, þó að hún stæði langt að baki sögum Morkinskinnu. En um konungana þar á undan voru heimildir sundurlausar og örðugar viðfangs, og var ekki furða þó að Snorri hikaði í upphafi við að ráðast í að gera áreiðanlega og samfelda heild úr öllum þeim óskapnaði. Aftur á móti var Ólafs saga helga mitt á milli, hvorki eins erfitt viðfangsefni og sögur elztu konunganna, því að úr miklum heimildum var að moða, né heldur eins vel úr garði gerð og sögurnar í Morkinskinnu. Ólafs-sögurnar voru illa samsettar og allar ritaðar í klerklegum anda. Snorri sá í hendi sér, að hér var ágætur leikvöllur fyrir dómgreind hans, að vinsa úr efninu, fyrir skilning hans, að lýsa Ólafi án allra hleypidóma og skýra dýpra samhengi viðburðanna, og fyrir listfengi hans, að færa alt til betra og hispurslausara stíls. Auk þess var einmitt Ólafur merkilegast viðfangsefni allra konunganna, í einu mikilmenni meðan hann lifði og dýrlingur eftir dauða sinn.

Nú vildi auk þess svo til, að Styrmir fróði, sem sjálfur hafði samið langa sögu um Ólaf helga, varð heimamaður Snorra og trúnaðarmaður (sjá Om O. h. 164—65, og þau rit, sem þar er vitnað til). Styrmir hefir í einu verið Snorra til hinnar mestu nytsemdar með fróðleik sínum, og um leið með göllum sínum vakið hann til sjálfstæðrar umhugsunar um sagnaritun. Snorri hlaut að sjá annmarkana á fræðastefnu Styrmis, og að hægt var að bæta mikið um meðferð hans á Ólafs sögu.

Loks hygg ég, að dvöl Snorra á Gautlandi (Sturl. II, 77) hafi haft sérstök áhrif á hann í þessu efni. Snorri kyntist þar Svíum og Svíþjóð meira en títt var um Íslendinga á 13. öld, og einmitt þeirri hlið landsins, sem bæði að legu sinni og sögu horfði við Noregi. Snorri hefur þarna spurt margs og orðið margs vísari, því að þótt ekki væri til sænsk sagnaritun, er enginn vafi á, að til hafa verið sænsk munnmæli um eldri og nýrri viðburði, fyrir þann sem eftir kunni að leita. Það er eins

og það sé gert til minningar um fróðleiksfýsi Snorra um þessi efni, að frú Kristín gefur honum að skilnaði sögulegan minjagrip, merki Eiríks Knútssonar, er hann hafði þá er hann feldi Sörkvi konung á Gestilsreyni. Að vísu er þekking Snorra á Svíþjóð og sænskum mönnum og viðburðum ekki áreiðanleg í alla staði, eins og oft hefur verið bent á (Storm, Sn. St. Hist., 86–88, Hildebrand, Konungaboken II, 107 anm. 1, Beckman, Torgny lagman, Edda IX, 278—86 o. s. frv.), en það er mjög eðlilegt. Bæði hafa heimildarmenn hans verið misjafnir, og honum sjálfum gat fatast skilningur og minni um sum atriði, þar sem langt leið frá því hann heyrði þau og þangað til hann ritaði þau, og hvorki voru vísur né fróðleikur annara manna um sömu hluti við að styðjast. Og það er víst, að friðgerðarsagan öll í Ólafs sögu helga, og alt sem þar er sagt frá Svíum og Gautum, er miklu fyllra en líkindi eru til, að verið hafi í nokkurri eldri sögu, og það ber svo svip Snorra, er svo mótað af snild hans og frásagnargleði, að maður finnur ósjálfrátt, að þetta hefur Snorra langað mest til þess að skrifa af allri bókinni.

Það kemur þegar fram í sérstöku Ólafs sögunni, að Snorra var umhugað um yfirlit og samhengi. Hann verður að byrja sögu Ólafs með því að segja stuttlega frá forfeðrum hans frá Hálfdani svarta, og utan um jarteinirnar, sem gerast á ýmsum öldum, vefur hann aðaldráttunum úr sögu þeirra konunga, sem eftir daga hans höfðu ríki í Noregi. Þessi yfirlit framan og aftan við Ólafs sögu eru frumdrættirnir að því, sem nú er fyrsti og síðasti þriðjungur Heimskringlu. Með Ólafs sögu hafði Snorra vaxið svo fiskur um hrygg, að hann tókst á hendur það stórvirki að semja sögu Yngva ættar alt frá upphafi og þangað til Sverris saga tók við. En um hana reyndi enginn að bæta. Svo var þar litlu við að auka eða af að taka.

Þannig er Heimskringla til orðin á svipaðan hátt og talið er um hina miklu Danasögu Saxa. Caspar Paludan-Müller sýndi fram á það fyrstur manna, að Saxi mundi hafa skrifað

síðara hluta bókar sinnar á undan fyrra hlutanum, og fyrst af öllu þáttinn um Absalon (Hist. Tidsskr. IV. R., 5. Bd., 333 o. áfr., smbr. Jörgen Olrik, Studier over Tilblivelsen af Sakses Værk, sama tímarit, VIII. R., 2. Bd., 211 o. áfr.). Og er slíkt næsta eðlilegt. En af þessu leiðir hjá þeim báðum, Snorra og Saxa, að elztu hlutarnir eru ekki skrifaðir sem eðlilegt áframhald þess, sem á undan stendur, en síðar er ritað, og heldur ekki alveg eftir sömu meginreglum (smbr. sjötta þátt, XII. kap.). Með því að sanna, að Ólafssagan sérstaka sé rituð á undan Heimskringlu, hefur verið opnuð leið til þess að sýna þróun sagnaritunar Snorra. Með því verður líka skiljanlegra, hversvegna talað er um „sögur“, „sögubækur“ eftir Snorra, og með því hefur deilan um, hvort Heimskringla sé ein heild eða ekki, fengið svar sem virðist geta fullnægt báðum málsaðiljum.

En menn hafa ekki viljað láta staðar numið við þessi tvö söguri!, þar sem vissan um höfundinn er viðunandi. Snorra hafa verið eignaðar tvær sögur í viðbót, og hefur Björn M. Ólsen einkum fært rök að því. Í hinni miklu ritgerð sinni um Sturlungu telur hann Sturlu sögu munu vera æskuverk Snorra, og dregur það einkum af því, að Sturlu sé jafnan borin vel sagan, þangað til honum lendir saman við Jón Loftsson, þá hafi Snorri metið meir fóstra sinn en föður. En þessi röksemd er í sjálfu sér vafasöm. Grályndi Sturlu kemur fram í sögunni áður en deilur hans við Pál prest byrja, t. d. í brigslyrðum hans við Þorleif beiskalda (Sturl. I 127), og hægt var að bera Jóni Loftssyni vel söguna án þess að herma hin alræmdu ummæli Sturlu við andlátsfregn Þorbjargar í Reykjaholti. Sagan bendir öll á Breiðafjörð. Hvergi nema í heimahögum hennar gat slík alúð verið lögð við allar þessar smávægilegu sögur um lausung og sveitardeilur. En Snorri var ekki Breiðfirðingur, nema að uppruna. Annars er það um Sturlu sögu að segja, að þar er margt vel sagt, einkum þar sem orð manna virðast hermd óbrjáluð. En á hinn bóginn eru frásagnirnar, einkum í fyrra hluta sögunnar, svo sundurlausar og truflandi, að ekk-

ert getur firr farið hinu skýra yfirliti og uppistöðu, sem er í sagnaritum Snorra. Er varla tækilegt að ætla, að hann hafi nokkurntíma, jafnvel þótt á æskuskeiði væri, brostið svo þá hæfileika, er einkenna verk hans frá þroskaaldri. Enda mundi Sturlu saga litlu bæta við orðstír Snorra né lýsingu, þó að hún væri hans verk.

Miklu merkilegri og athugaverðari er tilgátan, að Snorri sé höfundur Egils sögu. Hún er allgömul og hefur gægst fram hvað eftir annað, en Björn M. Ólsen reyndi fyrstur manna að rökstyðja hana í hinni skarplegu ritgerð sinni um Landnámu og Egils sögu (í Aarböger f.nord.Oldk. 1904). Að sömu niðurstöðu komst Bley í Eigla-Studien, Gand, 1909, án þess að hafa lesið ritgerð B. M. Ó. fyr en eftir að bókinni var lokið, að sinni eigin sögn. En ekki færði hann að því nema almenn rök, sem trautt verða hendur á festar. Egils saga gæti vel, samkvæmt aldri þeim, sem gizkað hefur verið á, verið samin á árum þeim, sem Snorri bjó á Borg. Björn M. Ólsen bendir nú á, að höfundur sögunnar hljóti að hafa verið af ætt Mýramanna, að hann vísvitandi geri meira úr landnámi Skallagríms (ríki Borgarmanna), ríki Tungu-Odds (Reykhyltinga goðorði) og landnámi Ketils hængs (forföður Oddaverja), en gert sé upprunalega í Landnámu. Ennfremur er bent á sitthvað, sem líkt sé í Heimskringlu: heimildir, tímatal, landaþekking, áhugamál höfundar og stíll. Gjessing hefur í ritgerð sinni „Egils-sagas forhold til kongesagaen" (Arkiv II, 289—318) sýnt fram á, að höf. Egils sögu hafi verið mjög vel að sér í Noregs sögu. Um Harald hárfagra er ekki annarsstaðar meira fróðleik að finna, þegar Heimskringla ein er frá tekin. En Gjessing heldur því fram (gegn skoðun Storms), að Snorri hafi ekki notað Egils sögu, heldur sé um sameiginlega heimild að ræða, þar sem þeim ber saman, og sé hún týnd. Hefur hann fært að þessu góð rök og gild, en ekki telur hann það því til fyrirstöðu, að bæði ritin geti verið eftir Snorra. Þá má og hér geta þess, sem síðar verður

nánar skýrt, að í þróun íslenzkrar sagnaritunar stendur Egils saga einmitt á sama stigi og sagnarit Snorra, og væri örðugt að benda á annað rit, sem stæði svo nærri þeim.

En hversu margar líkur sem fram hafa verið færðar fyrir því, að líkt hafi verið á komið með Snorra og höfundi Eglu, þá verður það samt ekki nema getgáta, nema nýjar rannsóknaraðferðir leiði í ljós ný rök í málinu. Skoðun B. M. Ó. um vísvitandi fölsun landnámslýsinga, sem er aðalröksemd hans, mundi varpa leiðinlegum skugga á Snorra og íslenzka sagnaritun. En mundi slík fölsun hafa náð tilgangi sínum? Mundi nokkur hafa tekið tillit til þess, ef Snorri kallaði til ríkis, þó að hann vísaði til frásagnar um landnám Skallagríms eða ríki Tungu-Odds í sögu, sem allir vissu, að hann sjálfur hafði ritað? Þess ber enn að gæta, að íslenzk sagnaritun var komin á svo fastan rekspöl, átti svo mikið af efni og list, sem flestum var sameiginlegt, að verkin urðu miklu líkari en mennirnir voru. Samt finst oss hver saga eiga sinn svip, en það er einmitt mjög tilfinningamál. Þegar Grundtvig hafði (líklega fyrstur manna) eignað Snorra Egils sögu, svaraði Þorleifur Repp því svo, að til slíks þyrfti mikla vanþekkingu á íslenzkt mál, því að þótt stíll Eglu væri ágætur í hvívetna, þá ætti hann í engu sammerkt við stíl Snorra (Nyeste Skilderie af Kjöbenhavn, 1819, Nr. 20). Auðvitað eru þetta ýkjur. En sjálfur hef ég reynt að hlusta eftir sumu af því, sem mér hefur þótt einkennilegt í stíl Snorra, í Egils sögu, og ekki þózt viss um, að finna það. Yrði of langt mál að ætla hér að færa fram dæmi þessu til stuðnings. En þó að ég í þessari bók um Snorra hafi leitt Egils sögu hjá mér, þá er það ekki af því, að ég vilji fortaka, að hann sé höfundur hennar, heldur af því, að rit þau, sem eignuð eru honum með gildari rökum, eru mér að sinni ærið viðfangsefni.

## IV.

Undirstaðan undir sagnaritum Snorra eru eldri íslenzkar sögubækur. Þau verða hvorki metin né skýrð svo að gagni sé, nema þau séu borin saman við þessar heimildir. En það er örðugt að gera sér fulla grein fyrir heimildum Snorra, því að hann vísar ekki til þeirra, eins og nútímahöfundar gera, mörg íslenzk sögurit eru týnd, og aldur þeirra, sem til eru, verður að ráða af líkum. Því er von, að skoðanir manna hafi skifzt og breyzt um þetta efni, og má þar einkum greina milli þriggja stiga í rannsóknunum.

P. E. Müller biskup (d. 1834) varð fyrstur manna til þess að rannsaka heimildir Heimskringlu. Hann hélt, að Snorri hefði notað allar hinar löngu konungasögur í Fornmannasögum og Flateyjarbók. Var það bæði, að menn gerðu sér þá ekki grein fyrir aldri þessara bóka, enda gátu menn eigi skilið, sem varla var von, að seinni tíma menn hefðu spilt svo verki Snorra, með því að bæta inn í það ýmsum köflum, sem bæði að list og dómgreind stinga mjög í stúf við frásögn hans. Og samt var þetta sannleikurinn. Verk Snorra er uppistaðan í lengri sögunum, og hún hefur verið látin óhreifð, en inn í hana bætt eldri og yngri brotum. Samkvæmt skoðun P. E. M. var verk Snorra í raun og veru ekki fólgið í öðru en velja kafla úr lengri sögunum og láta skrifa þá upp orðrétta. Að vísu þurfti til þess góða dómgreind, en annars ekki mikinn frumleik.

Eftir því sem fleiri handrit voru gefin út og sögurnar betur rannsakaðar, hlaut þessi skoðun að breytast. Menn fóru að skilja, hvernig verk eins og t. d. Ólafa sögurnar í Flateyjarbók voru saman settar. Menn sáu, að samband hlaut að vera milli verka eins og Ólafs sögu Tryggvasonar eftir Odd munk og rita Snorra, og að ekki gat það verið Oddur, sem notað hafði rit Snorra, heldur hafði Snorri með mikilli snild bætt um frásögn Odds. Samt eimdi lengi eftir af þeirri skoðun, að Snorri

hefði tekið langa kafla alveg óbreytta upp úr heimildum sínum, og var þá venja að vitna í kaflann um Orkneyja jarla í Ólafs sögu helga, sem var að miklu leyti nákvæmlega samhljóða Orkneyinga sögu. En í ritgerð minni um Orkneyinga sögu (Aarböger 1913) færði ég sönnur á, að það væri þvert á móti einn af skrifurum Orkneyinga sögu, sem hefði tekið þennan kafla úr Heimskringlu og sett hann í stað hinnar upprunalegu frásagnar í Orkneyinga sögu, sem Snorri hafði stuðst við. Og um leið benti ég á, að kaflinn bæri einkenni sagnaritunar Snorra, og mundi hann hafa breytt honum mikið.

Ritgerð Gustav Storms, Snorre Sturlassöns Historieskrivning, 1873, er næsta stigið. Þá höfðu verið gefin út öll þau rit, sem verulega skiftu máli, og Storm færði sér þau og rannsóknir Maurers, P. A. Munchs o. fl. í nyt til þess að gefa nýtt yfirlit yfir heimildir Snorra og meðferð hans á þeim. Storm var þeirrar skoðunar, að Snorri hefði þekt þau rit, sem nú eru til og eldri verða talin en 1220, í þeirri mynd, sem vér höfum þau nú, og ekki önnur. Með þessu móti varð að vísu rannsókn hans óvenju skýr, og leit út fyrir að vera bygð á traustum grundvelli. En hann hafði einmitt gert málið einfaldara en það var í raun og veru, svo að ýmsu var að breyta og við að bæta.

Frá þessu þriðja stigi rannsóknanna er ekkert heildaryfirlit til á borð við bók Storms. En ýmsar rannsóknir í einstökum atriðum hafa verið gerðar (t. d. Gjessing, Kongesagaens fremvæxt I—II, bók mín um Ólafs sögu helga, bók Indrebö um Fagurskinnu), sem breytt hafa sumu í niðurstöðu hans og jafnvel staðfest eldri skoðanir (Maurers). Það hefur verið sýnt fram á, að Snorri hafi ekki notað sumar af hinum eldri sögum í þeirri mynd, sem vér höfum þær nú, og að hann hafi notað bækur, sem nú eru týndar sem sjálfstæð rit, þó að leifar þeirra megi finna í öðrum verkum. Það má að vísu misbeita því að grípa sífelt til ‚týndra heimilda‘ til skýringa þegar málið vandast, og verður því að gæta þar dómgreindar

og varkárni. En á hinn bóginn er enginn vafi á því, að mörg sögurit hafa týnst. Má bæði sanna það beinlínis af samanburði texta þeirra, sem til eru, og eins ráða það af líkindum, þegar menn þekkja hina hræðilegu eyðingu fornra handrita, sem átti sér stað á 16. og 17. öld. Það er t. d. hrein tilviljun, að búið var að skrifa pappírshandrit eftir síðasta skinnhandriti Íslendingabókar áður en það týndist, svo að hún glataðist ekki algerlega eins og Íslendingabók eldri. Af elztu sögunni um Ólaf helga eru ekki til nema örlitlir sneplar, og af Helgisögunni svonefndu eitt einasta handrit, og svo mætti lengi telja.

Hér er ekki rúm til þess að skýra nákvæmlega frá heimildum Snorra. Fyrir tilgang þessa rits er það nægilegt að gefa stutt yfirlit, svo að samanburðurinn á efnismeðferð hans og eldri höfunda verði síðan skiljanlegur. Og jafnvel niðurstaða Storms um heimildirnar er víðast hvar sæmilegur grundvöllur slíkrar rannsóknar, því að þó að Snorri hafi ekki notað rit eins og t. d. Morkinskinnu í núverandi mynd hennar, þá verður hún samt að vera fulltrúi fyrir konungasögurnar eftir 1035, sem Snorri notaði, og týndu heimildirnar koma nú ekki að haldi til samanburðar. En auðvitað verður sífelt að fara með varúð, og enginn skyldi reyna að lýsa einkennum sagnaritunar Snorra, nema hann hafi grandgæfilega kynt sér alt það, sem hægt er að vita um heimildir hans.

Þegar Snorri samdi Ólafssögu, notaði hann þar í innganginum ýmis rit, sem hann síðar tók miklu meira úr í fyrsta þriðjung Heimskringlu. Það mundi því valda endurtekningum að nefna fyrst heimildir Ólafs sögu, þó að það væri rétt tímaröð, og mun ég því að eins tala hér um heimildir Heimskringlu og Ólafs sögu þar á sínum stað. En fyrst er þá að nefna þau rit, sem náð hafa yfir Noregs konunga æfi frá upphafi, og venjulega eru nefnd yfirlitsrit.

Slíkt rit virðist Sæmundur enn fróði Sigfússon hafa samið fyrstur manna, eftir því sem ráðið verður af kvæðinu Noregs-

konungatali og tilvísunum Odds munks o. fl. En það rit er nú týnt, og vafasamt, hvort Snorri hefur notað það. A. m. k. nefnir hann Sæmund ekki í formála Heimskringlu, en það þótti Storm svo kynlegt, að hann greip til þess úrræðis að neita því, að Sæmundur hefði skrifað nokkra bók. En sú skoðun er óverjandi, og ekki er betra að berja því við, að Snorri hafi ekki skilið bók Sæmundar, af því að hún var á latínu. Því bæði er líklegt, að henni hafi verið snarað á íslenzku, eins og öðrum innlendum latínuritum, og auk þess er valt að treysta latínuleysi Snorra. Hitt er sennilegast, að rit Sæmundar hafi verið stutt, í útlendu annálsformi og aðaláherzlan lögð á tímatal. En Snorri fylgdi tímatali Ara, og hafði um alt annað fyllri heimildir. Hann leit því hvorki á Sæmund sem höfund íslenzkrar sagnaritunar né rit hans sem heimild sína. og gat því vel, þrátt fyrir uppeldið í Odda, leitt hvorttveggja hjá sér í formálanum.

Aftur á móti er nægilegt að vísa til ummæla hans um Ara í þessum formála. „Þykki mér hans sögn öll merkiligust". Má af þeim ráða, að hann hafi fært sér í nyt alt, sem Ari hafði skrifað um konunga æfi. Nú leikur að vísu nokkur vafi á því hvort Ari hafi að eins skrifað þessa ‚æfi' í sambandi við Íslendinga sögu í hinni eldri Íslendingabók, eða gert síðan sérstakt rit um Noregs konunga. Þykja mér flest rök benda til hins fyrra, m. a., að lýsing Snorra á bók Ara í formála Heimskringlu á auðsjáanlega við hina eldri Íslendingabók og kemur heim við lýsinguna í upphafi hinnar yngri. En konunga æfi Ara er nú því miður ekki til í neinni mynd, og verður því örðugt að gera sér nákvæma grein fyrir, hvað Snorri tekur frá honum, nema þar sem hann beinlínis vísar til hans.

Eina yfirlitsrit, sem enn þá er til og vissa er fyrir, að Snorri hefur haft í líkri mynd og það er nú, er hið svonefnda Ágrip af Noregskonungasögum. Þetta merkilega rit er nú að eins til í einu handriti, frá öndverðri 13. öld (gefið út af P. A. Munch 1834, af Finni Magnússyni í X. bindi af Fornmanna-

sögum, 1835, og af Verner Dahlerup 1880), hefur byrjað á sögu Hálfdanar svarta og líklega náð til 1177, en nú vantar dálítið framan við og allmikið aftan til og aftan við. Nafnið er frá Finni Magnússyni, og bókin er alls ekki *ágrip* af eldri sögum, heldur að miklu leyti frumlegt verk og hefur verið mikið notuð af yngri sagnariturum. Eru allmikil líkindi til, að hún sé rituð af Íslendingi í Noregi á síðasta tugi 12. aldar, og þá ef til vill að tilhlutun Sverris konungs, til þess að vera inngangur að sögu sjálfs hans. Snorri tekur á stöku stað orðrétta kafla úr Ágripi, og tekur frásagnir þess oft fram yfir aðrar heimildir, jafnvel annað eins rit og Morkinskinnu.

Fagurskinna (nafnið frá Þormóði Torfasyni) eða Noregs konunga tal (útg. af Finni Jónssyni 1902—03) byrjar á Hálfdani svarta og hefur endað á 1177, en endinn vantar. Hún er samin af Íslendingi, en líklega í Noregi. Aldurinn er óviss, en getið hefur verið til, að hún væri samin um 1225 og að tilhlutun Hákonar konungs. En ekki þykir mér ólíklegt, að hún geti verið nokkuð eldri, þó að ekki sé tækifæri til þess að ræða það mál hér nánar.

Margt er líkt með Fagurskinnu og Heimskringlu, svo að enginn getur efast um, að einhver skyldleikur sé þar á milli. Og það er óhugsandi, að höfundur Fagurskinnu hafi haft annað eins verk og Heimskringlu í höndum og ekki tekist betur en honum hefur gert. En hitt hefur mönnum ekki komið saman um, hvort Snorri muni hafa haft Fagurskinnu eða öll líkingin sé sprottin af því, að báðir höfundarnir hafi haft sömu heimildir. Storm hélt því fyrra fram, Finnur Jónsson hinu síðara. Nú er það að vísu vafalaust, að bæði höf. Fagursk. og Snorri hafa notað sömu heimildir (Ólafa sögur Odds munks og Styrmis, Morkinskinnu), og Storm hefur í einstöku atriðum flaskað á því, að láta Fagurskinnu vera einu heimild Snorra, þar sem um *týnda* sameiginlega heimild er að ræða (Hlaðajarla saga, Jómsvíkinga saga hin elzta). En samt þykir mér sennilegra, að Snorri hafi þekt Fagurskinnu, og notað hana

til hliðsjónar, þó að hann hefði frumsögurnar líka. Virðist þetta allgreinilegt bæði um sögu Ólafs Tryggvasonar og konunganna eftir 1035. Indrebö, sem síðast og nákvæmast hefur rannsakað Fagurskinnu (Om F., Kristjaníu 1917), kemst að þeirri niðurstöðu, að Snorri hafi ekki notað hana í elztu hlutum Heimskringlu, Ólafs sögu helga og sögum konunganna á undan Haraldi gráfeld, en síðan fært sér hana í nyt í sögu Gunnhildarsona, Ólafs Tryggvasonar og konunganna eftir 1035. En hvað sem þessu líður, þá er rétt að eigna jafnan höfundi Fagurskinnu þær breytingar, sem þeir Snorri gera báðir á sömu heimild, og það annað, sem Snorri *gæti* hafa sótt til hans. Því að ekkert af því getur aukið orðstír Snorra né einkent hann, þegar það er sameign hans og annars miklu síðra sagnaritara.

Af einstöku sögunum í Heimskringlu er sú fremsta, Ynglinga saga, að vissu leyti frumlegust. Bæði Ágrip og Fagurskinna byrja á Hálfdani svarta, og þótt Ari hafi rakið konungsætt Norðmanna til Yngva, þá hefur það verið lítið meira en ættartalan tóm. Snorri hefur skrifað söguna með langfeðgatal og Ynglingatal Þjóðólfs að uppistöðu, en aukið við, þar sem kostur var á, efni úr öðrum kvæðum og skrifuðum heimildum, af almennum fróðleik sínum og hyggjuviti. Hann hefur notað Eddu-kvæði og goðsagnir, m. a. Gylfaginningu sína, í fyrstu kapítulunum, og fengið þar tækifæri til að bæta ýmsu við, sem vantar í Eddu. Hann vitnar í Háleygjatal Eyvindar og Skjöldunga sögu. Sú saga er nú týnd, nema ágrip á latínu eftir Arngrím Jónsson lærða (sjá ritgerð og útgáfu Axel Olriks í Aarb. 1894). Hefur hún verið merkilegt rit og haft allmikil áhrif á íslenzka sagnritun, og Snorri tekur efni úr henni bæði í Eddu og Ynglinga sögu. Auk þess virðist hann hafa notað þátt af Upplendinga konungum, sem hefur verið skyldur þætti þeim, sem nú stendur í Hauksbók (útg. Finns Jónssonar 456—57), og ef til vill fleiri rit (Þátt af Ingjaldi illráða?). En samt hefur hér reynt mikið á ímyndun Snorra og list, að skapa heillega og skemtilega frásögu úr öllum þessum brotum. Þó er

þar sífelt örðugt að greina milli viðbóta frá eigin brjósti Snorra og sögusagna, sem hafa getað loðað við langfeðgatal og Ynglingatal, til uppfyllingar og skýringar. Má sjá sýnishorn ættartölu Ynglinga með stuttum sögulegum athugasemdum í Historia Norwegiæ (Monumenta historica Norvegiæ 97 o. áfr.), og stendur þar sumt, sem nú vantar í kvæði Þjóðólfs.

Sérstakar sögur, eldri en Heimskringla, um Hálfdan svarta og Harald hárfagra, eru nú ekki til. Þó má telja sennilegt, að svo hafi verið, og virðist einkum Egils saga benda til þess (sbr. ritgerð Gjessings, sem áður er nefnd, og fyrra heftið af Kongesagaens fremvæxt, þar sem hann gerir þó líklega of mikið úr þáttum Hálfdanar svarta og Haralds hárfagra í Flateyjarbók, I, 561 o. áfr.). En samt hefur Snorri sótt margt í aðrar heimildir (Sigurðar sögu hjartar, smbr. Hálfd. s. svarta k. 5 [sem Storm hélt að hefði verið partur af Skjöldunga sögu], Ágrip, Orkneyinga sögu, Hlaðajarla sögu) og bætt mörgu við, sem hann fyrstur færði í letur. Því að saga Haralds var partur af sögunni um upphaf Íslands bygðar, og voru því brot af henni víða, eins og sjá má af Íslendinga sögum.

Enn sem komið er eru heimildir Snorra fremur rýrar. Þetta ræður vinnuaðferð hans. Ólafs saga helga var fullsamin, auðug og skemtileg; hana hafði hann sífelt í huga; hún átti að verða partur af sama verki. Þessvegna leitast hann sífelt við að gera þessar sögur svo sögulegar, drýgja svo mjöðinn, að samræmi geti orðið milli þeirra og Ólafs sögu. Þetta heldur enn áfram um sögu Hákonar góða og Haralds gráfeldar. Þó má sanna, að til hefur verið saga um Hákon, sem nú er týnd, en mikið af henni er varðveitt í Fagurskinnu. Aftur á móti verður ekki hið sama fullyrt um Haralds sögu, enda er hún stutt, og mikið um aðra menn en þá bræður. Má rekja uppruna efnisins að mestu leyti með því að athuga Ágrip og Fagurskinnu, og þær sögur, sem á eftir koma, um Hlaðajarla og Ólaf Tryggvason. Getið hefur verið til, að Snorri hafi haft

sérstakan þátt um Eyvind skáldaspilli, en þó má vera, að ekki hafi hann haft aðra heimild en Fagurskinnu og sagnir þær, sem hlutu að fylgja vísunum.

Í Ólafs sögu Tryggvasonar stendur Snorri öðruvísi að vígi en í sögunum þar á undan. Þar hefur hann, fyrir utan yfirlitsritin, þrjár heilar sögur að vinna úr, og verk hans er ekki síður í því fólgið að taka af en auka við. Af sögum þessum eru tvær nú tapaðar. Jarla sögu (söguna um Hlaðajarla) nefnir Snorri sjálfur berum orðum, og má einkum fá ljósa hugmynd um hluta hennar af Fagurskinnu, því að þar eru heimildirnar ekki bræddar saman jafnvandlega og Snorri gerir. Jarla saga hefur ef til vill sagt sögu ættarinnar frá upphafi (eftir Háleygjatali), en meginhluti hennar hefur verið um þá Hákon Grjótgarðsson og Sigurð Hákonarson, en þó einkum um Hákon Sigurðarson og sonu hans. Þá hlýtur og að hafa verið til Jómsvíkinga saga, eldri og áreiðanlegri en þær sögur, sem nú bera það nafn, og má ráða mikið um hana af því að bera saman Fagurskinnu, Heimskringlu og hinar yngri Jómsvíkingasögur, einkum í AM 291 (útg. af Carl af Petersens, 1881). En aðalheimild Ólafs sögu Tryggvasonar er enn til, en það er Ólafs saga eftir Odd munk Snorrason á Þingeyrum, samin á síðasta fjórðungi 12. aldar á latínu, en nú til á íslenzku í þrem handritum, sem greinir mjög á um stíl, en ekki efni. Snorri hefur haft söguna þýdda, og tekið mjög mikið úr henni, þótt hann hafi líka slept mörgu og breytt.

Um Ólaf helga voru til þrjár sögur á undan Snorra. Af elztu sögunni eru nú aðeins til fáein brot, sem Storm hefur gefið út. Hún hefur verið skrifuð á síðara helmingi 12. aldar eftir munnlegum frásögnum, efnismikil, en illa saman sett. Um 1200 hefur verið aukið inn í hana ýmsu nýju efni, mestöllum kaflanum um Ólaf helga í Ágripi, köflum úr Fóstbræðrasögu um Stiklastaða-orustu, og einstökum öðrum köflum.

Þetta var Miðsagan, sem ég hef nefnt svo, og er hún nú algerlega týnd. En eftir henni hafa aftur verið samdar tvær sögur, sem ekkert beint samband er á milli, og heldur ekki geta verið komnar beint frá elztu sögunni. Önnur er hin svo nefnda „Helgisaga‘‘ um Ólaf, sem er til í einu norsku handriti (gefin út 1849). Hún hefur enn aukið Miðsöguna með ýmsum viðbótum, en líka stytt frásögn hennar mjög. En þó að hana verði því að nota með varúð, er hún samt helzta heimild vor, ekki einungis um elztu söguna og Miðsöguna, heldur líka að nokkru leyti um hina söguna, sem á Miðsögunni var bygð: lífssögu Ólafs eftir Styrmi Kárason fróða. Í bók minni um Ólafs sögu helga, þar sem innbyrðis afstaða allra þessara sagna í fyrsta sinn var ákveðin með nokkurri vissu, hef ég reynt að byggja bók Styrmis upp að nýju úr brotum þeim af henni, sem bætt hefur verið inn í Ólafs sögu Snorra, eins og hún stendur í Flateyjarbók og ýmsum öðrum handritum. Því að öðruvísi er hún ekki til vor komin. En þó að ég hafi alls fundið 107 brot og Björn M. Ólsen kvæði svo að orði, að nú mætti bók Styrmis heita „að miklu leyti risin upp úr gröf sinni‘‘ (Skírnir, 1915, 183), þá er sá galli á gjöf Njarðar, að einungis þau brot gátu varðveizt, sem Snorri notaði ekki, og samsvöruðu ekki neinu í bók hans. En svo mikið má sjá, að Styrmir hefur aukið Miðsöguna stórum og breytt henni, og þó að viðbæturnar væru ekki allar af bezta tæi, þá hefur „lífssagan“ samt verið auðugasta og merkilegasta Ólafs sagan, sem Snorri átti kost á, þó að hann hafi þekt báðar eldri sögurnar, og bæði það og samband þeirra Styrmis, auk annara röksemda, gerir það vafalaust, að hún hafi verið aðalheimild hans. Og má þá telja víst, að ýmislegt af því, sem Storm telur frumritað í Ólafs sögu Snorra, sé bygt á týndum pörtum af bók Styrmis.

Þar að auki hefur Snorri hér sem annars notað yfirlitsritin, jarteinabók Ólafs, Orkneyinga sögu, Færeyinga sögu og

ef til vill sögu um Knút ríka. Um jarteinir Ólafs voru til tvær óháðar heimildir, önnur norsk, skrifuð á latínu, en þýdd á norrænu, og var það hin opinbera frásögn klerkanna. Hin var elzta sagan, þar sem allmargar jarteinir eru sagðar eftir munnmælum. Þessum tveim heimildum var víða blandað saman á ýmsan hátt, og það hefur Snorri líka gert. Kaflar þeir úr Orkneyinga sögu og Færeyinga sögu, sem Snorri hefur notað í Ólafs sögu helga, eru nú týndir, en frásögn Snorra hefur verið sett í staðinn, og má af því einu ráða, að hún hafi verið fullkomnari.

Eftir að Ólafs sögu helga sleppir, hefur Snorri haft óslitna röð af ágætum sögum alla leið til 1177. Það eru sögur þær, sem nú eru kendar við handritið Morkinskinnu, sem Þormóður nefndi svo. Því miður er þetta handrit, sem bæði að fögrum ytra frágangi og efni sínu er ein af perlunum meðal íslenzkra handrita, ekki til í heilu líki. En talsvert af eyðum þess má fylla eftir sögum Magnúsar góða og Haralds harðráða í Flateyjarbók, og sumt eftir handritum eins og Huldu (Fornmannasögur VI—VII), þar sem textum Heimskringlu og Morkinskinnu er blandað saman. Morkinskinna virðist vera sett saman úr sögum, sem upprunalega hafa verið sjálfstæðar, og hefur þá um leið verið aukið inn í þær bæði vísum, þáttum og öðru efni, t. d. köflum úr Ágripi. Ein af þessum sögum hefur verið Hryggjarstykki eftir Eirík Oddsson, og verður nú að leiða getum um það, hverjir kaflar í Morkinskinnu, Fagurskinnu og Heimskringlu séu þaðan teknir. Ég hallast að þeirri skoðun, að bók Eiríks hafi sagt frá tímabilinu 1130—1161, en ekki er rúm til þess að greina hér nákvæmlega frá henni að öðru leyti. Snorri hefur notað rit Eiríks sjálft, og svo mun hann hafa gert með hinar upprunalegu sögurnar líka, þó að Morkinskinnu-safnið kunni að vera svo gamalt, að hann hafi einnig þekt það. A. m. k. hafa margir þættirnir verið í sögum þeim, sem Snorri hafði, eins og sjá

má af ummælum hans í Har. s. harðr., k. 27 („mart fannzk þá til þess, er konungunum þótti sinn veg hvárum, þótt hér sé fátt ritat“).

En svo ágætar sem þessar síðari konunga sögur hafa verið, hefur Snorri samt ekki látið sér þær einar nægja. Hann notar sífelt Ágrip og Fagurskinnu til hliðsjónar, grípur enn stundum til Orkneyinga sögu, auk þess sem hann að sjálfsögðu tekur tillit til vísna og munnlegra frásagna. Og á einum stað hverfur hann alveg frá frásögn Morkinskinnu, og fylgir annari heimild, sögu Hákonar Ívarssonar. Sú saga virðist hafa verið eins konar framhald af sögu Hlaðajarla, en af henni er ekki til nema brot, sem prentað er aftan við bók Storms um sagnaritun Snorra. Í tveim síðustu sögunum, Hákonar herðibreiðs og Magnúsar Erlingssonar, er Heimskringla víðast ein til frásagnar, af því að vantar aftan við Ágrip, Fagurskinnu og Morkinskinnu. En einmitt þar er líklegt, að heimildir Snorra hafi verið svo áreiðanlegar og nákvæmar, að breytingar hans hafi ekki verið stórvægilegar.

---

## Annar þáttur.

# Höfðinginn.

---

I.

Snorri Sturluson var ekki einn af þeim mönnum, sem þurfa að beina öllum kröftum sínum að einu marki til þess að geta komið nokkru í verk, því að trauðla hefur nokkur Íslendingur lifað svo fjölbreyttu lífi sem hann. Hann var lögsögumaður, eigandi margra goðorða, átti í sífeldum deilum, bæði á alþingi og í heraði, og reisti rönd við mestu höfðingjum, sem honum voru samlendir. Hann fór tvívegis utan, sótti heim stórhöfðingja bæði í Noregi og Svíþjóð, og þá þar nafnbætur, gjafir miklar og marga sæmd aðra. Hann átti ekki einungis hlut í, hver afskifti þeirra Hákonar konungs og Skúla hertoga urðu af Íslandi, heldur virðist hann hafa verið ráðinn í að taka sinn þátt í deilum þeirra konungs og hertoga, eftir að sundur var dregið um samþykki þeirra. Hann lagði mikla stund á að safna auði, átti bú á mörgum höfuðbólum, var hinn „mesti fjárgæzlumaður“ (Sturl. II, 31), „hagur á alt það, er hann tók höndum til, og hafði inar beztu forsagnir á öllu því, er gera skyldi“ (Sturl. II, 73). Að því skapi var hann heimsmaður. Hann var skartsmaður í klæðaburði, hélt miklar veizlur og glæsilegar og hefur unað sér vel við góðan drykk í dýrum kerum. Og hann var eins og Jón Loftsson fósturfaðir hans „mjög fenginn fyrir kvennaást“, og átti börn með mörgum konum.

Þó er sagan enn ekki nema hálfsögð. Snorri var helzta

skáld Íslands á sinni tíð, og hefur varla nokkur maður annar haft slíkt vald á tungunni til bragþrauta. Hann samdi Eddu, Ólafs sögu helga, Heimskringlu, og ef til vill fleiri sögur. Í ritum hans haldast frásagnarlist og vísindaleg dómgreind fastar í hendur en í nokkrum öðrum íslenzkum fornritum, og þau bera þess óræk vitni, að Snorri hefur haft djúptæka þekkingu á öllum sviðum þjóðlegra fræða íslenzkra. Má því vel kalla hann andlegan brennidepil aldar sinnar.

Nútíminn metur ekki öll störf Snorra jafnmikils. Auðvitað hefur hann komið nógu mikið við sögu landsins til þess að nafns hans yrði getið þar, líkt og t. d. Kolbeins unga, en lítt mundi hann þektur utan Íslands fyrir þau afrek sín. Og enginn mundi halda á lofti veizlum hans og búsýslu, ef ekki væri ritfrægðinni til að dreifa. Það eru ritstörf Snorra, sem gert hafa nafn hans frægara en annara Íslendinga. Og þó eru þau líka misjafnt metin. Háttatal þykir nú lítill skáldskapur, og er varla lesið nema af fornfræðingum og afvegaleiddum skólasveinum. En goðasögurnar í Eddu og sagnarit Snorra eru þýdd á margar tungur, og taldar til dýrgripa hins germanska þjóðflokks.

Ef Snorri mætti líta upp úr gröf sinni, mundi honum koma dómur nútímans um störf sín mjög á óvart. Hann mundi furða sig á, að nafn hans hefur borist svo langt, sem raun hefur á orðið, því að þótt hann hafi vafalaust, líkt og Harald harðráða, dreymt um það í æsku að verða „víða frægur um síðir", þá hefur hann skamt hugsað út yfir þau lönd, sem bygð voru Norðmönnum. Og sízt hefur hann við því búist, að Konungasögur sínar mundu halda hróðri hans mest á lofti. Sumir menn trúa því, að sagnaritarar vorir hinir fornu hafi verið svo fordildarlausir, að þeir hafi ekki hirt um að láta nöfn sín geymast. En það er mikill misskilningur. Fornmönnum var ekki síður ant um að bjarga nöfnum sínum frá gleymsku en oss, sem nú lifum, en þeim hefur varla til hugar komið, að þeir gætu gert það með því að setja nöfn sín á sögurit þau,

er þeir færðu í letur. Enda hefur nöfnunum oft verið slept í eftirritum, þótt þau stæðu í frumritinu. Var það hvorttveggja, að menn litu þá og lengi síðan alt öðruvísi á eignarrétt höfunda en nú, enda skoðaði maður sig varla rithöfund, þó að hann setti saman í heild sögusagnir, sem hann hafði heyrt úr ýmsum áttum, eða tæki eldra sögurit og yki það og lagfærði. Eða ætli menn líti ekki líkt á þetta enn í dag, þegar þeir skrifa upp þjóðsögu, sem þeim hefur verið kend? Gera menn sér nokkra grein fyrir, hve margvíslega það verður gert, og hve mjög gildi sögunnar er undir skrifaranum komið? Ætli síra Skúla Gíslason hafi nokkurn tíma grunað, meðan hann var að skrifa þjóðsögur handa Jóni Árnasyni, að hann var um leið að gera nafn sitt ódauðlegt í sögu íslenzkra bókmenta?

Sjálfur nefnir Snorri aðeins tvo af sagnariturum þeim, sem hann styðst við, — Ara fróða, af því að hann var höfundur sagnaritunarinnar og „frásögn hans öll merkilegust'', — og Eirík Oddsson, sem talar svo mikið í fyrstu persónu, að ekki varð komist hjá að geta þess, hvaða „ég'' þetta væri. En hann getur hvorki Odds Snorrasonar né Styrmis Kárasonar, og vitum vér þó, að hann hefur notað bækur þeirra, né heldur höfundar (eða höfunda) Morkinskinnu, sem nú er gleymdur, en Snorra hlýtur að hafa verið kunnugt um. Líklega hefur hann samt sett nafn sitt á rit sín, og þó má það heita tilviljun, að menn vita nú, að hann hefur skrifað Heimskringlu, enda ekki með öllu órengt. Annar eins fræðimaður og Sturla Þórðarson var, þá getur hann aðeins einu sinni sagnaritunar föðurbróður síns, og ekki af því að honum þyki hún sjálf tíðindum sæta, heldur vegna þess, að það var merki þess að batna tók með Snorra og Sturlu Sighvatssyni, að Sturla dvaldi í Reykjaholti.

Meiri frægðar hefur Snorri vænt sér af kvæðum sínum, einkum Háttatali. Sturlunga saga getur víða um skáldskap hans, og þær sæmdir, sem hann hlaut að launum, og Snorri undi því sjálfur stórilla, er Sunnlendingar höfðu gert spott

að kvæðum hans (Sturl. II, 96). Hann var of mjög barn síns tíma til þess að geta skilið, að dróttkvæðin voru deyjandi list og hann sjálfur meiri bragsnillingur en skáld.

Í 100. v. Háttatals segir hann, að sá maður eigi þó nokkurt hrós skilið, er svo fái ort alla háttu, og í 96. vísunni segist hann blátt áfram hafa ort ódauðlegt kvæði:

Þat mun æ lifa,
nema öld farisk,
bragninga lof,
eða bili heimar.

Nöfn hirðskáldanna voru miklu fastar tengd við verk þeirra, en nöfn sagnaritaranna. Þær eru teljandi drápurnar, sem geymdar eru án höfundarnafns, og í Skáldatali er margra skálda getið, þó að hver vísa þeirra sé nú týnd. Líklega hefur enginn maður fyr né síðar þekt fleiri íslenzk dróttkvæði en Snorri. Honum var manna kunnugast, hvernig þau gengu mann frá manni og héldu nöfnum skáldanna á lofti.

En meira en að lofa var að vera lofaður, meira en að vera skáld var að verða skáldum að yrkisefni. Snorri á nútímafrægð sína ritum sínum að þakka. Þessvegna hættir mönnum við að gleyma því, að hann var ekki fyrst og fremst skáld og fræðaþulur, heldur *höfðingi*. Hversu mikið yndi sem hann hefur haft af ritstörfum sínum, og hversu mikils sem hann hefur metið þau, þá er hitt áreiðanlegt, að hann hefur ávalt látið baráttu sína fyrir auði og völdum sitja í fyrirrúmi fyrir þeim. Nafnið „fróði" (Sturl. III, 146) festist aldrei við hann. Fyrir Styrmi var það nafnbót. Snorri var annað og meira, hann var goðinn og höfðinginn, lendur maður og skutilsveinn, — átti ef til vill eftir að verða Snorri *jarl*.

Ef Snorri framar öllu öðru hefði kosið sér næði til ritstarfa sinna, gat æfi hans orðið öll önnur. Hann fékk með kvonfangi sínu óðal og auð fjár rúmlega tvítugur, og þrátt fyrir róstur Sturlunga-aldarinnar, hefði hann vel getað setið

nokkurn veginn óáreittur á Borg, ef hann hefði kosið að leiða hjá sér deilur manna, og unað því að halda hlut sínum óskerðum, eins og sagt er um Orm Svínfelling (Sturl. III, 146). Arfur Herdísar konu hans var ótvíræð eign hans, og hefði hann ekkert gert til þess að brjóta af sér hylli Oddaverja og frænda sinna, átti hann þar mikinn styrk og athvarf gegn ásælni manna.

En því fór fjarri, að Snorri léti sér lynda þau mannaforráð og átta hundruð hundraða, sem kvonfangið lagði upp í hendurnar á honum. Viðleitni hans að auka auð sinn og ríki er aðalefni alls þess, sem frá honum er sagt. Hann nær smátt og smátt undir sig öllum mannaforráðum í Borgarfirði og á Suðurnesjum, hálfu Ávellingagoðorði í Húnaþingi og að nafninu til hálfum öllum goðorðum Ásbirninga. Hann auðgar sig á samningum sínum við Magnús prest í Reykjaholti, og þó einkum á helmingafélaginu við Hallveigu Ormsdóttur. Hafði Snorri þá miklu meira fé en nokkur annar maður á Íslandi. Og þó að hann reyndi eftir megni að koma málum sínum fram á friðsamlegan hátt, þá skirðist hann heldur ekki við, ef því var að skifta, að hefja langar deilur og harðar. Enda voru sumir samningar hans ekki hættulausir, og svo kvað Þórður bróðir hans að orði um félagið við Hallveigu, „að hann lézt ugga, að hér af mundi honum leiða aldurtila, hvort er honum yrði að skaða vötn eða menn“ (Sturl. II, 127).

Síðari alda menn hafa löngum legið Snorra á hálsi fyrir ásælni hans, og einkum fégirni. Veldur það eigi litlu um, að þeir hafa einblínt á, hvernig verk hans eru nú metin, og gleymt, hvað var aðalmark sjálfs hans í lífinu. Það var ekki sagnaritarinn Snorri, sem var fégjarn, heldur höfðinginn Snorri. Og þetta er sitt hvað. Ágirndin er blettur á manni, sem stendur í þjónustu ríkisins eða almennra hugsjóna, því að þá sundrar hún persónunni og skekkir viðleitni hennar. En enginn sakar bónda eða kaupmann, þó að þeir vilji græða fé, því að það er

skilyrðið fyrir viðgangi búsins og verzlunarinnar. Og á líkan hátt var mikið af þrifnaði íslenzks höfðingja á 13. öld undir auði hans komið. Hitt er annað mál, að Sturlunga er Snorra svo hliðholl, að líklegt er, að hún láti ýmislegs þess ógetið í frásögunum um fjárafla hans, sem mundi honum til lítils sóma, ef kunnugt væri. Það er af tilviljun einni, og ekki sagt Snorra til ámælis, að Þorláks saga hin yngri getur þess, hvernig hann eignaðist höfuðbólið Stafaholt. Eyjólfur bóndi þar, sem deilt hafði við Þorlák biskup um staðinn, átti tvö börn, Ara og Ólöfu. Ari var lostinn líkþrá, og seldi Eyjólfur Snorra staðarforráð, en hann skyldi gifta Ólöfu og fá henni peninga. „En gifting sú kom ekki fram, og átti hún börn með strákum'' (Biskupas. I, 286). Og sinka Snorra við syni sína, þegar þeir vildu festa ráð sitt, og ágengni hans við sifjalið sitt yfirleitt, verður ekki afsökuð, enda varð honum sjálfum til ærins ógagns.

En ekki má heldur gera of mikið úr fégirni Snorra. Hann var enginn maurapúki. Hjarta hans var ekki óskift þar sem fjársjóðir hans voru. Til allrar hamingju er til bein heimild þess, að hann þrátt fyrir alt var líka nógu mikill andans maður til þess að greina milli þess auðs, sem gerir menn að þrælum, og sannarlegrar auðlegðar þess manns, sem á nóg fyrir sig, unir því og kann með það að fara. Í vísu, sem Ólafur hvítaskáld tilfærir í Málskrúðsfræði sinni, segir Snorri um Eyjólf Brúnason:

Því at skilmildra skálda
skörungmann lofak *örvan;*
hann lifi sælstr und sólu
*sannauðigra* manna.

Ólafur bætir við til skýringar, að Eyjólfur hafi verið „búþegn góðr, en *eigi fégikr*". Það er merkilegt, að orðið ‚sannauðigr' skuli ekki koma annarsstaðar fyrir í fornu máli en í vísu eftir Snorra Sturluson. Ritstörf hans sýna líka, að Snorri kunni að

meta fleira en féð. En féð var meginvopn í þeirri baráttu til valda og metorða, sem var sífelt áhugamál hans. Og þá má ekki gleyma því, að hann þurfti fjárins meir en flestir aðrir. Hann varð að ríða fjölmennari til alþingis en alment gerðist, til þess að láta til sín taka. Auðurinn og liðsfjöldinn urðu að vera honum að bakhjalli, til þess að bæta upp það sem hann skorti í harðfylgi og einbeitni. Því að þótt Snorri framar öllu öðru vildi vera mikill höfðingi, var honum vant ýmislegs af því, sem helzt þurfti til þess á þeirri öld.

## II.

Fáein dæmi úr æfisögu Snorra munu sýna betur, við hvað ég á, en nokkur almenn lýsing.

Þess er áður getið, að þegar Snorri kom aftur úr fyrri utanför sinni, ýfðust Sunnlendingar mjög við hann, og mest Björn Þorvaldsson, tengdasonur Orms Jónssonar, er Austmenn höfðu vegið. Gekk Björn í berhögg við Snorra — „og spurði hvort hann ætlaði að sitja fyrir sæmdum þeirra um eftirmál Orms. En Snorri duldi þess. Björn lét sér það eigi skiljast, og hélt þar við heitan" (Sturl. II, 88). Sunnlendingar drógu spott að kvæðum Snorra, er hann hafði miklar sæmdir fengið fyrir erlendis, og keyptu þorpara einhvern fyrir gelding til þess að snúa afleiðis hinu aldýra klofastefi í drápunni um Skúla jarl, svo að lá við versta flími.

Það er engin furða, þó að Snorra hafi verið þungt í skapi til Bjarnar. Hann hafði búist við þökkum Íslendinga fyrir afskifti sín af þessum málum, og að gengi sitt hefði vaxið við utanförina, en var hér hafður fyrir rangri sök. Snorra hafa því þótt það allgóð tíðindi, er fjandskapur hófst með Birni og Lofti biskupssyni, enda „sendi Loftur menn til Snorra og kærði mál sín fyrir honum, og var það sumra manna mál, að Snorri letti lítt Loft uppreistar á mót Birni (Sturl. II, 90). Snorri sendi líka Valgarð fylgdarmann sinn suður til Lofts, og litlu síðar fór Loftur að Birni og feldi hann. Hæld-

ist Snorri um víg það í vísu einni, sem vafalaust má eigna honum (Sturl. II, 96), og telur þá hefnt níðsins um kvæði sín. Eftir Björn varð hið mesta eftirmál. Leitaði Loftur liðs hjá Snorra, og hét Snorri honum liðveizlu sinni á þingi. En þegar til kom, treystist Loftur ekki að ríða til þings, og varð þar ekki af vörn fyrir hann. Varð Loftur sekur og flýði út í Vestmannaeyjar, en Þorvaldur Gissurarson, faðir Bjarnar, safnaði liði á hendur honum. Komu þeir til liðs við hann Sighvatssynir, Tumi með Eyfirðinga og Sturla með Dalamenn. En Sighvatur Sturluson reið sjálfur til Borgarfjarðar, en sendi orð Þorvaldi vini sínum, og lét segja honum, að hann mundi finna Snorra og letja hann að fara til liðs við Loft, sem áður var orð á. „Snorri var allmjög snúinn á liðveizlu við Loft, því að illa hafði verið þeim Birni; líkaði honum og illa spott það, er Sunnlendingar höfðu gert að kvæðum hans“.

„Snorri var heldur ófrýnn, er Sighvatur kom í Stafaholt. En þó samdist vel með þeim bræðrum, og skildu við það, að lokið var liðveizlu Snorra við Loft. En er Sighvatur kom vestur í Dali, spurðu vinir hans, hversu farið hefði með þeim bræðrum. En Sighvatur segir, að Snorri hefði öxi reidda um öxl, svo hvassa, að hann ætlaði að hvatvetna mundi bíta, þá er þeir fundust; — „síðan tók eg hein úr pússi mínu og reið eg í eggina, svo að öxin var svo slæ, að hún hló á móti mér, áður við skildum“ (Sturl. II, 96—97).

Framkoma Snorra í máli þessu er hvorki stórmannleg né drengileg. Hann hafði svo miklu um valdið og svo mjög bundist í liðveizlu við Loft, að það var honum skylt að yfirgefa hann ekki þegar svo krepti að honum. Máli Lofts lauk bardagalaust, enda var Þorvaldur Gissurarson maður friðsamur, en vægari sætt mundi Snorri hafa getað fengið Lofti til handa, og sjálfum sér að mannhættulausu, ef hann hefði verið við staddur með flokk sinn. Er ólíkt, hvernig þeir Sighvatur bræður duga vinum sínum í þessum málum, og var Sighvatur

þó ekki í upphafi við þau riðinn. Snorri sýnir síðar, eftir útkomu Lofts, að honum þótti sér vandi á höndum við hann (Sturl. II, 124). Og það sýnir gjörla, að Snorri hafi um skeið ætlað að láta þessi mál heldur en ekki til sín taka, að hann flutti að Stafaholti eftir víg Bjarnar, „því að hann vildi ekki sitja í Reykjaholti, ef hann ætti ófrið við Sunnlendinga (Sturl II, 95). En hvað veldur þá sinnaskiftum hans? Varla viturlegar fortölur Sighvats, því að Snorri hefur vel verið einfær um að skilja þetta mál. En fremur hitt, að Sighvatur var einbeittari, viljafastari og sterkari persóna. Hann „snýr" Snorra blátt áfram á sína sveif. Og eins og gengur, lítur hann smáum augum á Snorra fyrir alt saman. Lítilsvirðingin gægist fram, bak við gletnina, í lýsingu hans á þessu bitra vopni, sem varð hvítt í eggina, áður en til höggs kæmi.

Um Jón murt, son Snorra, er það sagt, að hann bað föður sinn, — „að hann skyldi leggja fé til kvánarmundar honum, og vildi hann biðja Helgu Sæmundardóttur; vildi hann hafa stað í Stafaholti og þar með fé. En Snorri vildi, að hann hefði Borgarland og þar með annað fé móður sinnar, en dró undan sitt fé. Jón tekur þá það ráð, að hann bregður til utanferðar og heitir á vini sína til vöru. — — En er Snorri vissi það, gaf hann upp staðinn og hét fénu, en Jón vill þá eigi upp gefa ferðina, og fór utan um sumarið" (Sturl. II, 172). Hér sést greinilega, hve reikull Snorri er í ráði sínu. Hann vill komast hjá að skerða eigur sínar, og vísar á eigur Herdísar, sem hann var þá skilinn við, en lætur þó undan þegar hann sér að Jóni er alvara. Og á syni sínum hefur hann ekkert taumhald, hvorki til þess að láta hann taka fé móður sinnar né gefa upp utanförina. Enn þá minna réð Snorri þó við Órækju son sinn, sem jafnvel gerðist svo djarfur að fara að honum með flokk manna (Sturl. II, 252—53). Og þó að Órækja væri óeirðarseggur, þá eru slíks svo fá dæmi, að ástæða er til þess að halda, að eitthvað af þessu virðingarleysi hafi stafað af bilgirni Snorra sjálfs.

Það var á fyrri árum Snorra í Reykjaholti, að fjandskapur mikill gerðist milli Miðfirðinga og Víðdæla. Snorri átti flesta þingmenn í báðum þessum sveitum, og þótti mönnum til hans koma að sætta þá. Fór hann norður við fáa menn, og stefndi mönnum að sér á Mel í Miðfirði. Miðfirðingar komu fyrst til fundarins, og „leitaði Snorri um sættir við þá, en þeir tóku því seinlega. En þá er Víðdælir komu og stigu af hestum sínum, gengu þeir heim á völlinn. Miðfirðingar hlaupa þá á móti þeim, og slær þegar í bardaga, og voru hvorirtveggja all-ákafir. Snorri hét á þá, að þeir skyldi eigi berjast; engi hirði hvað er hann sagði. Þá gekk Þorljótur frá Bretalæk til Snorra, og bað hann milli ganga. Snorri kveðst eigi hafa lið til þess við heimsku þeirra og ákafa. Þorljótur veitti Snorra hörð orð. Síðan hljóp Þorljótur millum hrossanna og leysti, og rak millum þeirra. Þá héldu Víðdælir undan ofan eftir vellinum, og fyrir melinn ofan. Þeir náðu þá hestum sínum og riðu yfir ána“ (Sturl. II, 64).

Þó að frásögnin sé hér fremur á Snorra bandi[1]), fer ekki hjá því, að mynd hennar af honum verði fremur óglæsileg. Þingmenn hans virða orð hans gersamlega að vettugi, og Snorra fallast hendur meðan þeir berjast á sáttafundinum. Það sem hann vill ekki reyna með flokki sínum, þótt lítill væri, gerir Þorljótur aleinn. Síðar fékk Snorri sættum á komið, en framkoma hans á Mel verður eigi að síður vottur um skort hans á snarræði og skörungsskap.

Það kemur hvergi fram, að Snorri hafi verið neinn hermaður, og ýmislegt bendir jafnvel til þess, að hann hafi „brostið persónulegt hugrekki, sem flestir aðrir höfðingjar þeirrar aldar annars höfðu til að bera“ (Kr. Kålund). Í máli sínu við orkneysku kaupmennina beitir hann þá fyrst rangindum, en

---

[1]) Smbr. orðin: Miðfirðingar eggjuðu þá Snorra til eftirreiðar, og veitti Teitur honum mikið ámæli, er hann *vildi eigi auka vandræði þeirra.*

þegar kaupmenn hefna sín með því að vega einn heimamanna hans, sendir Snorri eftir bræðrum sínum og eggjar þá að leggja að kaupmönnum (smbr. Sturl. II, 28—30). Ekkert bendir á, að Snorri hafi sjálfur tekið þátt í þeirri atlögu. Hann ríður líka með fjölda manns til alþingis, en ekki virðist hann að því skapi hafa kunnað að beita því liði. Í deilunni við Magnús allsherjargoða og Sæmund í Odda á alþingi (Sturl. II, 70—71) sendir Snorri eftir bræðrum sínum Þórði og Sighvati, — „og þótti Sighvati Snorri eigi vel hafa haldið stöðunni, áður hann kom til''. Og síðar sjáum vér, að Snorri fylkir ekki sjálfur liði sínu, og það þó að hann eigi ekki völ á neinum hæfum manni til þess. („Árni óreiða var þá að fylkja liði Snorra á norrænu, og tókst það heldur ófimlega, því að hann var eigi vanur því starfi". Sturl. II, 233). Þegar þeir Kolbeinn Arnórsson og Kolbeinn Sighvatsson ríða suður á land og setjast í bú Snorra með meira en 100 manna, ræna þar og gera óspektir, bíður Snorri lengi án þess að hafast að. Og þegar hann loks hefst handa og sendir eftir Órækju til liðs við sig, eru þeir norðanmenn allir á burt og „höfðu gert svo mikinn skaða á búum Snorra, að það var virt meir en sex tigir hundraða" (Sturl. II, 234—237). Brosleg er sagan um flótta Snorra, þegar hann fór til fundarins við friðsemdarmanninn Þórð bróður sinn undir Sandbrekku. Með Þórði riðu bændur margir sér til skemtunar, því að helgur dagur var. En er þeir Snorri riðu sjö saman sunnan að Hítará, sáu þeir mannfjölda undir brekkunni. „Köstuðu þeir þá um hestunum og hleyptu suður í hraun". Urðu vinir þeirra að elta þá, og „var þá langt, áður Snorri vildi aftur ríða'' (Sturl. II, 251—52). Árið 1236, þegar þeir Sturla og Sighvatur voru teknir að safna liði fyrir norðan, kallaði Snorri Órækju son sinn að vestan á sinn fund, og kallaði óráð, að sérhver þeirra væri kvíaður. Órækja brá við skjótt og safnaði sex hundruðum manna, og vildi hann, „að snúið væri á norður með allan afla þann, er þeir fengi. Voru þess margir fýsendur, þeir er framgjarnir voru. En Snorri var

eigi búinn til þess að fara að bróður sínum á þeim hátíðum, er þá fóru í hönd“ (Sturl. II, 257). Sést á vísu þeirri, sem þá var ort um þetta, að eigi hefur ráð Snorra þótt vænlegt til frægðar. Því ber ekki að neita, að Snorra geti hafa gengið trú og ættrækni til að nokkru leyti, eins og enn mun drepið á, en ekki virðast þær hvatir annars hafa ráðið nándar nærri eins miklu í lífi hans og hugur hans á auði og völdum. Og hvort-tveggja átti hann að verja í þetta sinn. Enda flýr Snorri úr Borgarfirðinum og suður á nes, þegar þeirra Sturlu síðar var von norðan, og gat það þó að minsta kosti ekki verið neinn glæpur að verja hendur sínar og heimili. Með þeim flótta er ríki Snorra í raun og veru lokið, og hafði hann gert svo mikið til þess að ná því ríki, að auðsætt er, að ekkert gat knúið hann til þess að láta það af hendi, nema skortur á þreki og áræði til þess að verja það með oddi og eggju.

En jafnvel á banadægri sínu gerir Snorri ekkert til þess að verja fjör sitt. Í stað þess að snúast til varnar með þeim föngum, sem til voru, eða reyna sjálfur að ná tali af Gissuri og leita um sættir, flýr hann stað úr stað. Og þegar böðlarnir eru yfir honum í kjallaranum, gerir hann síðustu tilraunina til þess að fá frest, er hann tvítekur orðin: „Eigi skal höggva“. En það er eins og orðin séu töluð út í myrkrið, og ekki beint framan í böðlana. Enda voru þau að engu höfð[1]).

Sagan um Snorra og Sólveigu í Odda lýsir honum enn vel, og frá nokkuð öðru sjónarmiði. Eftir lát Sæmundar í Odda kusu synir hans Snorra til þess að skifta arfi milli þeirra systkina. Fór Snorri suður og gisti að Keldum hjá Sólveigu Sæmundardóttur og Valgerði móður hennar. „Var hann þar í kærleikum miklum við þær mæðgur, og fór Sólveig í Odda

---

[1]) Storm segir um þessi orð: (Snorre) „forsögte endnu, vant som han var til at befale, at imponere drabsmanden“. En hann þýðir: „ikke skal *du* hugge“ — og það er ekki alveg sama.

með honum. Þótti Snorra allskemtilegt að tala við hana. En er þau riðu frá Keldum, reið kona á mót þeim og hafði flakaúlpu bláa og saumuð flökin að höfði henni; hafði hún það fyrir hattinn; einn maður var með henni. En það var Hallveig Ormsdóttir, er þá var férikust á Íslandi. Snorra þótti hennar ferð heldur hæðileg, og brosti að. Snorri fór í Odda og stilti svo til, að Sólveig hafði koseyri af arfi, þeim er hún rétti hendur til" (Sturl. II, 118—19). En um vorið bað Sturla Sighvatsson Sólveigar og fekk hennar. „Fár varð Snorri um, er hann frétti kvonfang Sturlu, og þótti mönnum sem hann hefði til annars ætlað" (Sturl. II, 120). En um þetta leyti andaðist Kolskeggur auðgi og tók Hallveig Ormsdóttir allan arf eftir hann. Þá fekk Snorri Þorvald Gissurarson, fyrverandi tengdaföður Hallveigar, til þess að hlutast til um, að hún gerði félag við hann og færi til bús með honum. Voru þau Snorri síðan ásamt meðan þau lifðu bæði, og áttu börn saman, en ekkert þeirra komst úr bernsku.

Í þessum málum öllum sést gjörla, hvernig andstæðar hvatir berjast í Snorra. Sólveig hrífur hug hans, enda hefur hún eftir öllu að dæma verið hin glæsilegasta kona, og við skiftin heldur hann fram hag hennar, sem hann hefur ætlast til, að með tímanum yrði líka sinn eiginn hagur. En hann kann ekki við að biðja hennar þegar í stað, enda hefði þá hlutdrægni hans við skiftin orðið berari. Hann bíður, bæði af nærgætni við Sólveigu og til þess að sneiða hjá dómum manna. Svo verður Sturla fyrri til, og Snorri situr eftir með sárt ennið. Hann hafði verið of eigingjarn til þess að vera réttlátur, en hins vegar ekki nógu óbilgjarn til þess að færa sér gerðir sínar að fullu í nyt. En hann finnur sárabætur. Þó að búningur Hallveigar og framkoma bryti bág við smekkvísi hans, þá hafði auðlegð hennar því meiri tök á fégirni hans, svo að hann gat sætt sig við það ráð í stað Sólveigar Sæmundardóttur.

III.

Þegar Snorri bjóst til að flytja búferlum frá Borg að Reykjaholti, dreymdi heimamann hans, er Egill hét Halldórsson og var af ætt Mýramanna, — „að Egill Skallagrímsson kæmi að honum og var mjög ófrýnlegur. Hann mælti: „Ætlar Snorri frændi vor í brott heðan?“. „Það er mælt“, segir Egill. „Brott ætlar hann‘‘, segir draummaðurinn, „og það gerir hann illa, því að lítt hafa menn setið yfir hlut vorum Mýramanna, þá er oss tímgaðist, og þurfti hann eigi ofsjónum yfir þessu landi að sjá (líta smáum augum á það, smbr. II, 283). En þó er svo sem eg segi þér, að

Seggr sparir sverði at höggva,
snjóhvítt er blóð líta;
skæruöld gátum[1]) skýra,
skarpr brandr fekk mér landa,
skarpr brandr fekk mér landa“.

Og sneri þá brott. En Egill vaknar‘‘ (Sturl. II, 30—31).

Ég skal ekki leiða neinum getum um að, hvort Egil Halldórsson hefur dreymt draum sinn nákvæmlega í þessari mynd, né heldur hvaðan honum hafa komið þessar hugsanir. Mér er nóg í þessu sambandi að vita, að draumurinn hefði ekki haldist í minni manna, né Sturla Þórðarson fært hann í letur, ef hann hefði þótt markleysa ein.

Draumurinn er nokkuð óljós, eins og draumar eiga að vera, en samt er aðalefnið auðséð: Snorra á að hefnast fyrir að flytja frá Borg og lítilsvirða með því ættaróðal Mýramanna, og hefndin virðist eiga að koma fram í því, að menn sitji yfir hlut hans. Samtímamenn Snorra hafa með því að halda draumnum á lofti viðurkent, að þeim þóttu forlög hans vonum verri, svo að einhver sérstök skýring var æskileg. Og þetta er skýring í alþýðustíl, sem grípur til hjátrúarinnar, af því að hún skilur

---

[1]) Svo Vallabók; *getum* hin handritin.

ekki örlög þau, sem fólgin eru í skapferli mannsins sjálfs. Á svipaðan hátt skýrir t. d. Kormaks saga það með álögum Þórveigar gömlu, að Kormakur vildi ekki kvænast Steingerði, þó að það sé reyndar í fullu samræmi við alt eðli hans En um leið er meira í draumi Egils, einmitt hin skýringin, sem dýpra ristir: Snorri er óskaplíkur Agli forföður sínum. Egill vo til landa og var hermaður, Snorri skirrist við að beita sverðinu og er geðlítill[1]). Þetta er í raun og veru nóg til þess að gera það skiljanlegt, að Snorri lét menn ganga á hlut sinn. Skýring alþýðutrúarinnar verður þá óþörf. Og er gaman að sjá, að samtímamenn Snorra hafa, þrátt fyrir allan þann ljóma, sem leggja hlaut af auði hans og metorðum, séð þverbrestinn í skapferli hans.

Þessi þverbrestur er í því fólginn, að Snorri vill vera höfðingi, er höfðingi, og skortir þó einmitt sumt af því, sem helzt þurfti til þess að standa í þeirri stöðu. Hann er ekki vaxinn þeim kröfum, sem samtími hans gerði til höfðingja. Viðleitni hans og hæfileikar stefna ekki í sömu átt.

---

[1]) Svo verð ég að skilja vísuna. Finnur Jónsson þýðir fyrra helminginn svo í Skjaldedigtningen: „Manden (du) sparer at hugge med sværdet; blodet er (i nutiden) hvidt som sne að se paa (= krafteslöst)''. Og á líkan hátt þýðir Olav Hansen fyrstu línuna í dönsku þýðingu Sturlungu: „Nödigt nu sværd man svinger". En ef svo skal skilja vísuna, missir hún samband sitt við drauminn, og verður alveg út í bláinn. Egill Skallagrímsson hafði enga ástæðu til þess að fara að gera lítið úr hugrekki nafna síns Halldórssonar, sem enginn veit annað um, en að hann dreymdi þennan draum. Og þó að Egill væri hermaður mikill, þá er það ofrausn að leggja honum þau orð í munn, að blóð Íslendinga væri yfirleitt hvítt á fyrra hlut 13. aldar. Þá voru þó uppi margir vígamenn og afarmenni. En Snorri Sturluson var ekki í tölu þeirra.

Flestir þeirra manna, sem örðugt er að átta sig á, hafa einhvern slíkan brest að geyma. Og hann myndast ekki alt í einu. Með því að athuga hann vandlega, má lesa mikið af þroskasögu mannsins, eins og jarðfræðingar athuga myndunarsögu landsins í gjám og sprungum í jarðlögunum.

## IV.

Snorri var „fjöllyndur“, segir Sturla Þórðarson. Hann á þar eingöngu við kvennamál hans. En orðið lýsir Snorra í miklu víðtækari merkingu, og betur en nokkurt annað orð getur gert. Hann væri óhentugt yrkisefni fyrir þau skáld, sem sífelt láta persónur sínar renna á sömu brautarteinunum, endurtaka sama brotið af sjálfum sér, og svo er hrósað fyrir samkvæmni í lýsingunni.

Sturlungaættin er mikilhæfust og margbreyttust ætt landsins á sinni tíð. Hvamm-Sturla er þar í fararbroddi, ágjarn og ráðríkur, slægvitur og þrautseigur, kaldráður og heiftrækinn. Hann virðist lengi vel aðeins sækjast eftir auði og völdum, og hafa hugann allan við það, sem áþreifanlegt er, en samt er metorðagirnin rík í honum, og hann er ekki allur í framkvæmdunum, heldur hugsar mál sitt vel og rækilega, og íhygli og áhyggjur taka hann þeim tökum, að honum er þá títt að leggjast í rekkju og breiða feld yfir höfuð sér (smbr. Sturl. I, 155). Lýsir það honum vel, er Sturlu saga segir, „að það var oft háttur hans (á alþingi) að setja á langar tölur um málaferli sín, því að maðurinn var bæði vitur og tungumjúkur. Vildi hann og, að það væri jafnan frá borið, að hans virðing væri víðfræg“ (Sturl. I, 153). Ráðríki Sturlu er endurborið í mönnum eins og Sighvati, Sturlu Sighvatssyni, Þórði kakala og Þorgilsi skarða. En um leið kennir annars straums í ættinni. Eru það hófsamir menn og hneigðir til vísindaiðkana. Má rekja einkenni þeirra til hinnar íhugulu og tungumjúku hliðar

Sturlu[1]), og sumt lengra fram í báðar ættir. Slíkir menn eru þeir Þórður Sturluson og synir hans, Sturla og Ólafur hvítaskáld. En engum þessara manna verður lýst með einu orði. Þeir Þórður og Sturla eru geðríkir menn og þéttir í lund, þótt eigi sé þeim gjarnt að leita á aðra. Og í riddaralegu drenglyndi Þórðar kakala og konunghollustu Þorgils skarða, en veggirni beggja þeirra, kemur fram hugsýni, sem ekki stafar frá ráðríkinu. Sighvatur berst að vísu sjálfur fyrir völdum og metorðum, og fylgir fast málum Sturlu sonar síns, en um leið er sem hann líti á það alt saman eins og gamanleik, sem smásveinar þreyta með kappi, og kemur það ljósast fram í ertingum hans við Sturlu son sinn (Sturl. II, 283—85). Eru sýnir rithöfundarhæfileikar Sighvats í því samtali og fleira, sem eftir honum er haft, þó að ekki sé líklegt, að hann hafi beitt þeim á annan hátt. Aftur á móti getur Sturla Sighvatsson virzt vera ofsinn tómur og ráðríkið, svo geystur fer hann stundum. En því merkilegra er að sjá tvískinnung ættarinnar einmitt koma glögglega fram í honum. Þess er áður getið, að hann sýnir mikinn áhuga á sögulegum fræðum, og vísa er til, sem honum er eignuð. Og einu sinni nær íhygli ættarinnar tökum á honum, og heftir ofsa hans, — of seint eða of snemma. Í frásögninni um Apavatnsför er þess beint getið, að Sturla var „ófrýnn og djúphugsaður“ (Sturl. II, 293), og í orðum hans: „Ríðum enn!“ kemur vel fram, að hann er á báðum áttum. En Sturla átti tvo tæka kosti: að láta Gissur sitja í friði eða taka hann af lífi. Nú reiddi hann til höggs, en hjó ekki, og það varð hans eiginn bani.

---

[1]) Þess má geta hér, þótt ekki sé nema til gamans, að þar sem sagt er um Sturlu, að hann lét skemta sér heima í búð sinni á alþingi (Sturl. I, 152), þá er sennilega um *sagna*skemtun að ræða (smbr. Finnur Jónsson, Litt. hist. II, 197), þótt erfitt sé að gizka á, hvers konar sögum faðir Snorra og afi Sturlu Þórðarsonar hefur haft mestar mætur á.

Það má nú svo að orði kveða, að allir eiginleikar ættarinnar eigi ítök í Snorra, og stuðli að marglyndi hans. Þar sem ættin í bili virðist klofna í lygna kvísl og friðsama í Þórði og sonum hans, og stranga og stríðlynda í Sighvati og hans sonum, er skapferli Snorra á kvíslamótum. Hann er í aðra röndina höfðingi, ásælinn, stórhuga og metorðagjarn, en þó deigur til áræðis, íhugull og lítill skörungur, í hina röndina rithöfundur, lærður, djúpsær og listfengur, en þó með hugann við jarðneska muni. Eins og við er að búast veikir slíkt marglyndi, þar sem andstæðar hvatir berjast um völdin, tilfinningar og viljaþrótt. Snorri er ekki kaldlyndur á sama hátt og faðir hans, en tilfinningar hans eru grunnar og hverfular, og það verður aldrei séð, að hann leggi neitt í sölurnar fyrir þær. Hann er síngjarn við börn sín og hefur „vinaskifti“ (smbr. Sturl. II, 209) þegar honum sýnist. Og hann fórnar tilfinningum sínum stundum berlega fyrir hagsmuni sína. Þegar Sturla Sighvatsson hafði felt þá Þorvaldssonu, þvert ofan í eiða, sem hann hafði svarið Snorra, en þeir bræður treyst á, þá „rann Snorra mjög í skap þessi atburður“. En síðan er hann þó hinn auðveldasti í sættinni, — „því að hann vildi ekki missa liðveizlu Sturlu á þingi um sumarið í málum þeirra Kolbeins unga“ (Sturl. II, 207). Marglyndið samrýmist ekki langæjum tilfinningum og þungri þykkju, en það er skilyrði skjótra geðbrigða og nokkurs mislyndis. Lýsing Sighvats á Snorra, sem áður er tilfærð, er lýsing á manni, sem skjótt skiftir skapi. Og á mislyndi Snorra bendir það, að þegar Sighvatur vill leita um sættir með þeim Þorvaldi Vatnsfirðingi, fer hann á undan í Reykjaholt, en sendir síðan mann til Þorvalds og Sturlu, — „bað þá heim ríða, og sagði Snorra í góðu skapi, lézt vænta, að vel mundi takast“ (Sturl. II, 121). Þegar Snorri vill ráðast að Sturlu Sighvatssyni í Reykjaholt við mikinn liðsmun (Sturl. II, 278), eða býður Hákoni konungi byrginn og segir: „Út vil ek!“ (Sturl. II, 335), þá eru slík áræðisköst ekki annað en geðbrigði, sem oft koma

fyrir þróttlitla menn, og hjaðna þá jafnskjótt og þau hafa blossað upp. Þegar Þorleifi í Görðum þykir vonlaust, að þeir geti yfirstigið Sturlu í einni atför, en vill bíða átekta, bilar Snorri þegar og ríður frá flokkinum suður á nes við annan mann. Þrautseigjuna vantar í viljann, eins og von er, þar sem tilfinningarnar eru reikular. Snorra vantar líka samkvæmni til þess að geta haldið bein loforð sín (gefur t. d. Órækju hvorki Melstað né Stafholt, Sturl. II, 209, 210, 212).

En marglyndið er ágætur jarðvegur fyrir fjölbreyttar gáfur, víðsýni, skilning og dómgreind. Snorra hefur veitt auðvelt að lifa sig inn í hugsanir annara manna, fornan átrúnað og liðna viðburði. Tvennar orsakir liggja til þess, að hann varð ekki meira skáld: hann yrkir eftir reglum listar, sem fyrir löngu hafði lifað sitt fegursta, og guðmóðurinn bregzt honum, þegar hann talar frá eigin brjósti. Honum var ekki gefið skap Egils Skallagrímssonar og tilfinningar. En hann skarar fram úr í hinni rólyndari list sundurlauss máls, í andlægri frásögn, þar sem hann lýsir persónum og atburðum. Gáfur hans njóta sín þar til fulls, geðbrigði hans leggja allsstaðar réttan blæ á frásögnina, um leið og ótrufluð ró vísindamannsins sífelt er í baksýn.

## V.

Það verður auðvitað aldrei hægt að greina skýrt á milli erfðaeinkenna Snorra og áhrifa þeirra, sem hann hefur orðið fyrir á uppvaxtarárum sínum í Odda. En þó er hægt að sýna fram á, að andstæðurnar í skapi hans hafi hlotið að aukast við uppeldi það, sem hann naut þar.

Mörgum getum hefur verið um það leitt, hve mikla mentun Snorri hafi hlotið í Odda, einkum hvort hann hafi lært þar latínu og aðra klerklega bókvísi. Þykir mér sennilegt, að svo hafi verið, og Jón Loftsson hafi látið Snorra njóta líkrar fræðslu og hann hafði sjálfur hlotið, þó að þess sé hvergi getið, að Snorri hafi tekið neina vígslu, eins og sagt er um Jón

(Bisk. I, 282). En hitt er víst, að Snorri hefur numið þar íslenzk lög til hlítar, þar sem hann er kjörinn lögsögumaður óvenjulega ungur að aldri, og ræturnar að ritstörfum hans má rekja beint að Odda, eins og oft hefur verið bent á. Það er ekki hætt við, að íslenzk bókmentasaga gleymi nokkurn tíma nafni Þorbjargar húsfreyju í Reykjaholti.

Þegar svo hins er gætt, að ekkert af því, sem sagt er frá Snorra, bendir til þess, að hann hafi skarað fram úr í vopnfimi eða öðrum íþróttum, þá mun varla of djarft að álykta, að hann hafi í æsku fremur lagt stund á bókleg fræði, og uppeldið einkum stefnt að því að þroska vitsmuni hans og hin kyrlátari einkenni. Þeir Oddaverjar, sem eru að alast þar upp um líkt leyti og Snorri, verða heldur ekki miklir skörungar. Hefði Snorri alist upp vestur í Dölum, er vafasamt, hvort hann hefði nokkurntíma orðið rithöfundur. En hann hefði fengið óbrotnara og harðfengara uppeldi, orðið líkari Sighvati og betur til höfðingja fallinn. Því þó að ritstörfin gætu aldrei orðið aðaltakmark hans, hafa þau þó sífelt dregið mikið af hugsun hans til sín og stuðlað að því að sundra honum. Fornfræðinni má að nokkru leyti um kenna, að hann varð ekki að fullu barn samtíma síns og honum vaxinn.

Jón Loftsson þekti Sturlu í Hvammi og hafði átt við hann að skifta í málum þeirra Páls prests í Reykjaholti. Hann var svo vitur maður, að honum hefur hlotið að standa stuggur af þeim nýja anda, sem hann kyntist hjá Sturlu, fundið þar óbilgirni ættar, sem var að ryðja sér til landa, borið kvíðboga fyrir, að þeir Dalamenn gætu áður en langt um liði orðið Oddaverjum hættulegir. Það er hægt að hugsa sér, að hann hafi einhverntíma brosað í kampinn, þegar hann sá Snorra frá Hvammi alast upp við kyrlát fræði og menningu þeirra Oddaverja, í stað þess að fæðast upp í mynd og líkingu föður síns.

En Snorri átti í eðli sínu framgirni, sem aldrei gat fengið fulla fróun yfir lögum, sögum og mannfræði. Og það var engin von til, að sú framgirni kulnaði út „í hinum æðsta höfuðstað

í Odda“ (Bisk. I, 90), þar sem gat að líta öll merki auðs og veldis gamallar höfðingjaættar. Því hlaut hugur Snorra að beinast að því að verða höfðingi, um leið og uppeldið að sumu öðru leyti stefndi í öfuga átt. Yfir sögunum hafa eigin frægðardraumar vafist saman við fróðleiksfýsina og skemtanina.

Og í Odda hafði Snorri daglega þann mann fyrir augunum, sem heita mátti ókrýndur konungur Íslands. Jón Loftsson hlaut að verða fyrirmynd hans. En Jón var enginn styrjaldarmaður. Hann fór með vald sitt líkt og kveðið var um Ólaf kyrra:

Varði ógnarorðum
Ólafr ok friðmálum
jörð, svát engi þorði
allvalda til kalla.

Hefði Snorri eigi þurft meira fyrir að hafa, hefði alt fallið í ljúfa löð.

En munurinn á Jóni og Snorra var mikill. Jón var ekki einungis vitur maður og lærður, heldur líka maður með sterkan vilja og heitar tilfinningar. Hann er allur í svari sínu til Þorláks biskups, sem vildi banna honum samvistir við Ragnheiði systur sína: „Veit eg, að bann þitt er rétt og sökin nóg; mun eg þola þín ummæli með því móti að fara í Þórsmörk eða í einhvern þann stað, er eigi sekist alþýða af samneyti við mig, og vera þar hjá konu þeirri, sem þér vandlætið um, þann tíma sem mér líkar. Og ekki mun bann yðvart skilja mig frá vandræðum mínum, né nokkurs manns nauðung, til þess er guð andar því í brjóst mér að skiljast viljandi við þau. En hyggið svo yðvart efni, að eg ætla svo til að haga, að þér veitið eigi fleirum mönnum þetta embætti en mér“ (Bisk. I, 291—92, smbr. lýsingu Jóns I, 282). Eða þegar hann segir við Böðvar Þórðarson: „Vita menn það, að Sturla er oft óbilgjarn um manndrápin; en fleiri menn kunna að láta drepa menn en Sturla einn; og það segi eg þér. Böðvar, ef Sturla lætur drepa

einn mann fyrir Páli, að drepa skal eg láta þrjá menn fyrir Sturlu" (Sturl. I, 152). Þetta er ekki sagt í anda Snorra Sturlusonar.

Ástæðurnar voru líka aðrar. Jón sat á ættleifð forfeðra sinna, vald hans á þingi og í heraði stóð á gömlum merg, þingmenn hans voru fæddir fylgismenn hans og allur landslýður viðurkendi ríki Oddaverja. Jón var borinn til valda, sem hann gat vel unað við. En þó að vel væri í garðinn búið fyrir Snorra með kvonfangi hans, þá var hann þó aðkomumaður í Borgarfirðinum og festir þar aldrei rætur, eins og bezt sést á því, að hann hverfur þar varnarlaust frá ríki sínu. Og auk þess lét Snorri sér ekki nægja það ríki, sem kvonfanginu fylgdi, en með ásælni sinni egndi hann á móti sér krafta, sem stundum urðu honum ofviða.

Tímarnir voru breyttir. Á dögum Jóns var allgóður friður í landi, og engin tvímæli léku á, hver voldugastur væri. En eftir daga hans kemur los á þjóðlífið, og margir höfðingjar berjast um völdin. Og lífsskoðun og siðferði Sturlungaaldarinnar er alt í molum. Menn breyta ekki eftir meginsetningum né íhuguðu ráði, heldur eftir geðþótta og geðbrigðum. Engum samningum né eiðum er þyrmt, og á hinn bóginn sleppa menn oft þegar ólíklegast er, eins og Sturla lætur Gissur lausan eftir Apavatnsför, og Gissur sjálfur sleppir Hrafni Oddssyni ómeiddum skömmu eftir Flugumýrarbrennu, þvert ofan í ásetning sinn (Sturl. III, 304—305). Enginn gjörvuleiki virðist geta fleytt mönnum ósköddum gegnum þetta brim. Atgervi Sighvats, Sturlu og Þorgils skarða bjarga þeim ekki við falli, og vitsmunir og ríki Gissurar geta ekki afstýrt Flugumýrarbrennu. Á slíkri öld verða menn og viðburðir ekki reiknaðir út fyrirfram. Þannig er það vopnið, sem Snorri átti bitrast, hyggindin og slægvizkan, deyft í hendi honum.

## VI.

Hér verður að drepa á tvö atriði í einkalífi Snorra, sem mjög koma við skapferlisþroska hvers manns, nefnilega trú hans og heimilislíf

Það hefur lengi verið álit manna, að Snorri hafi verið lítill trúmaður, og í sagnaritum sínum farið eins langt og honum fært þótti í því að sleppa helgisögum og jarteinum eða skýra þær á eðlilegan hátt. En nú hefur því fyrir nokkru verið andmælt af Fr. Paasche, að réttmætt væri að tala um skynsemishyggju (rationalisme) í sambandi við Snorra og höfund Fagurskinnu. „Hvert gátu þeir sótt slíkar hugmyndir?" (Kristendom og kvad, 3). Paasche hefur í þessu riti sínu gert norrænni ritskýringu mikinn greiða með því að benda á ýmislegt erlent efni og áhrif í fornum helgikvæðum. En hér fer sem oftar, að það er örðugt að geta sér til alls þess, sem Íslendingar bjuggu yfir á 12. og 13. öld, ef á að viðurkenna það eitt, sem álíkt er eða upprunnið úr miðaldamenningu annara þjóða. Eða skyldi Jón Loftsson hafa sótt þá skoðun til Róms, að erkibiskup mundi eigi vilja betur né vita en hans foreldrar, Sæmundur hinn fróði og synir hans (Bisk. I, 283)? En Snorri var fóstursonur Jóns. Sannleikurinn er sá, að auk þess sem lífsskoðun Íslendinga fyrir og eftir 1200 var öll á reiki og furðu lítið afl í lífi þeirra, eins og nánar mun bent á í síðasta þætti þessa rits, þá var þar uppi beint trúleysi og vantraust á klerkum og kenningum þeirra. Svo viðurkennir t. d. Böðvar Ásbjarnarson, eftir að hann hefur afstýrt því, að Þorgils Oddason vægi að Hafliða Mássyni í sjálfri Þingvallakirkju, að sér hafi ekki trú til gengið. Ef vígið hefði verið hættulaust, „hirta eg aldrigi þótt þú dræpir hann í kirkjufriði eða þinghelginni" (Sturl. I, 44). Og grálega mælir Sturla faðir Snorra við Klæng biskup, eftir að biskup hefur gert um mál þeirra Einars Þorgilssonar og unnið fimtardómseið, að hann gerði jafnsætti: „Svo virði eg eið biskups sem páskamessu; má eg það eigi til fjár meta; en sómi er oss það. En flestir munu

kalla gjöldin eigi mikil, og gerðir eigi fésamar“ (Sturl. I, 99). Og líkt þessu mætti margt til tína.

Annars voru andstæður í trúarlífi Íslendinga að sumu leyti að aukast um daga Snorra, einkum með og móti Guðmundi biskupi Arasyni, en alt bendir á, að Snorri hafi leitt þær hjá sér, hvorki gert sig beran að trúleysi, né orðið fyrir djúptækum áhrifum úr þeirri átt. Vinátta þeirra Snorra og biskups stafaði frá ættartengdum, en ekki fylgi Snorra við trú biskups eða landsmálastefnu, enda er hann með í atför höfðingja að biskupi. Snorri hefur framar öllu verið örlagatrúarmaður, eins og Íslendingar fyr og síðar. Til giftu og hamingju er víða vísað í Heimskringlu, og jafnvel þegar Ólafur helgi, eins og vera ber, biður þess á undan Stiklastaða-orustu, að sá hlutur komi upp, er guð sjái að honum gegni bezt, þá segir hann í sömu andránni, að „auðna mun ráða sigri“ (Ól. s. h., k. 211). Snorri hefur skilið það vel, að „ef nornir ráða örlögum manna, þá skipta þær geysi-ójafnt, er sumir hafa gott líf ok ríkuligt, en sumir hafa lítit lén eða lof“ (Gylfag., k. 15). En eins og örlagatrúarmönnum er eðlilegast, hefur hann fremur verið athugandi lífsins en girnst að gerast heitur flokksmaður í leik hinna duldu afla. Þessvegna veitti honum auðvelt að lifa sig á víxl inn í kristinn sið og heiðinn. Þær eru ekki gerðar utan við sig fortölur Þórarins Nefjólfssonar við Ólaf helga, þegar hann er að fá konung til þess að fresta líflátí Ásbjarnar Selsbana: „sagði biskup inn fyrra frjádag, at sá konungr, er alls á vald, ok þoldi hann skapraunir, ok er sá sæll, er heldr má eptir honum líkja en eptir hinum, er þá dæmdu manninn til dauða, eða þeim, er olli manndrápinu“ (Ól. s. h., k. 119). En í raun og veru býr annað og meira undir, Þórarinn berst fyrir máli Skjálgs vinar síns, en veit að konungur er næmur fyrir trúarlegum fortölum. Og á líkan hátt bjó annað undir þegar Snorri vildi ekki fara að Sighvati bróður sínum um páskana, en það er ekki víst, að hann hafi sjálfur gert sér fyllilega ljóst, að trúin var ekki meg-

inástæðan. Og á sama hátt og Snorri hefði getað samið hjartnæmar hugvekjur, ef hann hefði lagt stund á það, skilur hann heiðnina svo vel, að það sætir furðu, hve lítil áhrif kristnar hugmyndir hafa á goðafræði hans. En um þetta, og um meðferð hans á helgisögum og hjátrú, mun nánar verða rætt í öðru sambandi.

Heit og einlæg trú hefði getað haft tvenns konar áhrif á Snorra, gert hann mildari í skapi og hófsamari, líkt og Þórð bróður hans, en líka einbeittari og samfeldari. Gott hjónaband og heimilislíf hefði getað gert líkt að verkum, en það varð heldur ekki hlutskifti hans. Um hjónaband hans og Herdísar vita menn ekki annað, en að þau skildu eftir fárra ára sambúð og að elztu frillubörn Snorra munu vera fædd meðan hann var enn á Borg. Félag sitt við Hallveigu Ormsdóttur gerði hann einungis af hagsýnum ástæðum, eins og áður er bent á, en sambúð þeirra virðist annars hafa verið góð, enda voru bæði af brekaaldri. Snorra þótti mikill skaði að fráfalli hennar, en hefur þó þegar deilu við sonu hennar um fjárskifti. Og að minsta kosti hefur þar ekki verið um þá sterku tilfinningu að ræða, sem getur látið alla krafta tvístraðs manns hverfa í einn farveg.

Og auk þess býr Snorri á beztu þroskaárum sínum (28—45 ára) ókvæntur í Reykjaholti og hefur margar frillur, líklega samtímis. Börn hans eru hvert öðru óstýrilátari og erfiðari í skapi, og er sennilegt, að þau hafi sótt talsvert af því til mæðra sinna. Og hafi frillur Snorra verið stórlyndar og vanstiltar, þá getur heimilisbragurinn ekki altaf hafa verið skemtilegur, þar sem þær börðust um völdin. Hefur Snorra verið það ærin skapraun, og hygg ég menjar þess leynist í einni af hinum fáu persónulegu athugasemdum í Heimskringlu, um Álfhildi móður Magnúsar góða: „En Álfhildi varð, sem mörgum kann verða, þeim er fá ríkdóminn, at henni aflaðisk eigi seinna metnaðrinn“ (Magn. s. góða, k. 7). Auk þess er seinna talað um sveitardrátt mikinn í Reykjaholti milli Órækju Snorrasonar og Klængs,

sonar Hallveigar. Það bendir og á slæmt heimilislíf, að Snorri reynist börnum sínum svo illa, að það má jafnvel kalla hið lakasta í fari hans. Um Jón murt er áður talað. Órækju prettar hann tvívegis um kvánarmund þann, er hann hafði heitið honum, og vísar honum svo vestur í Vatnsfjörð, en þar átti Þórdís dóttir Snorra, ekkja Þorvalds, bú. Þótti henni ilt upp að standa af eign sinni, sem von var. En dvölin í Vatnsfirði varð upphaf óeirða og ógæfu Órækju. Var annars margt gott í fari hans, svo að honum hefði mátt giftusamlegar takast, ef betur hefði verið í garðinn búið.

Snorri hefur í Odda alist upp við virðingu gamallar og göfugrar ættar fyrir sjálfri sér, og fastheldni við siðu og skoðanir forfeðranna. Jón Loftsson hefur í þessu efni verið fornari í skapi en alment gerðist, því á hans dögum var tekið mjög að slakna á ættartengslunum, eins og gjörla sést á sjálfri Sturlungaöldinni. Í þessu efni hefur hann vafalaust haft mikil áhrif á Snorra. Í sagnaritum sínum er Snorra auðsjáanlega tamt að benda á mátt ættarinnar, einkum virðingu fyrir forfeðrunum og íhaldssemi í anda þeirra. Ásbjörn af Meðalhúsum andmælir kristniboði Hákonar góða einkum með því að vísa til þess, hve ósæmilegt væri, að menn skyldu „hafna átrúnaði þeim, er feðr várir hafa haft fyrir oss ok alt foreldri, fyrst um brunaöld, en nú haugsöld, ok hafa þeir verit miklu göfgari en vér“ (Hák. s. góða, k. 15). Og á líkan hátt segir Sigríður stórráða við Ólaf Tryggvason, að hún muni ekki ganga af þeirri trú, „er ek hefi fyrr haft ok frændr mínir fyrir mér“ (Ól. s. Tr., k. 61). Minnir þetta á orð Kristni sögu: „kristnin var þá kölluð *frænda skömm*“ (Bisk. I, 11). En einkennilegust í þessu sambandi eru þó orð Freyviðar daufa við Ólaf Svíakonung: „en engi várr (bræðra) vill eiga þat nafn at heita dróttinssviki, því at eigi var svá várr faðir“ (Ól. s. h., k. 94). Það er enginn vafi á, að hugsjón Snorra í þessum efnum hefur verið samheld og voldug ætt, þar sem hann réði sjálfur mestu, og minningu hans væri síðan uppi haldið, eins og hann sjálfur virti sína

forfeður. Kemur ættartilfinning hans vel fram í vísu þeirri, er hann sendi Þórði kakala eftir að hann frétti um Örlygsstaðabardaga:

Tveir lifið, Þórðr, en þeira
þá var æðri hlutr bræðra
(rán vara lýðum launat
laust) en sex á hausti;
gera svín, en verðr venjask
vár ætt, ef svá mætti,
óskelfandi úlfar,
afarkaupum, samhlaupa.

Og Sturlunga getur þess þar, að Snorra hafi þótt inn mesti skaði eftir Sighvat bróður sinn (II, 328).

En hér fór sem víðar, að breytni Snorra varð ekki í samræmi við hugsjónir hans. Og orsakirnar er ekki örðugt að rekja. Snorri er tekinn barn að aldri og fluttur í fjarlægt herað, langt frá foreldrum og systkinum, og þegar hann eignast sjálfur heimili, verður það alt í brotum. Þarna hefur hann farið á mis við mikið í lífinu. Þarna er aðalrótin að kaldlyndi hans og eigingirni, að hann aldrei gat skilið, að ætt hans og sifjalið gat orðið honum bezta stoðin, ef rétt var með farið. En Snorri vill aldrei minka sjálfan sig neitt til þess að efla hag sona sinna, tengdamanna eða frænda, og hann gengur á þá á marga lund. Það er sárt að sjá, að þegar Snorri sendir orð Þórði bróður sínum, „kvaðst vilja, að þeir legði niður alla fæð með sér og tæki upp ástúðar frændsemi, — kvað þá bræður aldrei skulu á skilja um fé", — þá liggur í raun og veru sá fiskur undir steini, að Snorri vill æsa Þórð upp til þess að kalla til Snorrungagoðorðs í hendur Sturlu Sighvatssyni (Sturl. II, 125). Hann deilir við stjúpsonu sína um arf þeirra, og notar sér skilnað dætra sinna til þess að taka Brautarholt af Árna óreiðu og krefjast hálfra erfðagoðorða Ásbirninga af Kolbeini unga. Enda lýkur því svo, að Snorri er flæmdur af eignum sínum af

bróður sínum og bróðursyni, og yfir höfuðsvörðum hans standa tómir fyrverandi vinir og vandamenn: Árni óreiða hefur út bréf Hákonar konungs til Gissurar, Gissur fer að Snorra með ráðum Kolbeins, og meðal liðsmanna hans eru þeir Klængur Bjarnarson, Árni óreiða og Loftur biskupsson, þótt eigi væru þeir í sjálfri atförinni. Hefði Snorra þá verið betra minna fé og fleiri vinir. En í þessu atriði brast hann hyggindi. Hann var of kaldur reikningsmaður, vantaði eðlishvötina, sem kann að leggja í sölurnar og tefla á tvær hættur, og oft sér miklu dýpra en skynsemin.

## VII.

Snorri er rúmlega tvítugur orðinn einn af höfðingjum landsins. Hann átti nú að sýna í verkum sínum, hvað gert yrði með upplaginu frá Hvammi og uppeldinu frá Odda.

Í fyrstu fer hann allgeyst af stað, er ágengur og hefnigjarn. Þórður móðurbróðir hans gaf honum hálft Lundarmannagoðorð, og skyldi hann halda þingmenn fyrir Þórði Sturlusyni og öðrum þeim, er á leitaði. „En er Snorri hafði tekið við þingmönnum, þá þótti Þórði Böðvarssyni hann leita meir á sína vini, en áður hafði Þórður bróðir hans á leitað“ (Sturl. I, 28). Fyrir vetursetumanni sínum, Þorkeli rostungi, lét Snorri taka mjöl úr útibúri, og lézt sjálfur vilja ráða lagi á. En Þorkell vildi ráða, hve dýrt hann seldi varning sinn. Þótti þessi upptekt ekki Snorra til sæmdar. Varð úr því fullur fjandskapur, eins og áður er frá sagt. Eftir að Þorkell hafði rekið árás Sturlusona af höndum sér, lét hann í haf, en varð afturreka og dvaldi hjá Sæmundi í Odda veturinn eftir. Snorri hlífðist ekki við að senda í Odda flugumenn, þrjá saman, en ekki komu þeir neinu fram (smbr. Sturl. II, 28—30).

Nokkru síðar átti Snorri þingdeilu litla við Magnús allsherjargoða og Sæmund í Odda. Hlaut Sæmundur að gera um málið, og undi Snorri því illa. Og litlu eftir hóf hann deilu við Magnús um arf Jórunnar auðgu. Var hún í þingi með

Magnúsi, og ætlaði hann sér fé hennar, en Snorri sendi Starkað Snorrason suður á nes, og hafði hann sunnan með sér „þann mann, er Koðran hét, strák einn, og kallaði Snorri þann erfingja Jórunnar, og tók hann það fémál af Koðrani“ (Sturl. II, 72). Sótti Snorri mál þetta með miklu kappi og reið um vorið til alþingis með 600 manna (720), og voru átta tigir austmanna í flokki hans alskjaldaðir. Hafði hann sóma af deilum þessum, þó að málaefni virðist hafa verið vafasöm. „Og í þessum málum gekk virðing hans við mest hér á landi“ (Sturl. II, 73).

Það má kalla, að fram að utanför Snorra (1218) hafi ríki hans og álit verið í uppgangi, þrátt fyrir einstök áföll. Sjálf Sturlungaöldin er enn ekki byrjuð, en þeir bræður, og þá einkum Sighvatur og Snorri, virðast vera á leiðinni að þoka Oddaverjum úr öndveginu. „Bræður þessir draga sig svo fram, að nær engir menn halda sig til fulls við þá“ (Sturl. II, 71), segir Sæmundur í Odda eftir þingdeiluna við Snorra. Og sjálfur hefur Snorri ætlað sér meira hluta en bræðrum sínum. Árið 1220 segir hann við Hákon konung, „að þá voru aðrir eigi meiri menn á Íslandi en bræður hans, er Sæmund leið, en kallaði þá mundu mjög eftir sínum orðum víkja, þá er hann kæmi til“ (Sturl. II, 86—87). Þetta sýnir, að Snorri hefur komið með miklar vonir úr utanförinni. Hann hafði auk þess þegið nafnbætur og stórgjafir erlendis, og afstýrt yfirvofandi hættu fyrir landið. Þegar hann reið frá skipi, og þeir 12 saman, höfðu þeir meir en tylft skjalda, alla mjög vandaða, og létu allvænt yfir sér. Þá hefur Snorra fundist hann kjörinn til þess að verða helztur maður landsins.

En nú dynja vonbrigðin yfir hann. Honum er illa tekið á Suðurlandi og gerðir hans í Noregi lagðar út á versta veg. Liðveizla hans við Loft biskupsson fer út um þúfur, og það eru Haukdælir og Sighvatur bróðir hans, sem vaxa á þeim málum. Sturla bróðursonur hans tekur Sólveigu, sem Snorri hafði ætlað sér, og heldur til fulls við hann. Á þessum árum lærist Snorra meir og meir að beita öðrum fyrir sig, og koma sem

minst við málin sjálfur. Nýir tímar eru að hefjast, og hann finnur, að hann er þeim ekki vaxinn.

Hann byrjar á því að ýta undir Loft að drepa Björn Þorvaldsson. Hann otar Jónssonum á Þorvald í Vatnsfirði, og hvetur þá beinlínis til þess að fella hann (Sturl. II, 111). En þegar þeir vinna ekki á, og Þorvaldur vill sættast við Snorra og mægjast við hann, þóttist Þorvaldur skilja, „að Snorri mundi unna honum inna mestu sæmda, ef hann vildi vera skyldur til þess, að gera hvað er Snorri legði fyrir hann, hverigir sem í mót væri“ (Sturl. II, 123). Hann eggjar Þórð bróður sinn gegn Sturlu Sighvatssyni, og eftir brennu Þorvalds í Vatnsfirði virðist hann hafa hvatt þá Þorvaldssonu á hendur Sturlu (smbr. Sturl. II, 157, 165), og a. m. k. lét hann og menn hans á eftir vel yfir hinni alræmdu Sauðafellsför. En hitt er satt, að Snorri ber ekki ábyrgð á atferli Þorvaldssona í einstökum atriðum, né heldur mundi hann sjálfur hafa gert sig sekan í slíku. En viljað mun hann hafa Sturlu feigan, enda hefði margt öðruvísi skipast, ef Sturla hefði fallið þá. Snorri giftir nú dætur sínar tvær Gissuri Þorvaldssyni og Kolbeini unga, og var þá mikill ljómi yfir ríki hans. Sturla verður að láta undan síga og selja af hendi Snorrungagoðorð. Og síðan, þegar Kolbeinn skilur við Hallberu, heimtar Snorri hálf mannaforráð hans, og safnar sér svo miklu fylgi, að Kolbeinn gengur að nafninu til að þessari hörðu kröfu.

Sá er sterkastur, sem staðið getur einn. Það gat Snorri ekki, og hitt var þó meira, að hann gat aldrei trygt sér fylgi manna og vináttu, nema um skammrar stundar sakir. Hann hafði vinaskifti eins og vopnaskifti, því að vinirnir voru honum ekki annað en vopn. Enda felst mikið af veikleika bak við sýndarsigra hans. Á þessum árum breytist líka takmark hans smátt og smátt. Hann leggur meiri og meiri áherzlu á yfirskinið tómt, metorðin, í stað valdanna sjálfra.

Ráðríki og metorðagirni eru tvær hvatir, sem oft fylgjast að, og mönnum er títt að blanda saman í daglegu tali. En samt

eiga þær hvor sín upptök og lýsa sér hvor á sinn hátt. Metorðagirnin þróast bezt í einrúmi, yfir bókum og dagdraumum, ráðríkið í skærum við leikbræðurna og í margmenni. Marglyndi maðurinn verður einatt að láta sér nægja metorðin, einlyndi maðurinn berst fyrir yfirráðunum, þar sem hann nær til. Í stjórnmálabaráttunni getur að líta metorðagjarna menn, sem halda miklar ræður í þingsalnum og ef til vill komast til hárra valda, en mæla í raun og veru fyrir munn og stjórna fyrir hönd ráðríks flokksbróður, sem heldur vill beita sér á bak við tjöldin. Hjá skáldum og rithöfundum, sem koma svo víða við, að tökin á veruleikanum hljóta að verða í lausara lagi, ber eins og eðlilegt er meira á metorðagirninni

Þó að Snorri upprunalega hafi átt töluvert af ráðríki í eðli sínu, þá hefur metorðagirnin þó líklega altaf verið ríkari í honum. Smekkur hans hneigist að því, sem mikilfenglegt er og glæsilegt. Honum hefur verið yndi að því að ríða með her manns til alþingis, og valda sinna hefur hann alt af meðfram notið með listamannseðli sínu. Fordild hans kemur vel fram í því, að hann kallar búð sína á Þingvöllum Valhöll. Og þegar hann segir við þá Kolbein og Órækju, að hann sé eigi vanur „að eiga hlut að heraðsdeildum“ (Sturl. II, 226), þá birtist í því vilji hans að hlutast til um þau mál ein, er mikil séu og víða verði fræg.

En við þetta bætist síðan nauðsynin. Snorri sá sér eigi fært að fylgja fast eftir. Til þess að sigla milli skers og báru, varð hann að gera sig ánægðan með sýnd í stað reyndar.

Þetta kemur berlega fram í máli hans við Orm Svínfelling. „Snorri kvað þá vel að reyndi, hver þeirra þingríkastur væri, og segir Orm lengi hafa öfundað sig og sína sæmd“. Ormur selur líka Snorra sjálfdæmi og Snorri dæmir sér fjóra tigi hundraða (Sturl. II, 186—87). En síðan gefur Snorri upp sektina, af því að hann vill hafa Orm sér vinveittan í málum sínum við Kolbein unga (Sturl. II, 208). Líkt fer honum í málinu við Brand á Stað (Sturl. II, 148—49, 156). Hefðu

Snorra verið mislagðar hendur, svo fasthaldur sem hann annars var á fé, ef hann hefði gert slíkt af tómu örlæti.

Hinir ríku tengdasynir hans verða honum að litlu liði. En ljóma lagði af þeim í svipinn. „Það var eitt kvöld, að Snorri sat í laugu, að talað var um höfðingja; sögðu menn að þá var engi höfðingi slíkur sem Snorri, en þó mátti engi höfðingi keppa við hann fyrir sakir mægða þeirra, er hann átti. Snorri sannaði það, að mágar hans væri eigi smámenni. Sturla Bárðarson hafði haldið vörð yfir lauginni, og leiddi hann Snorra heim og skaut fram stöku þessi, svo að Snorri heyrði:

Eiguð áþekt mægi
orðvitr sem gat forðum
— ójafnaðr gefsk jafnan
illa —Hleiðrar stillir". (Sturl. II, 150).

Hefur Sturla glögt skilið, hve lítill styrkur Snorra var að tengdasonum sínum í raun og veru. Enda stóðu þeir að síðustu yfir höfuðsvörðum hans, svo að samlíking Sturlu varð að spásögn.

Til þess að fá Sturlu Sighvatsson í lið með sér gegn Kolbeini, verður Snorri að brjóta odd af oflæti sínu eftir víg Þorvaldssona, og gera Sturlu sem auðveldast að ná sáttum. En þegar hann loks hefur safnað svo miklu liði gegn Kolbeini, að hann getur haft í öllum höndum við hann, þá hikar hann við að láta til skarar skríða. Hann vill ekki hætta á að gera Kolbein að fjandmanni sínum. Kolbeinn gengur að því, „að Snorri skyldi eiga helming goðorða þeirra, er Kolbeinn átti að rettu, en Kolbeinn skyldi með fara og veita Snorra á þingum; Kolbeinn skyldi og gjalda fé nokkuð, ef Snorri vildi heimta" (Sturl. II, 209). Í raun réttri var þetta fullkominn ósigur fyrir Snorra. Kolbeinn gerði sig skömmu síðar beran að fjandskap við hann og varð honum aldrei að neinu liði.

Og ekkert sýnir betur, hve rótlaust ríki Snorra var, en

þegar hann flýr úr Borgarfirðinum fyrir þeim Sighvati og Sturlu og gefur þar upp öll yfirráð sín, án þess að reyna að veita viðnám.

## VIII.

Um Snorra hafa á síðari öldum verið feldir mjög sundurleitir dómar, og sjaldan af miklum skilningi. Mörgum hefur farið svo, sem eðlilegt er, að ljómann af ritum Snorra hefur lagt um alla persónu hans og hegðun, og hafa þeir þá reynt að afsaka alt hið lakara í fari hans, og jafnvel eignað honum hæfileika, sem hann alls ekki var gæddur.[1]) Aðrir hafa þvert á móti látið Snorra gjalda þess, að hann var frægastur allra samtímamanna sinna. Þeir hafa skoðað hann einangraðan, og látið hann bera allar syndir aldar sinnar, í stað þess að færa einmitt aldarháttinn fram honum til skýringar og þá um leið réttlætingar. Sjálfum finst mér það varla hlutverk mitt að leggja dóm á Snorra, þó að hjá því verði ekki komist í einstökum atriðum. Hitt vildi ég heldur, lýsa honum svo og skýra hann, að hverjum manni væri eftir því í lófa lagið að dæma hann eftir sinni kreddu. En meðan allir menn hafa ekki eina kreddu — og þeim hefur fjölgað fremur en fækkað síðan á dögum Þrándar í Götu — er vonlaust að reyna að kveða upp dóm um marghliða mann, sem allir vilji hlíta.

Ef skoða skal Snorra frá siðferðilegu sjónarmiði, ber þess fyrst að gæta, að hugsunin um gott og ilt, rétt og rangt, hefur ekki verið rík í honum. Sú hugsun er þungamiðja persónunnar hjá sumum stórmennum, og það sjónarmiðið því eðlilegast þegar á að dæma þá. En öld Snorra var mjög hlutlaus í þessum efnum, og tjáir ekki að saka Snorra einan um það. Og auk þess var hann sjálfur að upplagi svo listrænn

---

[1]) „Er war gleich tüchtig als *Krieger*, Diplomat und Gelehrter“ (Mogk).

og marglyndur, að hann var lítt fallinn til þess að bindast föstum meginreglum í hugsun og breytni.

Samt hefur Snorri sjálfur skilið það gjörla, að tveir menn með líkt skapferli geta átt misjafna dóma skilið. Hinn frægi samanburður hans á þeim Ólafi helga og Haraldi harðráða, kemur í raun og veru að þeirri niðurstöðu, að menn séu dæmdir eftir mörkum sínum. Þeim fyrirgefist meira, sem berjist fyrir hugsjónum, eins og betri siðum og réttlæti, en hinum, sem berjist aðeins sjálfum sér til frægðar og ríkis, og gangi á annara eigu.

Það gæti virzt sanngjarnt að leggja þennan mælikvarða úr Heimskringlu á höfðingjaferil Snorra. Og þá verður dómurinn ekki vægur. Þegar það er frá skilið, að hann vinnur að því að afstýra herförinni til Íslands, þar sem þó er erfitt að rekja hvatir hans, verður ekki annað séð en að öll barátta hans sé fyrir eigin hagsmunum og metorðum. En hann á þar sammerkt við aðra höfðingja landsins. Öldin var fátæk af hugsjónum, en auðug af eigingirni. Ríkið var í molum, óeirðirnar allar inn á við, hver höfðinginn öðrum úlfur. Að eins í einu tilliti stendur Snorri í þessu efni að baki flestum samtímamönnum sínum: síngirni hans bitnar hvað harðast á börnum hans og sifjaliði. Aftur á móti sparir t. d. Sighvatur bróðir hans hvorki fé né fjör til þess að efla og styðja Sturlu son sinn. En orsakirnar til breytni Snorra í þessu efni hef ég reynt að greina að framan.

Þá má bera saman eigið takmark Snorra, völd og metorð, og æfiferil hans, og dæma hann eftir þeim samanburði, líkt og listaverk má dæma eftir því, hvort höfundurinn hefur náð tilgangi sínum með því eða ekki, án þess að fara nánar út í að meta þennan tilgang. Að mörgum stórmennum er dáðst á þennan hátt. Þeir eru lifandi listaverk, höfði hærri en allur lýðurinn og margra makar. Menn dást að eldhug þeirra, geð-

styrk og afrekum — og gleyma að spyrja þess, hvað gott þeir hafi viljað eða látið af sér leiða:

hetjunum láta af hendi rakna
hrós fyrir það, sem öðrum banna.

Íslenzkum sagnriturum var tamt að skoða söguhetjur sínar frá þessu sjónarmiði. En Snorri getur ekki hrifið hug vorn á þann hátt. Til þess er ósamræmið of mikið milli ætlana hans öðrum megin og krafta og atgerða hinum megin.

En ef nánar er hugsað um þetta ósamræmi verður fyrst að gæta þess, að hjá metorðagirni sinni gat Snorri ekki komist. Eðli hans og uppeldi lögðust þar á eitt, og hlutu að ráða. Hún varð að forlögum hans, leiddi hann gegnum meðlæti og mótlæti og að síðustu til bana. En um sum önnur einkenni hans er það að segja, að þau eru í einu kostur og löstur. Marglyndi hans er kostur á honum sem rithöfundi, en galli á höfðingjanum. Það er auðveldara að vera fastur í rásinni og sjálfum sér samkvæmur með fábreytta hæfileika og hversdagslega lífsstefnu, en þegar fjölbreyttar gáfur og hvatir reyna sífelt að tvístra viðleitninni. Og sum einkenni má dæma allmisjafnlega eftir uppruna sínum. Það er ekki næsta veglegt að vera fífldjarfur, af tómum skorti á framsýni og ímyndunarafli. Það er einkenni skáldsins, að geta lifað hugsaðan atburð með álíka skýrleik og reyndina sjálfa. Þetta hefur Snorri getað, og það hefur gert hann deigara í hug. Hann gerir sér ljósari grein fyrir, hvað í því er fólgið að koma á vald óvina sinna (Sturl. II, 278), og því ægir honum það meir en öðrum mönnum.

En um leið og áherzla er lögð á, að Snorri stóð ýmsum samtímamönnum sínum að baki í röggsemi og skörungsskap, er skylt að minnast hins, að hann var laus við suma lökustu galla þeirra. Hann sást meira fyrir, var aldrei grimmur, og er ekki beint riðinn við neitt af hryðjuverkum aldarinnar. Arngrímur ábóti segir um þá Sturlusyni, að Þórður var þeirra beztur, Snorri í mið, en Sighvatur verstur (Bisk. II, 71). Varla

verður annar réttlátari dómur feldur um Snorra en þetta: *í mið*. Hann er hvorki í flokki mestu mannkostamanna né varmenna Sturlungaaldarinnar. Og hafi hann stundum gert öðrum rangt til, fór hann heldur ekki varhluta af yfirgangi annara. Kolbeinn ungi rýfur sætt sína við hann fyrir litlar sakir, og reynist honum hið versta. Sturla Sighvatsson játar sjálfur (Sturl. II, 290), að þeir feðgar hafi beitt Snorra rangindum. Og Gissur notar sér bréf Hákonar, sem varla hefur viljað Snorra feigan, að yfirvarpi til þess að fara að honum, og lætur böðla sína drepa hann, án þess að gefa honum tækifæri til þess að bjóða utanför sína eða önnur sáttaboð.

Hér verð ég líka að drepa á eitt atriði, sem misjafnt hefur verið dæmt um: skifti Snorra við konungsvaldið. Summum finst Snorri hafa gert sig sekan í landráðum, er hann hét Hákoni að „leita við Íslendinga, að þeir snerist til hlýðni við Noregs höfðingja'' (Sturl. II, 87), og tók síðan leynilega við jarlsnafni af Skúla hertoga[1]). En öðrum þykir sem Hákon

[1]) Sturla Þórðarson segir svo um þetta mál: „Voru þá fáir menn við tal þeirra hertogans og Snorra. Arnfinnur Þjófsson og Ólafur hvítaskáld voru með hertoganum, en Órækja og Þorleifur með Snorra. Og var það sögn Arnfinns, að hertoginn gæfi Snorra jarlsnafn, og svo hefur Styrmir hinn fróði ritað „ártíð Snorra fólgsnarjarls“. En engi þeirra Íslendinganna lét það ásannast fyrir oss“ (Sturl. II, 335—36). Hér er margs að gæta. Styrmir var manna handgengnastur Snorra, og þó að hann væri lítt gagnrýninn á helgisagnir og fornar sögur, þá var hann enginn skynskiftingur og gat ekkert gengið til þess að halla hér réttu máli. Er líklegt, að Snorri hafi sjálfur trúað honum fyrir þessu, og Styrmir talið sig leystan frá þagnarskyldu sinni að Snorra látnum. Ef Styrmir hefði farið eftir sögn Arnfinns, var lítil ástæða fyrir Sturlu að nefna hann sérstaklega. Og hversvegna hefði Arnfinni, vini og stallara Skúla, átt að detta í hug að ljúga þessu? Cui bono fuit? Það

hafi skoðað hann sem hlífiskjöld fyrir sjálfstæði landsins, og hafi það orðið honum að bana. En hér er skamt öfganna á milli. Af því, sem hér hefur verið sagt um skapferli Snorra, er vel skiljanlegt, að hann hafi verið hikandi í þessu máli. Í Noregi varð hann fyrir áhrifum af veldi þeirra Skúla og Hákonar, glæsimenska hirðarinnar heillaði hug hans, skoðanir manna á sjálfstæði voru þá aðrar en nú, og sú hugsun gat vel náð tökum á Snorra, að Íslandi mundi verða hagnaður að konungssambandi við Noreg. Þegar við þetta bættist, að Snorri sá þarna fram undan veg upp í jarlssætið fyrir sjálfan sig, er ekki undarlegt, að fortölur þeirra konungs og Skúla næðu tökum á honum. En á Íslandi hefur Snorri litið öðruvísi á þetta mál, enda skildi hann það flestum betur, er hann íhugaði það í tómi, og ber ræða Einars Þveræings þess ljósastan vott.

En hverjar sem hugsanir Snorra hafa verið um þessi efni, þá gerði hann aldrei neitt til þess að efna heit sín. Enda átti hann allajafna nóg með að verja sitt eigið ríki. Þeir Hákon og Skúli hafa líka varla búist við miklu. Jón murtur kemur fljótt aftur úr gíslingunni. Að sumu leyti hefur boð Snorra verið þeim kærkomið yfirvarp til þess að hætta við herferðina til Íslands, sem var hættulegt fyrirtæki og vafasamt, að hverju gagni yrði. Er líklegt að Snorri hafi kunnað að draga úr þeim kjarkinn með ýmsum fortölum. Hann hefði t. d. getað sagt þeim söguna um hina fyrirhuguðu herferð Haralds Gormssonar

---

var þó ekki annar en Hákon konungur, sem auðgaðist á þessum „drottinssvikum“ Snorra. Á hinn bóginn hlaut Sturlu að vera meinilla við þessa sögu, því að væri hún sönn, var fé Snorra að lögum fallið í konungsgarð. Og sama hug og Sturla á því að verja arf Snorra fyrir ásælni konungs höfðu þeir Ólafur og Þorleifur. Þeir höfðu því gilda ástæðu til þess að halda þagnarheit sitt, líka eftir víg Snorra. Ég efast því ekki um, að vitnisburður þeirra (um þvera neitun talar Sturla heldur ekki) er minna virði en þeirra Arnfinns og Styrmis.

til Íslands og sendiferð kunnáttumannsins, sem þangað fór í hvalslíki (Ól. s. Tr., k. 33). Er þar vel lýst viðtökum þeim, er Íslendingar mundu veita útlendum her, þótt í líkingum sé, en sumt af lýsingunni fullverulegt: „var þá ekki nema sandar ok öræfi (= hafnleysur) ok brim mikit fyrir útan, en haf svá mikit millum landanna, at ekki er þar fært langskipum''.

IX.

Svo áreiðanleg heimild og auðug sem Sturlunga er um æfi Snorra, þá láist henni að geta margs þess um hann, er vér fegnir vildum vita, og Sturla hefði vel getað frætt oss um, ef honum hefði komið það til hugar. Svo er t. d. hvergi neitt gefið í skyn um vöxt Snorra né yfirlit, ekkert sagt um ritstörf hans né daglegt líf í Reykjaholti, og engin tilsvör hans tilfærð orðrétt, nema svarið við útferðarbanni Hákonar konungs og andlátsorð hans.

Í sumar af þessum eyðum er árangurslítið að reyna að geta. Flestum mun verða ósjálfrátt að hugsa sér þá Sturlunga yfirleitt höfðinglega á velli, og ekki getur hjá því farið, að sálargáfur Snorra hafi sett svip sinn á yfirbragð hans. Annars verða fyrir manni á þessum gizkunarleiðum, sem víðar, andstæður í fari Snorra, sem benda í tvær áttir. Ölhneigð hans, laugarsetur og fræðimenska, ásamt ýmsum skapseinkennum hans, gætu bent á, að hann hafi verið nokkuð fenginn fyrir hóglífi, og þá líklega heldur feitlaginn. En á hinn bóginn voru störf hans svo margbreytt og hann kom svo miklu í verk, að hann hefur aldrei gerzt mjög þungfær, enda er þess beint getið á banadægri hans, að hann *hljóp* upp og úr skemmunni. Að bókum sínum hefur Snorri unnið á veturna, þegar litla umsjá þurfti með búinu og friðsamt var að öðru leyti. Er næsta erfitt fyrir nútíðarmenn að gera sér ljósa vinnuaðferð hans, enda hafa verið ritaðir um það efni margir staðleysu stafir. Af fyrstu orðum Heimskringlu-formálans: „Á bók þessi *lét* ek

rita“, smbr. Ól. s. Tr., k. 80: „Þat vil ek nú næst *rita láta*“, virðist mega ráða, að Snorri hafi ekki sjálfur haldið á pennanum, heldur setið yfir skrifaranum og mælt fram orð fyrir orð það sem rita skyldi. Hefur hann áður kynt sér efnið svo nákvæmlega, að hann hafði fult vald yfir því, jafnvel án bóka. En hefur svo haft fyrir framan sig þau rit, er hann studdist við, og haft úr hverju það, sem honum þótti nýtilegt. Hygg ég, að hann hafi sett ritin svo vandlega saman í huga sér, áður en tekið var til þess að rita, að ekkert uppkast hafi verið gert, litlu eða engu breytt frá því, sem fyrst var ritað. Hafa menn unnið svo einkum fyrr, en líka síðar, og er vel skiljanlegt. Kálfskinnið var of verðmætt til þess að ónýtast þannig, og milli efnis og forms var þá nánara samband en nú. List hinnar munnlegu frásagnar lagði mönnum stílinn á tunguna. Og þó að fróðleikur Snorra væri óvenjulega mikill á þeirri tíð, þá var hann þó næsta umfangslítill í samanburði við þann fjölda staðreynda, sem vísindamenn nú á dögum verða að hrúga í minni sitt. En því meiri tök hefur hann líka haft á fróðleik sínum, að hafa hvert atriði á takteinum, og svo þaulhugsað, að búningurinn væri því sjálfskapaður.

Ekki er að efa það, að rausn mikil og híbýlaprýði hefur verið í Reykjaholti, og hefur Snorri þar ekkert viljað til spara. Sama veturinn og hann missir hundrað (120) nauta í Svignaskarði, heldur hann fjölment „jóladrykki eftir norrænum sið“ (Sturl. II, 142), og í ritum hans er greinilegt, hvert yndi hann hefur af að tala um veizlur og drykkjur. Þarf þar eigi annað en minna á hina glæsilegu lýsingu á fagnaðaröli því, er Ásta Guðbrandsdóttir gerði í móti Ólafi syni sínum. „Var sú veizla gör með inu mesta kappi“ (Ól. s. h., k. 34), smbr.: „þar var ok áfenginn mjöðr og mjök drukkit“ (Skáldskaparmál, kap.1). Hefur Snorra sjálfum þótt drykkurinn góður. Það er heilög vandlæting í svari Hárs, þegar Gangleri gerist svo fávís að spyrja: „Hvat hafa Einherjar at drykk, þat er þeim endisk jafngnógliga sem vistin, eða er þar vatn drukkit?“ Þá segir

Hárr: „Undarliga spyrr þú nú, at Alföðr mun bjóða til sín konungum eða jörlum eða öðrum ríkismönnum, ok myni gefa þeim vatn at drekka, — ok þat veit trúa mín, at margr kemr sá til Valhallar, er dýrt myndi þykkjask kaupa vatsdrykkinn, ef eigi væri betra fagnaðar þangað at vitja, sá er áðr þolir sár ok sviða til banans". Enda er hann ekki smátækur á drykkjarnöfnin, þar sem hann talar um „hreintjarnir horna" og „gamlar hunangsöldur" í Háttatali, 24. vísu. Og næsta vísa þess kvæðis sýnir gjörla, eins og vænta mátti, að Snorri var ekki neinn þambari, svo að honum væri allur drykkur jafnkær. Kemur manni í hug, að honum mundi jafnvel hafa þótt mjöðurinn góði í Valhöll fábreyttur til lengdar, þegar hann er að gera grein drykkjarfanganna í höll Hákonar:

Röst gefr öðlingr jastar,
öl virðik svá, firðum;
þögn fellir brim bragna,
bjór forn er þat, horna,
máls hann mildingr heilsu,
mjöðr heitir svá, veita;
strúgs kemr í val veiga,
vín kallak þat, galli.

Hér er vínið kallað strúgs galli (dramb-spillir), af því að það er „innri maður", og klæðir menn úr metnaðarhamsinum, og er ekki ólíklegt, að þetta hafi verið reynsla Snorra við hirðina. Og hann er ekki einungis minnugur á nautn drykkjarins, heldur líka eftirköstin. „En þar varð, sem jafnan verðr, þar er menn verða allmjök druknir, at inn næsta dag eptir varask flestir menn við drykkinn" (Ól. s. Tr., k. 43). Og Snorri veit vel, að það er hálft gaman, að ker sé samboðið drykk. Þessvegna gleymir hann ekki að geta þess í Háttatali (v. 91), að et fagra vín sé „silfri skenkt", og að „greipum mætir gullin skál". Fylgir

hvergi í því kvæði svo hugur máli og þar sem hann lýsir veizlum þeirra Skúla og Hákonar.

En ölteitin er ekki öll í drykknum og skálunum. Aldrei hefðu hornin orðið mönnum svo kær, ef þau hefðu ekki verið full „ljóða og líknstafa, góðra galdra og gamanrúna“. En um ölmál Snorra, þau sem sett hafa svip sinn á veizlurnar í Reykjaholti, þarf ekki löngum getum að leiða. Þó að hann tali fátt í eigin nafni í ritum sínum, bera þau þess óræk vitni. Þar hefur haldist í hendur fróðleikur og vit, gaman og alvara. En viljum vér hlusta eftir einkennunum á daglegu tali Snorra, verður að leita til Ganglera. Þó að Snorri geri hann undarlega fávísan í spurningunni um drykkinn, til þess að gera svar Hárs áhrifameira, þá er hann hold af hans holdi, og líkt því hefur Snorri sjálfur gert athugasemdir sínar. Eins og öllum andlegum mikilmennum hefur honum verið tamt að undrast, og hann hefur látið það óspart í ljós í tali sínu. „Þat veit trúa mín“, „svá njóta trú minnar“, geta vel hafa verið orðtök hans. „Þat er þeim geysihaglig geit, forkunnar góðr viðr mun sá vera, er hon bítr af“. „Undr mikit er þvílíkr höfðingi, sem Freyr er, vildi gefa sverð, svá at hann átti eigi annat jafngott; geysimikit mein var honum þat, er hann barðisk við þann er Beli heitir; þat veit trúa mín, at þeirar gjafar mundi hann þá iðrask“. Og á gamansemi Snorra, sem víða leggur blæ á rit hans, hefur vafalaust borið enn meira í tali hans. Það sem var grályndi og brigsl hjá Hvamm-Sturlu, en spaugsöm hæðni hjá Sighvati, er góðleg kýmni hjá Snorra. Og hann veit altaf hvað við á. Gangleri gerir engar athugasemdir við frásögn Hárs um Ragnarökkur. Það efni varð ekki stækkað með neinum undrunarorðum.

Þó að Snorri kunni að hafa verið örðugur í sambúð, vegna mislyndis síns, hefur hann samt verið skemtilegur á heimili, fyrir þá sem áttu hæfilega mikið saman við hann að sælda. Honum má vafalaust einkum þakka það að hafa miðlað málum milli Hallberu dóttur sinnar og Árna óreiðu, því að „ekki nýtti af henni um samvistir“, nema þegar þau voru í Reykja-

holti (Sturl. II, 76). Og hann hefur verið gestrisinn og glaður við þá sem að garði komu. Þegar menn hittu hann sjálfan að máli, var hann oftast auðveldur í skiftum. Þegar Sighvatur sækir hann heim, löngu eftir að frændsemin var tekin að kólna, gefur hann honum gullrekið spjót að skilnaði, „kvað það ófallið, að þeir skildi gjafalaust, svo sjaldan sem þeir fundust“ (Sturl. II, 213).

Af öllu þessu er skiljanlegt, að þótt Snorri ætti ekki svo trausta vini sem skyldi, hafi mörgum verið vel til hans, einkum þeim sem verið höfðu gestir hans og heimamenn. Og eftir víg hans var von, að þeim mönnum væri gramt í geði, og vildu gjarnan hefna hans. Ormur stjúpsonur hans vill ekki vera í fjörráðum við hann, þó að hann þættist rangindum beittur (Sturl. II, 350, smbr. þó III, 25). Sturla Þórðarson lætur son sinn heita Snorra, þykist skyldur að hefna hans, og vill í hvívetna bera honum vel söguna.

## X.

Ef dæma skal um feril Snorra í heild sinni, verða rit hans þyngst á metunum. Þar fann hann það takmark, sem var meira en eigin metorð, þar vann hann af háleitri, innri hvöt, og hugði sér lítt til lofs og ekki til launa fyrir. Þar var óðalið, sem hann var borinn til, og hefði hann fallið á þeirri eigu sinni, hefði hann verið heilagur eins og Ólafur Haraldsson. Margir mestu rithöfundar heimsins hafa lifað lífi sínu með sams konar upplag og Snorri, og ekki orðið að fundið. Þeir hafa ekki orðið að heyja baráttu íslenzks höfðingja á fyrra hlut 13. aldar. Og hafi þeir komist út í hringiðu veraldlegrar baráttu, eins og Bacon lávarður af Verulam, sem á margan hátt svipar til Snorra, hafa þeir ekki borið þaðan hreinna skjöld.

Og samt ættum vér sízt að óska, að Snorri hefði aldrei orðið höfðingi, heldur tekið þann kost að verða krúnurakaður klerkur eða kyrrsætinn búandmaður með hugann allan við fræði sín. Að vísu hefðu misfellurnar á æfi hans þá orðið

minni, verkin líklega fleiri og stærri, því að starfsþrekið hefur verið frábært. En bækur verða ekki metnar í pundum, og þeir rithöfundarnir eru ekki léttastir á metunum, sem leggja alla reynslu fjölbreyttrar æfi í eina eða tvær bækur. Verk Snorra hafa haft ómetanlegan ávinning af æfiferli hans, einmitt eins og hann var. Frásögn hans ber öll vott um smekkvísi höfðingjans, frjálsa hugsun og víðsýni. Hann er algerlega laus við kreddur, mærð og lærdómstildur. Hann skilur söguna ekki einungis með vitsmunum sínum, heldur með reynslu sinni. Hann hefur ekki einungis skrifað sögu, heldur líka lifað sögu. Þessvegna bera ræðurnar í söguritum hans og frásagnir um ráðstefnur og samninga af flestu öðru í þeirri grein. Og metorðagirnin, sem veldur svo mörgu í fari hans, leggur líka ljómann um höfðingjalýsingar hans. Hann var þar að lýsa því, sem hann helzt vildi vera, en aldrei auðnaðist á þann hátt sem hann hafði dreymt um. En í sagnarituninni héldu honum ekki sömu bönd og í baráttunni um metorð og völd. Sturla Sighvatsson og aðrir ribbaldar meinuðu honum ekki að láta höfðingsskap Ólafs helga, Þorgnýs lögmanns, Erlings Skjálgssonar og Einars þambarskelfis njóta sín. Einmitt á þennan hátt er mikið af því dýrmætasta í bókmentum heimsins til orðið. Þær hallir, sem menn fengu ekki bygt á jörðu, hafa þeir reist að því glæsilegri á friðlandi listarinnar.

---

Þriðji þáttur.

# Skáldskapur og Skáldskaparmál.

---

## I.

Fyrsta kvæði Snorra, sem sögur fara af, er líklega kvæði það um Sverri konung, sem Skáldatal eitt segir frá. Auðvitað hefði Snorri fyrir aldurs sakir getað ort kvæðið að Sverri lifandi, en þó er sennilegra, að það hafi verið erfidrápa, er hann sendi utan, líkt og Markús Skeggjason Eiríksdrápu sína. Af orðum Sturlungu, „gerðist skáld gott", virðist mega ráða, að ekki hafi verulega farið að bera á skáldskap hans fyr en hann var kominn að Reykjaholti. Þá yrkir hann kvæði um Hákon jarl galinn (um 1212), og síðan kvæðið Andvöku um frú Kristínu Nikolásdóttur, konu jarls. Um gjafir þær, sem jarl sendi Snorra að kvæðislaunum, orti Máni skáld vísu, sem enn er til (Sturl. II, 73). Öll eru nú kvæði þessi gersamlega týnd. Svo er einnig um kvæði um Inga konung Bárðarson og annað kvæða þeirra um Skúla Bárðarson, sem Sturlunga segir frá: „Snorri hafði ort um jarl tvö kvæði; alhend voru klofastef í drápunni:

Harðmúlaðr var Skúli
rambliks framast miklu
gnaphjarls skapaðr jarla".

En af hinu kvæðinu, hinni dýrstefjuðu drápu, er ekki annað geymt en stefið, sem nú var tilfært. Og hefur það varðveizt

vegna þess, að óvinir Snorra á Suðurlandi höfðu það í flimtingum, eins og áður er getið (smbr. Sturl. II, 88, 96).

Enn eru menjar eins kvæðis eftir Snorra. Ólafur hvítaskáld eignar honum í Málskrúðsfræði sinni þennan vísufjórðung:

Byskup heyr á bæran
bragþátt göfugs máttar —

og bætir við: „hér er sameiginligt nafn, byskup, sett fyrir eiginligu nafni Guðmundar''. Ekki verður með vissu af línum þessum ráðið, hvort þær muni vera úr kvæði um biskup sjálfan, eða helgikvæði, sem Snorri hefur flutt honum. En líklegra þykir mér, eftir hugarfari Snorra og vináttu hans við Guðmund Arason, að kvæðið sé ort um biskup sjálfan.

Ein af lausavísum Snorra, um fall frænda hans á Örlygsstöðum, hefur þegar verið tilfærð. Aðra vísu tilfærir Sturlunga (II, 165), þar sem hann hælist um Sauðafellsför Vatnsfirðinga. Þá segir Hákonar saga frá því, að Skúli hertogi bað Snorra yrkja vísu um Gaut Jónsson af Meli, og líkja honum við nafna sinn, Óðin. Þá kvað Snorri (Sturl. IV, 226):

Herfanga bauð Hringi
hjaldr einsköpuðr galdra
(Gautr hvatti þrym þreytta
þann) ok Hilditanni;
oflengi veldr yngva
ósætt, en vel mætti
herstefnandi hafna
hans dóm, völundr rómu.

Virðist sú vísa ort af munni fram. Enn er til vísa um Eyjólf Brúnason, sem áður er getið, og loks þessi vísuhelmingur:

Komk inn, þars sat svanni
svanna vænstr í ranni,
Gerðr leysti sú svarðar
svarðakr raðar garða.

Þó að kenningarnar (Gerðr svarðar garða raðar [kvenkenning], svarðakr [hár]) og hinn dýri háttur (dunhenda, smbr. Háttatal 24. v.) skyggi hér á myndina, er þó gaman að eiga hana til minja um smekk Snorra á kvenlega fegurð.

Þá vík ég að Háttatali, hinu mikla kvæði, sem Snorri orti um þá Hákon konung og Skúla jarl á árunum 1221—23, og nú er þriðji og síðasti hluti Snorra-Eddu.

Háttatal er 102 vísur. Það skiftist í raun og veru í þrjú kvæði, hið fyrsta (1.—30. vísa) um Hákon konung, annað (31—66. v.) um Skúla jarl og þriðja (67—102. v.) um þá báða, konung og jarl. Sökum hinna sífeldu háttaskifta varð stefjum varla komið að í kvæðinu. Þó er klofastef í v. 68 og 70: Fremstr var Skúli — skjöldunga ungr, og er bent á það í athugasemdunum. En á hitt er ekki bent, að tvö síðustu vísuorðin í 82. v. (skatna skýrstr | Skúli dýrstr) koma aftur í breyttri mynd (samkvæmt kröfum háttarins) í 94. v.:

Ragnarr þótti skatna skýrstr,
Skúli jarl er miklu dýrstr.

Og virðist þetta eiga að vera eins konar stef.

Háttatal er ekki einungis lofkvæði um höfðingja, heldur líka partur af Snorra-Eddu. „Tvenn eru kyn þau, er greina skáldskap allan: mál ok hættir". Frá málinu var sagt í Skáldskaparmálum, en hættirnir voru eftir. Snorri hefði að vísu getað bjargast við dæmi frá eldri skáldum, smbr. tilvitnanirnar í Þórarinn Máhlíðing og Klæng biskup. En það hefði aldrei orðið eins fullkomið kerfi, jafnvel þó að hann hefði tekið Háttalykil þeirra Halls og Rögnvalds jarls. Snorri sló því tvær flugur í einu höggi með kvæðinu. Hann orti kvæði um þá Hákon og Skúla, sem var jafnstórkostlegt í sinni röð og viðtökur þær, sem hann hafði hlotið í Noregi og var nú að þakka fyrir. En hann hafði sífelt Eddu sína í huga ekki síður en þá konung og jarl. Efnið var þeim helgað, Eddu formið.

En efnið í Háttatali er heldur létt á metunum. Það var

bæði, að afrek þeirra Hákonar og Skúla voru ekki stórkostlegt yrkisefni, enda verður Snorra lítið úr þeim. Hin fáu sögulegu atriði drukna í hinni efnislausu mærð, sem teygð er í þetta langa kvæði, þar sem alt verður að lúta kröfum háttanna. Að vísu eru ýmsir góðir sprettir í kvæðinu, sumsstaðar yrkir málið fyrir Snorra og minningarnar um hallargleðina og sóma þann, sem hann hafði hlotið, og gleðin yfir að hafa ort þetta mikla kvæði, slá bjarma á sumar vísurnar. En ef maður les ekki Háttatal Snorra vegna, til þess að hlera eftir einhverju, sem gæti lýst manninum, þá er það dapurlegur lestur. Og því er svo í tíma komið, að það á sér ekki einu sinni hið málfræðilega og sögulega gildi, sem eldri kvæði eiga. Það er talsvert til af íslenzkum handritum eldra en það, og það bætir engu við Hákonar sögu eftir Sturlu, né þarf þess við til þess að staðfesta frásögn hennar.

En hver aufúsusending ætli þeim Hákoni og Skúla hafi verið í kvæðinu? Hákoni hefur að maklegleikum löngum verið hallmælt fyrir þann þátt, sem hann átti í því að ráða Snorra af dögum, og m. a. hefur þá verið mint á, að Snorri hafi ort ódauðlegt lof um konung. Mönnum verður ósjálfrátt að bera saman sakir Egils við Eirík blóðöx og Snorra við Hákon, launin fyrir Höfuðlausn og Háttatal. En hér er margs að gæta. Dróttkvæðin voru að missa vald sitt yfir hugum manna, þau voru list, sem hafði lifað sitt fegursta, og fór enn hraðar hnignandi vegna þess, að hirðin skildi þau ver en fyr og mat þau minna. Væru kvæðin ekki lærð af hirðinni, voru þau einskis virði, en hver ætli hafi lært Háttatal, svo langt sem það var og efnislítið? Hákon horfði suður. Hann mægist við konunga Evrópu, semur sig að suðrænum siðum, lætur þýða rómanskar bókmentir á norrænu. Hann hefur enga tilfinningu haft fyrir dróttkvæðum, tekið við þeim og launað þau fyrir siða sakir, vegna íhaldssamari hirðmanna sinna, vitað þau spiltu engu. Hann hefur framar öllu litið á Snorra sem pólitískan erindreka sinn, þó að hann hefði líka mætur á honum

sem skemtilegum gesti. Á 10. öldinni gátu konungur og óvinur hans staðið hvor andspænis öðrum sem einstaklingar. Þegar Snorri hafði óhlýðnast Hákoni, var það einstaklingur, sem stóð gegn ríkinu, og ríkið átti sér aðra og miklu æðri tegund réttar. Það var því ekki við að búast, eins og á stóð, að Háttatal gæti orðið Snorra Höfuðlausn.

Til þess að gera sér nokkra grein fyrir gildi Háttatals frá bragfræðinnar sjónarmiði, er gott að bera það saman við annað og eldra kvæði af sama tæi, Háttalykil Halls Þórarinssonar breiðmaga og Rögnvalds kala Orkneyja jarls. Háttalykill er því miður aðeins til í mjög ófullkomnu pappírshandriti, endinn vantar alveg og margar vísurnar ekki nema brot. Til eru 82 vísur og vísnabrot með 41 hætti, en gizka má á, að kvæðið hafi verið rúmar 90 vísur.

Snorri byrjar á dróttkvæðum hætti, skoðar hann sem „upphaf allra hátta“. Þeir Rögnvaldur byrja á ljóðahætti og kviðuhætti, og er það nær eðlilegri þróun háttanna. En annars er röð háttanna hjá þeim að mestu leyti af handahófi, svo að náskyldir hættir standast þar fjarri, en ólíkir saman. Aftur á móti raðar Snorri háttunum furðu skipulega, þó að elztu og upprunalegustu hættirnir komi ekki fyr en síðast. Hann brestur skilning á sögu háttanna, en hin skýra hugsun hans bregst honum ekki.

Auðvitað hefur Snorri þekt Háttalykil, enda má svo að orði kveða, að allir hættir þeirra Rögnvalds standi líka í Háttatali. Núfuháttur er eina undantekningin. Það er afbrigði af dróttkvæðum hætti, þar sem einskonar viðlagi er bætt við báða vísuhelminga: nema ek ljúga, en ek mun eigi ljúga — nema ek þegja, en ek mun eigi þegja. Þessi viðlög minna bæði á síðari tíma viðlög: það er í minni, það er í manna minni, og daglegt mál: ef ég lifi, sem ég veit ég lifi. Sennilega bendir þessi háttur til forns alþýðukveðskapar, sem tízkan hefur ekki leyft að geymast. Og Snorra hefur þótt hann of óreglulegur til þess að hafa hann í lofkvæði.

Refhvörfin eru gott dæmi þess, hvernig Snorri notar sér eldri hætti. Í Háttalykli eru tveir hættir, refrún en minni (20 a—b) með tvennum andstæðum í vísu, og refrún en meiri (28 a—b) með fernum andstæðum (t. d.: góðr — illr, seint — skjótt), en ekki standa þeir saman í kvæðinu. Í Háttatali eru refhvarfahættirnir orðnir 6 (17—22. v.) og einn refhvarfabróðir (23. v.), og Snorri byrjar einmitt (samkvæmt anda háttaskipunar sinnar yfirleitt) á mestu refhvörfunum. Þar er vísan saman sett af tómum andstæðum, 16 talsins, og má hiklaust telja það mesta bragþraut á íslenzku, og ef til vill öllum tungum. Af athugasemdunum má sjá, að Snorri hefur skapað þetta afbrigði refhvarfanna. Hér sem víðar hefur hann ekki gert annað en framlengja þær línur, sem dregnar voru af fyrirrennurum hans.

Þá notar Snorri hina víðtæku þekkingu sína á dróttkvæðunum til þess að koma með hætti, sem vantar í Háttalykil, a. m. k. í núverandi mynd hans. Svo er t. d. um hjástælt (13. v.), þar sem 5 samstöfur síðast í hvorum vísuhelmingi skulu vera sér um mál, og skal orðtak vera forn minni. En með þessum hætti orti Kormakur Sigurðardrápu. Og líkt er um fornskáldahættina, sem svo eru kallaðr, að þar eru tekin afbrigði, sem fyrir hafa komið í gömlum kvæðum. En Snorri myndar í samræmi við þau hætti með föstum reglum. Annars er mikið af því, sem Snorri telur sérstaka hætti, í raun og veru ekki bragfræðileg afbrigði, heldur er orðaskipan og stíl breytt á ýmsan hátt. Og þar hefur hann aukið talsverðu við það, sem áður var til. Verulegar háttanýjungar eru fáar. Nýi háttur (73. v.) er í raun og veru ekki annað en afbrigði af grænlenzka hætti (71. v.), sem líka stendur í Háttalykli. Merkilegri er skammi háttur (72. v.), þar sem áherzlusamstöfur eru stuttar í annari hverri línu. Hin minsta runhenda (82. v.) kemur ekki fyrir nema í Háttatali.

Háttatal er sá þáttur Eddu, sem minst áhrif hefur haft á bókmentirnar og minst gildi hefur fyrir vísindi nútímans. Auð-

vitað er merkilegt að hafa þarna dæmi ‚allra hátta‘ (100. v.), sem Snorri þekti, fornra og nýrra, háttaskipan hans er merkileg í sjálfu sér og eins háttanöfnin, sem sum eru forn, sum breytt og sum búin til af honum. Eins eru athugasemdirnar góðra gjalda verðar, ekki sízt vísnaskýringarnar. En verulegt skarð í bragfræðisþekkingu vora mundi það ekki vera að missa Háttatal

Þannig hefur Snorri mist marks með Háttatali, bæði sem lofkvæði og fyrirmynd handa skáldum. Og listargildi kvæðisins bætir ekki úr. Snorri hefur verið skáld að eðlisfari, eins og hann átti kyn til í ýmsar ættir. Vald hans á formi, hugkvæmni hans á orð, er framúrskarandi, og rit hans í sundurlausu máli bera listfengi hans órækan vott. En í kvæðunum vantaði hinn heilaga eld tilfinninganna til þess að gefa honum frelsi og djörfung og brenna af honum öll óeðlileg bönd. Í stað þess beygði hann sig undir ok listarstefnu, sem frá upphafi hafði verið á villustigum og var auk þess fyrir löngu búin að lifa sitt fegursta. Hann varð skáld af lærdómi og eigin ástundun, beitti hæfileikum sínum við ófrjó efni í ófrjóum búningi, þar sem að eins lökustu hliðar þeirra nutu sín. Lausavísur hans og beztu vísurnar í Háttatali gefa aðeins hugmynd um, hvað hann hefði getað skapað, ef hann hefði tekið aðra stefnu.

En sjálfur skildi Snorri þetta ekki. Hann vissi, að Háttatal var ekki einungis lengst, heldur líka torgerðast allra dróttkvæða. Hann getur ekki orða bundist að láta álit sitt hvað eftir annað koma fram í kvæðinu (67, 95—100 v., smbr. að framan 46—47), einkum í kvæðislokin eftir að allir örðugleikar voru sigraðir og hann lék sér að hinum léttu háttum. Hvernig átti hann að gruna, að dómur sögunnar yrði sá, að öll kvæði hans týndust, nema Háttatal eitt, og það geymdist að eins af því að það var partur af Eddu, og væri helzt lesið af því að það var eftir höfund Gylfaginningar og Heimskringlu?

Sagan getur stundum ýtt svo hart við manni, að hann líti eins og nývöknuðum augum á lífið. Hvað er lífvænlegast af því,

sem upp er að vaxa í kringum oss? Ekki það sem mest drambar, rakið getur ættartölu sína lengst aftur í tímann, heldur það sem er runnið dýpst úr manneðlinu á sem einfaldastan hátt. Það eru til einstök tilsvör og setningar í ritum Snorra, sem hann hefur skrifað fyrirhafnarlaust og án þess að íhuga gildi þeirra, en vér vildum nú ekki skifta á fyrir alt Háttatal. Samt er kvæðið stórkostleg leif aldar sinnar á sinn hátt. Það er merkileg tilraun mikils manns að blása nýju lífi í deyjandi list með því að auka einmitt verstu galla hennar úr hófi. Það mænir upp úr myrkri aldanna eins og geysimikill viti, sem segir: komdu ekki nærri mér!

## II.

Það er bágt að segja, hvort réttara er að komast svo að orði, að óðfræði Snorra sé runnin af skáldskap hans eða skáldskapurinn af óðfræðinni. Þau eru jafntengd og vísindi og list í sagnaritun hans. Þó að Snorri hefði ekki ort, hefði fræðimenska hans vafalaust leitt huga hans að kvæðum og skýringu þeirra. En hann hefði þá varla samið Eddu. Og þó að Snorri hefði verið minni fræðimaður, hefði skáldgáfa hans og þekking sú, sem allir áttu kost á, vel enzt honum til þess að yrkja. En hann hefði þá aldrei ort Háttatal.

Þó að Snorra-Edda sé fyrsta rit um íslenzka skáldskaparfræði, þá er fræðin sjálf miklu eldri, jafngömul dróttkvæðastefnunni í skáldskapnum. Þau kvæði eru miklu flóknari reglum háð en menn gera sér alment grein fyrir, og verða aldrei rétt skilin, ef menn miða við hin einföldu og ósjálfráðu lög, sem forn alþýðukveðskapur lýtur. Skáldskapurinn var íþrótt „vammi firð“, „heilagt Hrafnásar full“, sem menn lögðu stund á með trúarlegri lotningu. Óðinstrú og skáldskapur voru nátengd. Og fyrirlitningin á leirskáldunum, skáldfíflunum, ber vott um hina sterku stéttartilfinningu skáldanna.

Af tveim þáttum óðfræðinnar var bragfræðin miklu umfangsminni. Háttatal og athugasemdirnar við það sýna bezt, að

það voru einkanlega afbrigði háttanna og heiti þeirra, sem þurfti að læra. Undirstöðuatriði eins og setning stuðla og höfuðstafa, um áherzlur og samstöfulengd, voru þann veg vaxin, að sá sem ekki lærði þau af sjálfum sér með því að heyra kvæði, gat aldrei orðið skáld. Aftur á móti varð að læra skáldamálið. Og þar var ekki nóg að læra af kvæðum annara, því að mikið af frumleik skáldanna var einmitt í því fólgið að koma með nýjar kenningar, og heldur ekki heitin máttu vera of algeng.

Skáldamálið er hérumbil tóm nafnorð. Þau orð, sem skáldin nota af öðrum flokkum og ekki tíðkuðust í sundurlausu máli, voru örfá. Að heyja sér orðafjölda var þá fyrst og fremst að læra sem mest af *heitum,* en þau voru ýmist nöfn (t. d. sækonunga heiti) eða fátíð samnefni. Elztu menjar óðfræðinnar eru einmitt söfn af slíkum heitum, Eddukvæðin Grímnismál og Alvíssmál og Þulurnar, sem svo eru nefndar og nú fylgja Eddu, en vafalaust eru (mikill hluti þeirra) talsvert eldri (smbr. Sophus Bugge, Biskop Bjarne Kolbeinssön og Snorres Edda, Aarböger 1875, og ritgerð Finns Jónssonar, Um Þulur og gátur, í afmælisriti til Maurers: Germanistische Abhandlungen, Göttingen 1893). Benda þær, t. d. eyja heiti og á heiti, á furðu mikinn og einkennilegan fróðleik. Með þessum heitum var nú auðvelt að setja saman fjölda af kenningum. Sækonungs hestur eða sævar hestur var skip, og með því að nota ýmis heiti eða kenningar á sækonungi, hesti og sæ mátti breyta þessu á ótal vegu.

En sumar kenningar voru örðugri viðfangs en þetta. Þær áttu sér sína sögu, og varð að fara gætilega með þær. Hversvegna mátti kalla gull „mál jötna" og breyta því á ýmsa vegu? Og hversvegna var „Grana byrður" gull, en ef sett var annað hestnafn í stað Grana, þá merkti það ekki annað en venjulegar klyfjar? Þetta varð ekki skilið af tómum nafnaþulum. Til þess lágu sögur. Til þess að geta myndað allar kenningar og hafa fult vald á þeim, urðu þá ung skáld að leita til sömu linda og eldri skáld höfðu gert, læra goðafræði og hetju-

sögur. Jafnvel einstakir *hættir* gátu heimtað slíka þekkingu á fornum minnum (sjá að framan um „hjástælt"). Þannig varð undirstaða skáldskaparmálsins furðu margbreytt, og hið nána samband goðafræði og skáldskapar hélzt eftir að kristni var í lög tekin

Edda Snorra er að því leyti frumlegra verk en konungasögur hans, að menn vita ekki um neitt skrifað verk um það efni fyrir hans daga. En annars eru bæði verkin á margan hátt líkt vaxin. Í báðum skapar hann úr gömlu efni stærri og samfeldari heild en áður hafði verið til, í báðum tilfærir hann fjölda af kvæðum til sönnunar máli sínu og greinir milli ýmissa tegunda af heimildum. Og Edda hefur eins og Heimskringla ýmiss konar tilgang. Eins og Snorri með konungasögum sínum rís að nokkru leyti gegn stefnu samtíma síns og skipar sér undir merki Ara (smbr. Sjötta þátt, XII. kap.), er Edda líka íhaldssamt verk. Sú stefna, að fækka kenningunum, bæði til þess að yrkja ljósar og af því að þær voru sóttar í heiðnar goðsögur, kemur bæði beinlínis og óbeinlínis fram í Lilju, og hefur auðsjáanlega verið farin að gera vart við sig á dögum Snorra. Að því lúta orð hans í lok 1. kap. Skáldskaparmála: „En ekki er at gleyma eða ósanna svá þessar frásagnir, at taka ór skáldskapinum fornar kenningar, þær er höfuðskáldin hafa sér líka látit", smbr. 2. kap.: „Nú skal láta heyra dæmi, hvernig höfuðskáldin hafa *látit sér sóma* at yrkja eptir þessum heitum ok kenningum". Fyrir utan íhaldssemi Snorra, kemur hér til greina frjálslyndi hans, sem ekkert fann athugavert við hinar heiðnu kenningar, og stéttartilfinning skáldsins, sem hvorki taldi það eftir ungum skáldum að læra að beita hinu forna skáldamáli, né alþýðu manna að læra að skilja það.

Og tilgangur Eddu er einmitt ekki einungis hagnýtur, að kenna að yrkja, heldur líka sá að kenna að skilja kvæði: „þat er hulit er kveðit". Enn í dag er Edda hentugasti inngangur að vísindalegu námi dróttkvæðanna. En auk þess varð Snorra það bæði sjálfrátt og ósjálfrátt að láta fróðleik sinn og list

njóta sín fram yfir það, sem þessi takmörk kröfðust, og mun vikið nánar að því í næsta þætti.

Áhrif Eddu á íslenzkar bókmentir urðu geysimikil. Hún virðist vera eitt af þeim ritum, sem fyrst öfluðu óvísindalegum fornfræðum virðingar, og ruddu þannig braut ekki einungis skrásetningu fornaldarsagna, heldur líka Eddukvæðanna. En sjálfur hefur Snorri ekki getað séð þetta fyrir. Utan um Eddu safnaðist alt það, sem á íslenzku var ritað um málfræði og skáldskap. Og þó að Snorra lánaðist ekki að skapa dróttkvæðunum nýja blómöld með Háttatali, þá stuðlaði hann að því með Skáldskaparmálum að halda hinu forna skáldamáli lifandi, og í rímunum fékk það óvænta endurreisn. Um Eddu, Eddu-list, Eddu-reglu o. s. frv. er talað í íslenzkum kveðskap alt frá 14. öld og fram á þá 19. Og þó að samhengið í bókmentunum væri að vísu órofið, mundi skáldamál síðari alda samt hafa borið annan svip, ef ekki hefði verið til slík kenslubók, sem Edda var, sem hver kynslóðin eftir aðra jós úr, beinlínis og óbeinlínis. Edda hefur einmitt gert meira en nokkur önnur bók til þess að vernda þetta samhengi í skáldskapnum. En hvort áhrif hennar á íslenzka skáld*list* hafa verið holl að sama skapi, er vafasamt, og ekki rúm til þess að ræða það mál hér.

## III.

Snorri hefur upprunalega ætlað sér að skrifa Skáldskaparmál í samtalsformi, á sama hátt og Gylfaginningu. En hann hefur horfið frá því, svo að víða vantar spurningarnar í byrjun kapítulanna, einkum er á bókina líður. Umgerð sú, er hann valdi sér hér: að láta þá Braga og Ægi hafa jafnlangar og vísindalegar rannsóknir á skáldskap að ölmálum — var ekki heppileg. Ægir virðist ekki sjálfkjörinn lærisveinn í óðfræði, og samtal þeirra Braga átti sér enga sögu, né eðlilegan endi, eins og samtal Ása og Ganglera, svo að skiljanlegt er, að Snorri gleymdi þeim smátt og smátt.

En þetta bendir undir eins á, að Skáldskaparmál megi ekki skoða sem listarheild á borð við Gylfaginningu. Enda væri fjarri allri skynsemi að gera slíkar kröfur. Þó að efni Skáldskaparmála leyfði vissa niðurskipun, þá varð það samt altaf sundurleitt og samsett úr óteljandi brotum. Úr því varð ekki fremur samsett heild, sem nútíðar ritskýrandi hvergi gæti fett fingur út í, en reipi verða fléttuð úr sandinum. Það er því létt verk og löðurmannlegt að geta þess til, að þessi og þessi kapítuli sé fleygaður inn eftir daga Snorra, en sannanirnar verða oftast að því skapi léttvægar. Því má heldur ekki gleyma, að samhengi og samræmi Gylfaginningar er að nokkru leyti fengið á kostnað Skáldskaparmála. Þær sögur, sem Snorra fanst mundu raska um of hlutföllum Gylfaginningar, geymdi hann til Skáldskaparmála, og hann vísar beinlínis til þeirra í 26. kap. (um rán Iðunnar). En í Skáldskaparmálum varð ekki vísað til neins síðara parts. Þar varð að taka efnið með, hvað sem hlutföllum og skipun leið, eða alls ekki að öðrum kosti.

Nú eiga að vísu margar sögurnar í Skáldskaparmálum þar vel heima, og gátu alls ekki staðið í Gylfaginningu. Svo er einmitt um hetjusögurnar, sem settar eru í samband við gullkenningar (oturgjöld o. s. frv. k. 39—41, mjöl Fróða k. 42, sáð Kraka k. 43) og orustukenningar (Hjaðningavíg k. 49). Eins má telja, að sagan um upphaf skáldskaparins (skáldamjaðarins) sé vel fallin til þess að vera inngangur Skáldskaparmála, þó að hún sé goðasaga. Öðru máli er að gegna um söguna um rán Iðunnar og hvernig Skaði var tekin í tölu Ásynja. Hún átti alveg eins að standa í Gylfaginningu og k. 37, um Frey og Gerði, en hitt er torskilið, hversvegna Bragi hefur nú mál sitt með henni. Eins verður ekki sagt, að sögurnar um Þór og Hrungni og Geirröð séu nauðsynlegar til skýringar Þórskenningunum (kenningar eins og bani Þrívalda, fóstri Vingnis og Hlóru, eru látnar óskýrðar), enda alveg af sama tæi og Þórssögurnar í Gylfaginningu. Og söguna um dýrgripi goðanna (hadd Sifjar o. s. frv., k. 35) hefði verið gild ástæða til þess

að segja fyr, í sambandi við Mjölni og Skíðblaðni. En slíkar athugasemdir eru, eins og áður er tekið fram, engar röksemdir fyrir því, að þessum köflum hafi verið bætt inn í Eddu eftir daga Snorra. Það er misskilningur á eðli bókarinnar, að halda að Snorri hafi verið svo þrælbundinn við aðaltilgang hennar, að hann hafi endilega hætt við söguna um Niflunga, þar sem lokið var að segja frá tildrögum gullskenninganna (í miðjum k. 41). Hitt er miklu sennilegra, að hann hafi viljað segja söguna til enda, eins og hún nú stendur, úr því að hann kunni hana, einmitt sögunnar vegna. En auk þess eru nöfn þeirra Sörla og Hamðis mjög við höfð í kenningum, þótt ekki séu það gullskenningar.

Um heimildir Skáldskaparmála get ég verið fáorður. Mikið af þeim er tilfært, sumt með öllu ókunnugt. Suma kaflana er hægt að bera saman við aðrar frásagnir um sama efni, Völsunga sögu, Hrólfs sögu kraka o. fl. En hvergi er eins mikið að athuga og fylla upp í til skilningsauka og víða er í Gylfaginningu. Þar er frásögnin oft sett saman úr molum, sem erfitt er að bræða saman. En sögurnar í Skáldskaparmálum eru alt samhangandi frásagnir, og list Snorra nýtur sín þar oft í bezta lagi.

Um sumar sögurnar hefur Snorri bæði haft kvæði, og sögusagnir, sem kvæðunum hafa fylgt til skýringar og viðauka. Af skrifuðum heimildum hefur hann áreiðanlega notað Skjöldunga sögu, eins og hann hefur líka gert í Ynglinga sögu og formála Gylfaginningar. Eftir henni eru skrifaðir kaflarnir um Fróða og Hrólf kraka (42—43, smbr. þó Aarböger 1894, 142 og 153). Þá hefur Finnur Jónsson (Aarb. 1917, 16—36) reynt að leiða rök að því, að til hafi verið stutt Sigurðar saga Fáfnisbana, sem sé sameiginleg heimild Snorra-Eddu og óstuðluðu kaflanna í Codex Regius af Eddukvæðunum.

Kvæðaþekking sú, sem kemur fram í Skáldskaparmál-

um, er stórkostleg. Þar er vitnað í kvæði 60 skálda, og það mun örðugt að benda á nokkurt skáld, sem verulega kveður að, og Snorri hefur ekki tekið eitthvað frá. Og ef gætt er að því, hve mikið af vísum er sameiginlegt fyrir Eddu og Heimskringlu, þá verður það furðu lítið. Það sýnir, að gnótt var af að taka. Um mörg skáld vitum vér nú ekkert, nema þá mola, sem Snorri lætur detta af borðum sínum, um leið og hann færir sönnur á einhverja kenningu. Engan mundi renna grun í, að Brennu-Njáll hefði á unga aldri verið í sæförum og harðræðum, ef vísuhelmingur í Skáldskaparmálum benti ekki til þess. Og þeim eigum vér að þakka öll dróttkvæði og kvæðabrot um goðasöguleg efni, þótt sumum þeirra kunni að vera bætt þar inn í eftir daga Snorra. Stundum verður oss að óska, að Snorri hefði vitnað meira í eldri skáldin, því að efalaust hefur hann kunnað kvæði þeirra heil, og minna í kvæði Einars prests Skúlasonar, frænda síns. En Einar var höfuðskáld sinnar aldar, og skáld að Snorra skapi, og vort sjónarmið var ekki Snorra sjónarmið.

Ég vík þá að röðun skáldamálsins og skiftingu þess, og fyrst að skiftingunni í kent og ókent. Samkvæmt henni eru Skáldskaparmál í tveim hlutum, fyrri hlutinn (k. 2—52) um kenningar, hinn síðari (k. 53—74) um „ókenda setning skáldskapar“.

Yfirleitt má segja, að skiftingunni sé stranglega fram fylgt í fyrra hlutanum, svo að heitum sé þar ekki blandað saman við kenningarnar. Þó eru undantekningar frá þessu: Alföður, Þriði, Yggur, Hroptur (k. 2), Vanur (um Frey, k. 7), húskarlar (hirðmenn, k. 52) eru heiti og ekki kenningar. Aftur á móti er allmikið af kenningum meðal heitanna í síðara hlutanum. Á þessu má auðvitað ráða bót með því að skoða allar þessar kenningar yngri viðbætur, en í raun og veru er slíkt hin mesta fjarstæða. Afstaðan er hér hin sama sem áður var bent á um Gylfaginningu og Skáldskaparmál. Það var engin freisting fyrir Snorra að taka heiti meðal

kenninganna, meðan heita-kaflinn var enn óskrifaður. En þegar honum duttu í hug kenningar, meðan hann var að semja kaflann um heitin, þá var um tvent að velja: annaðhvort geta þessara kenninga alls ekki í Eddu, eða þá taka þær meðal heitanna. Og Snorri hafði sem vísindamaður aldrei verið undir prússneskum aga: þó að hann hefði gert slíka skiftingu, þóttist hann vera bærari að ráða yfir henni en láta hana ráða yfir sér, og lét hana því blátt áfram lúta í lægra haldi, þar sem tilgangi bókarinnar var það fyrir beztu. Auk þess var Snorri að vísu óvenjulega skýr í hugsun, en hann var samt menskur maður, og gat fatast, einkum þegar hann varð að koma skipulagi á jafnsundurleitt efni og skáldamálið með þeirri vinnuaðferð, sem hann hefur haft. Ef Snorri hefði safnað efninu í Skáldskaparmál á seðla, skrifað það svo af seðlunum á kver með stórum spássíum o. s. frv., eins og Müllenhoff gerði ráð fyrir og eins og nútíma vísindamaður mundi gera í hans sporum — þá hefði honum a. m. k. verið vorkunnarlaust að hafa skiftinguna í kent og ókent hreina, því að hún var honum fullljós. En svo hefur Snorri alls ekki unnið. Hann hefur sett Eddu saman í huga sér, án svo mikils sem skrifaðs yfirlits, hægt og vandlega, en svo, að hið skrifaða varð hvorki aukið né aftur tekið fyr en eftirrit var tekið af bókinni. Einmitt þær aðfinslur, sem Müllenhoff og fleiri hafa komið með við röðun kenninganna í Konungsbók, sem að öllu samtöldu er bezta handrit Eddu, styðja þessa skoðun um samsetningu bókarinnar. Það var ekki Snorra um megn að semja hana á þennan hátt, með þeim göllum, sem á henni eru. Og þó að Skáldskaparmálum væri raðað eftir frumvarpi Müllenhoffs, eins og hann hugsaði sér að Snorri hefði hugsað sér, þá væri það vafalaust á færi einhvers annars ritskýranda að benda á marga galla á því, og jafnvel færa rök að því, að svo hefði öðrum eins manni og Müllenhoff aldrei getað dottið í hug að skipa efninu, heldur hlyti einhver lærisveina hans að hafa spilt bókinni!

Miklu athugaverðari en aðfinslurnar að skiftingunni í kent og ókent og skipun kenninganna, eru skoðanir þær, sem ríkjandi eru um skiftingu ókendu heitanna í heiti og fornöfn. Í fyrsta kap. Skáldskaparmála segir Bragi: „Þrenn er grein skáldskaparmáls. — — Svá, at nefna hvern hlut sem heitir; önnur grein er sú, er heitir fornöfn; en III. málsgrein er sú, er kölluð er kenning“. Samkvæmt þessu er nú Skáldskaparmálum venjulega skift í þrjá bálka í útgáfum, kenningar, heiti (k. 53—66), fornöfn (k. 67—74). Og Finnur Jónsson segir um þessa skiftingu í hinni miklu bókmentasögu sinni, (II, 691): „Það liggur í augum uppi, að eðlilegast og einfaldast er að skifta skáldamálinu í þrjá flokka, einmitt þá, sem Snorri nefnir undir eins: 1) kenningarnar, 2) nöfn hluta, sem ekki voru höfð í daglegu máli, heiti, 3) samnefni, sem tekin voru úr daglegu máli, en báru þó mörg þeirra skáldlegan blæ og svip, og voru ekki hversdagslegt mál, fornöfn[1]). Þessa sjálfsögðu skiftingu sást Snorra, eins og sagt hefur verið, ekki yfir“.

Ég hef viljað tilfæra þessi ummæli, bæði af því að þau eru eftir mesta núlifandi sérfræðing í fornu skáldamáli og af því að þau eru þó tilraun til þess að gera grein fyrir muninum á heitum og fornöfnum. En því fer fjarri, að þessi skifting leiði af sjálfri sér. Engum hefði dottið hún í hug, ef menn hefðu ekki þózt finna hana í 1. kap. Skáldskaparmála. Samkvæmt greinargerð Finns Jónssonar er munurinn á heitum og fornöfnum hverfandi, og skýringin á fornöfnunum óljós. En jafnvel þó að reynt væri að færa alt til bezta vegar, og láta heiti vera fágætari skáldaorðin (t. d. þau sem upprunalega

---

[1]) á dönsku: „2)enkeltbenævnelser — der ikke tillige brugtes i daglig tale — heiti. 3) endel fra daglig tale hentede synonymer, hvoraf dog flere har en mera poetisk farve og klang, og som man ikke uden videre kunde bruge i tale, fornöfn“.

höfðu verið sérnefni) og fornöfnin hin algengari, þá finnur sá skilningur enga stoð í síðara hluta Skáldskaparmála. Ef á að skifta honum um kapítulaskiftin 66/67, svo að heiti séu fyrir framan og fornöfn fyrir aftan, þá verða orð eins og: lof (k. 53), máni (55), land (56), hret, vindur (58) o. s frv. þaðan af tíðari, heiti, en meðal fornafnanna eru jafnfágæt orð og: lifri, ofsköpt, einkili, jóðdís, örmjöt, grellskap, gessni o. s. frv. Þá verða líka manna heiti ókend (k. 65) heiti, en kvenna heiti ókend (k. 68) fornöfn, og eins heiti líkamshluta og hæfileika mannsins! Niðurstaðan af slíkri athugun hlýtur að verða sú, að þó að Snorra hafi í svip dottið í hug að skifta skáldamálinu í þrjá flokka, þá hefur hann ekki skift því nema í tvo: kenningar og heiti. Samkvæmt því stendur líka í Uppsalabók: „Hvat heitir mál skáldskaparins? Bragi segir: Tvent, kent ok ókent“. En þetta hygg ég sé ekkert annað en umbót skrifarans, gerð í samræmi við þá flokkun, sem hann sá, að haldið var í bókinni. ‚Heiti‘ eru í raun og veru öll nöfn hluta, samnefni og sérnefni, fátíð og algeng. En til skáldamálsins teljast í strangasta skilningi ekki önnur samnefni en hin fátíðari og ekki önnur sérnefni en þau sem nota má sem samnefni (hesta heiti o. s. frv.), a. m. k. í kenningum, og svo goðaheiti, þar sem einstakir guðir eiga mörg nöfn. En nú er eftir að reyna að skýra ‚fornöfn‘ nánar, og við hvað er átt með þrískiftingunni í 1. kap. Skáldskaparmála.

Í kap. 31 segir svo um mannkenningar: „Hann skal kenna við verk sín, þat er hann veitir eða þiggr eða gerir; hann má ok kenna til eignar sinnar, þeirar er hann á ok svá ef hann gaf, svá ok við ættir þær, er hann kom af, svá þær, er frá honum kómu“. Síðan er gerð nánari grein fyrir, hvernig kenna skuli mann við verk sín og nokkuð um hvernig kent sé við eignir, en engin grein fyrir, hvernig kent sé við ætt og uppruna (smbr. Müllenhoff, Deutsche Altertumskunde, V, 195). Ástæðan er auðsæ: Snorri er hér að tala um almennar mannkenningar. Nú var mikið af verkum og eignum öllum mönnum

sameiginlegt, eins og bent er á í dæmum þeim, sem á eftir fara, en talsvert af eignum og alt ætterni mundi gera kenninguna sérkenningu, svo að hún ætti ekki nema við vissan mann. Og því fer Snorri ekki lengra út í þá sálma. En samt var þetta meginatriði í skáldamálinu. Allar kenningar Ása og Krists eru sérkenningar, og algengt var að kenna, ekki einungis konunga (eins og Snorri bendir á í k. 52, v. 294—301), heldur alla menn. sem um var kveðið, á þennan hátt. Þetta var sérstök tegund kenninga, í henni var engin samlíking fólgin. En hvernig átti að skýra nánar frá henni, öðruvísi en með því að benda á, hvernig hún væri mynduð, eins og gert er í 31. og 52. kap.? Auðvitað mátti vel taka einstakan mann, t. d. Hvernig skal Snorra Sturluson kenna? Svá at kalla hann son Sturlu, bróður Sighvats, föður Jóns ok Hallberu, eiganda Reykjaholts o. s. frv. — en ekki var hægt að telja svo upp alla menn, sem um hafði verið ort og um mundi verða ort! Eina ráðið var þá að telja upp þau orð, sem slíkar kenningar mátti mynda með, orð sem merktu: eigandi, ættingi, vinur, óvinur, eiginkona, eiginmaður. En þessi orð voru einmitt viss tegund mannaheita og kvennaheita, liður í kenningum, en ekki kenningar, og því tók Snorri þau meðal heitanna, í k. 67 og síðast í kap. 68.

Þær setningar, sem skýringar þurfa við, hljóða nú svo: „Enn eru þau *heiti,* er menn láta ganga fyrir nöfn manna, þat köllum vér viðkenningar eða sannkenningar eða fornöfn. Þat eru viðkenningar, at nefna annan hlut réttu nafni, ok kalla þann, er hann vill nefna, eiganda eða svá, at kalla hann þess er hann nefndi, föður eða afa“ o. s. frv. . . . „Þessi *heiti* köllum vér viðkenningar, ok svá, þótt maðr sé kendr við bæ sinn eða skip sitt, þat er nafn á, eða eign sína, þá er einkarnafn er gefit. Þetta köllum vér *sannkenningar,* at kalla menn spekimann, ætlunarmann — — — glæsimann; þetta eru fornöfn“ (k. 67). „Kona er ok kölluð beðja, mála, rúna búanda síns, ok er þat viðrkenning“.

Auðsjáanlega er hér altaf verið að tala um það sama: að

kenna einstaklinga, það sem kalla má sérkenningar. En orðalagið er víða villandi, svo að það er eðlilegt, að menn hafi ekki áttað sig á því til fulls, þótt bent hafi verið á réttan skilning (Heusler, í Arkiv XVIII, 182—87). Orðið heiti (skáletrað) merkir hér *kenning*, smbr. *kent heiti*, í Skáldskaparmálum k. 1. Sést þetta glögt af sambandinu. *Heiti er ganga fyrir nöfn manna* — er þá ágæt greinargerð fyrir því, sem felst í sérkenningu. En Snorri er í vandræðum með eitt nafn á slíkri kenningu, og hann tekur þrjú: 1) viðkenning, smbr. að kenna mann við bæ sinn; en í raun og veru eru allar kenningar viðkenningar í rýmra skilningi. 2) sannkenning; hvað er sannari kenning á manni en kalla hann t. d. son föður síns? Þetta eitt hefur Snorri haft í huga, er hann setti orðið sem hliðstætt viðkenningu og fornafni. En orðið átti sér aðrar merkingar, eins og sést bæði af aths. við 4.—5. vísu í Háttatali og af Málskrúðsfræði Ólafs hvítaskálds. Og þessar merkingar drógu á eftir sér klausuna seinast í kap. 67: Þetta köllum vér sannkenningar o. s. frv. Þessi orð eru alveg sams konar og fjöldi heita í k. 65 (harðmenni, afarmenni, glæsimaðr (stendur bæði í 65 og 67), prýðimaðr o. s. frv.), og eiga alls ekki heima í fornafnakaflanum. Þá er 3) *fornafn*. Orðið var til í íslenzku sem þýðing á latneska orðinu pronomen, eins og það er haft enn í dag. Í 3. málfræðisritgerð Snorra-Eddu stendur: „Fornafn er sett *í stað nafns*, sem hleytismaður fyrir meistara“. Einmitt skýring Snorra: er menn láta ganga *fyrir nöfn* manna — kom honum til þess að nota það um sérkenningu. Það og ekkert annað merkir orðið hér. Þegar í lok kap. stendur, á eftir sannkenningunum: „Þetta eru fornöfn“, þá á það við allan kap., og er þó óheppilegt. Því að orðin, sem þar eru talin upp, eru *heiti, sem höfð eru til þess að mynda fornöfn, og ekki sjálf fornöfn.*

Á þennan hátt verður skifting skáldamálsins hrein, í kent og ókent. En meðal kenninganna hefur Snorri skilið, að til var sérstök tegund, sem kalla mætti sérkenningar, og meðal manna heita og kvenna sérstök tegund, sem höfð var til þess að mynda

slíkar kenningar með. En þó að hann komi með þrískiftingu sína í 1. kap. Skáldskaparmála, hefur honum aldrei komið til hugar að láta nýjan þátt byrja á 67. kap., eins og upphafið á 68: „Þessi eru *kvenna heiti ókend* í skáldskap“ — sýnir bezt. Og þó að orðalagið í 67. kap. sé villandi, og upptalning sannkenninganna óheppileg, þá ber kaflinn annars vott um sömu hugkvæmni og þekkingu á skáldamálinu (t. d. orðin: ósvífruðr, höfuðbaðmr, lifri) og búast mátti við af Snorra, svo að ég álít ekki gerandi að reyna að sleppa frá ógöngunum með því að telja hann síðari viðbót. Hitt er sönnu nær, að trúa því að jafnvel Snorra hafi getað fatast vald sitt á skýru orðalagi, þar sem hann þurfti að gera grein fyrir nýjum flokkaskiftingum með nýjum orðum. Enda var tungan lítt tamin við málfræði né önnur almenn vísindi, þó að hún væri honum tiltæk til allra hluta, þegar um sagnaritun og skáldskap var að ræða.

---

## Fjórði þáttur.

# Gylfaginning.

---

I.

Það hefur margsinnis verið tekið fram, meðal annars í sambandi við skýringarnar á nafni bókarinnar, að Edda Snorra Sturlusonar sé ekki rit um goðafræði, heldur kenslubók handa ungum skáldum. En hitt hafi höfundinum varla verið sjálfrátt, að skrifa meira eða minna af goðasögum (og hetjusögum) um leið, því að án þess hafi ekki verið hægt að gera kenningarnar skiljanlegar. Þetta er auðvitað að nokkru leyti satt. Margar kenningar í Skáldskaparmálum eru undir eins fullljósar af því að Gylfaginning er í baksýn. En hins ber líka að gæta, að Gylfaginning er sjálfstæður þáttur Eddu, þar er ekki talað um kenningar, og fjölda margs getið, sem varpar ekki ljósi á neitt atriði skáldamálsins. Hér verður að greina á milli tilefnis og framkvæmdar. Þó að það væri umhugsunin um skáldamálið, sem upphaflega kom Snorra til þess að sökkva sér ofan í goðasögurnar og taka sér fyrir hendur að skrifa um þær, þá er fjarri lagi að hugsa sér, að hún ein hafi sífelt vakað fyrir honum. Þessar sögur voru svo fróðlegar og svo mikið íhugunarefni, það þurfti svo mikla íþrótt til þess að skipa þeim í kerfi og segja frá þeim, að áhugi höfundarins hlaut með pörtum að beinast allur að þessu. Annars hefði Edda aldrei orðið slíkt rit sem hún nú er.

Eitt af því, sem sýnir þetta gjörla, er viðleitni Snorra til þess að gera grein fyrir, hvernig hin forna goðatrú sé til orðin.

Ekki kom það neitt kenningunum við. Að vísu gat það verið heppilegt, kristninnar og klerkanna vegna, að geta þess einu sinni fyrir alt, að ekki mætti leggja fullan trúnað á þessar sögur. Það hefur hann gert í lok 1. kap. í Skáldskaparmálum: „en eigi skulu kristnir menn trúa á heiðin goð, ok eigi á sannyndi þessa sagna annan veg en svá sem hér finnsk í upphafi bókar“. En þetta var sjálfum honum ekki nægilegt. Sem sagnakönnuður hlaut hann að heimta nánari reikningsskil þess, hvað í þessum fornu sögum, sem vitrir menn höfðu einu sinni fyrir satt haft, væri sannleikur og hvað lýgi. Og því næst, hvernig sannindin væru vaxin eða lýgin upp komin.

Þessi spurning, hvernig þau trúarbrögð, sem menn trúa ekki sjálfir vera sanna opinberun, séu mynduð, hefur orðið fleirum að áhyggjuefni en Snorra. Henni hefur verið svarað á ýmislegan hátt, og enn þá eru trúarsálarfræði og trúarbragðasaga að glíma við hana. En hér skal ég aðeins drepa á þær skýringar og skoðanir, sem eiga sér eitthvað samsvarandi í ritum Snorra.

Nútímamenn munu yfirleitt þeirrar skoðunar, að hinar fornu goðsögur séu vísindatilgátur á bernskuskeiði, í búningi, sem hentaði þáverandi hugsanafari þjóðanna. Náttúrufyrirbrigði voru persónugerð, goðanöfn mynduðust, sögur urðu til, oftast án þess menn gerðu sér grein fyrir, að þeir væru að skapa neitt. Þessi skoðun byggist á því, að fleira sé til í hugsuninni en hin skýra og sjálfráða skynsemi, hún lítur á öll trúarbrögð sem stig í þroska mannsandans, og reynir að skoða þau eins og þau *verða* til, ekki eins og þau *eru* fullmynduð. Hún er í raun réttri ekki eldri en frá 18. öld, Lessing, Hamann og Herder ryðja henni braut.

Það er því afarmerkilegt, hve nærri Snorri kemst þessari skoðun í 1. kap. af formála Gylfaginningar. Mér er ekki kunnugt um, að erlendar heimildir hafi verið fundnar fyrir aðalatriðum þess kapítula, enda finst mér þær skýringar, sem þar er haldið fram (og Heusler kallar „heilabrot viturs manns um

hugsanir forfeðranna") brjóta mjög bág við speki miðaldanna. Snorri skilur þarna til hlítar, að persónugerving jarðarinnar og trúin á stjórnanda himintunglanna séu upprunalega vísindalegar ályktanir, er svo hafi verið klæddar í goðsögulegan búning, án þess nokkur brögð væru í tafli: „En til þess at heldr mætti frá segja eða í minni festa, þá gáfu þeir nöfn með sjálfum sér öllum hlutum, ok hefir þessi átrúnaðr á marga lund breyzk, svá sem þjóðirnar skiptusk ok tungurnar greindusk. En alla hluti skildu þeir jarðligri skilningu, því at þeim var eigi gefin andlig spektin". — En þessi skýring, svo aðdáanleg sem hún er, það sem hún nær, varð ekki nema brot, sem Snorri hefur ekki treyst sér til að byggja goðafræði sína á. Hann var þarna alt of langt á undan samtíð sinni, þetta var einangruð djúpsýn, sem hann skorti staðreyndir til þess að skýra nánar og rökstyðja. Og svo hverfur hann að annari skoðun, þar sem hann átti sér fyrirrennara eins og Ara og heimildir eins og Skjöldunga sögu.

Miðaldaspekin tók stirðari tökum á goðsögunum en vér gerum nú. Hún þekti ekki hugtakið að *verða*, þróunina, sem náttúrufræðin hefur fengið af sagnfræðinni, og orðið er helzta leiðarstjarna vísindanna nú á dögum. Est aut non est — annaðhvort höfðu goðin verið til eða sögurnar um þau voru lygi. Flestum kom saman um, að þau hefðu verið til — og væru það enn þá. Hvíti-Kristur sigrar að vísu Þór og Óðin, en þeir týnast ekki, heldur verða eins konar óvættir og myrkravaldar. Klerkar miðaldanna voru sjálfir of trúgjarnir til þess að fara að telja forngoðin tóman hégóma, og hafa líka ósjálfrátt fundið, að það væri að gefa efagirni annara of mikið undir fótinn. Goðin höfðu verið falsguðir, illir andar, sem létu vesala menn dýrka sig, og þau reyndu enn þá að halda áfram að láta ilt af sér leiða, eftir að hinn sanni guð hafði hrundið þeim af stóli. Þessi skoðun varð algeng á Íslandi. Jafnvel svo mentaður maður sem Sturla Þórðarson hefur Óðins nafn eins og hann væri djöfullinn í vísu sinni um Gissur jarl (Sturl. IV, 120). Og

margar eru sögurnar um það, hvernig Þór og Óðinn reyndu að ná tökum á kristnum mönnum. Snorri hafði í raun og veru of mikið af efagirni og sögulegum skilningi til þess að trúa þessu, eins og Edda ber greinilega með sér. En samt hefur hann tekið frá Oddi söguna af Ólafi Tryggvasyni og vélum Óðins (Ól. s. Tr., k. 64), svo að líka þessi skoðun á sér þó ítök í verkum hans.

Þá er að geta skýringar Euhemers (um 300 f. Kr. burð). Það er upprunalega eins konar fríhyggja heiðninnar. Euhemer hélt því fram (ekki ósvipað skoðun Carlyle á Óðni í Heroes and Heroworship, eða þeirri skoðun guðspekinga, að goðin hafi verið til, verið „meistarar“), að guðirnir hefðu verið jarðneskir konungar, sem dýrkaðir hefðu verið eftir andlát sitt og sögur þá myndast um. Þarna voru þó upptök átrúnaðarins a. m. k. skýr og skiljanleg. Euhemerisminn, sem svo hefur verið nefndur, átti allmiklu gengi að fagna meðal hinna frjálslyndari miðaldamanna, sagnaritara o. fl. Í samræmi við hann röktu t. d. Englendingar konungaættir til Óðins, og síðan ætt Óðins sjálfs, og sama skoðun er í raun og veru fólgin í ættartölum Ynglingatals og Háleygjatals, hvort sem þar er um erlend áhrif að ræða eða sjálfstæðar norrænar ályktanir. Víst er um það, að þessi kvæði urðu fyrir Íslendinga brú yfir í Euhemerismann, en sjálf enduðu þau á goðunum, gerðu ekki grein fyrir uppruna þeirra.

Það gerir aftur á móti Ari í ættartölu sinni aftan við Íslendingabók. „Yngvi Tyrkja konungr. Freyr. Fjölnir“. Þetta eru fyrstu greinileg áhrif Euhemerismans á íslenzka sagnaritun, sem sýnd verða. Heusler getur þess til, að Ari hafi lært þetta af Sæmundi, en Sæmundur aftur í Frakklandi, og a. m. k. er það eitt af greinilegum merkjum um hlutdeild Ara í lærdómi miðaldanna. Síðan kemur sams konar kenning, þótt nöfnin séu önnur, fram í Skjöldunga sögu og síðan í hverju ritinu af öðru. Verð ég um það og hinar erlendu heimildir að vísa til ritgerðar Heuslers. Í Ynglinga sögu fer Snorri að mestu leyti

eftir Skjöldunga sögu, en fyllir upp í frásögn hennar með efni úr Eddukvæðum og ýmsum fróðleik. Hann er hér að skrifa sögu, og því eðlilegt, að meðferð hans sé með öðrum blæ en í Eddu. Í formála Gylfaginningar, þar sem Æsir eru settir í samband við Tróju og Tyrkland, er hann á sömu brautum og Ari, en bætir þar inn í engilsaxneskum ættartölum o. fl. Má telja víst, að Snorri hafi ekki orðið fyrstur manna til þess að taka þær ættartölur, heldur hafi þeim þegar fyrir hans daga verið skeytt framan við Langfeðgatal (sem Snorri vísar til í formála Heimskringlu).

En þegar Snorri hafði hugann allan við goðin og goðasögurnar, var Euhemerisminn, sem hann gat unað við í Yngl. sögu, honum ekki nógur. Þó að skýrt væri, að átrúnaðurinn á goðin hefði myndast, þá var ekki þar með skýrt, hvernig goðasögurnar höfðu orðið til. Á þessu stigi málsins stígur hann enn út af brautum miðaldavísindanna. Skoðun hans verður eins konar málamiðlun milli Euhemerismans og samskonar fríhyggju, sem uppi var síðan á 18. öldinni. Voltaire gat ekki hugsað sér uppruna goðsagnanna annan en þann, að þær væru vísvitandi prestalygar, gerðar til þess að ná valdi yfir alþýðunni (smbr. Höffding, Den nyere Filosofis Historie I, 467—68). Snorri skrifar Gylfaginningu frá líku sjónarmiði.

Það væri fjarri öllum líkindum að hugsa sér, að umgerð Gylfaginningar væri bygð á gamalli sögu. Til þess er sú skoðun, sem í henni er fólgin, alt of einangruð í bókmentunum. En Snorri hafði það úr vísu Braga um Gefjun og Gylfa, að Gylfi hefði átt í brösum við Æsi og fengið að kenna á vélum þeirra, svo að það var eðlilegt að gera hann að öðrum aðilja í sögu þeirri, sem hann bjó nú til.

Snorri fer nú með þetta efni af aðdáanlegri list. Gangleri (gönguþreyttur, eitt af nöfnum Óðins) kemur af refilstígum til Háva hallar — það er saga alls mannkynsins sögð í svo fáum orðum sem unt er. Blær þjóðsagnanna hvílir yfir öllu, einn maður hefur 7 handsöx senn á lofti, hurðin lýkst (sjálf)

á hæla Ganglera, honum þykja „margir hlutir ótrúlegir“, — en þó einkum niðurlaginu: „Því næst heyrði Gangleri dyni mikla hvern veg frá sér ok leit út á hlið sér; og þá er hann sésk meirr um, þá stendr hann úti á sléttum velli, sér þá enga höll ok enga borg“. Og einn þáttur í sjónhverfingunum er það, að Ganglera er gefið í skyn, að líkur kappleikur eigi að fara fram milli hans og Ásanna og milli Óðins og jötunsins í Vafþrúðnismálum. Hárr segir, að hann komi ekki heill út, nema hann sé fróðari, þ. e. a. s. geti borið upp spurningar, sem Æsir geti ekki svarað (smbr. líka kap. 44). Með þessu er Gangleri knúinn til þess að spyrja meira og meira, en úr hótuninni verður auðvitað ekkert, því að Æsir vilja einmitt láta Gylfa lifa og segja öðrum þessar sömu sögur.

Þráðurinn í formála og umgerð Gylfaginningar er þá á þessa leið: Æsir koma frá Suðurlöndum til Norðurlanda, af því að spásagnir hafa vísað þeim svo til, að þeir mundu þar mest verða tignaðir. Þeir eru máttugir og fjölkunnugir. Þeir kunna miklar sögur um goð hinna fornu heimkynna sinna, og þessar sögur segja þeir Gylfa, að við höfðum ýmiskonar sjónhverfingum. En síðan setjast þeir á tal og minnast á sögur þessar og taka það ráð að „gefa nöfn þessi en sömu, er áðr eru nefnd, mönnum ok stöðum þeim, er þar váru, til þess, at þá er langar stundir liði, at menn skyldi ekki ifask í, at allir væri einir þeir Æsir, er nú var frá sagt, ok þessir, er þá váru þau sömu nöfn gefin“ (Gylfag., niðurlag).

Með þessu móti tekur Snorri frá Euhemerismanum með annari hendinni það sem hann hafði gefið honum með hinni. Skýringin, að goðin hafi verið konungar á Norðurlöndum, er honum ekki einhlít. Þessir Asíumenn grípa til vísvitandi blekkingar til þess að auka völd sín og orðstír. En hvað er á bak við þá blekkingu? Ýmsar spurningar vakna? Hvað kölluðu Æsir sig fyrst, er þeir koma til Norðurlanda, áður en þeir tóku nöfnin úr sögum þeim, er þeir sögðu Gylfa? Og voru hin fornu goð verulegir guðir, eða konungar (smbr. eldra Þór í

form. kap. 3), eða uppspuni Ása? Þessu hefur Snorri hvergi skýrt svarað, öllu er aftur varpað út í óvissuna, en það er gert fjarlægara og með því þolanlegra fyrir hugsunina.

Yfirleitt er Snorri sjálfum sér samkvæmur þegar hann fer að segja goðafræðina frá þessu sjónarmiði. Svo er t. d. ekkert ósamræmi í því, þó að Gefjun í 1. kap. Gylfag., sem er partur af umgerðinni, sé öll önnur en sú, sem sagt er frá í kap. 35. Sú fyrri er Norðurlanda-Gefjun, sú síðari Gefjun í forna Ásgarði. Það eru tvær persónur, þótt þeim síðan (fyrir tilstilli Ása sjálfra) sé blandað saman. Eins er það í samræmi við formálann, að Ásgarður og Trója eru gerð að einum og sama stað í kap. 9. Áhrifa frá 1. kap. formálans gætir í 20. kap. Gylfag., þar sem rætt er um heiti Óðins og gripið til þeirrar skýringar, „at svá margar sem eru greinir tungnanna í veröldunni, þá þykkjask allar þjóðir þurfa at breyta nafni hans til sinnar tungu". En ekki kemur þetta beint í bága við umgerðina.

Það gerir aftur á móti niðurlag 6. kap.: „þat er mín trúa, at sá Óðinn ok hans bræðr munu vera stýrandi himins ok jarðar; þat ætlum vér, at hann myni svá heita; svá heitir sá maðr, er vér vitum mestan og ágæztan, ok vel megu þér hann láta svá heita". Hér er það bersýnilega ekki Óðinn í Svíþjóð, sem tekur nafn Óðins í forna Ásgarði, heldur er þvert á móti nafn Óðins í Svíþjóð gefið stjórnanda himins og jarðar. Hér er það einmitt Euhemerisminn, sem rekur upp höfuðið og hefnir sín á Snorra.

Snorri kaus að setja efni Gylfaginningar fram í spurningum og svörum. Hann hafði þar bæði erlendar og íslenzkar fyrirmyndir. Alt frá Platóns dögum var algengt að skrifa fræðirit í samtalsformi, og meðal þeirra voru rit eins og Elucidarius og viðræður Gregors mikla, sem snemma voru þýdd á íslenzku og Snorri hefur vafalaust þekt. En auk þess voru til Eddukvæði, Vafþrúðnismál, Alvíssmál o. fl., þar sem fróðleikur var klæddur í samtalsform, en umgerðin auk þess saga út af fyrir sig,

þar sem teflt var um líf og dauða, en það hélt aftur athygli áheyrendanna við. Að nokkru leyti hefur Snorri tekið sér þessi kvæði til fyrirmyndar. Þar sem magister og discipulus í Elucidarius eru ekkert nema nöfnin tóm, verður Gangleri einkend persóna, eins og nánar er skýrt hér að framan. Og eins verða þeir Hárr, Jafnhárr og Þriði til þess að auka fjölbreytni samtalsins, og eru notaðir með mikilli hugsun.

Öll eru nöfn þessi Óðins-nöfn, og öll talin í 20. kap. í Gylfaginningu, án þess Gangleri geri nokkra athugasemd við það. Eðlilegast er að álíta, að Snorri hafi hugsað sér, að Óðinn í sjónhverfingunum skifti sjálfum sér í þrjá. Nafnið Þriði gat hafa gefið Snorra hugmyndina, sem auk þess minnir á þríeiningu kristninnar. En með því að láta þrjá verða fyrir svörum var hægt að marka skýrar þegar frásögnin varð stígandi. Einmitt listagildi tölunnar ‚þrír‘ hefur gert hana heilaga og afarmikið notaða í þjóðsögum allra landa.

Venjulega verður Hárr fyrir svörum. En þegar Snorri vill leggja áherzlu á, að eitt atriðið sé öðru meira, þá koma Jafnhárr og Þriði til skjalanna. Svo er undir eins í 3. kap.: Hárr: Lifir hann of allar aldir ...... Jafnhárr: Hann smíðaði himin ok jörð ...... Þriði: Hitt er þó mest, er hann gerði manninn ...... Í 4. kap segir Hárr fyrst frá því elzta, sem hann veit. Þá kemur Jafnhárr með það sem var á undan því, og loks segir Þriði: *Fyrst* var þó sá heimr í suðrálfu, er Múspell heitir ...... Og samkvæmt þessu tekur líka Þriði að sér frásögnina í 5. kap., þar sem kemur að því að skýra hið dularfylsta af öllu, uppruna lífsins.

En greinilegast kemur sérstaða Þriðja fram í því, að hann einn dirfist að segja frá ferð Þórs til Útgarða-Loka. Bæði Hárr og Jafnhárr færast undan. Hár þykir ekki skylt að segja frá því, þó að Þór hafi hitt fyrir ofurefli sitt, en Jafnhárr vísar vandanum frá sér til Þriðja: „hér mun sá sitja nær, er vita mun sönn tíðendi af at segja, ok muntu því trúa, at hann mun eigi ljúga nú hit fyrsta sinn, er aldri laug fyrr“ (kap. 44).

Og þegar Ganglera þykja Æsir vera yfirkomnir, ef þeir svari ekki spurningu sinni, þá hefur Þriði frásögn sína, þó að honum, ‚þykki eigi fagrt at segja‘. Hér kemur gjörla fram hinn næmi skilningur Snorra á mannlegu eðli. Æsir segja Ganglera hiklaust frá dauða Baldurs og sjálfum Ragnarökum, en þeir eru tregir til þess að segja frá því, að Þór hafi orðið *hlægilegur*, jafnvel þó að það væri ekki nema sjónhverfingar.

## II.

Formáli og umgerð Gylfaginningar eru eins og tvöfaldur skíðgarður, sem Snorri smíðar um heim goðanna. Þau slá varnagla um skoðanir Snorra sjálfs um þann veruleika, sem í goðatrúnni sé fólginn. Síðan getur goðalífið átt sér frjálsan leikvöll innan þessara vébanda, án þess að rekast á eða koma í bága við þær vísindaskoðanir eða trúarbrögð, sem utan þeirra eru. Nú má Hárr segja það fortakslaust, að Freyr ráði fyrir regni og skini sólar og á hann sé gott að heita til árs og friðar, þó að þetta sé hvorki í samræmi við trú né siðu Íslendinga á 13. öld. En hitt hefði gert alla frásögnina sundurlausari og áhrifaminni, ef varnaglinn hefði verið sleginn við hvert atriði: því trúðu menn í heiðnum sið, að Freyr réði fyrir regni o. s. frv. Svo að formálinn og umgerðin eru í einu gerð til þess að fullnægja kröfum kirkjunnar, sagnfræðinnar og listarinnar.

En þegar inn fyrir skíðgarðinn kom, að því sem var sjálfur tilgangurinn: að skýra frá hinni fornu goðafræði, var næsta spurningin, hvernig ætti að skipa efninu. Goðafræðingum nútímans er tamast að fjalla um goðin út af fyrir sig, hugmyndirnar um upphaf og lok heimsins út af fyrir sig, og alls konar hjátrú og vættir sér í lagi. Má raða þessu á margvíslegan hátt. Form það, sem Snorri hafði valið sér, spurningar og svör, leyfði hvaða skiftingu og skipun sem vera skyldi, þar sem eitt atriði gat jafnan mint á annað. Og í upphafi virðist hann hafa verið í vafa um, hvernig hann ætti að taka á efninu. Eins og

Elucidarius byrjar: „Af því skal þetta upphaf vera þessa máls, at þú seg mér fyrst, hvat guð er" — hefur Gangleri svo mál sitt í 3. kapítula: „Hverr er æztr eða elztr allra goða?" Þessi kapítuli er vafalaust það lakasta, sem Snorri hefur skrifað, og væri engin missa í, þótt honum væri alveg burtu kipt. Hann er hvorki í samhengi né samræmi við það, sem á eftir fer. Alföðr sá, sem hér er talað um, er eins konar sambland af Óðni (11 af 12 Óðinsnöfnunum í 3. kap. standa aftur í 20. kap.) og guði kristinna manna. Þessi Alföðr lifir of allar aldir, en Óðinn ferst í Ragnarökkri; hann ræður öllum hlutum, stórum og smáum, svo að ekkert verður eftir handa hinum goðunum; vondir menn fara til Heljar, en þangað fer þó Baldur síðar o. s. frv.

En Snorri áttar sig fljótt. Fyrir hann, sem sjálfur var sagnaritari meðal sagnaritara, var eðlilegast að gera goðafræðina að *sögu* heimsins, fjalla um efnið í tímaröð, að svo miklu leyti sem það sjálft leyfði. Og þá var um leið lögð upp í hendurnar á honum heimild og fyrirmynd, Völuspá, sem hann sennilega hefur kunnað utan bókar frá barnæsku. Völuspá má heita uppistaðan í Gylfaginningu. Báðar segja fyrst frá upphafi og sköpun heimsins, og síðast frá lokum hans í spádómsformi. Alt það efni, sem Gylfaginning hefur fram yfir Völuspá, og það er auðvitað gífurlega mikið, er ofið í þessa frásögn. Snorri tilfærir því nær helming kvæðisins, og notar það alt, að undanteknum umgerðarvísunum, og nokkrum vísum, sem annaðhvort voru torskildar eða komu í bága við aðrar heimildir og skoðanir, sem hann tók fram yfir. Virðist hann hafa þekt kvæðið í líkri mynd og vér nú höfum það. Þó hallast ég að þeirri skoðun, að hann hafi ekki haft það skrifað, og fá eða engin kvæði, nema vísur þær, sem tilfærðar voru í eldri sagnaritum, en safn það af Eddukvæðum, sem í Codex regius stendur, sé yngra en Edda Snorra og eigi henni einmitt að miklu leyti tilveru sína að þakka. Verð ég að nokkru leyti um þetta mál að vísa til formála Sophus Bugge fyrir Eddukvæða-útgáfu sinni. En þó skal þess getið hér, að ekki verður séð, að texti sá af Völuspá,

sem stendur í Gylfaginningu, og hinir textar þess kvæðis (í Codex regius og Hauksbók), geti stafað frá sameiginlegri skrifaðri heimild, og enn greinilegra er þetta um þá einu vísu úr Lokasennu, sem Snorri tilfærir (kap. 20), þar sem runnin eru saman brot úr þrem vísum kvæðisins, eins og það stendur í Cod. reg. Merkilegt væri líka, að Snorri hefði hvorki notað Þrymskviðu né Hymiskviðu, ef hann hefði haft þau kvæði skrifuð (þó virðist setningin: er eignask vildi allar ástir hennar ok hylli (kap. 49), vera bergmál af Þrymskv.).

Auk Völuspár notar Snorri, eins og eðlilegt er, langmest fræðikvæðin Vafþrúðnismál og Grímnismál. Er auðséð, að hann hefur kunnað þau í líkri mynd og vér höfum þau nú rituð. Þá tilfærir hann vísu úr Völuspá enni skömmu, úr Fáfnismálum, úr Lokasennu, úr Skírnismálum, úr Hávamálum, úr Heimdallargaldri (kvæði, sem annars er týnt), og nokkrar lausavísur, sem a. m. k. nú er ekki hægt að heimfæra til neins kvæðis, þó að efnið í vísum Njarðar og Skaði (kap. 23) standi hjá Saxa, og sé þar brot úr löngu samtali. En fyrir utan þetta er mikið efni tekið úr ótilfærðum vísum, enn meira en í Heimskringlu. Veldur það einkum, að Snorri tilfærir ekki í Gylfaginningu eina einustu dróttkvæða vísu, enga vísu eftir nafngreint skáld, nema í umgerðinni. Þar talaði hann sjálfur og sagði frá, og því var það eðlilegt. En hitt hefði verið fjarstæða, að láta þá Hár félaga vitna í vísur skálda, sem allir vissu, að uppi höfðu verið á síðari öldum. Líklega hefur Snorri álitið Eddukvæðin allgömul (smbr. ‚forn vísendi' um Völuspá, kap 8), en hvað sem því leið, höfðu þau a. m. k. þann kost að vera eftir ónafngreinda höfunda og frá óvissum tímum, svo að ekki varð á því haft að láta Æsi vitna í þau. Ekkert sýnir betur en þetta, hve fjarri Snorri var hinu barnslega hugsunarleysi miðaldanna um tímaröð og tímaskifti, og athugull um heimildir sínar í hvívetna. Eins og hann í Skáldskaparmálum gerir greinarmun á kvæðum höfuðskálda og annara skálda, í Heimskringlu á kvæðum um forna viðburði og sam-

tímaviðburði, gerir hann það í Gylfaginningu á dróttkvæðum og Eddukvæðum. En þeir menn, sem fundið hafa 1. kapítula Gylfaginningar það til foráttu, að þar væri vísað til Braga (þó að reyndar sé vísað til Þjóðólfs alveg á sama hátt í 2. kap.), hafa ekki gert sér fyllilega ljósan þann mun, sem Snorri gerði á umgerðinni og samtali Hárs og Ganglera.

Ef rekja ætti nákvæmlega efni Gylfaginningar, svo að um hvert atriði væri gerð grein fyrir heimildunum og meðferð þeirra, hvar Snorri væri einn til frásagnar og hvar hann væri í samræmi við þekkingu nútímans eða ekki, þá yrði það heilt yfirlit yfir norræna goðafræði. En slíkt yfirlit ætla ég mér ekki að semja hér, það hafa aðrir gert (Gother, Mogk, Finnur Jónsson o. fl.), og ritskýringin getur unað við minna. Hennar hlutverk er að skýra og einkenna ritið, einkum í sambandi við höfundinn, og til þess er nóg að benda á aðaldrætti efnismeðferðarinnar, og taka einstök atriði, sem sérstaklega eru athugaverð, til dæmis.

Yfirleitt heldur Snorri snildarlega á heimildum sínum, eins og við mátti búast. Honum tekst að skapa úr brotunum heild, þar sem hlutföllin eru furðanlega góð. Hann sleppir úr sögum, sem honum fundust vera aukaatriði og ekki eiga heima í aðalsögu goðanna (þær koma síðar í Skáldskaparmálum), en reynir annarsstaðar að gera frásögnina sem fylsta, þar sem stuttorð kvæði eru einu heimildir um mikilsverð atriði. Eins og í Heimskringlu gætir hann þess vandlega að segja frá öllu efni vísnanna í textanum, þó að vísurnar sjálfar séu tilfærðar. Sem dæmi nákvæmni hans í þessu efni get ég mint á kap. 38. Hér stendur í fyrstu vísunni: ‚en þat fáir vitu', eins konar eyðufylling skáldsins. Það verður í svari Hárs: „En þessi spurning, er nú spyrr þú, þykki mér líkara, at fáir muni svá vísir vera, at hér kunni satt af at segja". Aðeins í 4. kap. lætur Snorri Hár svara með vísu úr Völuspá, án þess að efnið sé greint í sundurlausu máli, og í 8. kap. er önnur vísa úr sama kvæði sett á óheppilegan stað, eins og setningin sýnir, sem á eftir fer:

‚svá var áðr þetta væri‘. En þetta bendir aðeins á, að Snorri hafi þá ekki enn verið búinn að mynda sér fastar reglur, eins og síðar, og er eitt af því, sem gerir það ósennilegt, að Edda sé yngri en Heimskringla. Dæmi þess, hvernig Snorri setur eðlilega frásögn saman úr mörgum og slitróttum heimildum er kap. 48, um viðureign Þórs við Miðgarðsorm. Um það efni hafa verið til a. m. k. fjögur kvæði, fyrir utan Hymiskviðu (Ragnarsdrápa Braga, Húsdrápa Úlfs, kvæði eftir Eystein Valdason og Gamla gnævaðarskáld), og hefur Snorri þekt þau öll og notað, þótt hann nefni ekkert um það né tilfæri neitt af þeim í því sambandi.

Af því að Völuspá er helzta heimild Gylfaginningar og kvæða torskildust, þykir mér rétt að geta þeirra atriða, þar sem þeim ber á milli. ‚Unz þríar kómu | þursa meyjar | ámátkar mjök | ór Jötunheimum‘ verður hjá Snorra: ‚áðr en spiltisk af tilkvámu kvinnanna; þær kómu ór Jötunheimum‘ (kap. 14). Hér hefur Snorri auðsjáanlega ekki skilið, hvað Völuspá var að fara, fremur en menn reyndar enn gera með vissu (þríar þursa meyjar = nornirnar?), og orð hans verða svo almenn að við sjálft liggur, að kvenþjóðin öll geti tekið þau til sín, ef menn vissu ekki af öðrum hlutum, að Snorri var enginn kvenhatari. Þá lætur Snorri Mími drekka af Gjallarhorni (kap. 15), og er það sjálfsagt misskilningur, en hér hefur Snorri kunnað Völuspá í dálítið annari mynd en hún er í Cod. reg., enda greinir fræðimenn á um, hvað ‚hljóð Heimdallar‘ merki. Smáónákvæmni er það þegar Snorri talar um ‚salinn Sindra‘ (kap. 52), þar sem Völuspá hefur ‚salr .... Sindra ættar‘ (þ. e. a. s. salur, sem dvergar eiga), og salinn Gimlé (kap. 17), þar sem Völuspá hefur ‚sal .... á Gimléi‘ (þ. e. a. s. landið, þar sem salurinn stendur, heitir ‚eld-hlé‘, því hefur verið skýlt við Surtaloga). Lakara er það þegar hann lætur Hrym stýra Naglfari, því að í Völuspá er það Loki, sem stýrir því, en Hrymur ‚ekr austan‘. En áður (kap. 43) hefur Snorri sagt um Naglfar: „þat á Múspell“, og það er einmitt tekið eftir

Völuspá, svo að ekki dugir neitt, að geta sér til, að vísunni „Kjóll ferr austan“ sé síðar bætt inn í Gylfaginningu, eða lesa eigi „Heljar“ í stað „Múspells“. Annars mætti um Múspell (sem upprunalega virðist merkja „heimsendir“, smbr. einkum hið stórmerka rit Axel Olriks, Om Ragnarok) og skilning þess orðs með Íslendingum skrifa langt mál, og verður ekki fjölyrt um það hér. En bæði höfundur Völuspár og síðan Snorri hafa lagað hinar fornu hugmyndir um heimsendi mjög í hendi sér (Heljar sinnar, sem andstæðingar goðanna, koma hvergi fyrir nema hjá Snorra, og virðast stafa frá sérskilningi hans, smbr. 3. kap.), og verður að nota þær heimildir með varúð. Á einum stað hefur Snorri líka tekið frásögn Vafþrúðnismála fram yfir Völuspá. Hann lætur Víðar rífa kjaft Fenrisúlfs, en ekki leggja hann til hjarta með sverði. Hér studdi þjóðtrúin Vafþrúðnismál, og Snorri hefur hér farið nær fornri trú en Völuspá gerir.

Ýmis minni háttar afbrigði Snorra orka tvímælis. Í Völuspá eru það Óðinn, Hænir og Lóðurr, sem skapa Ask og Emblu. Snorra hefur þótt eðlilegra, að það væru þeir Bors synir, Óðinn, Vili og Vé, en fer annars nákvæmlega eftir kvæðinu („á landi“ hefur hann skilið sem „rekin á land“, því lætur hann þá ganga með sævarströndu). Völuspá lætur dvergana vera skapaða á undan mönnunum, Snorri þvert á móti, en hér getur verið, að hann hafi kunnað vísur kvæðisins í annari röð en vér nú höfum þær. Aftur á móti er það umbót hjá Snorra, að hann lætur ekki Heimdall blása í horn sitt og kalla goðin til bardaga fyr en óvinir þeirra sækja fram. Í Völuspá er eins og Heimdallur og hanarnir (sem Snorri sleppir alveg) gefi merki til þess að Ragnarök byrji (mjötuðr kyndisk | at enu gamla | Gjallarhorni).

En helzta afbrigðið frá Völuspá er enn þá ótalið, og þar brýtur Snorri alveg bág við lífsskoðun kvæðisins, og líklega heiðninnar yfirleitt. Höfundur Völuspár er niðurskurðarmaður. Hann lætur alt, sem spilt hefur heiminum, týnast gjörsamlega

í Ragnarökum, og ekkert eftir lifa, nema það sem gott er og heilbrigt. „Böls mun alls batna“. Einmitt þessvegna er svo bjart umhorfs í hinum endurfædda heimi Völuspár. Og þó að sælustaðir kvæðisins kunni að vera skapaðir fyrir áhrif kristilegra hugmynda, þá er það a. m. k. í samræmi við heiðnina, að hafa engar eilífar píslir. En Snorri hefur í 3. kap., sem aldrei skyldi verið hafa, sagt, að önd mannsins skal lifa og aldrei týnast, og þetta hermir nú Gangleri (kap. 52) upp á Þriðja. Svo að þó að Snorri láti goðin sjálf farast í Ragnarökkri (-rökkur í staðinn fyrir -rök, tekið af Snorra úr alþýðumáli), þá lætur hann mennina lifa, bæði vonda og góða. Og til þess flytur hann vísurnar um kvalir illra manna, sem í Völuspá eru liður í lýsingu ástandsins fyrir Ragnarök, aftur fyrir þau, og gerir með því hegninguna eilífa. Hér er alls ekki hægt að gera ráð fyrir annari röð í kvæðinu, heldur hafa kristin áhrif glapið Snorra sýn (smbr. J. Aars, Lærer vore Forfædres Mytologi evige Straffe, Tidsskr. f. Philol. og Pædag. I, 326 o. áfr.).

Sumsstaðar þar sem heimildir Snorra eru kunnar (og það eru þær flestar), getur samt verið örðugt að skera úr, hvort skilningur hans hefur orðið fyrir áhrifum af skýringum annara og alþýðlegum sögnum, eða ekki. Svo er t. d. 7. kap. Gylfaginningar alveg ósamræmur vísunni, sem tilfærð er í lok kapítulans. Vér skiljum að vísu ekki „lúðr“ með neinni vissu, en Snorri hefur heldur ekki skilið það. Hitt getum vér aftur á móti séð, að fyrir þessari sögu um syndaflóð jötnanna og Bergelmi sem eins konar Nóa er enginn fótur í vísunni. Sennilegast þykir mér, að „lúðr“ merki líkfjalir eða því um líkt. En hvaðan kom Snorra sagan um flóðið, sem hefur skekt allan skilning hans á vísunni? Enginn veit.

En víða er auðvitað hægt að leggja dóm á frásögn Snorra, bæði með því að bera hana saman við aðrar íslenzkar heimildir (sem hann hefur sumar notað og sumar ekki) og goðafræði annara germanskra þjóða, þótt hún sé í brotum. Eins og ég hef þegar tekið fram, er ekki rúm til þess hér að fara út í hvert

einstakt atriði, enda kemur oss í þessu sambandi einkum við, hvað honum varð úr þeirri þekkingu, sem hann átti kost á. Það er ekki fremur hægt að búast við samanburðar-goðafræði í Gylfaginningu en nýtízku sagnakönnun, eftir öllum innlendum og erlendum heimildum, í Heimskringlu. En það sem ég drep hér á, getur gefið nokkra hugmynd um gildi Gylfaginningar sem goðafræðis-heimildir og fróðleik manna um heiðnina á gullöld íslenzkra bókmenta.

Á dögum sjálfrar heiðninnar hafði trúin, eins og eðlilegt var, tekið ýmsum stakkaskiftum. Ný goð ruddu sér til landa, og önnur urðu skuggar af sjálfum sér. Svo er t. d. Týr, himinguðinn forni, sem samanburðarmálfræði og goðafræði sýna, að er sami guðinn og Seifur og Júpíter, varla nema nafnið tómt í norrænum heimildum. Og í því atriði eru þær vafalaust í samræmi við alþýðutrú. En víða brjóta þær einmitt bág við hana. Á tveim síðustu öldum heiðninnar myndaðist í Noregi og á Íslandi ný goðafræði, a. n. l. ný trú, a. n. l. ekki annað en skáldskapur. Þetta fræðikerfi var bæði fátækara og ríkara en trú alþýðunnar, gamlar og barnslegar hugmyndir eru bliknaðar, en nýjum bætt við, stundum fyrir erlend áhrif, stundum fyrir spaklega íhugun. Allar heimildir Snorra (nema einstök brot úr gamalli þjóðtrú), dróttkvæði, Eddukvæði og goðaæfintýri, eiga heima í þessu kerfi. Það myndaðist með víkingum, hirðmönnum og skáldum, og fyrst með því komst Óðinn í öndvegið. Og Þór, hinn almáttki ás, vinur verliða, traustasta athvarf allrar alþýðu, verður hjá Snorra það sem skáldin höfðu gert hann: hálfeinfalt góðmenni og heljarmenni, sem auðvelt er að leika á, og jafnvel er ekki sterkari en svo, að Magni sonur hans verður að lyfta fæti Hrungnis ofan af honum. Bak við þetta kerfi getur Snorri ekki skygnst, sem ekki var von.

Og því næst verður Völuspá aðalheimild hans, kvæði, sem ekki er einungis markað af Óðinstrúnni, heldur líka kristnum áhrifum, baráttu kristni og heiðni, dómsdagsótta manna fyrir aldamótin 1000, og siðferðisalvörn og ímyndun hins nafnlausa

stórskálds, sem hana hefur kveðið. Þessi samfelda, siðferðislega lífsskoðun er ekki lífsskoðun heiðninnar, sízt alþýðunnar. Hún er tilraun til heiðins trúarkerfis. Og Snorri heldur lengra áfram sömu braut. Hann hefði helzt viljað úr öllum hinum fornu hugmyndum, sem oft voru sundurleitar, enn oftar í molum, skapa heiðna heimssögu, dramatiska eins og Völuspá, heiðna heimsmynd, skýra eins og heimsmynd kaþólskunnar í Divina Comoedia. Þessar tilraunir hans að skapa kerfi og samhengi hljóta oft að gefa rangar hugmyndir um anda heiðninnar. Og auk þess nær hann ekki tilgangi sínum. Sem dæmi þess, hve óljós heimsmynd hann er, skal ég aðeins nefna afstöðu Hvergelmis og hjartarins Eikþyrnis (sjá kap. 4, 39). Fyrir norðan Ginnungagap er Niflheimur, í honum miðjum brunnurinn Hvergelmir. Í miðju Ginnungagapi er jörðin, utan um hana útsærinn. Á miðri jörðinni er Miðgarður, yfir honum himininn, Valhöll o. s. frv., á Valhöll stendur hjörturinn. Til þess að af hornum hans drjúpi í brunninn, verða þau samkvæmt lýsingu Snorra að ná út yfir jörðina, útsæinn, Ginnungagap og inn í miðjan Niflheim!

Og loks bætast við alt þetta þau áhrif, sem kristnin hafði beinlínis á Snorra, eins og sýnt hefur verið með ýmsum dæmum, tillit hans til formálans (þegar hann t. d. í 7. kap. setur Ásgarð [= Tróju] á jörð, þó að bústaður goðanna auðvitað sé á himni) og tillit hans til listræns samhengis. Hjá Snorra nálgast Loki því meir sem á Gylfaginningu líður það að verða fullkominn djöfull, þó að bæði lýsing Snorra og ýmsar sögur sýni gjörla hið upprunalega tvíeðli hans, að koma af stað vandræðunum og bæta svo úr þeim. Í sögu Baldurs eru hinir fornu, vígdjörfu meðbiðlar orðnir að tómum skuggum, Baldur heilagur píslarvottur, Höður blint verkfæri. Loki er aðalpersónan. Samkvæmt þessum skilningi þykir þá Snorra óhæfa að láta hefndina koma fram á Heði. Þó að hann þekki vel söguna um hefnd Vála á Heði (eins og bezt sést af Skáldskaparmálum, smbr. líka, að Höður kemur „frá Heljar“, kap. 53), nefnir

hann hana ekki einu orði í Gylfaginningu. Hefndin bitnar öll á Loka. Hér hefur Snorri hugsað meira um rökrétta rás viðburðanna, en að taka nákvæmt tillit til heimilda sinna.

Þannig verður þá að líta yfir Gylfaginningu eins og að líta yfir gamlan bæ, þar sem búið hefur verið og bygt í 10 aldir. Af sumum elztu húsunum standa ekki nema rústir einar, turn eða gafl, sem veggflétta og mosi vefjast um. Sumsstaðar hefur hið forna haldið sér og við það verið bætt, þar ægir saman gömlu og nýju, ýmsum byggingarstílum, viðaukum og flúri. Og sum húsin eru öll nýleg, og stinga stundum dálítið í stúf við eldri byggingarnar

III.

En þó að þannig verði að treysta Gylfaginningu með sífeldri varúð, er hún engu að síður ómetanleg heimild. Jafnvel þar sem Snorri sjálfur skildi ekki sambandið til hlítar, getur hann hjálpað oss að finna það. Svo segir t. d. Völuspá frá vígi Gullveigar og ófriðinum milli Ása og Vana:

Brotinn var borðveggr
borgar Ása,
knáttu Vanir vígspá
völlu sporna.

En svo er ekkert samhengi sýnilegt milli þessarar vísu og þeirrar næstu: „hverr hefði lopt alt | lævi blandit“ o. s. frv. — Nú minnist Snorri ekki á Gullveigu. Veldur því vafalaust varkárni ein. Gullveig er enn þá torskýrð, og hefur sízt verið skiljanlegri á Snorra dögum. Frá ófriði milli Ása og Vana segir hann í Ynglinga sögu, en lætur Óðin þar berjast til landa Vana, og segir síðan frá sættargerðinni. En sagan um getnað Sleipnis í Gylfaginningu (kap. 42) varpar ljósi á Völuspá. Goðin fá eftir áeggjan Loka, sem sífelt situr um að ráða þau í hendur jötna, smið einn til þess að gera borg um Ásgarð — ekki, eins og Snorri heldur, af því að þetta væri í öndverða bygð goðanna

og engin borg hefði verið gerð, heldur einmitt af því að borðveggur þeirra var í rústum eftir styrjöldina við Vani. Nú skiljast vísurnar 24—25 í Völuspá. Loki hafði stofnað Freyju, sól og mána í hættu, Þór rauf alla eiða á smiðnum og undirbjó með því, eftir skilningi Völuspár, lok goðanna og hins forna heims.

Og margs fleira mætti geta til þess að sýna, hvert skarð væri í þekkingu vora, ef Gylfaginning væri ekki til. Án hennar mundi t. d. Auðhumbla ekki vera nema nafnið tómt og margt miklu óljósara um fornar hugmyndir um uppruna heimsins. Sumar perlur norrænna goðsagna, eins og um Njörð og Skaði, um Sigyn og Loka, sögurnar um ferðir Þórs, væru nú alveg gleymdar, ef Snorra nyti ekki við. Og jafnvel þar sem kvæði eru til, verður oss auðveldara að skilja þau og fylla upp í eyðurnar, af því að vér höfum frásögn hans til hjálpar, enda eru öll dróttkvæði goðsögulegs efnis, sem nú eru til, geymd í Eddu einni, og vandsagt, hve miklu áhrif frá Snorra hafa valdið um, að Eddukvæðin sjálf voru í letur færð.

En Gylfaginning er ekki einungis goðsöguleg heimild. Hún er líka verk einstaklings, þáttur af persónu hans og menningu samtíðarinnar, og hún er bók, sem hægt er að lesa án tillits til nokkurrar goðafræði.

Snorri kemur fram í Gylfaginningu eins og í Heimskringlu í einu sem vísindamaður og listamaður. Fróðleikur hans er einstakur, og virðist honum sífelt handbær, og skilningur hans gegnir furðu. Þó að honum skjátlist oftar í Eddu en í Heimskringlu, þá er auðvelt að skýra það. Því að það er ekki einungis sennilegt, að Edda sé fyr rituð, áður en hann hafði náð fylsta þroska, heldur var efnið líka miklu miður í hendur hans búið og í sjálfu sér örðugra að fjalla um það vísindalega.

Eins má segja, að sumir af glæsilegustu kostum sagnaritarans komi ekki fram í Eddu. Þar komst hinn sögulegi skilningur hans á rás viðburðanna og forlögum manna ekki að, heldur ekki lýsingar á ráðstefnum o. s. frv. Aftur á móti er hægt að benda á dæmi ritsnildar Snorra í Gylfaginningu, bæði gaman-

samar frásagnir og sorglegar, sem ekki standa að baki neinum köflum í Heimskringlu að áhrifum og listarblæ. Og því má ekki gleyma, að það hefur verið miklu örðugra að setja Gylfaginningu saman en nokkurt annað íslenzkt fornrit. Snorri fylkir efni sínu, sem er sótt úr svo mörgum áttum, með yfirliti sannarlegs andlegs hershöfðingja.

Ég hef þegar reynt að gera nokkra grein fyrir lífsskoðun Snorra, og m. a. tekið þar dæmi úr Gylfaginningu. Ef til vill er meira af lífsskoðun hans sjálfs í 1. kap. formálans og 5. kap. Gylfaginningar, en menn skyldu halda. Því er ekkert til fyrirstöðu, að Snorri, án þess beinlínis að kasta hinum kristilega barnalærdómi sínum, hafi við hlið hans myndað sér aðrar skoðanir um upptök heimsins o. s. frv. Og í þessum tveim kapítulum er fólgin, ekki einungis „eðlileg sköpunarsaga", heldur líka eðlileg skýring á uppruna trúarbragðanna. Snorri hefur breytt frásögu Vafþrúðnismála um uppruna lífsins. Það myndast ekki einungis af eiturdropum, heldur af andstæðu hita og kulda. Einmitt hjá manni, sem sjálfur bjó yfir jafnmörgum andstæðum kröftum og hvötum og Snorri, var slík skoðun eðlileg. Og hann hefur búið þessa kenningu sína í einkennilegan stíl, sem er tvíræður og flókinn eins og leyndardómurinn sjálfur, sem um er rætt.[1])

En einmitt einn af merkilegustu kostum Gylfaginningar, eins og fornbókmenta Íslendinga yfirleitt, veldur því, að hún fræðir oss furðu lítið um höfundinn. Það er andlægni Snorra, að hann gleymir sjálfum sér efnisins vegna, reynir að skilja það frá þess eigin sjónarmiði, skýra frá því með fullri óhlutdrægni. Þó að kristinna áhrifa gæti nokkuð á hugmyndir hans um heiðnina, þá er slíkt með öllu óhjákvæmilegt. Fullkomin gögn til þess að greina sundur heiðnar og kristnar hugmyndir

---

[1]) Kristin áhrif gægjast hér fram í orðunum: „með krapti þess, er til sendi hitann" —, en þau eru alls ekki nauðsynleg í þessu sambandi.

eru ekki fundin enn í dag, og furða hve skömmu feti vér erum þar komnir lengra en Snorri. Og um hitt er meira vert, að í Gylfaginningu kennir hvergi neinnar kristinnar þröngsýni. Snorri býr svo um goðafræði sína, að hann getur sagt frá henni án vantrúar og vandlætingar, án andúðar og fyrirlitningar, með sömu alúð og hann væri að segja frá sínum eigin trúarbrögðum, og ekki afræktri og fordæmdri villutrú.

Auðvitað stóð Snorri í þessu efni eins og öðrum á herðum íslenzkrar menningar. Þó að Ísland hefði átt nóg af klerkum, bæði utan klaustranna og innan, sem voru fulltrúar hinnar kristilegu vandlætingar, þá gátu þau áhrif ekki kæft hinn frjálsa leikmannsanda. Og einmitt goðunum, sem vissu að rætur valds síns stóðu í hinni fornu trú, gat verið það áhugamál að hún væri ekki fyrirlitin úr hófi. Það gat verið hættulegt vopn í hendi prestanna í baráttunni um völdin. En Snorri er ekki einungis arfþegi, hann bætir líka við. Ef rétt er að segja, að annað eins verk og Gylfaginning hefði ekki á 13. öldinni getað orðið til með neinni annari þjóð en Íslendingum, þá má óhætt bæta við, að enginn Íslendingur hafði slík skilyrði til þess að skrifa hana sem Snorri. En það er óþarfi að segja: á 13. öld. Það er óþarfi að bera Snorra saman við samtímamann sinn Saxa til þess að finna hina gífurlegu yfirburði í frjálslyndi og skilningi. Það er ekki fyr en á 19. öld, sem menn hafa komist fram úr Snorra í vísindalegri goðafræði. Og þá hefur þá vantað það lifandi samband við sagnir og þjóðtrú, sem ekki var rofið á hans dögum, og eigi síður þá list í framsetningu og frásögn, sem gefur ritum hans annað og meira gildi en hið vísindalega.

Gylfaginning er eitt af hinum eilífu verkum, sem barnið getur lesið næst á eftir stafrófskverinu (ég tala þar af eigin reynslu), og síðan aftur og aftur, á öllum stigum þroska og þekkingar, lesið sífelt með nýjum og nýjum árangri. Hún er í einu ljós og torskilin, einföld sem dúfa og slæg eins og högg-

ormur, eftir því hve lesandinn legst djúpt í hana. Því að þótt heiðin lífsskoðun njóti sín þar ekki til fulls, þá er hennar ekki að leita í fullkomnari heild í neinu öðru verki, og Gylfaginning bætir það að nokkru leyti upp með því að spegla ekki einungis fornan sið og forna menningu, heldur líka samtíma sinn og menningu hans.

---

## Fimti þáttur.

# Íslenzk sagnaritun.

---

### I.

Ef vér berum saman elzta sögurit Íslendinga, sem varðveitt er, Íslendingabók Ara Þorgilssonar, og eina af yngstu Íslendingasögunum, Víglundar sögu, þá er munurinn geysimikill. Bók Ara er vísindarit, sannleikurinn er honum fyrir öllu, ekkert er sagt án þess að styðja það eftir föngum með vitnisburði óljúgfróðra manna. Því fer svo fjarri, að höfundurinn grípi nokkurn tíma til ímyndunar sinnar til þess að klæða viðburðina í ásjálegan búning, svo að þeir geti staðið lifandi fyrir hugskotssjónum lesandans og hrifið hug hans og tilfinningar, að það er þvert á móti full ástæða til þess að halda, að hann hafi klætt þá úr miklu af þeim umbúðum, sem þeir voru í frá hendi sögumanna hans. Ari leitar að grind sögunnar, áreiðanlegustu aðalatriðunum, því sem sízt getur hafa í munni gengist. Aftur á móti er Víglundar saga hreinn skáldskapur. Það er ekki einu sinni því að heilsa að höfundur hennar hafi án frekari rannsókna fært í letur einhverjar þjóðsögur, heldur hefur hann sjálfur beinlínis búið til persónur og viðburði. Og hann hefur ekki gert það í neinum ádeilutilgangi né í launaskyni, né heldur til þess að halla réttu máli sér í vil (eins og t. d. Víðdælingurinn, sem samdi Finnboga sögu ramma af tómum sveitarmetnaði), heldur er tilgangur hans sá einn, að skemta lesandanum

og hrífa hann. Þar sem Ari er hreinn vísindamaður, er höfundur Víglundar sögu hreinn listamaður .

Þegar gætt er þessara andstæðna, er engin furða þótt sú skoðun hafi komið fram, að íslenzk sögurit verði að greina í flokka, sem djúp sé staðfest á milli. Sum þeirra séu vísindaleg sagnarit, sum þjóðsögur, sum skáldsögur. Og samt er þessi skoðun stórhættuleg fyrir réttan skilning á sögunum. Hún raskar eðlilegu samhengi og varpar villuljósi á mikilsverðar staðreyndir.

Þrátt fyrir allan muninn á Íslendingabók og Víglundar sögu, má sjá þess merki við nánari athugun, að Ari bendir fram á við til Víglundar sögu og hún aftur til Ara. Þó að frásögn Ara sé óneitanlega þurr, þá gæti hún vel þurrari verið. Til þess að sannfærast um það, er nóg að bera saman Íslendingabók og Íslenzka annála. Ari hugsar bæði um að hafa samhengi í frásögn sinni, og hafa hana ekki naktari en svo, að hún sé læsileg. Má þar t. d. minna á draum Þorsteins surts, en einkum frásögnina um kristnitökuna. Ari tilfærir orðréttan kafla úr ræðu Þorgeirs Ljósvetningagoða, þó að vísindalegra hefði verið að skýra aðeins frá efninu, eins og hann gerir um fyrra hlutann, þar sem hann þekti ekki einu sinni neinn heyrnarvott. En þetta gerir viðburðinn lifandi, án þess að fjarlægjast nákvæmnina að mun.

Og eins og Ari er ekki einungis þurr staðreyndaritari, er Víglundar saga heldur ekki tóm lygasaga. Sum af nöfnunum eru söguleg (Haraldur hárfagri, Hólmkell á Fossi og bræður hans), sagan er látin gerast á vissum stöðum á vissum tímum, og höfundur hefur allan vilja á, þótt getan sé ekki að sama skapi, að lýsa háttum þessara liðnu tíma. Henni verður því ekki neitað um að heita söguleg skáldsaga.

Samt skal ég fúslega játa,að ef Íslendingabók og Víglundar saga stæðu einangraðar hvor á sinni öld, þá væri sú brú, sem hægt væri að byggja á milli þeirra úr þeim atriðum, þar sem hvor bendir til annarar, alt of veik. En nú komum vér einmitt

auga á þessi atriði af því að brúin er þegar bygð, af mörgum verkum, sem liggja milli þessara tveggja andstæðna og bera beggja svip í ýmsum hlutföllum. Vér höfum rit, sem gefa Ara lítið eftir í vísindalegri nákvæmni, en þar sem viðleitnin að lýsa viðburðunum og hrífa lesandann kemur miklu greinilegar fram, og önnur, sem eru sízt óskemtilegri né miður átakanleg en Víglundar saga, og þó miklu meira hirt um satt söguefni. En þar á milli eru svo enn önnur rit, sem torvelt væri að vita, hvar skipa skyldi, ef flokka ætti sögurnar í vísindarit og skáldsögur, bæði af því að samræmi beggja stefnanna er svo fullkomið, og af því að oss skortir gögn í hendur til þess að skera úr því með vissu, hvað er áreiðanlegur sannleikur, hvað arfsögn, breytt og aukin í munnmælum, og hvað er sjálfráður tilbúningur höfundar.

Það er skoðun mín, að öll þau verk, sem liggja á milli Íslendingabókar og Víglundar sögu, að þeim báðum meðtöldum, sé rétt að heimfæra undir *sagnaritun*. Þessu hefur oft verið andmælt, og sumum þykir það meira en goðgá, að nefna því nafni fornaldarsögur og aðrar lygisögur. En aðalatriðið er, að sögurnar eru allar ein þroskaheild, svo að hvergi er rétt að draga fastar markalínur. Og ef vér munum eftir, að *öll sönn sagnaritun er jöfnum höndum vísindi og list,* þá er síður hætt við, að nafnið leiði oss á glapstigu. Íslenzk sagnaritun er ekki samkynja heild í þeim skilningi, að öll verkin megi dæma á sama hátt. Hún byrjar á vísindum, endar á skáldsagnagerð, og á sér öll blæbrigði þar á milli. En hún er heild að því leyti, að hún þroskast og henni hnignar í órofnu samhengi og eftir sínum eigin lögum, og það eru sömu meginstefnurnar í ýmislegum hlutföllum, sem ráða örlögum hennar frá upphafi til enda. Að gera sér grein fyrir þessum stefnum, baráttu þeirra og samvinnu, varpar áreiðanlega meira ljósi á verkin og sögu þeirra, en að reyna að flokka þau eftir nýrri tíma greinargerðum, sem höfundum þeirra aldrei höfðu dottið í hug, eða að leita að vafa-

sömum erlendum áhrifum, sem lítið gætu skýrt, þótt sönnuð væru.

En meginstefnur íslenzkrar sagnritunar eru tvær, þær sem eru því nær einangraðar í þeim tveim ritum, sem ég hef talað um. Það er ókleift að gefa þeim nöfn, sem gera réttilega og fyllilega grein fyrir þeim, og ég hef ekki fundið önnur betri en *vísindi* og *skemtan*. Þau verða svo að skýrast og leiðréttast smám saman.

Fá almenn lögmál um mannlegan þroska munu vera mikilvægari en lögmálið um frjósama baráttu tveggja andstæðna. Meðalvegurinn er því að eins mikils virði, að hann sé ekki fundinn af tómu kæruleysi og kraftaleysi, baráttulaust, heldur sé hann miðlun hins sterka milli tveggja afla, sem togast á og haldið er í sæmilegu jafnvægi. Aftur á móti er hnignunin einatt fólgin í sundurlausu og öfgum, einangrun stefnanna. Í siðferðinu verða þessar öfgar svall eða meinlæti, starfsfálm í blindni eða dáðlausir draumórar, í listinni of mikil rækt við formið eitt, eða þá full lítilsvirðing þess. Víglundar saga, og þó einkum sumar fornaldarsögurnar, eru greinileg dæmi hnignunar. Sagnaritunin var að sleppa af sér því taumhaldi, sem vísindin höfðu áður á henni haft, var að verða að raufarasögum, þar sem ekki var um annað hugsað en hrúga saman sem mestu af því, er orðið gæti til stundargamans. En er Ari ekki jafneinhliða á sinn hátt, er ekki vísindastefnan einangruð í honum? Svo getur virzt, ef fljótt er á litið. Á Ara og annálunum, hnignunarverkum vísindastefnunnar, er ekki svo næsta mikill munur á yfirborðinu. En því meiri er munurinn, sem undir felst. Og hann er sá, að á tímum Víglundar sögu og annálanna voru báðar stefnurnar komnar nærri skeiðsenda, og farnar að einangrast í skrifuðum verkum. Á dögum Ara höfðu engar skemtisögur verið skrifaðar. En samt voru þær til. Þær vöktu óskrifaðar á vörum þjóðarinnar, en í stað þess að verða frá upphafi að sjálfstæðri bókmentastefnu, einangra sig frá hinni vísindalegu sagnakönnun, sem Ari hóf, höfðu þær sífeld áhrif á hana,

voru lifandi þrýstingur, sem lagaði hana eftir sér og sig eftir henni. Þannig mótaðist listin undir fargi vísindanna, en átti altaf nóg fjaðurmagn til þess að láta ekki kefja sig. Vísindin héldu henni í hollum skefjum, og hún verndaði þau frá því að þorna upp, eins og þau hefðu annars hlotið að gera. En þennan skilning á þróun sögunnar, sem hér er rissaður eins og hugarburður einn, skal ég nú reyna að skýra og rökstyðja eftir því sem föng og rúm leyfa.

## II.

Sumarið 1119, tveimur árum eftir að skrásetning laganna hafði verið samþykt á alþingi, var brúðkaup haldið á Reykjahólum, sem fyrir ýmissa hluta sakir varð allsögulegt. Einn þátturinn í frásögu Þorgils sögu og Hafliða af brúðkaupi þessu er svo merkur í þessu sambandi, að ég verð að tilfæra hann hér í heild sinni, þótt ýmsir hafi orðið til þess áður:

„Þar var nú glaumr ok gleði mikil ok skemtan góð ok margs konar leikar, bæði danzleikar, glímur ok sagnaskemtan. .... Þat er í frásögn haft, er nú mæla margir í mót, ok látask eigi vitat hafa, því at margir ganga duldir ins sanna ok hyggja þat satt, er skrökvat er, en þat logit, sem satt er: Hrólfr af Skálmarnesi sagði sögu frá Hröngviði víkingi ok frá Ólafi Liðsmannakonungi, ok haugbroti Þráins berserks ok Hrómundi Gripssyni, ok margar vísur með. En þessari sögu var skemt Sverri konungi, ok kallaði hann slíkar lygisögur skemtilegastar. Ok þó kunna menn at telja ættir sínar til Hrómundar Gripssonar. Þessa sögu hafði Hrólfr sjálfr saman setta. Ingimundr prestr sagði sögu Orms Barreyjarskálds ok vísur margar ok flokk góðan við enda sögunnar, er Ingimundr hafði ortan, ok hafa því (réttara: þó) margir fróðir menn þessa sögu fyrir satt“ (Sturl. I, 34—35).

Ef vér einungis athuguðum sögurit Íslendinga, eins og þau eru til vor komin, er hætt við, að niðurstaðan yrði sú, að sannleiksástinni hefði smátt og smátt hnignað, smekkurinn breyzt,

og þá fyrst hefðu ýktar og tilbúnar sögur náð tökum á sagnaritunni, henni til niðurbrots. En nú er þess að gæta, að fornaldarsögurnar hafa margar inni að halda býsna forn minni, sem benda á mikinn aldur, og auk þess er alls óeðlilegt að hugsa sér, að sagnaskemtan hafi fyrst náð þroska á Íslandi sem þáttur í hnignun vísindalegrar starfsemi. Á þetta atriði varpar nú frásögnin um brúðkaupið á Reykjahólum skýru ljósi. Hún sýnir, að skemtisögur voru lifandi og fullsamdar á Íslandi áður en sagnaritunin hófst. Þessar sögur hafa verið alveg í sama stíl og fornaldarsögur þær, sem vér nú höfum, efnið haugbrot og önnur æfintýri, ofin saman úr gömlum munnmælum og ungum skáldskap, vísur og kvæði ort inn í af sögumönnum sjálfum, alt sagt til þess að skemta, svo að áheyrendur vita vel, að sögurnar eru skreyttar, og leggja ekki á þær trúnað, nema eftir því sem hver er skapi farinn.

Hinn tilfærði kafli úr Þorgils sögu og Hafliða[1]) ber vott um áhyggjur, sem ekki er líklegt, að hafi truflað skemtun brúðkaupsgestanna á Reykjahólum. Ég efast um, að fyrirlitningarorðið ‚lygisaga‘ (um skemtisögu) hafi verið myndað 1119. En þrem mannsöldrum síðar er ríki vísindastefnunnar orðið svo mikið, að þessi skemtan þykir þurfa afsökunar við. Og það er fært fram, að fótur muni þó vera fyrir þessum sögum, og sé varasamt að láta efagirnina keyra úr hófi, en jafnvel þótt þær væru ekki nema uppspuni, hafi samt Sverrir konungur sjálfur látið sér sæma að hafa af þeim mestu skemtun.

En það er auðsætt, að gestirnir á Reykjahólum og Sverrir

---

[1]) Um uppruna þessa kafla hefur verið mikið deilt, án þess að nokkur af meginatriðunum hafi verið verulega rengd. Þau munu öll vera frá höfundi sögunnar, höfð eftir heyrnarvottum. En síðan hefur einhver skrifari aukið athugasemdum inn í, m. a. tilvísuninni til Sverris. Get ég um þetta vísað til Heusler, Die Anfänge der isländischen Saga, 20—26, og þeirra rita og ritgerða, sem þar er vitnað í.

konungur standa í þessu efni á upprunalegu og eðlilegu stigi. En athugasemdirnar í Þorgils sögu og Hafliða gera ráð fyrir einkennilegri þróun, sem þarf skýringar við.

Það er deginum ljósara, að af tveim frásögnum er sú *að öðru jöfnu* áhrifameiri, sem er áreiðanleg og vitni eru til að. Þetta atriði stuðlar einmitt að því að tengja saman vísindi og skemtan, eins og ég mun síðar víkja að. En fyrst og fremst má aldrei gera ráð fyrir þeim rannsóknaranda hjá alþýðu manna, að hún heimti vitni um hvað eina. Og auk þess skilja menn ósjálfrátt, að til er annar sannleikur en staðreyndasannleikur. Frásögn getur verið tilbúin, og samt átt sér sannleiksstyrk sinn í sjálfri sér, í samræmi sínu við reyndina, það sem *gæti* gerst, og skilningi sínum á henni. En auk þess felst mikið í þessu: *að öðru jöfnu*. Hugarfar manna getur verið svo á sig komið, sumra löngum, flestra ekki nema stundum, að þeir fái ekki þörfum sínum svalað á frásögnum um hversdagslega viðburði, venjulega menska menn og konur. Veruleikinn verður þeim of fátækur, þeir leita út fyrir hann, ekki einungis út fyrir hið sanna, heldur líka hið sennilega, leita að því sem hugurinn girnist, því hrikalega, draumkenda, dásamlega, fjarstæða. Þeir leita að því, sem farið geti eldi um þá hluta sálarinnar, sem aldrei hafa fengið að njóta sín í daglega lífinu, og finni þeir þessari þörf fullnægt, er ekki um annað spurt. Það er gaman, að einmitt Sverrir konungur skuli vera nefndur í þessu sambandi. Menn leita þess oft í skemtan sinni, sem fjarst er daglegu lífi þeirra. Það er ósjálfráð viðleitni til þess að halda við jafnvægi og réttum hlutföllum í sálarlífinu. Friðsamir borgarar eru sólgnir í sögur um glæpi og gerræði, verkamenn vilja lesa um aðalsmenn og auðkýfinga, o. s. frv. Framkvæmdamaðurinn Sverrir gat á vökunni, eftir störf og þjark dagsins, verið sérstaklega fús að hlýða æfintýrum og fornaldarsögum sér til skemtunar og hressingar.

Það sem nú hefur verið sagt, á í raun og veru við um allan skáldsagnalestur. En um þjóðsögur og munnmæli verður auk

þess að athuga, að menn eru að eðlisfari trúgjarnir, áður en þeir hafa verið hvektir eða hafa á annan hátt lært að efast. Þeir hugsa lítið um að greina milli þess, sem *hefur* gerst og *hefði getað* gerst. Og dómgreind hvers manns nýtur sín ekki að fullu, nema á takmörkuðu svæði, þar sem hann nær til með reynslu sinni og sérþekkingu. Vér Íslendingar erum nú orðnir svo gömul söguþjóð, alls konar sagnafræði hafa um svo margar aldir verið helzta andlegt viðurværi vort, að einhver dómgreind á þau efni er orðin flestum eðlileg. En eins og þessi dómgreind er á afarlágu stigi með alþýðu margra þjóða, má vel hugsa sér, að hún hafi ekki altaf verið jafnnæm á Íslandi. Það hefur verið furðu auðvelt að draga söguefnin út fyrir vébönd hennar með því að láta atburðina gerast fjarri og fyrir löngu.

Þessar almennu hugleiðingar verða að bæta upp að nokkru fátækt heimildanna, þegar vér viljum gera oss grein fyrir sagnaskemtun Íslendinga á 11. og 12. öld. Eins og enn mun verða sýnt, tók íslenzk sagnaritun þá stefnu, að furðu langt leið þangað til farið var að færa þessi alþýðlegu fræði í letur. Annar smekkur og önnur stefna réðu efnisvali hinna ritandi manna. Og sagnarit vor eru yfirleitt fáorð um sagnaskemtun og sagnaritun. Sagan var ekki sjálfri sér söguefni. Vér verðum því að styðja þær fáu staðreyndir, sem tilviljunin hefur látið í minni geymast, með þeirri almennu skoðun, að Íslendingar á dögum Ingimundar prests hafi ekki verið frábrugðnir venjulegu fólki í því að leita sér skemtunar í allskonar frásögum, án þess að hirða um sannindi þeirra, eða jafnvel án þess að líta nokkurn tíma á þær frá því sjónarmiði.

Oddur munkur Snorrason talar í formála sínum fyrir Ólafs sögu Tryggvasonar, sem er rituð í lok 12. aldar, með ærinni lítilsvirðingu um „stjúpmæðrasögur, er hjarðarsveinar segja, er engi veit hvárt satt er, er jafnan láta konunginn minztan í sínum frásögnum“, og segir um sína eigin bók um Ólaf, að „betra er slíkt með gamni at heyra“. Má hér bæði kenna vandlætingu munksins, er honum þykir konungdóminum misboðið,

og sagnaritarans, er hann bregður stjúpmæðrasögunum um vitnisleysi þeirra. En um leið bendir hann á, að sannar sögur og um háleitara efni geti líka orðið til skemtunar. Einmitt með því viðurkennir hann tök skemtisagnanna á hugum alþýðunnar, eins og Guðbrandur biskup með Vísnabók sinni viðurkennir vinsældir „brunavísna og afmorskvæða“. En sögur þær, sem Oddur talar hér um, eru auðsjáanlega æfintýrin. Ef þau væru ekki til Íslands komin fyr en á 12. öld, mundu þau varla hafa verið orðin almenn eign smalamanna í lok aldarinnar. Ég verð því að hallast að þeirri skoðun, að þau séu talsvert eldri, sum til Íslands komin með landnámsmönnum, og hafi ekki einungis verið alþýðu manna til skemtunar, heldur haft mikil áhrif á þróun fornaldarsagnanna og þannig óbeinlínis á sagnaritunina í heild sinni.

Á æfintýrin hafa menn ekki, að því leyti sem þeir hugsuðu um það atriði, lagt sögulegan trúnað. Og líkt hefur verið um ýmsar goðasögur í æfintýrastíl og Eddukvæðin sjálf um 1100 og þar á eftir. Mér finst margt benda á, að Sophus Bugge hafi rétt fyrir sér í því, að Eddukvæðin séu ekki færð í letur fyr en eftir að Snorri skrifaði Eddu sína. Sýnir það þá glögt, hversu vísindalega sögustefnan stjórnaði ritandi mönnunum. En Snorri skrifaði Eddu í orði kveðnu hvorki til skemtunar né sem söguvísindi, heldur til þess að vera kenslubók handa ungum skáldum. Með því komst hann hjá því að brjóta bág við vísindastefnuna, en gaf gildi kvæðanna samt þá viðurkenningu, er greiddi þeim leiðina til þess að vera skrásett.

En merkilegast í þessu sambandi er það, sem hægt er að vita um fornaldarsögurnar. Að því leyti sem þær eru spunnar af fornum minnum frá Noregi, má ætla, að útflutningurinn hafi glætt þær mjög, eins og allan sögufróðleik Íslendinga, og sú skoðun Alexanders Bugge, að líkar sögur („Víkinga-sögur“) hafi byrjað að myndast meðal allra norrænna útflytjenda, þótt þær næðu hvergi verulegum þroska, nema á Íslandi, er mjög sennileg. Elzta fornaldarsaga, sem á er minst, er Vatnars

saga (Landnáma 231), en lítið verður af þeirri frásögu ráðið. En sagan um Reykjahóla-brúðkaupið varpar ljósi bæði aftur fyrir sig og fram fyrir. Meginið af sögum þeim, sem Íslendingar sögðu í Noregi til þess að skemta mönnum (t. d. Íslendingurinn sögufróði hjá Haraldi harðráða, Fjörutíu Íslendinga þættir, 173 o. áfr.), hafa einmitt verið fornaldarsögur. Þær voru bezt til þess fallnar, og Norðmenn hirtu hvorki um söguvísindi né íslenzka mannfræði. Dæmi Sverris er þar ljósast, og Sturla Þórðarson sjálfur grípur til „tröllkonu sögu" til þess að skemta mönnum Magnúsar lagabætis og síðan konungi sjálfum (Sturl. IV, 143—44). En bezta hugmynd um, hvílíkan auð af fornaldarsögum Íslendingar hafa átt á 12. öld, fáum vér með því að athuga það brot af þeim, sem barst til Danmerkur og er nú svo mikill þáttur í verki Saxa. Verð ég að vísa til rannsókna Axel Olriks á því efni (Kilderne til Sakses Oldhistorie, I—II; Arnald Islænding, í Nordisk Tidskrift 1911). Samt hygg ég, að Íslendingar eigi enn meira þátt í þessum norrænu sögum en Olrik heldur. Hann byggir skoðun sína á tilveru norskra sjómannasagna einkum á því, að öll norsk örnefni í bók Saxa séu á strandlengjunni frá Þrándheimi og suður á Jaðar. En þetta var einmitt sá hluti Noregs þar sem *Íslendingar voru kunnugastir*. Það er því ekki nein tilviljun, að það er íslenzka hirðskáldið Arnaldur Þorvaldsson, sem flytur þessar sögur til Danmerkur.

Af öllu þessu þykist ég mega ráða, að fyrir utan hið sanna söguefni, sem ég nú mun víkja að, hafi Íslendingar í byrjun ritaldir átt geysimikið af ýmiskonar frásögnum, sem hafðar voru til skemtunar. Menn löguðu þessar sögur í hendi sér eftir geðþótta, án þess að fjarlægjast þó veruleikann úr hófi, ortu inn í þær vísur og kvæði og skreyttu þær á ýmsan hátt. Eins og það er víst, að fornaldarsögur þær, sem við nú eigum og færðar eru í letur löngu eftir að Íslendingasögur höfðu náð þroska, eru að ýmsu leyti lagaðar eftir þeim, svo má telja líklegt, að þegar fyrst var farið að rita Íslendingasögur, hafi fornaldarsögurnar haft talsverð áhrif á þær. Sumar fornaldarsögur hafa

verið „settar saman“, orðnar að söguheild, á undan nokkurri Íslendingasögu. Af tveim hlutum var auðveldara að setja saman þá sögu, sem óháðari var sannindunum. En dæmi fornaldarsagnanna knúði aftur Íslendingasögurnar til samhengis og söguforms.

Þegar loks er farið að skrifa fornaldarsögurnar, sýnir sig, að nóg efni var til, þó að margt væri þá gleymt, sem menn höfðu kunnað á 12. öld. Það er eins og þær losni undan fargi. En hversvegna var ekki farið að skrifa þær fyr, þegar þjóðin færði svo margt annað í letur? Það þarf skýringar við. Hvað var þetta farg, sem hefti alveg skrásetningu æfintýranna, tafði fyrir leturfærslu Eddu-kvæða og goðsagna, reis í fyrstu öndvert gegn kröfum alþýðu til skemtunar, og lét síðan ekki eftir þeim nema fet fyrir fet? Það var vísindastefnan. Fyrir uppruna hennar skal ég nú gera nokkra grein.

## III.

Við og við hafa risið deilur um það, hvort Íslendingar eða Norðmenn ættu í raun og veru upptök sagnanna. Norðmenn hafa stundum reynt að sýna, að konungasögurnar hafi verið fullsamdar á vörum Norðmanna, þó að Íslendingar hafi fært þær í letur (Rudolf Keyser), stundum að engin veruleg sagnaritun hafi verið til á Íslandi fyr en Sverrir lét rita sína sögu (Halvdan Koht). Það má telja Íslendingum til gildis, að þeir hafa látið sig þetta litlu skifta, hafa fundið eignartök sín svo föst á þessum bókmentum, að þarfleysa væri um það að deila. Enda skiftir slíkt litlu máli frá metnaðar sjónarmiði. Um hitt er meira vert, að með því að eigna Norðmönnum upptök sagnanna, mundi frá byrjun komast rangt skrið á rannsóknina, er síðan hlyti að skekkja allan skilning.

Auðvitað hafa Norðmenn fyrir og eftir að Ísland bygðist, líkt og aðrar þjóðir á sama menningarstigi, vitað og munað margt um liðna viðburði og metið skemtan þá og fróðleik, sem í slíku var fólginn. Er nægilegt að minna á kvæði eins og

Ynglingatal og Háleygjatal þessu til sönnunar, og sögur, sem bent er til með fornum kenningum (um Hagbarð, Amlóða o. s. frv.). Íslendingar hafa haft undirstöðu söguþekkingar sinnar, eins og alls annars, með sér frá Noregi. En á hitt verða aldrei sönnur færðar, að upp úr þessari undirstöðu mundi nokkurn tíma í Noregi hafa sprottið neitt sviplíkt íslenzkri sagnaritun, jafnvel þótt Íslendingar hefðu ekki tekið það ómak af Norðmönnum að skrifa sína eigin sögu. Það getur verið, að Norðmenn hefðu eignast eitthvað meira af latneskum sagnaritum á borð við Theodricus, ef til vill annan Saxa á dögum Hákonar gamla. Og þó ber þess að gæta, að hvorki Theodricus né Saxi hefðu verið það, sem þeir eru, ef þeir hefðu ekki beinlínis og óbeinlínis lært af Íslendingum, eins og þeir sjálfir játa.

Upptök íslenzkrar sagnritunar er í sjálfum flutningi landnámsmannanna vestur og norður um haf. Það mætti segja, að óhamingjusöm ást á Noregi, gamla landinu, sé dýpsta rót hennar. Það er ekki einungis, að sjóndeildarhringurinn víkkaði við búferlin, við dvöl margra landnámsmanna vestan hafs, við nýja reynslu og nýja átthaga, síðan við utanfarir flestra heldri manna sona, heldur varð hugurinn tvískiftur. Menn áttu tvö ættlönd, þeir lifðu bæði á Íslandi og í Noregi, í Noregi í fjarsýn, í Noregi að fornu og nýju. Sú skifting hugans, sem er undirstaða allrar athugunar, einkum á sjálfum sér, var mynduð.

Þetta kemur heim við reynslu Grikkja. Það er ekki tilviljun, að bæði Hómerskvæði og Heródót eru komin frá nýlendum þeirra. Fjarlægðin frá því, sem menn unna, kennir þeim að muna. Því er líka sennilegt, að vísir til sagna hafi myndast með öllum norrænum útflytjendum, þó að þær næðu hvergi blóma nema í stærstu, stöðugustu, kyngöfgustu, afskektustu nýlendunni, Íslandi.

Landnámsmennirnir björguðu ýmsu, þegar þeir fluttu til Íslands, frelsi sínu og oflæti. Þeir eignuðust líka ný lönd og víð, búin mörgum kostum, og nýjan þroska, sem kemur ekki einungis

fram í sögunum, heldur líka kveðskap og löggjöf. En því má ekki gleyma, að þeir mistu líka mikils:

Hef ek lönd ok fjöl frænda
flýt, en hitt er nýra:
köld eru kaup ef hreppik
Kaldbak, en læt akra.

Þó að þessi vísa sé talin miklu yngri en landnámstíð, mun hún eigi að síður lýsa rétt tilfinningum margra landnámsmanna, tilfinningu, sem enn er varla kulnuð með öllu á Íslandi. Íslendingar hafa aldrei orðið eins bólfastir í landi sínu og aðrar bændaþjóðir.

„Grátum eigi, en munum lengur“, sagði Sigmundur Brestisson. Það má muna í öðru skyni en til þess að hefna. Það má muna til þess að bjarga því, sem borgið verður, af einhverju verðmætu, sem mist er. ‚Viðhald gildanna‘, sem Höffding hefur reynt að sýna, að væri hugsjón allra trúarbragða, er líka einmitt aðalatriðið í viðleitni sagnfræðingsins. „Sagan er upprisa“ (résurrection) sagði Michelet, og þau orð eru höggvin á legstein hans. Hvenær sem ástfólginn vinur eða frændi, eða einkennilegur og merkilegur maður deyr, eru minningarnar viðleitni þeirra, sem eftir hann lifa til þess að láta hann ekki hafa horfið í haf tímans án þess að skilja eftir eitthvert spor á sandinum. Íslendingar reyndu að bæta sér upp missi akra og óðala í Noregi með því að muna landið sem bezt. Staðalýsingar sagnanna, sem oftast eru ritaðar af mönnum, sem höfðu ekki komið þar, sýna hvað þeim tókst í þessu efni. En miklu meira en að missa landið, var að missa ‚fjöl frænda‘. Ættin var svo mikill þáttur í lífi einstaklings og þjóðfélags, að enginn missir gat í einu verið meiri styrksviftir og sársauki. Fyrir samvistirnar við þessa frændur varð ekki bætt nema með því að muna þá sem bezt. Og í því var líka styrkur, því að Íslendingurinn, sem til Noregs kom, þurfti að kunna þess skil, hvar hann átti þar frændsemi að vitja. Auk þess var það ekki einungis metnaður

að eiga gott ætterni, heldur var það metið meira en gnótt fjár, en öll íslenzk ættvísi varð í upphafi að horfa til Noregs. Á þennan hátt varð flutningurinn til þess að gera ættvísina auðugri og meira umhugsunarefni en áður, en hún varð síðan grindin í miklu af sagnaauði Íslendinga.

En ættvísin varð líka skóli í sannleiksleit. Þar sem sögur og kvæði eiga sér gildi þó að sannindin gangi frá, voru ættartölurnar að engu nýtar, nema þær væru teknar trúanlegar. Engum gat dottið í hug að búa slíkt til sér og öðrum til skemtunar. Þessi fróðleikur, sem fékk alt gildi sitt af samræmi sínu við veruleikann, varð kjarninn í sögusögnum, þar sem áherzlan var lögð á sannleikann. En þær höfðu aftur áhrif á hinn mikla bálk sagna, sem sagður var *bæði* til fróðleiks og skemtunar. Auðvitað gátu þessi áhrif ekki náð nema til samtímaviðburða og meðferðar þeirra, þau gátu ekki leiðrétt munnmæli um löngu liðna atburði. Þessvegna hefst sannfróð saga Noregs ekki fyr en með tildrögum og upphafi Íslands bygðar.

Almenn mannleg einkenni taka höndum saman við þessar sérstöku ástæður, sem vísindaleg viðleitni íslenzkrar sagnaritunar er sprottin upp úr. Það er til í hverjum manni sannleiksþörf, þörf á að láta vitund og veruleika vera hvort öðru samkvæm. Hún getur komið fram á broslegan hátt, eins og t. d. þegar hjón deila lengi um, hvort ómerkilegur hversdagsviðburður, sem þau eru að segja frá, hafi heldur gerst á miðvikudag eða fimtudag, þó að það annars hafi engin áhrif á söguna. En hún er líka undirstaða allrar raunverulegrar þekkingar. Vegna hennar bætir það við áhrif sögunnar, ef hún auk alls annars er líka sönn, og vér viljum helzt láta þann veruleika, sem skröksögurnar skapa eða skekkja, vera sem fjarlægastan, svo að vér getum ekki gengið úr skugga um tilbúninginn. Samtímaviðburði vilja menn vita með svo miklum sannindum, sem unt er, og næsta stigið er að reyna að muna sögurnar óbrjálaðar. Frá þessu sjónarmiði, fróðleiks og sannleiks í einu, mynd-

ast svo hugsjónin: óljúgfróður maður, um þann, sem bæði veit margt og veit rétt.

Þannig hafa Íslendingar áður en ritöld hófst farið með söguefni það, sem þeir kunnu, bæði sér til skemtunar og líka sér til fróðleiks. Og hvor þessara stefna var að nokkru leyti sér um efni. Menn höfðu lært að fregna með alúð um erlenda og innlenda viðburði, og nema og muna þessar sögur og aðrar eldri með nákvæmni. Minnið var trútt, enda fremur fátt á það að leggja. Ættvísin studdi allan þennan fróðleik, tímatalið og röð viðburðanna, og studdist aftur sjálf við áhuga og metnað ættanna. Annar meginþáttur voru vísur og kvæði eftir nafngreind skáld og um nafnkunna menn. Utan um þau safnaðist mikið af sögulegu efni, vísurnar urðu oft ekki skildar án stuttrar frásagnar til skýringar. Og þar sem þessi skáldskapur var svo formbundinn, að hann varð annaðhvort að geymast óbreyttur eða gleymast algerlega, gat hann oft orðið til þess að leiðrétta sögusagnir, svo að ekki varð borið á móti. Þó að notkun dróttkvæðanna sem söguheimilda kæmist ekki á verulega hátt stig fyr en talsvert var liðið á ritöld, hefur hún vafalaust verið byrjuð miklu fyr.

En öll þessi alúð við fróðleik og sannindi var ekki annað en stefna, samhliða skemtunarstefnunni, henni jafnsterk, en ekki þess máttug að leggja neitt *farg* á hana. Ef ráða ætti af líkindum, eftir því sem nú hefur verið sagt, hvernig íslenzk sagnaritun hefði orðið, ef hún hefði orðið nokkur, þá er næst að hugsa sér, að hver stefnan hefði að mestu farið sinna ferða. Annarsvegar hefðu komið annálar og ættartölur, hinsvegar skemtisögur, ýmist um sannsöguleg efni eða í æfintýrastíl, en allar með litlum vísindablæ. Þessu líkt varð ástandið síðar, er sagnarituninni var hnignað. En til þess að þróunin yrði sú sem hún varð, þurfti vísindastefnan að vita til sín, skrifa lögmálstöflur sínar. Hún þurfti að bera þann ægishjálm yfir þeim, sem rituðu, að þeir dirfðust ekki að þjóna skemtuninni einni, og um leið að finna ritunum það snið, að skemtunin væri ekki

alveg fyrir borð borin. Með því einu móti gat myndast sú frjósama samvinna, sem vér nú dáumst að. En slíkt spor verður ekki stigið, nema hin óljósa, almenna viðleitni endurfæðist og skýrist í huga eins afburðamanns. Á þessum vegamótum í þróun sagnanna stendur faðir íslenzkrar sagnaritunar, Ari Þorgilsson.

## IV.

Það þarf engum getum um það að leiða, að Ari hefur ausið úr þeim lindum alþýðlegrar söguvísi, er hreinastar voru. Hann segir sjálfur frá uppeldi sínu með Halli Þórarinssyni, „er bæði var minnugr ok ólyginn", og Teiti Ísleifssyni, þeim manni, „er ek kunna spakastan", og hann nefnir heimildarmenn sína og lýsir þeim með fáum og skýrum orðum, Þorkel föðurbróður sinn Gellisson, „er langt mundi fram", Þuríði Snorradóttur goða, „er bæði var margspök ok óljúgfróð" og aðra fleiri. En svo mikið sem Ari á uppeldi sínu í Haukadal og hinum ágætu sögumönnum sínum að þakka, má ekki gleyma hinu, að honum hefði hvorugt að haldi komið, ef hann hefði ekki sjálfur kunnað eftir fróðleiknum að leita og með hann að fara. Er það vel mælt hjá Snorra, að „þat var eigi undarligt, at Ari væri sannfróðr at fornum tíðendum bæði hér ok útan lands, at hann hafði numið at gömlum mönnum ok vitrum, *en var sjálfr námgjarn ok minnugr*" (Heimskr., formáli).

En vér megum ekki hugsa oss sagnaritun Ara einungis af íslenzkum rótum runna. Íslendingar áttu bæði þá og síðar hlutdeild í lærdómi miðaldanna, „og þó að íslenzkir rithöfundar semdu sig lítt að siðum hinnar venjulegu latnesku menningar, þá er það ekki af því, að þá skorti almenna bókvísi, heldur af því að þeim líkaði það svo að hafa" (W. P. Ker, The Dark Ages, 313). „Þýðingar helgar" hafa verið ritaðar á Íslandi á undan Hafliðaskrá, og elzti sagnaritari Íslands, Sæmundur fróði, hefur skrifað sitt rit á latínu og eftir erlendum fyrirmyndum. En Sæmundi presti sýnir Ari Íslendinga-

bók, og hefur vafalaust með námgirni sinni fært sér alt það í nyt, sem Sæmundur gat sýnt honum og sagt. Tilvitnunin til Beda prests helga (Venerabilis Beda) í upphafi Landnámu gæti bent til þess, að Ari hefði þekt kirkjusögu hans, annaðhvort frumritið latneska eða hina engilsaxnesku þýðingu Elfráðs konungs ríka. Verk Beda hefur eins og verk Ara fyrst og fremst sögulegt gildi, það ber alt vott um heilbrigða dómgreind og sannleiksást. Hann byrjar á formála, þar sem hann m. a., „til þess að engin ástæða sé til þess að efast um sögu sína", gerir grein fyrir heimildum sínum, skrifuðum og munnlegum. Og hann endar formálann með því að biðjast bæna manna fyrir veikleika sínum.

En hvort sem Ari hefur þekt Beda, eins og líklegast er[1]), eða aðra erlenda sagnaritara miðaldanna, þá er ekki ofmælt að segja, að hann hafi sameinað í sér anda þeirrar sagnakönnunar, sem sérstök var fyrir Ísland, og þann, sem sameiginlegur var fyrir beztu rithöfunda Evrópu. Hann steypir þessu saman í eina starfsheild, og nær með því hærra dómgreindarstigi en þá var til annarsstaðar. En um það er ekki minst vert, að yfir vöggu íslenzkrar sagnaritunar standa ekki einungis vitsmunir Ara og þekking, heldur líka mannkostir hans. Þessi klerkur og höfðingi kann að sleppa öllum kreddum, allri umhugsun um sjálfan sig, lúta sannleikanum einum,

---

[1]) Fyrir utan tilvísunina til Beda í Landnámu, má minna á, að Gunnlaugur Leifsson virðist hafa þekt rit hans, enda voru þau svo alfræg á miðöldunum, að varla er hugsanlegt annað en Sæmundur hafi kynst þeim í París. Um áhrif engilsaxneskrar menningar get ég vísað til Absalon Taranger, Den angelsaksiske kirkes indflydelse paa den norske. Íslenzkt kirkjumál er fult af engilsaxneskum orðum, íslenzkt stafrof hefur líka snemma orðið fyrir áhrifum þaðan, engilsaxneskar ættartölur eru í Snorra-Eddu o. s. frv.

láta hann tala sínu eigin máli. „En hvatki er missagt er í fræðum þessum, þá er skylt at hafa þat heldr, er sannara reynisk“ — þetta er meginregla, sem vísindi nútímans hafa gert að hugsjón sinni, en sífelt er brotin, af persónulegum, þjóðlegum og ýmsum öðrum ástæðum. Beda biður um bænir manna í sínum formála. Ari biðst einskis handa sjálfum sér. Beda bendir á siðferðisgildi sögunnar. Ari lætur sér nægja að segja satt um viðburðina, í þeirri trú, að sannleikurinn hljóti að vera til alls beztur.

En heillaríkasta hliðin á afreksverki Ara er enn þá ótalin. Oss finst það ef til vill ekki nema eðlilegt, að hann skrifaði bók sína á íslenzku, móðurmáli sínu, og þó má þetta heita einstakt í Evrópu á hans tímum og hafði ómetanlegar afleiðingar. Aftur hér kemur fram fordildarleysi mannsins, sem undi því að skrifa fyrir þjóð sína eina og hirti ekki um að sýna lærdóm sinn. Í því efni er fróðlegt að bera hann saman við Theodricus Norðmann, sem ætlar að drekkja söguefninu í bók sinni í munkalærdómi, sem ekkert kemur við málið. En líka má benda á það, að íslenzkan hefur í hinum munnlegu frásögnum og uppsögu laganna verið orðin stílfastari og betur til ritmáls fallin en vænta mátti af tungu, sem átti sér engin rit. Þó að stíll Ara sé ekki eins fágaður og síðari sagnaritara, þá ber hann öll merki mikillar menningar, hann er einfaldur, smekkvís, þróttmikill og tiginborinn. Ef vér berum t.d. saman Gotasögu (Guta saga) og Íslendingabók, þá finnum vér muninn. En vald latínunnar má vel marka á því, að þeir Oddur og Gunnlaugur skrifa síðan báðir á henni, þrátt fyrir dæmi Ara.

Íslendingabók Ara var ekki einungis sögurit. Hún var líka kenslubók í sagnakönnun, sýndi ekki einungis árangur rannsóknarinnar, heldur líka aðferðina. Það var eins og hún væri beint skrifuð til þess að móta eftirkomandi sagnaritara. Áhrif hennar hafa verið afarsterk. Hún var einmitt af þeirri tegund nýjunga, sem sterkast bergmál vekja, af því að hún leysti úr læðingi og gerði algáða viðleitni, sem áður fálmaði sig áfram og

vissi varla til sín. Og við þetta hafa bæzt áhrif Ara sjálfs. Hann hefur ekki getað safnað efninu í bækur sínar, einkum um landnámin, nema með því að kynnast og spyrja fjölda manna. Hann hefur hlotið að þekkja alla fræðimenn landsins meira og minna, annaðhvort frá heraði eða alþingi. Og allir hlutu þeir aftur að verða fyrir áhrifum af persónu hans og könnunaraðferð. Hvar sem hans er minst, er það með lotningu og trausti. Höfundur 1. málfræðisritgerðarinnar hefur þegar viðurkent afburði hans og 100 árum eftir dauða hans getur Snorri í formála Heimskringlu ekki kosið sér neinn annan að meistara en hann.

Það er óbætanlegt tjón, að Íslendingabók hin eldri, með áttartölu og konungaæfi, skuli vera glötuð. En upp úr þeim tveim rótum eru runnar á annan veg Landnáma og Íslendingasögur og á hinn sögur Noregskonunga og Danakonunga. Þannig varð þessi litla bók það fræ, sem meiður íslenzkrar sagnaritunar er vaxinn upp af. Og hún réð líka, hvert vaxtarlagið varð.

Ari setti sannleikann í öndvegið, Og honum fylgir heil fylking, sem notar sömu aðferð og ritar í sama anda. Fyrst og fremst Eiríkur Oddsson, sem tilgreinir heimildarmenn sína jafnóðum, eins og Ari. En þá margir aðrir, höfundar biskupasagna og sagna um samtíðarviðburði, íslenzka og erlenda, þó að þeir hvorki geri grein fyrir heimildarmönnum, né aðferðum sínum. Það er alveg í anda Ara þegar höfundur Haralds sögu harðráða hinnar elztu segir: „Liggja þó niðri ósagðir miklu fleiri hlutir, þeir sem ósagðir eru af hans afreksverkum, ok kemr mest til þess ófróðleikr várr, ok þat með, at vér viljum eigi rita vitnisburðarlausar sögur, þótt vér höfum heyrt þær frásagnir, því at oss þykkir betra, at heðan af sé við aukit, heldr en þetta sama þurfi aptr at taka“ (Flat. III, 343). Og jafnvel þeir höfundar, sem megna ekki í reyndinni að feta svo í spor Ara sem skyldi, viðurkenna hann með vörunum. Má þar nefna Odd Snorrason, með lítilsvirðingu sína á skröksögunum

og greinargerð sína fyrir sögumönnum sínum. Og höfundur Elztu sögunnar um Ólaf helga segir: „Nú væri mart frá Ólafi at segja .... ok má ekki of þat ræða, eptir því sem var, at eigi eru svá vitni um þau öll, er tækilig eru“ (Otte brudst., brot 3).

En jafnframt þessari kröfu til vitna og dómgreindar, sem hefði getað orðið til þess að þurka sagnaritunina upp, hafði Ari með því að skrifa á móðurmáli sínu opnað fyrir sífeld áhrif frá alþýðlegum fræðum og skemtan. Um samvinnu þeirra tveggja stefna, sem ég að framan hef skoðað hvora í sínu lagi, skal ég nú fara nokkrum orðum.

## V.

Vísindastefnan gat komið fram í ýmsum myndum, en þó er þar einkum að greina milli tveggja, sem marka má með kröfunum, „aðeins sannleikann“, „allan sannleikann“. Fyrri krafan stefnir að því að vinsa úr miklu efni það eitt, sem er sögulegt og satt. Á þann hátt vinsar Ari efnið í bækur sínar úr auði hinna munnlegu frásagna, í fótspor hans feta hin elztu yfirlitsrit yfir sögu Noregs, sem Ágrip er nú eini fulltrúinn fyrir, og síðan Fagurskinna, með þeim mismun, að þá er vinsað úr skrifuðum heimildum í stað munnlegra. Síðari krafan leggur áherzluna á fróðleikinn, að ná í sem mest efni. Greinilegustu fulltrúar hennar eru verk eins og Sturlunga saga og Hákonar saga Hákonarsonar, þar sem nákvæmnin, fjöldi persóna og smáatvika, gerir alla sögudrætti óskýra.

Vísindastefnan átti í sjálfri sér krafta til þess að vinna gegn hvorumtveggja þessum öfgum sínum: fátæktinni á annan bóginn, smásmyglinni á hinn. Ari er sagnaritari, en annálahöfundarnir ekki, af því að hann hugsar um meira en „aðeins sannleikann“, hann hugsar um nauðsynlegustu aðalatriði sannleikans og hefur skýrt yfirlit yfir sögu landsins. Og margir sagnaritarar, sem um samtíðarviðburði fjalla, eins og Eiríkur Oddsson, Karl Jónsson, höfundur Hungurvöku, kunna vel að vinsa úr efni sínu. Menn höfðu lært af frásögum um

liðna tíma að sjá söguefni í viðburðum, sem voru að gerast. Allir tímar eiga sér efni í sögur, en allra alda menn sjá það ekki jafnskýrt. Þess vegna ruddu fornaldarsögurnar Íslendingasögum braut. Og á svipaðan hátt lærði nú sagnaritunin um nýliðna atburði hlutföll og hóf af sögum um fyrri aldir. Þar var efnið lagað í meðferðinni, aukaatriðunum slept, aðalatriðin stækkuð og skýrð, komið samræmu sniði á alt. Þar var fyrirmynd, sem benti á gullinn meðalveg í efnisvali.

En um hitt er eigi minna vert, að hin lifandi, munnlega sagnaskemtun knúði sagnaritarana til þess að beita sömu listartökunum og hún gerði í lýsingum manna og viðburða. Öll saga er sögð fyrir einhvern, engum sögumanni er sama, hvort á hann er hlýtt eða ekki, né hvernig á hann er hlýtt. Alt mál manna er miðlun milli þess sem talar og þeirra sem hlýða. Það þarf ekki annað en minnast alþingis og sagnaskemtunarinnar þar, til þess að skilja, hver áhrif smekkur áheyrenda hlaut að hafa á sögurnar frá upphafi, og skrifuðu sögurnar voru líka ætlaðar lifandi lesendum, svo að sambandið milli höfunda og heyrenda hefur aldrei rofnað, þrátt fyrir áhrif Ara. Þessvegna er ekki lítils um það vert að gera sér grein fyrir, að þeir menn, sem áttu að lesa eða heyra sagnaritin, voru aldir upp við fornaldarsögur og æfintýri. Þó að vísindamenn 12. aldarinnar hafi reynt að líta á skemtanina sem alþýðusmekk og lítilsvirða hana, þá átti hún ítök í hverjum manni. Öllum er eðlilegt að leita tilfinningum sínum fullnægingar jafnframt skynseminni. En einmitt af því að skemtunin komst inn í sagnaritunina í þeirri mynd, sem var að smekk mentuðustu manna þjóðarinnar, einmitt af því að hún hafði ekki í fullu tré vegna vísindanna, kom hún ekki í upphafi fram með kröfur um æsingu og ýkjur. En hún heimtaði skilning og samhengi, auðkenningu á mönnum, skýrar myndir viðburða, list í stíl. Alt eru þetta einkenni góðrar sagnaritunar, og sum skemtilegustu íslenzku ritin fara þar hvergi lengra

en leyfilegt má telja. Þau leita listarinnar, en innan vébanda sannleikans.

Vér dáumst að mörgu í íslenzkri sögulist, og sumir af kostum hennar hafa ekki komið aftur fram í sagnagerð heimsins fyr en á 19. öld, og þá varla í eins hreinni mynd. Stíllinn er eðlilegur, daglegt mál, aðeins kjarnorðara en menn tala venjulega, og þau tilsvörin valin úr, sem bezt lýsa. Menn og atburðir eru látnir koma fram eins og á leiksviði, lýsa sér sjálfir, tala sína eigin tungu, án þess höfundurinn reyni að komast upp á milli þeirra og lesandans. Alt er hófsamt og hlutdrægnislaust. Sögupersónurnar eru verulegir menn, hvorki skrípamyndir né fyrirmyndir. Þeim er lýst hverjum með sínum einkennum, oftast með fáum dráttum, altaf skýrum.

Það er ekki örðugt að sjá, að listin og skemtunin eiga í öllum þessum atriðum vísindastefnunni mikið að þakka: að hún knúði þær til þess að lúta sannleikanum. Listinni er fyrst haldið innan takmarka hins sanna, síðan hins sennilega, og út yfir hið mögulega vill hún aldrei fara. Jafnvel eftir að sögurnar eru komnar út yfir öll þessi takmörk, reyna höfundarnir að telja mönnum trú um sannindi, eða a. m. k. sennileik frásagnarinnar. Má þar t. d. minna á niðurlagsorð Hrólfs sögu Gautrekssonar og Göngu-Hrólfs sögu. Og þá vakir auðvitað fyrir þeim listargildi sannleikans, a. m. k. með þjóð, sem var vakin til sögulegrar dómgreindar.

Sögurnar voru að lýsa veruleika, sögulegum viðburðum. Þessvegna hlutu höfundarnir að athuga lífið og viðburðina í kringum sig, laga stíl sinn eftir máli manna. Þeir reyndu aldrei að skapa persónur úr ímyndun sinni einni saman, þeir sóttu sífelt efnið í munnmæli og athugun, þótt þeir löguðu það svo í hendi sér. Og eitt atriðið í tillitinu til veruleikans var að segja ekki frá öðru en því, sem athugað varð. Þetta hefur haft geysimikil áhrif á alla list sagnanna. Mönnum og viðburðum er ekki lýst innan frá, heldur utan frá. Höfundurinn segir ekki alt, sem hann veit eða hygst vita, þó að skiln-

ingur hans hafi óbein áhrif á frásögnina. Snorri lýsir t. d. svikum og launráðum án þess að segja nokkursstaðar beinlínis, hver brögð voru í tafli (sbr. næsta þátt, X. kap.). Lesandinn verður að ráða slíkt af líkum, alveg eins og samtímamennirnir urðu að gera. Hugsunum manna og tilfinningum er sjaldan lýst beinlínis. Um sálarástand sitt veit í raun og veru hver maður einn:

Hugr einn þat veit,
er býr hjarta nær,
einn er hann sér um sefa.

Sú þekking fer með honum í gröfina. Aðrir menn vita aðeins um orð hans, látæði og verk, og þær ályktanir, sem þeir draga af því um hugarfar hans, að mestu eftir álíkum af sjálfum sér. Höfundur Sigurðarkviðu innar skömmu gerir enga grein fyrir því, hvernig hann viti um eintal Brynhildar, eða hafi séð, að hún var „*innan* ills of fyld“. Hann er ekki að skrifa *sögu* (smbr. Skírnir, 1919, 150). En sagnaritarinn verður að hugsa um, hvað hægt sé að athuga, og því verður frásögn hans eins og leikur á sviði. Og samanburður Eddukvæða og sagnarita sannar, að sögulistin lagði hér að sjálfráðu bönd á sig, að hún lýsir ekki utan frá af því að Íslendingar hefðu ekki lært að skygnast í eigin barm.

Ekkert sýnir betur, hve miklu áhrif vísindastefnunnar réðu um listargildi sagnanna, en það að því hnignar jafnan, ef hún missir tökin. Það er undarlegt, að þær sögur, sem eingöngu mega heita skrifaðar til skemtunar, eru einmitt ekki líkt því eins skemtilegar fyrir þroskaðan smekk og hinar, þar sem stefnurnar eru í sæmilegu jafnvægi. Fornaldarsögurnar missa fótfestu í veruleikanum. Mannlýsingarnar verða fábreyttar og sviplausar, viðburðirnir steyptir hver í annars móti, stíllinn tilgerðarlegur. Og riddarasögurnar verða að raufarasögum; þar vantar alla uppistöðu sannleikans, og hóflausar ýkjur eru ofnar út í bláinn.

Ekkert sjónarmið gefur slíka útsýn yfir almenna þróun íslenzkrar sagnaritunar og slíkan skilning á einstökum atriðum verkanna, sem athugunin á baráttu og samvinnu vísinda og listar. Um fult samræmi er aldrei að ræða. Ættartölur og landnámalýsingar geta aldrei orðið að list, og undir eins og samtöl eru tilfærð, viðburðirnir lýst, er hætt við að stiklað sé tæpt á sannleikanum, og þessar lýsingar teygja sögurnar lengra og lengra, unz þær eru orðnar aðalatriðið, staðreyndirnar aukaatriði. En einmitt vegna upprunalegs valds þeirrar stefnunnar, sem hlaut að vera í meiri hættu, af því að hún var sjaldséðari menningarávöxtur, hélzt samvinnan bæði vel og lengi. Fyrst er vísindastefnan sterkari, en svo dregur að því, að jafnvægið verði eins fullkomið og unt var. Og þegar skemtunin fer að verða yfirsterkari, taka stefnurnar að leysast hvor frá annari, og nú hnignar báðum. Ég mun nú í örfáum dráttum reyna að benda á megindrættina í vexti og hnignun sagnaritunarinnar frá þessu sjónarmiði, og hvar sögurit Snorra Sturlusonar eiga þar heima.

## VI.

Merkasta nafnið í íslenzkri sagnaritun milli Ara og Snorra er Eiríkur Oddsson. Hann fylgir meginreglum Ara um heimildarmenn út í æsar, en tekst um leið að gera frásögn sína miklu fyllri, svo að hún er stundum bæði átakanleg og skemtileg. Þetta var aðeins mögulegt með því að skrifa um viðburði, sem voru að gerast.

Beint í fótspor Eiríks fetar Karl Jónsson ábóti, og síðan aðrir þeir höfundar, er skýra frá samtímaviðburðum. En rit hans hlaut líka að gera þá sagnaritara djarfari, sem fjölluðu um forn tíðindi, hvetja þá til þess að taka meira af efni munnmælanna á bókfellið en dæmi Ara virtist benda til. Fulla öld eftir að Íslendingabók er rituð, er vísindastefnan afarsterk, en þó þokast í áttina að meira og meira jafnvægi milli hennar og sögulistarinnar. Um og eftir aldamótin 1200

er þetta samræmi á háu stigi í verkum eins og Morkinskinnu, Orkneyinga sögu, Egils sögu. Og þó má þar enn um bæta, ýmist sögulega dómgreind eða list í meðferð efnisins.

Þessi þróun er eðlileg, komin innan að, knúin fram af tveim stefnum sagnaritunarinnar sjálfrar. En jafnframt verður nú að geta um tvær utan að komandi stefnur, sem að nokkru leyti örva hana, en líka stuðla að því að gera hana rangskreiða.

Það er ein af þeim staðleysum, sem hver fræðimaðurinn hefur haft eftir öðrum í athugaleysi, að Sverrir konungur hafi fengið Karl ábóta Jónsson til þess að rita sögu sína. En þegar Halvdan Koht (Edda II, 67 o. áfr.) bygði á þessari fullyrðingu þá kenningu, að íslenzk sagnaritun væri í raun og veru runnin undan rifjum Sverris konungs, þá var ekki gott að komast hjá því að athuga sjálfa undirstöðuna. Finnur Jónsson hefur í rögg-samlegri grein (Arkiv XXXVI, 97 o. áfr.) hrundið flestum af fjarstæðum Kohts um þetta efni, og hef ég í raun og veru ekkert að þeirri grein að finna, nema hvað F. J. enn virðist skoða það sem staðreynd, að Sverrir hafi leitað til Karls, þótt hann annars skýri það á eðlilegra hátt en Koht. *En fyrir þessu er ekki einn stafur í nokkurri heimild.* Vér vitum að vísu, að Sverrir var heimildarmaður Karls („ritaði Karl ábóti Jónsson með fullu vitorði sjálfs Sverris konungs, ok hann fyrir sagði, hvé rita skyldi eðr hvernig setja skyldi“, Flat. II, 533), og gerir víst formáli sögunnar ekki minna úr hlut konungs í sögunni, en hann var. Og Snorri talar auk þess um, að Sverrir hafi ‚látit rita‘ um dauða Eysteins konungs (Ing. s. o. Sig., k. 32). En alt þetta á sér miklu eðlilegri skýringu en þá, að Sverrir eftir suðrænum fyrirmyndum hafa vakið Karl Jónsson til starfa. Hvað vitum vér um þekkingu Sverris á sagnaritun annara þjóða, hvað bendir á að hann hafi haft slíka þekkingu á árunum 1185—90? En vér *vitum,* 1) að annar Íslendingur, Eiríkur Oddsson, hafði á undan Karli notað dvöl sína í Noregi til þess að safna efni í sögurit um samtíðarviðburði hjá sjónar-

vottum og þeim, sem hlut höfðu átt í tíðindum, 2) að Karl Jónsson var ábóti í klaustri, þar sem a. m. k. tveir sagnaritarar voru starfandi um líkt leyti og hann hóf að rita Sverrissögu, og fjölluðu báðir um sögu Noregs (Oddur Snorrason, Gunnlaugur Leifsson). Og að þessu athuguðu þykir mér miklu sennilegar ályktað, að það hafi verið Karl, sem sá að hér var völ á óvenju merkilegu söguefni og leitaði til Sverris og bað hann að vera heimildarmann sinn. Hitt er annað mál, að Sverrir var svo vitur maður og tamt að nota öll vopn, að hann sá þegar í hendi sér, að það var mikils um vert fyrir hann og eftirkomendur hans, hvernig þessi saga var rituð. Hann hefur ekki einungis sagt Karli frá, heldur hvatt hann fram, ráðið miklu um skilning hans á viðburðunum og síðan hlutast til um, að skrifað væri í þeim anda, sem hann kaus, um konungana fyrir 1177. Með þessu kemst sagnaritunin undir áhrif Noregskonunga. En þessi áhrif voru hvorki svo sterk, né náðu þau heldur til svo margra rita, að þau gætu leitt sagnaritarana til muna út af braut þeirri, sem Ari og Eiríkur höfðu markað þeim. Þau hafa valdið því, að einstöku staðreyndir eru skektar í Ágripi, að hinum góða málstað Sverris er haldið hóti fastar fram og Hákon gamli lofaður nokkru meir, en þeir Karl og Sturla mundu hafa tekið upp hjá sjálfum sér. En það er broslegt að ætla sér að gera aðalupptök sagnaritunarinnar úr þessari tilraun til þess að leiða hana í freistingu, sem ekki varð þá meira úr.

Miklu merkilegri aukastefna kemur fram í hinni klerklegu sagnaritun, sem hefst í Noregi með jarteinum Ólafs helga á latínu og á Íslandi með sögu hans (Elztu sögunni) á íslenzku, heldur áfram með tveim Ólafs sögum Tryggvasonar frá Þingeyrum og síðan með Ólafs sögu helga eftir Styrmi fróða o. s. frv. Hér kom ný hvöt til sagnaritunar fram, fyrir utan vísindi og skemtun. Að vísu viðurkenna höfundar þessara sagna reglur Ara, eins og tilvitnanirnar hér að framan til Odds og Elztu sögunnar sýna, en þeir gátu samt vikið frá þeim í skjóli kirkj-

unnar, *urðu* jafnvel að víkja frá þeim. Ólafa sögurnar eru merkilegt spor í þróun sagnaritunarinnar, og hafa átt sinn þátt í því að gefa mönnum djörfung til þess að rita fjölort og rækilega um forna tíma.

En jafnframt má telja Gunnlaug Leifsson höfund nýrrar stefnu, sem hafði mikil áhrif á örlög sagnaritunarinnar. Það er fróðleiksstefnan. Hún var í einu runnin af vísindunum og skemtaninni, og fól í sér hnignun þeirra beggja.

Fróðleiksstefnan leggur áherzluna á síðara hluta þess orðs, sem var hugsjón vísindastefnunnar: óljúg-fróður. Hún kýs sér að kjörorði ‚allan sannleikann', og hugsar svo mikið um *allan*, að sannleikurinn sjálfur verður oft fyrir borð borinn. Hún tekur sér sögurnar um samtíðarviðburði til fyrirmyndar, vill skrifa jafnrækilega um liðnar aldir, en verður þá líka að því skapi að slaka á kröfunum til fullgildra vitna um hvað eina. Hún verður alæta, henni verður alt matur, sem á bókfellið kemst. Og að þessu leyti á hún skylt við skemtunina, sem líka heimtar andlega kviðfylli, og hirðir þá ekki altaf um gæðin. Þannig fullnægir hún bæði list og vísindum að nokkru leyti, og verður þeim að því hættulegri. En hún þróast upprunalega undir handarjaðri klerklegu sagnaritunarinnar. Það var ekki einungis fróðlegt og skemtilegt að færa í letur sem flest, er til varð tínt, um hinn heilaga Ólaf konung og nafna hans Tryggvason, heldur líka sáluhjálplegt verk. Þessvegna tekur Gunnlaugur við, þar sem Oddur hættir, og snapar saman alt sem hann getur fundið um Ólaf Tryggvason í viðbót. Og Styrmir tekur Miðsöguna um Ólaf helga og eykur inn í hana ógrynni af efni, andlegu og veraldlegu.

Þannig er þá umhorfs í íslenzkri sagnaritun um 1220, þegar Snorri Sturluson tekur til að semja konungasögur sínar. Báðar meginstefnur hennar hafa haft langan tíma til þess að þroskast saman og koma fram í ýmsum hlutföllum. Afarmiklu efni hefur verið safnað, en mikið af því hvorki verið svo vandlega sáldað sem skyldi, né búið í fullkominn búning. Þó hafa ágæt rit verið

samin, sem benda fram á leið, hve langt muni mega komast. En hnignunin er líka tekin að sýna sig. Einmitt þetta alt til samans gerir stöðu Snorra skiljanlega. Hann byrjar á því að bæta um alveg nýtt rit, Ólafs sögu Styrmis, Styrmir er heimilismaður hans og heimildarmaður, en Ari er fyrirmynd hans. Þannig haldast hnignun, þroski og trúmenska við fortíðina einkennilega í hendur. Til þess að hæsta þroska verði náð, er oft nauðsynlegt að fyrstu merki hnignunarinnar séu farin að gera vart við sig, því að þá búast allir beztu kraftar menningarstefnu, sem enn er full af þrótti, til viðnáms, taka ekki einungis á því, sem þeir eiga til, heldur sækja líka styrk frá dæmi fyrstu brautryðjendanna. En af þessu verður aftur skiljanlegt, hve skamt getur liðið frá hæsta þroskastigi til bráðrar hnignunar.

Lík vísindaleg andspyrna, þar sem eldri rit eru tekin, stytt og leiðrétt, einkum eftir dróttkvæðum, og aðalatriðin valin úr, — kemur líka fram í Fagurskinnu. En þar ber aftur á móti listin skarðan hlut. Í ritum Snorra kemst samræmið milli vísinda og listar á hærra stig en í nokkrum öðrum íslenzkum ritum. Ef hann hefði átt að gera grein fyrir takmarki sínu, hefði hann getað sagt, að hann vildi hafa bækur sínar jafnsannar og Íslendingabók, jafnskemtilegar og beztu Íslendingasögurnar. Sjálfur talar hann að vísu ekki um annað en sannindin í formála Heimskringlu — þau voru sífelt í meiri hættu, varð að hugsa meira um þau. En rit hans sýna bezt sjálf, að list og skemtun voru honum eigi síður hugstæðar.

Auðvitað náði Snorri ekki takmarki sínu til fulls. Það er nú einu sinni ekki eins auðvelt að láta hið jákvæða og neikvæða renna saman í æðri einingu og Hegel dreymdi um. Alt hið dýrmætasta, sem mennirnir skapa, er til orðið við baráttu andstæðra afla, við baráttu hugsjónanna við óþjált efni, og alt ber það ör eftir þá baráttu. Heimskringla er hvorki eins áreiðanleg og Íslendingabók, né eins hrífandi og Njála En hún er miklu vísindalegri en Njála og skemtilegri en Íslendingabók. Það er samræmið, sem gefur henni einstakt gildi. Enginn nær

takmarki sínu. Því að takmörkin vaxa hraðar en kraftarnir, og afburðamennirnir eiga sér takmörk, sem ókleift er að ná. En verk þeirra bera því samt órækt vitni, að þeir áttu sér meiri mörk og meiri krafta en aðrir menn.

Ég skal aðeins drepa á fáa drætti í sögu sagnaritunarinnar eftir daga Snorra, af því að það varpar líka ljósi aftur fyrir sig, að gera sér grein fyrir hnignuninni. Þeir kraftar, sem leysast sundur í henni, eru að miklu leyti þeir sömu, sem í öðrum hlutföllum og í betri skefjum knúðu þroskann fram. Þeir sýna eins og sundurlausir vélapartar, úr hverju gangverkið var gert.

Aðalhnignunin er í því fólgin, að fróðleiksstefnan kemst í öndvegið. Eins og þegar er sagt, var þessi stefna skyld báðum aðalstefnum sagnaritunarinnar, og átti því furðu auðvelt með að vaxa á kostnað þeirra. En ytri ástæður leggjast auk þess á eitt með henni. Á 12. og fram á 13. öld var nóg söguefni á vörum manna. Sagnaritunin gat valið úr. Og hún gerði það, bæði með dómgreind vísindastefnunnar og smekkvísi þeirri, sem a. n. l. var höfðingjunum eiginleg, a. n. l. einmitt vísindunum að þakka. En svo fer það tvent saman, að óskrifað söguefni verður minna og minna, og bæði smekk og dómgreind hnignar með hnignun þeirra höfðingjaætta, sem skapað höfðu sagnaritunina og leitt fram til þroska. Þá er engin furða, þótt flest sé hirt, þegar úr litlu er að velja og menn að því skapi óvandir í valinu. Þannig varð alls konar fræðatíningur, samsteypa og eftirritun, helzta andlega starfsemin og hefur verið það jafnan síðan með íslenzkri alþýðu og reyndar mörgum þeim, sem vísindamannsnafn hafa borið. Þessi starfsemi hefur verið allrar virðingar verð í sjálfu sér. Hún hefur sýnt þörf á bóklegum iðkunum, sem hvorki fátækt né skortur á almennri mentun og útsýn gátu kafið; hún hefur bjargað mörgu því, sem verðmætt er, frá gleymsku, og leyft mörgum mönnum, sem ekki voru til annars betra hæfir, að verða þó á þennan hátt bókmentunum að nokkru liði En hinu má aldrei gleyma, og sízt þegar fróðleiksstefnan í fátækt sinni og þröngsýni vill virða alla skapandi starfsemi,

vísindalega og skáldlega, að vettugi, að öll þessi fræðimenska, sem kemst ekki lengra en að safna efni, er meira í ætt Styrmis en Snorra. Hún hefur aldrei kunnað að gera grein aðalatriða og aukaatriða, kjarna og hismis, efnið hefur haft vald yfir henni, þar sem hinn sanni vísindamaður velur úr aragrúa staðreyndanna og blæs í það efni, sem hann þannig hefur valið, lífsanda vísindaaðferða sinna og persónulegs skilnings. Fróðleiksstefnan verður því að eins að notum, að hún búi í hendur slíkra manna (eins og Styrmir í hendur Snorra), því að sé hún látin ein, vinnur hún að endalausum undirbúningi, skapar aldrei fullburða verk.

En auk þess sem vísindum og list hnignaði báðum í fræðimenskunni, klofna þau líka hvort frá öðru. Skemtunin brýzt smátt og smátt undan fargi vísindanna. Ef vér tökum t. d. Íslendingasögurnar: Eglu — Njálu — Gunnlaugs sögu — Gretlu — Víglundar sögu, getum vér rakið muninn stig af stigi. Í Eglu er samræmi vísinda og listar á háu stigi, líkt og í ritum Snorra, og þó svo að listinni veitir sjáanlega betur. Í Njálu er listin aðalatriðið, en þó svo, að hún hefur sífelt aðhald af vísindunum. Og á þessu stigi nær, eins og eðlilegt er, sögulistin hámarki sínu. Líkt má segja um Gunnlaugs sögu, þó að höfundur hennar fari enn þá frjálslegar með efni sitt. Í Gretlu er enn þá aðhald veruleika og munnmæla allsterkt, þó að löng sé orðin leiðin burt frá Egils sögu. En í Víglundar sögu er alt samræmi rofið, og tilraunirnar til þess að gefa henni sannsögulegan blæ eingöngu gerðar af listarástæðum.

Jafnframt þessu ryðja fornaldarsögurnar sér smátt og smátt braut inn í bókmentirnar. Rit eins og Skjöldunga saga, Ynglinga saga og Snorra-Edda, öll frá blómöld sagnaritunarinnar, eru fyrstu sporin í áttina. Vísindin gátu ekki lengur haldið í við þær. Og þegar erlend áhrif (t. d. frá Þiðreks sögu) leggjast á eitt með fróðleiksstefnunni og skemtanakröfunum, þá er eins og stíflu sé kipt úr. Fornaldarsögurnar voru fyrst skrifaðar eftir fornum minnum, en fjarlægðust arfsagnirnar

og veruleikann hröðum fetum, og enduðu í tómum tilbúningi. Og svo taka riddarasögurnar við, og halda vinsældum sínum, rímaðar og órímaðar, meira en fjórar aldir. Í þeim er loks smekk alþýðunnar gefinn alveg laus taumur, og list og stíll sökkva dýpra og dýpra.

Vísindastefnan einangrast á sama hátt. Menn höfðu ekki framar aðra viðburði, sem hægt var að skrifa um fulláreiðanlega, en þá sem voru að gerast. Og engin fjarlægð lagði ljóma um þá, né voru þeir heldur glæsilegir í sjálfu sér eftir að þjóðveldið var liðið undir lok. Auk þess hafði skemtunin nú fengið afrás í sérstökum verkum: hún leitaði ekki eins fast á að hrísla eldi ímyndunar sinnar um hinar sannfróðu sögur og fyrir og eftir aldamótin 1200. Sagnaritunin verður þurr í síðustu biskupasögunum, þornar algerlega upp í annálunum. Til þess að geta skrifað um samtímaviðburði í anda Sturlu Þórðarsonar þurfti sérstaka lífsskoðun og menningu. Endalok þjóðveldisins, útrýming beztu ætta landsins á Sturlungaöldinni, breytt lífsskoðun, aukið vald klerka og kirkju — alt þetta breytti skilyrðum vísindalegrar starfsemi. Hinn frjálsborni andi höfðingjanna á 12. og 13. öld vakti ekki framar yfir henni.

Þannig líður íslenzk sagnaritun undir lok, leysist sundur í ýmsar stefnur. Fáir menn höfðu skapað hana úr sundurleitum þáttum sterkrar menningar, sem þeir reyndu að knýja til þess að lúta einni hugsjón. Nú var sú hugsjón bliknuð, lindir hinnar fornu menningar teknar að þrjóta, óskapnaðurinn, sem haldið hafði verið í skefjum, leitaði aftur eðlis síns. Og á eitt með honum leggjast erlend áhrif, sem voru meira til truflunar en auðgunar, og breytt örlög ríkis og þjóðar í heild sinni.

* * *

[Efnið í þennan hátt, sem fyrst var ritaður 1911, en síðan endursaminn fleirum sinnum, hef ég auðvitað langmest tekið úr athugunum á sögunum sjálfum og umhugsun um þær. Hér skulu þó talin nokkur rit og ritgerðir, sem ég hef einkum tekið tillit til (fyrir utan bókmentasögurnar og þau rit, sem þegar

er vitnað til í textanum), þó að ég sé sumum þeirra að mestu leyti ósamdóma: Kr. Erslev, Historieskrivning. Grundlinjer til nogle Kapitler af Historiens Teori, 1911; Joh. Steenstrup, Historieskrivningen, 1915; R. Meissner, Die Strengleikar, 1902; Axel Olrik, Nordisk Aandsliv, 1908; Heusler, Die Anfänge der isländischen Saga, 1914; Sophus Bugge, Norsk Sagafortælling og Sagaskrivning i Irland, 1901; Alexander Bugge, Entstehung und Glaubwürdigkeit der isländischen Saga (Zeitschr. f. deutsches Altertum, 1909); Sami, Irsk paavirkning paa den islandske saga (Til Gerhard Gran, 1916); Gustav Neckel, Von der isländischen Saga (Germanisch-romanische Monatschrift, 1911); Emil Olson, Den isländska sagans ursprung (Nordisk Tidskrift, 1918)].

---

## Sjötti þáttur.

# Sagnakönnun og sögulist.

---

### I.

Með því að skipa verkum Snorra Sturlusonar á sinn stað í þróun íslenzkrar sagnaritunar, hef ég nú reynt að skýra, hvað framar öllu gefi þeim gildi sitt. Þau eru að vísu hvorki áreiðanlegustu heimildir né mestu listaverk, sem skráð voru með Íslendingum í fornöld, en samt er Heimskringla betri fulltrúi þeirra bókmenta en nokkurt eitt rit annað, af því að enginn sagnaritari var svo jafnvígur á vísindi og list sem Snorri. En þá verður hlutverk ritskýrandans framar öllu að gera grein fyrir þessum tveim meginstefnum, hvernig þær fara hvor sinna ferða, vinna saman eða rekast á. Með því kynnumst vér bezt sambandi höfundar og verks og lifandi verðmæti verksins sjálfs. Auðvitað verð ég að láta mér lynda að benda á einstök dæmi til sönnunar máli mínu og skýringar. Hér er ekki tækifæri til þess að benda á heimildir ritanna og efnismeðferð Snorra kapítula fyrir kapítula, enda væri heppilegast að gera slíkt í athugasemdum við útgáfur. Og enn síður ætla ég mér að taka fram fyrir hendurnar á sagnfræðingunum, með því að rekja í einstökum atriðum, hvar treysta megi sannfræði frásagnarinnar og hvar ekki. Því að það lýsir Snorra ekki hót, þótt hann geri sig sekan í sögulegum villum, sem hann átti engan kost á að leiðrétta með þeim gögnum, sem honum voru handbær. Svo var þegar sjálfum dróttkvæðunum skjátlaðist, eða

þegar allar íslenzkar frásagnir voru svo á einu máli um villuna, að enginn efi gat vaknað[1]).

II.

Í formála Heimskringlu gerir Snorri sjálfur nokkra grein fyrir heimildum sínum og rannsóknargögnum. Hann talar þar fyrst um heimildir Ynglinga sögu. Þær eru ýmiss konar: forn kvæði eða söguljóð, langfeðgatal, sögn fróðra manna. Hann nefnir síðan kvæðin: Ynglingatal Þjóðólfs ins fróða úr Hvini og Háleygjatal Eyvindar skáldaspillis, og hann tekur það skýrt fram, að kvæði Þjóðólfs sé aðalheimildin. Hann getur þess, að menn hafi haft þessi kvæði „til skemtanar sér, en þó at vér vitim eigi sannindi á því, þá vitum vér dæmi til þess, at gamlir fræðimenn hafa slíkt fyrir satt haft“.

Þessi athugasemd er afarmerkileg. Auðvitað hafa menn lengst af hreint ekki efast um sannindi Ynglingatals. Kvæðið er sett saman í vísindalegum anda, þar sem skáldið talar um rannsóknir sínar og vísar til fróðra manna (Ok ek þess opt | of yngva hrör | fróða menn | of fregit hafðak — — — — *Nú* ek þat *veit* o. s. frv., Yngl. s. k. 16). En Snorri gerði þær kröfur til söguvísinda, að hann sá í hendi sér, að Þjóðólfur gat ekki hafa átt kost á áreiðanlegum vitnum um svo löngu liðna tíma. Frá sínu sjónarmiði talar hann því um ‚skemtan‘. Annars er það algengt, þar sem um eina forna heimild er að ræða, að menn taka hana gilda án frekari rannsókna, af því að ekkert er til samanburðar. „Persastríðin, sem enginn annar en Heródót

---

[1]) Dæmi: Sólmyrkvinn sumarið 1030 var ekki sama dag og orustan á Stiklastöðum (29. júlí), eins og Sighvatur segir í Erfidrápu sinni (smbr. Ól. s. h., k. 226—27, 235), heldur rúmum mánuði síðar, 31. ágúst (sjá (Norsk) Theologisk Tidsskrift 3. Række, III, bls. 159; smbr. Litt. hist. I, 366). — Gunnhildur konungamóðir var ekki dóttir Össurar tóta af Hálogalandi (Har. s. hárf., k. 33), heldur Gorms konungs gamla (smbr. Monumenta hist Norvegiæ, 105).

greinir frá, æfintýri Friðgunnar, sem Gregor frá Tours er einn til frásagnar um, vekja minni efasemdir en atburðir frá dögum stjórnarbyltingarinnar miklu, sem hundruð af samtíma vitnum eru um“, segir franski sagnfræðingurinn Seignobos (tilfært eftir Erslev, Historisk Teknik, 89). Má í því sambandi minna á, hve stutt er síðan hróflað hefur verið við sumum gegndarlausum ýkjum Heródóts, eins og um múra Babylonar og tölu Persahers í Grikklandsför Xerxesar, sem teknar hafa verið í allar kenslubækur. Hefði því sízt verið furðulegt, þó að Snorri hefði tekið sögu Þjóðólfs athugasemdalausa. En dómgreind hans er hér að sama skapi hófsöm sem hún er skörp. Hann hefur ekki gögn til þess að sanna sögu Ynglingatals, en heldur ekki til þess að rengja hana. Gamlir fræðimenn hafa trúað þessu, það *getur* verið satt. Þess vegna er réttmætt að taka það í sögurit, eftir að varnagli hefur verið sleginn. Ari Þorgilsson sjálfur hafði tekið sumt af því í sínar bækur, og í því var mikil stoð. Ef til vill á Snorri einkum við hann, þegar hann talar um „gamla fræðimenn“.

Merkilegt er að sjá höfund, sem einkanlega styðst við ritaðar heimildir, eins og Snorri gerir, komast svo að orði, að hann riti frásagnir sínar „svá sem ek hefi *heyrt* fróða menn segja“ — „eptir því sem mér hefir *kent* verit“. Síðari setningin minnir á æskufræðslu hans í Odda. Sú fyrri bendir ekki einungis á, hve mikið af munnlegum frásögnum var lifandi á Snorra dögum, heldur hitt, hve óskýr voru takmörkin milli skrifaðra og munnlegra sagna í vitund manna.

Annað atriði formálans er um Ara fróða. Lýsir Snorri þar manninum og æfiferli hans og getur helztu heimildarmanna hans, alt í því skyni að sýna á hverjum rökum traust sitt á honum sé bygt. Auk ummæla sinna hér, vitnar Snorri víðar til Ara, bæði í Ólafs sögu helga og Heimskringlu, og á einum stað (Ól. s. h. (1853) k. 175, Ól. s. h., k. 179) lýsir hann honum nokkuð: „Ari prestr Þorgilsson inn fróði, er bæði var vitr ok

sannsögull, minnigr ok svá gamall maðr, at hann mundi þá menn ok hafði sögur af haft, er þeir váru svá gamlir, at fyrir aldrs sakir máttu muna þessi tíðendi, svá sem hann hefir sjálfr ritat í sínum bókum, ok nefnda þá menn til, er hann hafði fræði at numit''. Þessi ummæli eru, þar sem þau standa í Heimskringlu, ein af leifunum, sem sýna að Ólafs saga hefur upprunalega verið sérstakt rit og formálalaus. Annars væru þau óþörf.

En hvað hefur Ari verið fyrir Snorra? Allar tilvitnanir til Ara eru um tímatal. Þó hefur Snorri auðvitað fært sér í nyt alt söguefni um Noregskonunga í hinni eldri Íslendingabók, en það efni náði harla skamt og Snorri hefur haft það flest eða alt í fyllri mynd annarsstaðar frá. Mest er því um það vert, að Snorri tók Ara sér til fyrirmyndar. Með formála sínum gerir hann vísindastefnuna að takmarki sínu. Helzt hefði hann viljað, að verk sín væru öll að sannindum jöfn Íslendingabók.

En þeir Ari og Snorri stóðu ekki eins að vígi. Auk sannleikans átti Snorri sér annað takmark, sem Ari skeytti ekki um: fyld og list frásagnarinnar, skýringu á lifandi samhengi viðburðanna. Þetta hlaut sífelt að hafa áhrif á efnisval hans. Að Ara hefur þyrpst geysimikið af efni, sem hann kærði sig ekki um að nota, jafnvel þó að vitni væru um. Sá sem les Landnámu með athygli, finnur þar hingað og þangað skýrt í fám línum frá atburðum, sem nægja mundu í meðalstóra sögu, ef gjörla væri frá þeim sagt. Ari hefur átt kost á miklu af þessu efni, en hann leitaði hins, sem sérstaka alúð þurfti til þess að finna, af því að það var ekki á vörum manna til skemtunar: aðaldráttanna úr landssögunni.

Þó að mikið hafi lifað af munnmælum á dögum Snorra, þá hefur hann fundið sárt til þess, að þau voru ekki nægileg. Hann hafði af vísindaaðferð Ara lært að vantreysta þeim, en auk þess var hann rúmum 100 árum fjær fornum viðburðum en Ari. Orð formálans: „Þat var eigi undarligt, at Ari væri sannfróðr at fornum tíðendum, bæði hér ok útan lands, at hann

hafði numit at gömlum mönnum ok vitrum“ o. s. frv. — eru eins og andvarp Snorra yfir því, að munnmælin á 13. öld voru hvorki svo auðug né áreiðanleg sem um 1100. Snorri varð að nota skrifaðar sögur í stórum stíl, en þær tilgreindu sjaldan heimildir til nokkurrar hlítar, og þær var ekki hægt að spyrja. En úr því að Snorri bæði varð að taka miklu meira efni en Ari, og átti auk þess að nokkru leyti úr lakari heimildum að vinna, varð hann að leita nýrra gagna, ná takmarki Ara eftir nýjum leiðum. Þannig benda ummælin um Ara á þriðja og merkasta atriði formálans: um dróttkvæðin sem söguheimildir. Um það er Snorri að vísu fáorðastur, en hver setning er svo þrungin af efni, að ég verð að tilfæra þær orðréttar.

„En er Haraldr inn hárfagri var konungr í Noregi, þá byggðisk Ísland. Með Haraldi váru skáld ok kunna menn enn kvæði þeira ok allra konunga kvæði, þeira er síðan hafa verit at Noregi“. Snorri dregur með þessum orðum skýra markalínu milli munnmæla og sögu. Þó að til væru sagnir um viðburði fyrir daga Haralds hárfagra, þá var það ekki fyr en með upphafi Íslands bygðar, sem norræni kynstofninn vaknaði til svo ljósrar meðvitundar um sjálfan sig, að treysta megi minningum hans. En dróttkvæðunum um samtímaviðburði má óhætt treysta. Hákonarmál Eyvindar er fullgild söguheimild, þó að Háleygjatal hans sé það ekki. En Snorri hefur meira fram að færa dróttkvæðunum til gildis, en að þau fjölluðu um samtímaviðburði. Þau voru auk þess flutt í áheyrn manna, sem hlutu að hafa eftirlit með sannleiksgildi þeirra: „tökum vér þar mest dæmi af því, er sagt er í þeim kvæðum, er kveðin váru fyrir sjálfum höfðingjunum eða sonum þeira; tökum vér þat alt fyrir satt, er í þeim kvæðum finnsk um ferðir þeira eða orrustur; en þat er háttr skálda, at lofa þann mest, er þá eru þeir fyrir, en engi myndi þat þora, at segja sjálfum honum þau verk hans, er allir þeir, er heyrði, vissi, at hégómi væri ok skrök, ok svá sjálfr hann; þat væri þá háð, en eigi lof“. Snorri kveður hér sterkt að orði, og samt slær hann jafnvel um þetta var-

nagla. Umbúðirnar, lýsingarnar var hægt að ýkja, en sjálfar staðreyndirnar, ferðir og orustur, hlutu að vera sannar. Mun síðar sýnt, hvernig Snorri fylgir þessari skoðun sinni, þar sem hann tekur efni úr kvæðum.

Í Morkinskinnu (147—149) er frásögn um Giffarð nokkurn, valskan mann, er kom til Magnúsar konungs berfætts, kvaðst vera riddari góður og lét mikið yfir sér. En í orustunni á Foxerni var hann hvergi nærri þegar mest á reið, og hröklaðist litlu síðar úr landi, vestur um haf. Dugði hann enn lítt í sæförinni, og kastaði íslenzkur maður, er Eldjárn hét, stöku að honum, og heldur illri. Kærði Giffarður það mál, er til Englands kom, en Eldjárn greip sama fangaráð og margur níðskældinn Íslendingur fyr og síðar, að hann kvað nýja vísu, og lézt þá ort hafa, en hún var um afrek Giffarðs á Foxerni. En er greifinn enski heyrði þá vísu, kvað hann Giffarð mega vel við una. „Giffarðr þykkisk engu svara kunna; hann veit þat með sér, at honum *er þetta háð, en eigi lof*, at því sem efni váru til, en vildi víst eigi gera þat bert fyrir mönnum, hversu hann hafði fram gengit á Foxerni“. — Enginn sá sem veit hversu gjörhugall Snorri var á heimildir sínar, getur verið í vafa um, að hann hefur haft þessa sögu í huga, er hann skrifaði formála Heimskringlu. En hann gerir úr orðunum „háð, en eigi lof“ vísindalegan mælikvarða, sem höfund Morkinskinnu hefur ekki dreymt um. Hann setur höfðingjana í spor Giffarðs. Enn er sama hugsun sögð á líkan hátt 400 árum eftir daga Snorra af öðrum veraldarvönum rithöfundi, La Rochefoucauld hertoga: „Louer les princes des vertus qu'ils n'ont pas, c'est leur dire impunément des injures“ (Maximes, 320. „Að hrósa höfðingjum fyrir mannkosti, sem þá skortir, er að meiða þá í orðum að ósekju“). Það er vantraustsyfirlýsing: sýnir bæði, að úr litlu sönnu er að velja, og líka að menn vildu, að þeir væru þessum kostum búnir. En Snorri hefur fastari jörð undir fótum en La Rochefoucauld, að því leyti sem mannkostir orka meir tvímælis en staðreyndir.

Þá víkur Snorri loks að dróttkvæðunum í síðustu setningu formálans: „en kvæðin þykkja mér sízt ór stað færð, ef þau eru rétt kveðin ok skynsamliga upp tekin''. Hún stendur á undarlegum stað, á eftir greininni um Ara. Hún gæti bent til þess, að þeirri grein væri hleypt inn síðar, en getur líka verið eins konar „eftir á að hyggja".

Setning þessi er ekki auðskilin. Í öllum þýðingum, sem ég hef séð, er hún skilin á þann veg: „en kvæðin tel ég sízt munu vera afbökuð, ef þau eru rétt kveðin og skynsamlega skýrð" (tekin upp = orðunum raðað sem í lausu máli, „tekin saman"). En það getur þó ekki verið kvæðanna sök, þótt þau lendi í höndum manns, sem skýrir þau rangt. Efni setningarinnar hlýtur að vera, að á tvennan hátt sé hægt að ganga úr skugga um, að kvæði sé ekki afbakað: ef það fullnægi bragreglum og ef efni þess sé skynsamlegt við nánari athugun. Með því móti verður hún mikilsverð viðbót við það, sem á undan er komið, og sýnir, að Snorra hefur heldur ekki sézt yfir þessa hlið heimildamatsins.

## III.

Einmitt formáli Heimskringlu sýnir það ljóslega, að mönnum var orðið tamt að sækja söguefni í kvæði fyrir daga Snorra. Hagnýtingin verður jafnan að fara á undan, áður en kenningin þroskast: ljós hugsun á undan rökfræði, ljóðagerð á undan bragfræði o. s. frv.

Langmestur hluti af vísum og kvæðum fornskálda, sem varðveizt hafa til vorra daga, er í letur færður í sambandi við söguleg fræði. Þetta sýnir gjörla, hvert andlegur áhugi Íslendinga stefndi á 12. og 13. öld: það var sögugildið en ekki skáldskapurinn, sem um var hirt. En það bendir líka á ástandið áður en sagnaritunin hófst. Sögur og vísur höfðu aldrei verið aðskildar. Þessvegna lá það frá byrjun í augum uppi fyrir sagnaritarana að nota vísur og fella þær inn í frásögn sína. Það

þarf ekki að grípa til írskra áhrifa né annara örþrifráða til þess að skýra svo auðskilið mál.

Athugum fyrst lausavísurnar. Flestar þeirra voru þann veg vaxnar og til orðnar, að ekki var hægt að skilja þær, nema með því að láta stutta sögu um tildrög og tilefni fylgja með til skýringar. Svo er enn í dag um íslenzkar tækifærisvísur. Á hinn bóginn myndaði vísan fastan, auðlærðan kjarna, sem sagan loddi við, og geymdist því betur en ella.

Nokkuð öðru máli gegnir með konungakvæðin. Þau voru sjálf saga, gátu staðið ein. Hirðskáldin voru eins konar konunglegir sagnaritarar, og þeim og konungunum sjálfum hefur verið þetta fullljóst. Það er alveg í réttum anda fortíðarinnar, þegar Snorri lætur Ólaf helga kalla skáld sín inn í skjaldborgina á undan Stiklastaðaorustu, til þess þeir sæju sem bezt öll tíðindi — „því at ér skuluð frá segja ok yrkja um síðan" (Ól. s. h., k. 206). Kvæðin voru miklu vissari en sundurlaus frásögn að gangast ekki í munni, og því vissari, sem hættir voru dýrari, hvert orð í fastari skorðum, svo að torvelt var að breyta, nema braglýti sæjust. Er þetta ef til vill ein aðalorsökin til þess, að dýrari bragir voru heimtaðir á dróttkvæðum en Eddukvæðum. Tacitus segir það þegar frá Germönum, að forn kvæði voru einu sögur þeirra og annálar (carmina antiqua — „quod unum apud illos memoriæ et annalium genus est", Germania, c. II).

Sögukvæði og sögusagnir hafa um skeið getað farið hvor sinna ferða. Einn gat kunnað frásögn, annar kvæði um sama viðburð, án þess saman væri borið. Næg sönnun þessa er hversu oft Snorri og aðrir sagnaritarar leiðrétta munnmælin með því að vitna í kvæði. Samt gat það líka valdið, að menn skildu hvorki kvæðin til fullrar hlítar, né gerðu sér grein fyrir, hve miklu áreiðanlegri þau voru en munnmælin. Og víst er það, að fróðir menn hafa áður en sagnaritun hófst verið farnir að bera saman sögur og kvæði, auka og leiðrétta sögurnar eftir kvæðunum og vísa til þeirra sem sannana. Svo talar t. d. Theodricus

munkur um kvæði Íslendinga sem söguheimildir, en hann styðst einmitt við munnlegar frásagnir þeirra, en ekki skrifaðar heimildir (Monumenta hist. Norv. 3: „prout sagaciter perquirere potuimus ab eis — — — quos nos Islendinga vocamus, qui hæc in suis antiquis carminibus percelebrata recolunt").

Vísa Hjalta Skeggjasonar, sem Ari tilfærir í Íslendingabók, er partur af frásögninni. Notkun slíkra vísna á sér í raun og veru enga þróun. Hún var samskonar í munnlegri og skrifaðri frásögn. Einu atriðin voru að greina rétt frá höfundi og tilefni, og gæta þess að ekki væri ósamræmi milli sögu og vísu. Og þótt villur í þessu efni komi fyrir, þá var það sjaldnast sem hægt var að leiðrétta þær, einmitt af því að sögur og vísur voru svo samgrónar.

Alt önnur er afstaða þeirra vísna, er standa sem sannanir. Það er mikill munur á því, hvort á undan vísu stendur: *þá* kvað Sighvatur, eða: *svá* kvað Sighvatur. Reyndar eru vísur þær, sem eru partur af frásögninni, líka sannanir, beinlínis eða óbeinlínis. En þær eru þó einkum teknar upp af því að þær eru sjálfar atburður. Hinar vísurnar mætti fullu nafni kalla innskots sannanir, sannanir milli sviga. Staða þeirra er lík og neðanmálsgreina í nútíma vísindaritum: frásagan er heil, þótt þeim sé öllum slept úr, þær standa að eins til staðfestingar.

Það er nú ekki hægt að vita, hvort Ari hafi tilfært nokkrar vísur á þennan hátt í konunga æfi sinni. En þótt svo hafi ekki verið, getur hann vel hafa notað eitthvað af vísum, og vafalaust hefur hann haft hliðsjón af Ynglingatali við ættartölu sína. Eiríkur Oddsson virðist hafa stuðst við Sigurðarbálk Ívars Ingimundarsonar, en þær vísur, sem hann tilfærir, standa fremur til skemtunar en sönnunar, enda þurfti hann ekki kvæðanna við til þess, þar sem hann skrifaði um samtímaviðburði. Oddur Snorrason tilfærir aðeins eina vísu, vísu Stefnis um Sigvalda, því að hana gat hann þýtt á latínu. Vísur þær, sem standa í þýðingunum, eru síðari viðbót (úr Fagurskinnu). En Oddur notar þessa einu vísu sína greinilega sem sönnun,

og mundi víst hafa tilfært fleiri, ef hann hefði skrifað á íslenzku. Elztu rit sem nú eru til, þar sem vísur eru notaðar á líkan hátt og hjá Snorra, eru því Elzta Ólafs sagan og Ágrip. En mjög er meðferð þeirra ábótavant. Miklu færri vísur notaðar en kostur var á, oft ekki rétt skildar og því ósamræmi milli texta og vísna, og ekki nema nokkuð af efni vísnanna tekið upp í sundurlausu frásögnina.

Miklu betur eru vísurnar notaðar í sagnaritunum frá öndverðri 13. öld: Orkneyinga sögu, Morkinskinnu, Fagurskinnu. Mun síðar tækifæri til að bera þessi rit saman við verk Snorra á stöku stöðum. Í Morkinskinnu er ekki einungis tilfærður fjöldi vísna, og þær notaðar með sæmilegri dómgreind, heldur kemst höfundurinn svo langt að hugsa líka um sannindi kvæðanna sjálfra og hvort þeim megi treysta. Hann leggur áherzlu á, að kvæðin séu samtíða viðburðunum: „Er mikil saga frá Haraldi konungi í kvæði sett, þau er honum samtíða voru um hann kveðin“ (Flat. III, 343, smbr. Fagursk. 263 (kvæði þau, er íslenzkir menn færðu honum sjálfum), Heimskr., Har. s. harðr. k. 36). Enn merkilegri er þó þessi umsögn: „Í þessum II drápum Haralds ok mörgum öðrum hans kvæðum· er getit þessa stórvirkis, ok eigi þarf orð at gera hjá því, at sjálfan Grikkja konung blindaði hann. Jafnvel mætti nefna til þess greifa einhvern eða hertoga, ef þat þætti sannara, en í öllum kvæðum Haralds konungs segir þetta eina lund (Morkinsk. 14, smbr. Fagursk. 230, Heimskr., Har. s. harðr. k. 14). Eru þetta langskarplegustu ummæli um kvæðin á undan formála Heimskringlu, því að hér er ekki einungis bent á samræmi fleiri heimilda, heldur líka gerð tilraun til þess að skilja hugarfar skáldanna.

En eins og formáli Snorra er víðtækari og djúpsærri en þessar einstöku athugasemdir fyrirrennaranna, svo er og vísnanotkun hans öll á hærra þroskastigi. Yfirleitt finnur maður sífelt til þess við samanburð á verkum Snorra og heimildum hans, að hann er *fullorðnari*, vissari, jafnari. Hann fer ef til

vill ekki fram úr þeim, þar sem þeim tekst bezt, en honum skeikar miklu sjaldnar, vald hans á efninu er langtum meira. Og í þessu sambandi má ekki gleyma því, að hann stendur ekki einungis á herðum hinna eldri sagnaritara, heldur var Edda hans, með þeirri rannsókn á skáldskap og skáldamáli, sem hún hafði útheimtað, líka bezti undirbúningur til þess að fara vel með kvæðin sem söguheimildir.

## IV.

Skáldskaparmál gefa fyrst og fremst hugmynd um þann aragrúa kvæða, sem Snorri hefur kunnað, og Skáldatal bendir ekki síður í sömu átt. Sú skrá er auðsjáanlega miðuð við kvæðin sem söguheimildir, þar sem hún tekur ekki tillit til annara kvæða en um höfðingja. Hún gat verið stoð fyrir minnið, og mér finst hún benda á það, sem líka af öðrum ástæðum er sennilegt, að Snorri hafi kunnað kvæðin utanbókar, og ekki haft þau skrifuð. Sést það oft hvernig hann hefur haft vísurnar á hraðbergi í minni sínu. Hann hefur Bersöglisvísur í huga þegar hann skrifar um Hákon góða, hann lýsir hinum snöru augum Ólafs helga í upphafi sögu hans (k. 3), og sækir það í vísu eftir Sighvat um Stiklastaðaorustu (k. 226, smbr. Litt. hist. II 707). Vísa Arnórs jarlaskálds: Gengr í ætt, þats yngvi | Upplendinga brendi o. s. frv., er kveðin um Harald harðráða, en Snorri tilfærir hana til sönnunar um atfarir Ólafs helga (Ól. s. h., k. 121). Helgisagan tilfærir í sambandi við fall Erlings Skjálgssonar vísu Sighvats: Einn vissak þér annan, þar sem skáldið bar þá saman Erling og Dala-Guðbrand. En Snorri skildi, að samanburðurinn var fremur Guðbrandi til vegs en Erlingi, því að Erlingur var frægari (smbr. Ól. s. h., k. 22), og því flytur hann vísuna þangað sem Guðbrands er fyrst getið (Ól. s. h., k. 112).

Snorri tilfærir fleiri vísur en nokkur annar sagnaritari. Í Fagurskinnu eru 271 vísa og vísnapartar, en í Heimskringlu 613. En auðvitað er þess að gæta, að Fagurskinna er miklu

styttra rit en Heimskringla, og auk þess vantar bæði í hana og Morkinskinnu. Enda er vísnatalan ekki nóg til samanburðar. Mörgum vísunum í Morkinskinnu er bætt við af skrifurum, og oft á óheppilegum stöðum, og þar er fjöldi af lausavísum og efnislitlum kvæðabrotum. Um Ólaf kyrra tilfærir Snorri ekki nema fjórar vísur, en Morkinskinna 14, og samt er eins mikið söguefni í vísum Snorra. Hann er vandlátur með að taka ekki vísur að óþörfu og ekki tækifærisvísur um lítilfjörlega viðburði. Hann tekur aldrei inngangsvísur kvæða, eins og Fagurskinna tekur úr Haraldskvæði og Eiríksmálum. Og þá er þess að gæta, að Snorri notar margrar vísur án þess að tilfæra þær, og vafalaust fleiri en vér nú getum vitað. Getur hann þeirra þá stundum, og stundum ekki. Svo tilfærir Fagurskinna t. d. þrjár vísur úr Vellekłu um fyrra fund þeirra Hákonar jarls og Ragnfröðar Eiríkssonar, en skýrir lítið frá efni þeirra í frásögninni (70—72). Aftur á móti kemur Snorri með efni vísnanna, jafnvel svo að orðalag helzt: Hóf und kyrjar kneyfi .... vandar dýr at landi (Vellekla), — „Hóf öll skipin saman inn at landinu" (Ól. s. Tr., k. 17). En hann gefur ekki í skyn, að hann styðjist við kvæðið.

Í öðru lagi vekja Skáldskaparmál, þar sem torskildustu vísur stundum eru beinlínis skýrðar, vonir um, að Snorri muni skilja kvæðin út í æsar. Reyndar má heita, að skilningur fyrirrennara hans á kvæðunum sé góður, og er þó örðugra að vita það til hlítar, vegna þess hve oft er lauslega skýrt frá efni vísnanna í frásögninni. Og fágætt er það a. m. k., að slíkt komi fyrir, sem þegar höfundur Ágrips misskilur ‚skeiðarbrand' (skipsstafn, skip) og gerir úr því konungsnafn: „ok flúði Brandr til Danmarkar". En um vísnaskilning Snorra er það að segja, að hann er miklu betri á dróttkvæðum en Eddukvæðum, og yfirleitt svo fullkominn, að honum verður aldrei of mikill gaumur gefinn. Skal ég benda hér á tvö dæmi, þar sem greinargerð Snorra fyrir efni vísnanna bendir að mínu áliti til réttara skilnings.

Í 22. kapítula Ólafs sögu helga segir Snorri frá viðskiftum þeirra Eiríks jarls og Erlings Skjálgssonar. Gefur hann það í skyn, að jarli hafi staðið sá beygur af Erlingi, að hann fór því að eins um Rogaland að veizlum, að hann hefði mikið fjölmenni. „Þess getr Sighvatr:

Erlingr var svá jarla
átt er skjöldungr mátti
Áleifs mágr at ægði
aldyggs sonar Tryggva“ o. s. frv.

Þetta tekur Finnur Jónsson svo upp í Skjaldedigtningen: „Erlingr var skjöldungr jarla, er mátti svá, at mágr Áleifs, aldyggs sonar Tryggva, ægði átt“. En við þetta er fyrst að athuga, að Erlingur var ekki jarl og vildi ekki vera það að sögn Snorra (Ól. s. Tr., k. 58). Það hefði því verið ótrúleg smekkleysa af Sighvati að kalla hann ‚konung meðal jarla‘. Og auðséð er, að ‚ægði átt‘ er miklu óákveðnara en svo, að Snorri gæti hér fært það máli sínu til sönnunar, því að Erlingur gat vel verið ægilegur almenningi, án þess að Eiríkur jarl færi hræddur fyrir honum. Ég hygg, að ‚átt jarla‘ eigi saman, en ‚skjöldungr‘ eigi við ‚Áleifs‘, og verður þá að lesa ‚skjöldungs‘, sem er lítil leiðrétting. Vísuhelmingurinn verður þá svo upp tekinn: „Erlingr, er mátti svá, at ægði átt jarla, var mágr Áleifs Tryggvasonar, aldyggs skjöldungs“. Með þessu verður vísan í samræmi við sundurlausa málið hjá Snorra og það sem vér annars vitum um Erling, og samhengið verður betra við síðara helminginn, þar sem talað er um gjaforð annarar systur Ólafs konungs: Næst gaf sína systur o. s. frv. Líka þess vegna fer betur á, að talað sé um kvonfang Erlings í höfuðsetningu en í millisetningu.

Vísu Eyvindar í lok Haralds sögu gráfeldar tekur Finnur Jónsson svo upp: „Fengum feldarstinga (dálk) ok galt við fjörð-hjörðu, þanns álhimins (íss) lendingar sendu oss útan; ek selda mest mínar hlaupsildr Egils gaupna (örvar) við mævörum sævar (síldum); hallæri veldr hváru“. En í bók sinni

um Harald hárfagra (4—5) benti Eggert Briem á, að Snorri segir það berum orðum, að Eyvindur lét höggva í sundur dálkinn og keypti sér bú (búfé: hjörð) með, en síldina ekki nema fyrir bogaskot sitt. Vill hann taka saman „fjarð-álhimins'', og væri þá setningin ‚ok galt við hjörðu' orðin samkvæm frásögn Snorra. En ‚fjarðál-himinn' er miklu ambögulegri kenning en svo, að Eyvindur hafi getað sett hana saman, enda er um annað betra úrræði að velja. ‚Fjörð' er hér (eins og líklega víðar, þar sem menn hafa haldið það stæði framan við annað orð í samsetningum) sjálfstætt orð og merkir ‚í fyrra'. Þetta varpar einnig ljósi á orðið ‚mest' í síðara helmingi vísunnar: í fyrra keypti ég búfé fyrir dálkinn frá Íslendingum, nú (mest = síðast) keypti ég síld fyrir örvar mínar.

Þriðja skilyrði þess að nota vísur vel, auk þess að kunna mikið af kvæðum og skilja þau, var að efast svo um frásagnirnar í lausu máli, skráðar eða óskráðar, að það vantraust væri hvöt til þess að leita áreiðanlegri heimilda. Það er ekki nema sjálfsagt, að sagnaritarar, sem beinlínis og óbeinlínis höfðu lært af Ara fróða, trúðu varlega öllu, sem sagt var, og snemma kemdur fram, að vísunum var betur treyst. Svo segir t. d. í Ágripi (29. dálki) um Hersi konung og andlát hans: „En sannendi til þessa má heyra í Háleygjatali, er Eyvindr orti, er kallaðr var skáldaspillir". En þar kann höfundur ekki að gera sams konar mun á kvæðum um forna tíma og samtíðarviðburði, sem Snorri gerir í formála Heimskringlu. Enn þá berorðari er Morkinskinna um mismuninn að treysta frásögn og kvæði, þar sem sagt er í sambandi við lýsinguna á hirðsiðum (Mork. 126): „ok *til þess at þetta sé eigi logit,* þá segir Arnórr svá jarlaskáld", og fylgir því vísuhelmingur.

Vantraust Snorra á munnmælum og sögum kemur víða fram. Má þar fyrst og fremst minna á allan formála Heimskringlu, og því næst á öll þau dæmi, þar sem hann leiðréttir eldri frásagnir með heilbrigðri skynsemi sinni einni saman, eins og enn mun sýnt verða. Lengra varð í raun og veru ekki komist

í að rengja. Var því sízt furða, þótt hann færði sér í nyt hinn víðtæka fróðleik sinn á fornan skáldskap til þess að bera saman sagnir og kvæði, þar sem því varð við komið. Hann notar t. d. rit Odds munks um Ólaf Tryggvason í stórum stíl, en hann nefnir hvergi þessa aðalheimild sína. Aftur á móti segir hann um Hallfreð vandræðaskáld: „Af Hallfröðar kvæðum tökum vér vísendi ok sannendi, þat er þar er sagt frá Ólafi konungi Tryggvasyni“ (Ól. s. Tr., k. 83).

Einstöku dæmi úr Morkinskinnu geta gefið hugmynd um, á hve hátt stig notkun vísnanna var komin áður en Snorri fór að rita. Út af vísu Þjóðólfs: Flýði jarl af öðru, um eina orustu þeirra Magnúsar góða og Sveins Úlfssonar, bætir höfundur við: „Hér vísar til þess jafnan í kveðskapnum, at Magnús konungr ok allir hans menn kölluðu Svein jarl, þótt hann sjálfr kallaði sik konung, eðr hans vinir“ (Flat. III, 284). Hér eru orð vísunnar, sem geymst höfðu í föstum skorðum, höfð til þess að sýna fram á forn orðtæki, sem síðari viðburðir (viðurkenning konungdóms Sveins) höfðu hlotið að fella í gleymsku. Líka er reynt að gera upp á milli tveggja skoðana um sama atburð með því að færa fram vísu til styrktar annari (Mork. 145). Meðal þess sem sagt er frá fornum hirðsiðum í Ólafs sögu kyrra (Mork. 126) er þetta: „Ok þá var höfðingjum títt at bera öl um eld þveran, ok drekka á öndugismann sinn; ok þótti þat vera mest virðing at sitja fyrir konungs ádrykkju“. Þessu til sönnunar stendur svo vísa Arnórs:

Hétk, þás hvern vetr sátum,
hrafns verðgjafa jafnan,
(líð drakk gramr á góðar)
gagnvart (skipa sagnir).

Er merkilegt að sjá vísu hafða hér sem menningarsögulega heimild, og sýnir það eitt með öðru hina einstöku athugun Íslendinga á sögulegar breytingar. En lengi má um bæta. Snorri tekur lýsingu Morkinskinnu á hirðsiðum, án þess að breyta

henni að marki. En hann hefur ekki verið ánægður með vísu Arnórs (úr Þorfinnsdrápu Orkneyjajarls) sem sönnunargagn í þessu sambandi, þó að líkt væri að vísu á komið um konungs hirð og jarls hirð, norska og orkneyska menningu. Og með fróðleik sínum tókst honum að finna aðra vísu, sem alveg átti við, úr drápu Stúfs blinda um Harald harðráða:

Þás blóðstara bræðir
baugum grimmr at Haugi
gjarn með gyldu horni
gekk sjálfr á mik drekka.

Og um leið víkur hann frásögninni við samkvæmt vísunni: „Haraldr konungr ok aðrir konungar fyrir honum váru vanir at drekka af dýrahornum ok bera öl ór öndugi um eld, ok drekka minni á þann, er honum sýndisk“ (Ól. s. kyrra, k. 3).

Að eins örfá dæmi þess skulu hér tekin, hvernig Snorri færir sér vísurnar í nyt. Helgisagan (k. 8) segir frá Ólafi helga, að hann vann fyrsta sigur sinn „í Vík austr við sker þau, er síðan eru kölluð Sótasker“ á víkingi, er Sóti hét. Er þar auðsjáanlega tekið efni úr Víkingarvísum Sighvats, þótt ekki sé vitnað í þær:

— — — fyrsta sinni
hann rauð æstr fyr austan
úlfs fót við sker Sóta.

Snorri tilfærir þessa vísu, og hann segir líka, að Sóti hafi verið nafn víkingsins, þótt Sighvatur geti þess ekki, og það sé líklega ágizkun ein, að skerin hafi þá hlotið nafn sitt og á þennan hátt. En Snorri hafði engin gögn til þess að rengja það. Þau hafði hann aftur á móti um legu Sótaskerja. Af Höfuðlausn Óttars sá hann nefnilega, að Ólafur hóf ferð sína með því að halda „austr í salt“ og „hrjóða Svíþjóðar nes“. Hann tilfærir hálfa aðra vísu þessu til sönnunar og segir á undan: „Óttarr svarti segir þat berum orðum, at hann fór þá

austr ór Danmörk" (Ól. s. h., k. 5). Og samkvæmt því hefur hann um Sótasker: „þat er í Svíaskerjum" (k. 6). Í *‚berum orðum'* er einmitt fólgin aðfinsla að frásögn Helgisögunnar, og sýnir það, hve nákvæmlega Snorri athugaði kvæðin.

Stundum má heita að hver leiðréttingin reki aðra. Svo er t. d. um ýmis atriði um Stiklastaðaorustu. Í helgisögunni (k. 91) stendur: „Þat segja menn, at Árni Árnason bæri merki Ólafs konungs um daginn". En Snorri segir: „Þórður Fólason bar merki Ólafs konungs; svá segir Sighvatr skáld í erfidrápu þeiri, er hann orti um Ólaf konung" — og kemur þá vísan (Ól. s. h., k. 212) — Helgisagan segir, að konungur hafði hvorki hjálm né brynju. En Snorri vitnar í orð Sighvats:

— — gekk sóknþorinn sækja
synjór fram í brynju — —

og breytir frásögu sinni eftir því (k. 213). — Helgisagan segir (k. 92), að Björn stallari „hjó með sverði til Þóris hunds um daginn, en þar sem á kom beit eigi heldr en vendi berði um". En Snorri eignar þetta högg konungi sjálfum, og vitnar til Sighvats (k. 228), og er skilningur hans efalaust réttur.

Vegna þess að bornar hafa verið brigður á það (af Konrad Maurer), að sams konar notkun dróttkvæða kæmi fram í síðustu sögunum í Heimskringlu sem í hinum fyrri, ætla ég hér að sýna, hvernig þessu er varið í sögu Inga og Sigurðar. Sleppi ég auðvitað að minnast á þær vísur, sem farið er með alveg á sama hátt í Morkinskinnu. — Vísan í k. 14, Auð gefr Eysteinn lýðum, er ekki annarsstaðar tilfærð né notuð, en úr henni hefur Snorri það, að Haraldr gilli hafi átt son, sem Magnús hét. Næsta vísa (k. 17), úr Erlingsdrápu Þorbjarnar Skakkaskálds, er heldur ekki nema í Heimskringlu, en ekki bætir hún neinu söguefni við það sem stendur í Mork. og Orkneyinga sögu um það, er unninn var drómundurinn. Síðari vísan í k. 19 stendur að vísu líka í Mork., en eins og oftar

notar Snorri efnið betur í frásögn sinni, þar sem hann talar um orustu við Leikberg, en Mork. nefnir ekki staðinn. Líkt er um næstu vísu, að hún stendur í Mork., en Snorri notar hana betur, því að úr henni hefur hann töluna á liði Haralds jarls. Vísan „Beit buðlungs hjörr'' (k. 20) er lítið notuð í Mork., en eflaust er eitthvað fallið úr textanum: „aðra orrostu átti hann suðr við Hjartarpoll, ok kom þeim á flótta'' (225), á víst að vera: við Hjartarpoll *við riddaralið* ok kom þeim o. s. frv., eins og í Heimskringlu stendur. Snorri hefur einmitt hlotið að taka þetta um riddaraliðið úr Mork., því að það styðst alls ekki við vísuna. Þar er talað um sjóorustu („hruðusk Engla beit''), sem Mork. sleppir, en Snorri reynir að taka tillit til með því að segja: „hruðu þeir þar skip nökkut'' (á að vera nökkur?). Þá stendur vísan í 21. kap. hvergi nema í Heimskringlu, og Snorri lýsir eftir henni Sigurði konungi nákvæmar en gert er í Morkinskinnu.

Í þessum dæmum kemur gjörla fram bæði vísnafróðleikur Snorra og vald hans á efni kvæðanna. Var það þó ekki heiglum hent að bæta svo um annað eins ágætisrit og Morkinskinna er. Hitt er engin furða, þótt Snorri leggi minni áherzlu á vísurnar eftir því sem nær dró samtíð hans og sögurnar sjálfar urðu bæði fyllri og áreiðanlegri.

## V.

Snorri leggur áherzlu á það í formála Heimskringlu, að nota ekki nema samtíða kvæði um viðburði eftir daga Haralds hárfagra. Enda var það ekki fyr en á 14. öld, sem farið var að tilfæra vísur úr kvæðum eins og Jómsvíkingadrápu, Rekstefju og Íslendingadrápu, sem kveðin voru um löngu liðna viðburði og höfðu í engu meira sannleiksgildi en munnmælin. Þá voru vísurnar orðnar meira til prýði en heimilda, og fróðleiksstefnunni var tamt að tína alt til. En Snorri hefur reglur sínar í formálanum auðsjáanlega sífelt í huga.

Hann bendir sérstaklega í frásögn sinni á orð Þórarins loftungu (Ól. s. h., k. 172):

Várum sjón sögu
slíks ríkari.

Hann segir um orustuna fyrir Nesjum: „Sighvatr skáld var þar í orrostu; hann orti *þegar um sumarit eptir* flokk þann, er Nesjavísur eru kallaðar, ok segir þar vandliga frá þessum tíðendum'' (Ól. s. h., k. 49). Og þó að hann noti ýmsar vísur úr Geisla Einars Skúlasonar, þá tilfærir hann þá eina, þar sem Einar var sjónarvottur, og því beint vitni (Sig. s. Jórsalaf., k. 30):

Þann sáum vér, er várum,
válaust numinn máli
hodda brjót, þars heitir
Hlíð, fám vikum síðarr.

En öll ummæli um kvæði um samtíða viðburði stefna að því að staðfesta gildi þeirra, að undanteknum þessum orðum formálans: „Þat er háttr skálda, at lofa þann mest, er þá eru þeir fyrir". Allir aðrir sagnaritarar láta sér nægja að leiðrétta eða auka frásagnirnar eftir kvæðunum. Snorri einn færist það í fang að vinsa úr efni kvæðanna, draga það úr, sem hann áleit oflof og skáldaýkjur. Hann var sjálfur hirðskáld, og mátti vera það manna kunnugast, að sanna viðburði mátti klæða í of viðhafnarmikinn búning, og hafa lýsingarorð í hástigi, þar sem frumstigið mundi hófi nær.

Guthormur sindri segir það skýrum orðum í kvæði sínu um Hákon góða, að hann *legði undir sig Selund* (Sjáland) og gerði *Gauta skattgilda* (Hák. s. g., k. 8). Þetta hefur verið tekið trúanlegt í eldri Hákonar sögu, og hafa leifar þess slæðst inn í 9. kapítula (um lén Tryggva). En þar sem Snorri tilfærir vísurnar og skýrir frá efni þeirra, dregur hann svo úr þeim, að eftir verður ekki nema algeng víking: „Eptir þat herjaði Hákon konungr víða um Selund ok rænti mannfólkit, en drap

sumt, en sumt hertók hann, tók gjöld stór af sumum" (smbr. Sn. Hist. 124). — Eins virðist Snorra hafa verið það ljóst, að ást Eyvindar skáldaspillis á drotni sínum látnum hafi gert hann helzti stórorðan í Hákonarmálum. Þegar Eyvindur segir:

Hrauzk ór herváðum,
hratt á völl brynju
vísi verðungar,
áðr til vígs tæki — —,

þá skýrir Fagurskinna (40) þetta svo: „þann dag var veðr heitt af sólu; þá steypti Hákon konungr af sér brynjunni". Snorri vill ekki selja það dýrara en hann keypti það: „ok *segja menn svá,* at konungr steypti af sér brynjunni áðr orrostu tóksk; svá segir Eyvindr" (Hák. s. g., k. 30) — en slíkan formála er hann ekki vanur að hafa um dróttkvæði. Og hann tilfærir reyndar vísuna:

Svá beit þá sverð
ór siklings hendi
váðir Váfaðar
sem í vatn brygði.

En hann tekur ekkert efni úr henni, eins og Fagurskinna gerir: „misti aldrigi, ok beit sverðit þó sem misti".

Sömu varúð beitir Snorri við Velleklu. Þegar Einar segir: „Ýtti Freyr af fjórum | fólklöndum — — Heðins byrjar", þá sér Snorri sér að vísu ekki fært að ganga þegjandi fram hjá því, heldur segir: *„svá er at kveðit,* at hann hafði her af iiii fólklöndum" (Ól. s. Tr., k. 18) — og gefur með því ótvírætt í skyn, að hann telji þetta öfgar. Og skilningur Snorra er hér réttari en nútímamanna. Það nær ekki nokkurri átt að leggja ‚fólkland' út með ‚fylki', eins og gert er í orðabókunum (Cleasby, Fritzner, Lex. poet.). Einar ætlar sér hér auðsjáanlega að kveða stórt að orði, en það var smátt fyrir Hákon jarl að hafa ekki her nema úr fjórum fylkjum, þegar þess er gætt, að í Þrándheimi einum voru *átta* fylki og honum fylgdu auk þess

*sjö jarlar* (sem Einar kallar landreka, en það er annars konungskenning). Fólkland er hér sama og þjóðland (eins og Frísbók hefur á þessum stað), og það merkir orðið í Hálfs sögu. — Þá segir í annari vísu sama kvæðis (sama kap.), að þrjú hundruð manna féllu af liði Ragnfröðar konungs, en Hákon jarl „mátti ganga þaðan (til) hafs at höfðum bragna". Fagurskinna (73) tekur þetta gilt, og segir: „Svá mikit var mannfall, at hér segir, at jarlinn gengi at manna höfðum af þessum fundi". Snorri víkur ekki að þessu einu orði, en lætur sér nægja að nefna tölu þeirra, er féllu. — Um orustu Hákonar við Ótta keisara segir Einar:

Sundfaxa kom Söxum
sæki-Þróttr á flótta — — —

Og eftir því fer Fagurskinna (74): „Þar varð hörð orrosta lauk svá, at keisarinn flýði ok alt lið hans". En Snorra þótti þetta of djarft að orði kveðið, eftir því sem hann vissi um, hvernig lauk viðskiftum keisara við Dani. Hann tilfærir samt vísuna, en leggur hana þannig út: „*Snýr þá keisari í brot*, ok leitaði þar ekki lengr til" (Ól. s. Tr., k. 26). Stillir hann þannig efni hennar í hóf, án þess að gera hana að tómum hégóma.

## VI.

Það verður varla of mikið úr því gert, hve mikils virði dróttkvæðin hafa verið fyrir sagnakönnun Snorra. Mikið af Ynglinga sögu má heita frumritað eftir vísum, sömuleiðis frásagan um víkingaferðir Ólafs Tryggvasonar og Ólafs helga, orustulýsingar eins og á Nesja-orustu, orustunni í Árósi (Magn. s. g., k. 30) og að nokkru leyti á Stiklastaða-orustu o. s. frv. Og þó að slíkar frásagnir verði jafnan í molum, er hitt í raun og veru aðdáanlegt, hve mikið af sögulegu efni Snorra tekst að spinna út úr vísunum, án þess að fjarlægjast vísindalega nákvæmni. Síðar mun verða bent á, að tveir af frægustu köflunum í ritum hans, ræða Einars Þveræings og samanburðurinn

á Ólafi helga og Haraldi harðráða, eru vaxnir upp af vísum. Þó er hitt miklu tíðara, að Snorri leiðréttir og lagar frásagnir eldri rita með því að hafa vísurnar til hliðsjónar, og hafa dæmi þess verið sýnd. Þá geta vísurnar líka með þögn sinni einni gert hann varkáran. Það gerði t. d. sum æskuafrek þeirra Ólafanna býsna vafasöm, að þeirra var ekki getið í neinum kvæðum. En jafnvel þar sem Snorri hefur sömu frásagnir og sömu vísur og eldri rit, hafa kvæðin ekki verið honum gagnslaus. Þau gáfu honum þá trú á frásögnina, sem hann ella mundi hafa brostið, og án þess hefðu hans eigin rit víða orðið efnisminni. Þannig hafa kvæðin jöfnum höndum stuðlað að því að láta báða aðalkosti ritanna, vísindin og listina, njóta sín að fullu.

Meðferð kvæðanna til heimilda tengir líka á ýmsan hátt Eddu Snorra og sagnarit hans saman. Eins og hann í Gylfaginningu gerir mun Eddu-kvæða og dróttkvæða og í Skáldskaparmálum mun á kvæðum höfuðskálda og minni háttar skálda, sem eru ekki eftirbreytni verð, svo gerir hann í formála Heimskringlu greinarmun á kvæðum um forsögulega tíma og sögulega tíma, á samtíða kvæðum og kvæðum eftir munnmælum. Þó að hann taki efni dróttkvæða í Gylfaginningu, lætur hann goðin ekki taka þau sér í munn, og þótt hann sjálfur styðjist við Eddukvæði í fyrstu kapítulum Ynglinga sögu, varast hann að vitna í þau. Því að nú var hann að skrifa sögu, en kvæðin voru ekki þess eðlis.

En Snorri hafði fleiri könnunaraðferðir, en samanburð dróttkvæða og frásagna. Stundum voru sundurleitar frásagnir, munnlegar og skrifaðar, um sama viðburð, stundum gátu skoðanir hans og skynsemi risið öndverð gegn öllum frásögnum, atburðirnir gátu hafa látið eftir sig aðrar minjar en minninguna eina o. s. frv.

Ein af veikustu hliðum íslenzkrar sagnaritunar er meðferð höfundanna á ýmsum frásögnum um sama atburð. Á hún þar yfirleitt sammerkt við sagnaritun fyrri tíma, þar sem könnuðir nútímans aftur á móti kunna að vera fulldjarfir í að velja eina

söguna og hafna hinum. Áður tóku menn tvær eða jafnvel fleiri sögur, þar sem á milli bar, eða steyptu þeim saman, tóku úr hverri það sem hún hafði fram yfir hinar, og kærðu sig ekki um þótt samskeytin sæjust eða smá-ósamkvæmni myndaðist. Þessvegna tala menn nú um „innskot", þar sem í raun og veru hefur átt að gera eina heild úr ýmsum heimildum. Mest ber á þessum innskotum, þar sem brot úr einu riti hafa verið feld, að mestu óbreytt, hingað og þangað inn í annað rit (t. d. brot úr Ágripi inn í Helgisöguna og Morkinskinnu). En oft gat líka verið örðugt að gera samræma heild úr sundurleitum munnmælum, og get ég um það efni vísað til kaflans um Elztu Ólafs sögu í Om. O. h. (48—68). Miklu minna ber á slíku ósamræmi í Íslendinga sögum, og sýnir það eitt meðal annars, að þær hafa komið steyptari í hendur riturunum en konungasögurnar.

Snorri ber nú í þessu efni stórkostlega af öllum þeim sagnariturum, sem færðust í fang að steypa saman skrifuðum heimildum. Útsýni hans yfir efnið er svo skýrt, hann er svo viss í því að setja það fram í réttri tímaröð og gæta fulls samræmis, að hann strandar aldrei á þeim skerjum, sem liggja í augum uppi. Í öðrum ritum væri (og er) oftast hægt að sýna, hvar steypt er saman, þó að frumritin væru týnd. En vér tökum aðeins eftir því hjá Snorra, ef vér vitum fyrir fram, að hann hefur gert það. Ég skal taka dæmi, sem reyndar er einstakt að minni hyggju. Í elztu sögu Haralds harðráða (Flat. III, 330—31) sendir Magnús góði á deyjanda degi Þóri bróður sinn á fund Sveins Úlfssonar og gefur honum Danmörk eftir sig. Aftur á móti nefnir Fagurskinna alls ekki Þóri, til þess var hann of mikil aukapersóna, heldur lætur „mann" nokkurn flytja Sveini tíðindin (249). En þó að Snorri (Har. s. harðr., k. 28) segi sömu söguna og Flat. um orð Magnúsar, þá lætur hann fyrst nokkra menn bera Sveini andlátsfregnina, og síðar kemur svo Þórir með sína orðsendingu. Í sjálfu sér er þetta ekki óeðlilegt, aðrir menn gátu vel borið fréttina fljótar en Þórir. En bæði Mork. og Fagursk. hafa hér einfalda sögu,

Snorri tvöfalda, og honum gat ekkert gengið til þess að víkja hér frá aðalheimild sinni (Mork.), ef Fagursk. hefði ekki vilt honum sýn: hann vildi bræða saman. Og eins og oftar kemur fyrir, er saga Morkinskinnu áhrifameiri en Heimskringlu. Bæði í Flat. og Heimskr. bregst Sveinn svo við andlátsfregn Magnúsar, að hann skýtur því til guðs að flýja aldrei síðan Danaveldi meðan hann lifi. En sú heitstrenging er miklu eðlilegri, þegar ummæli Magnúsar konungs fylgja fregninni og gefa honum nýjan siðferðislegan rétt til ríkisins, heldur en ef þau koma ekki fyr en nokkru síðar (eins og í Heimskr.).

Í 8. þætti ritgerðar minnar um Ólafs sögu helga hef ég sýnt fram á, að um síðustu stundir Þormóðar Kolbrúnarskálds, eftir Stiklastaða-orustu, voru upprunalega skrifaðar tvær frásagnir, hvor annari óháðar, önnur í Fóstbræðra sögu, hin í Elztu Ólafs sögu. Í annari sögunni var hús það, sem Þormóður kom að, kallað hlaða, í hinni skemma. Ritari Miðsögunnar um Ólaf helga, sem steypti tveim eldri frásögunum saman, gerði gott úr þessu með því að láta Þormóð fyrst koma að einu húsi og ganga þaðan til annars. Hversu illa samsteypan er gerð, sést m. a. á því, að í fyrra húsinu stendur Þormóður hjá vandbálki nokkrum (Helgisagan, k. 96), og síðan gengur hann þaðan til hins hússins, og þar leggur hann „bringuna á vandbálk*inn* ok andaðisk þá“ (sst. k. 97). Slíkt gæti aldrei komið fyrir Snorra. Frásögn hans um Þormóð er mótsagnalaus, en hann hefur haft samsteypu-frásöguna í aðalheimild sinni, og því lætur hann Þormóð ganga frá hlöðu til skemmu (Ól. s. h., k. 233—34). En hefði hann gert sér grein fyrir, hvernig frásagan hjá Styrmi var til komin, mundi hann vafalaust hafa kosið aðrahvora ósamsettu heimildina.

Það má segja Snorra til lofs, að hann velur stundum djarflega og hreinlega um tvær heimildir, eins og t. d. þar sem hann tekur Hákonar sögu Ívarssonar alveg fram yfir samsvarandi kafla í sjálfri Morkinskinnu. Get ég um þetta efni yfirleitt vísað til bókar Storms. En þess verður að gæta, að mat

heimildanna var örðugt verk á 13. öld, því að rannsóknir á uppruna rita og innbyrðis afstöðu voru þá lítt á veg komnar Þar sem vitni og vísur þraut, varð að treysta heilbrigðri skynsemi, og þar kom auðug lífsreynsla Snorra honum í góðar þarfir. Honum getur skjátlast, en hann er aldrei einfaldur, eins og munkunum hættir til að vera. Þess má líka geta til, að munnlegar frásagnir, álit og skoðanir annara fræðimanna, hafi haft áhrif á heimildamat hans, en til lítils er að ætla sér að rekja það í einstökum atriðum.

Meðal söguheimilda eru nú taldar minjar (Denkmäler, sem Bernheim kallar), mannvirki og forngripir, sem segja frá fortíðinni með tilveru sinni einni saman. Það sést m. a. á lýsingunni á legstað Haralds hárfagra (Har. s. hárf., k. 43), að Snorra skorti ekki skilning á slíku. Á tveim stöðum virðast minjar hafa haft áhrif á frásögn hans, þótt misjafnlega hafi tekist til. En bæði dæmin eru þess verð að geta þeirra nánar.

Það er vafalaust, að Haraldur harðráði hefur ætlað sér að brjótast til ríkis í Noregi og hafið uppreisn í átthögum sínum á Upplöndum, svo að Magnús konungur sá sér þann kost vænstan að sættast við hann og skifta ríkinu. En sagnaritunum ber ekki vel saman um þetta, og eitt atriði í frásögn Heimskringlu vekur undir eins tortrygni: Snorri lýsir því nákvæmlega, hvernig Magnús gefur Haraldi hálfan Noreg og kveður hann skulu vera jafnréttan konung sjálfum sér, eftir að Haraldur hefur slitið félagi sínu við Svein Úlfsson. En svo kemur í næsta kapítula (Har. s. harðr., k. 24): „Þórir af Steig gaf Haraldi konungsnafn þar á þinginu". En hvað gat verið í þessu fólgið, *eftir* að Magnús konungur hafði gert hið sama? Þetta skilst ekki, nema með því að athuga heimildir Snorra. Skáldin Þjóðólfur og Bölverkur gera í drápum sínum um Harald auðvitað ekkert úr ósamþykki þeirra frænda, þótt ekki verði á hinn bóginn sagt, að þeir segi neitt berlega rangt (smbr. Litt. hist. I, 363—66). Enginn konungur vill minnast þess í ríki sínu, að hafa hlotið það með uppreisn, enda lætur Ágrip

(sem a. n. l. virðist skrifað in usum Delphini) alt frá upphafi falla í ljúfa löð með þeim Haraldi og Magnúsi. Aftur á móti segir Morkinskinna frá því, að þegar Haraldur kom til Upplanda og beiddist konungs nafns, þá þorði enginn honum það að veita, fyr en hann kom í Guðbrandsdali og Þórir á Steig varð til þess, 15 vetra gamall (Mork. 19). En hversvegna slepti Snorri Þóri ekki algerlega, úr því dróttkvæðin höfðu með þögn sinni þau áhrif á hann, að hann slepti uppreisn Haralds á Upplöndum? Einmitt af því, að *minjar* voru til, sem mintu á samband Haralds og Þóris, og sagan um konungsnafnið tengd við þær. Haraldur gaf Þóri stórgjafir, og var meðal þeirra mösurbolli silfurbúinn og skikkja. „Þorgils Snorrason sagði svá, at hann sá altarisklæðit, þat er gört var ór mötlinum, en Guðríðr, dóttir Guthorms Steigar-Þórissonar, sagði, at hon kvað Guthorm föður sinn eiga bollann, svá at hon sá“. Morkinskinna vitnar til Þorgils þessa um söguna alla, og Snorri treystist ekki að sleppa því, sem beinlínis stóð í sambandi við gripina. En hann var hér milli tveggja elda, þar sem kvæði voru gegn minjum, og brendi sig á báðum.

Frásögn Helgisögunnar (k. 15—16) um hernað Ólafs helga í Leginum er allæfintýrakend. Ólafur er inni í vatninu heilan vetur, og kyndir bál á ísnum til þess að halda auðri vök kringum skip sín. En um vorið, er hann ætlar að sigla á haf út, er óvígur her á Agnafit, sem ver honum útsiglingu. En Ólafur gerir bæn sína og siglir síðan beint á fitina, en hún springur fyrir og myndast þar sund fyrir skip hans, en Svíar drukna unnvörpum. Snorri hefur margt við þessa frásögn að athuga (Ól. s. h., k. 7). Hann trúir alls ekki á vetursetuna í Leginum, og það er þvert ofan í skilning hans á Ólafi digra að láta hann gera slíka jartein á æskualdri. Í stað þess býr hann til eðlilega skýringu. Ólafur kemst ekki út um Stokkssund fyrir liðssafnaði. En hann grefur skurð í gegnum Agnafit og neytir vatnavaxta til þess að sigla „út yfir grunnit ok

— —á hafit''. En skynsemishyggjunni fer hér sem oftar, er hún vill skýra kraftaverkin í stað þess að neita þeim algerlega: skýringin verður enn ósennilegri en upprunalega sagan (smbr. Munch, Det norske Folks Historie, I, 2, 449 anm.). Hvernig áttu menn Ólafs að grafa þennan skurð fyrir augum alls Svíahers, án þess á þá væri ráðið? Auðvitað er sagan ekkert annað en staðlaus jarteinasaga, ein af mörgum um æskuafrek Ólafs. Bezta sönnun þess er sú, að Snorri kann enga vísu um þetta, og henda þeir Sighvatur og Óttar þó smærri viðburði í Víkingarvísum og Höfuðlausn. Þetta mundi út af fyrir sig hafa verið næg ástæða fyrir hann til að sleppa þessu æfintýri, sem öðrum fleirum, ef gild rök hefðu eigi mælt með því, að taka það. Þó að vinir hans í Gautlandi staðfestu ekki í öllum greinum frásögn Helgisögunnar, sem Snorri virðist hafa borið undir þá („en Svíar mæla þessu í mót ok telja hégóma, at þar hafi menn farizk"), þá könnuðust þeir þó við hana og studdu hana með því að segja honum frá örnefninu Konungssund og mannvirkjaleifum: „Svá segja Svíar, at þar sé enn grjóthlöð þau, er Ólafr lét gera undir bryggjusporða sína". Hins gætti Snorri ekki, að örnefni og leifar geta vilt mönnum sýn, vegna þess að óskyldar sagnir geta tengst við þau og rangar skýringar myndast.

Það mundi ofmælt að segja, að Snorri hafi efast um sannindi allra þeirra frásagna í heimildum sínum, sem hann sleppir án þess að sýnt verði, að hann hafi haft sérstök gögn í höndum til þess að rengja þær. Talsverðu efni hefur hann slept af því að honum fanst það draga um of athyglina frá aðalviðburðum og höfuðpersónum, sumu af því að honum þótti það blátt áfram ómerkilegt. Þegar hann t. d. segir í Ólafs s. Tryggvasonar (k. 80): „varð í þeiri ferð mart þat, er í frásögn er fært, er tröll ok illar véttir glettusk við menn hans ok stundum við hann sjálfan. En vér viljum heldr rita um þá atburði, er Ólafr konungr kristnaði Noreg eða önnur þau lönd, er hann kom kristni á" — þá er bágt að segja, hvort ríkara er, vantrúin

á tröllasögur Odds, eða hitt, að honum þykja þær litlu máli skifta í samanburði við kristniboð Ólafs konungs. Aftur á móti eru það bersýnilega efasemdir, sem valda því, að útfararsaga Haralds harðráða verður miklu óbrotnari hjá Snorra, en hún er í Morkinskinnu, að hann sleppir Norðbrikts-nafninu og ýmsu fleira. Ritgerð Gustav Storms um dvöl Haralds í Miklagarði ((Norsk) Historisk Tidsskrift 2. R., IV, 354—86) sýnir yfirleitt, að Snorri kemst sannleikanum talsvert nær en Morkinskinna, með því einu að sleppa þeim hlutum, sem mestan æfintýrakeim báru, þótt margt af slíku tæi hafi líka slæðst með hjá honum.

Í raun og veru fara sagnakönnuðir nútímans alveg út fyrir takmörk sín, þegar þeir strika út alla „yfirnáttúrlega" viðburði. Eins og Seignobos segir, þá er tilvera djöfulsins miklu áreiðanlegri frá söguvísindalegu sjónarmiði en tilvera Peisistratosar, því að það eru til þúsundir af vitnum, hver öðrum óháð, sem hafa séð djöfulinn, en engin slík vitni um Peisistratos. Samt afneita söguvísindin áhrifum djöfulsins á jarðneska viðburði, af því að þau beygja sig fyrir skoðunum náttúruvísindanna á „eðlilegu" orsakasamhengi. En Snorri var ekki uppi á neinni náttúruvísindaöld, og hefur sjálfsagt verið talsvert hjátrúaður. Í Heimskringlu eru allmagnaðar kynjasögur, eins og t. d. um hamfarir finnsins til Íslands og vélar Óðins við Ólaf konung (Ól. s. Tr., k. 33, 64), og Snorra væri gert rangt til, ef hann væri sakaður um ósamkvæmni fyrir að hafa tekið þessar sögur, en slept ýmsum öðrum. Því að eitt var að afneita slíkum sögum, annað að sækjast eftir þeim. Það gerir Snorri ekki. Þó að þær gætu verið sannar, þá var ekki sérstakur vísindabragur á þeim, og vitnin oft ekki sem bezt um þær. Það ber í raun og veru meira á hófsemi Snorra í þessum efnum, af því að tvær af heimildum hans, Ólafa sögur þeirra Odds og Styrmis, voru svo fullar af æfintýrum og þjóðsögum. Hver greindur og sögumentaður leikmaður mundi hafa vinsað talsvert úr þeim bókum í Snorra sporum, þó að búast megi við, að hann hafi í því efni

verið flestum djarfari. Hann kann vel að gera stigmun hins furðulega. Sturlunga saga er öll full af fyrirburðum og berdreymi, og Snorri er heldur ekki spar á drauma. Þessvegna kýs hann líka heldur drauma en vökusýnir, og samkvæmt því breytir hann tveim fyrirburðunum á undan vesturferð Haralds harðráða, sem standa í Morkinskinnu (112), í drauma (Har. s. harðr., k. 80—81). Eitt er líka að viðurkenna, að kynjasögur geti átt sér stað, annað að taka allar slíkar sögur trúanlegar. Snorri breytir þeim oft í eðlilega viðburði, eins og dæmi eru sýnd fyr og síðar í þessari bók. Get ég látið mér nægja eitt þeirra í þessu sambandi: Í Ólafs sögu Tryggvasonar eftir Odd munk segir svo frá falli Þóris hjartar, að hann var lostinn öru milli herðanna og féll við, en úr skrokknum hljóp fram hjörtur einn og áttust þeir við, hjörturinn og Vígi, hundur konungs, og drap hann hjörtinn (Holm, k. 33). Snorri breytir þessu svo, að hann lætur Þóri flýja af skipum; „konungr rann eptir honum, ok fylgdi honum Vígi, hundr hans. Þá mælti konungr: „Vígi, tak hjörtinn!“. Vígi hljóp fram eptir Þóri, ok þegar upp á hann“ (Ól. s. Tr., k. 78). Snorri virðist hér vísvitandi hafa gefið hrópi konungs til hundsins þá mynd, að þau orð gætu orðið skýring á „misskilningi“ þeim, sem kemur fram í frásögn Odds.

Ég hef þegar í öðru sambandi minst á trúarskoðanir Snorra. Er það ekki nema eðlilegt, samkvæmt þeim og allri stefnu sagnaritunar hans, að hann leggi ekki sérstaka áherzlu á helgisögur. Því hefur verið við brugðið, hve lítið er af slíku í Fagurskinnu. En þar er þess að gæta, hve miklu styttra rit hún er en Heimskringla, og dæmi má sýna, að Snorri er þó stundum feti lengra en hún frá klerklegum anda. Í Fagurskinnu stendur í ráðningunni á draumi Hálfdanar svarta: „hafa menn þat fyrir satt, at sá lokkr jartegndi hinn helga Ólaf konung, er öllum Noregs konungum er helgari ok bjartari í himnum ok á jörðu, svá at allir menn viti“ (5). En Snorri segir stuttlega og þurlega: „hafa menn þat fyrir satt, at sá lokkr

jartegndi Ólaf konung hinn helga“ (Hálfd. s. sv., k. 7). Slíkir smámunir, eins og hvort sagt er „hinn heilagi Ólafr konungr“ eða „Ólafr konungr hinn helgi“, geta borið meira vitni um hugarþel höfundarins en virðist í fljótu bragði. Fagurskinna segir líka (líkt og Ágrip) um Hákon góða: „ok lagðisk þat til hefndar við Hákon af guði, eptir þat er hann hafði blótat, at í ríki hans var jafnan ófriðr af sonum Gunnhildar ok öðrum víkingum“ (32). Þessu sleppir Snorri; þykist auðsjáanlega ekki þurfa að grípa til slíkrar skýringar á því, að synir Eiríks blóðöxar börðust til föðurleifðar sinnar.

Snorri hefur ekki komist hjá því að taka ýmsar jarteinakendar sögur um Ólaf Tryggvason (t. d. um siglinguna til Goðeyja, k. 80, smbr. um Eyvind kinnrifu, k. 76), en miklu fleiri eru hinar, sem slept er. Söguna um kristniboðið á Rogalandi hefur hann reynt að færa til eðlilegra vegar. Hann tekur atburðinn sjálfan: að bændur koma engu orði upp til andsvara (Ól. s. Tr., k. 55), en hann sleppir skýringu Odds: að Marteinn biskup hafi vitrast Ólafi í svefni og heitið að styrkja erindi hans, gegn því að minni hans væri drukkið að veizlum (Holm., k. 17). Og er þó vafasamt, hvort sú skýring er ekki hóti betri en engin, því að málteppa bænda er alveg óskiljanleg, eins og Snorri segir frá henni. Minnir þetta nokkuð á söguna um hernað Ólafs helga í Leginum. Þar var Snorri að komast hjá því að eigna Ólafi jartein á unga aldri, og tekst honum það oftast vel. En úr því að hann á annað borð er farinn að viðurkenna jarteinir hans, dregur hann ekki af og tekur margar þeirra, bæði fyrir og eftir fall konungs. Þetta var auðvitað sjálfsagt í jafnlangri sögu um Ólaf og Snorri ritaði. Jarteinirnar voru færðar fyr í letur en nokkuð annað af sögu Ólafs, og um sumar þeirra voru ágæt vitni (Eindriði ungi, Einar Skúlason). Auk þess hefði kirkjan hlotið að líta á það sem hreina trúarvillu að efast um slíkt. En Snorri sýnir á einkennilegan hátt, hversu litlar mætur hann hafði á jarteinunum. Það er vafalaust ekki af virðingu fyrir bókstafnum, sem hann leggur minni rækt við

að klæða þær í fagran búning, sinn eigin stíl, en nokkuð annað í ritum sínum. Hann hefur gefið skrifara sínum þar frjálsari hendur en ella, eins og hann vildi með því segja: ég sel það ekki dýrara en ég keypti það.

## VII.

Í köflunum hér að framan hef ég nú reynt að lýsa sagnakönnun Snorra út af fyrir sig, hvernig efni er safnað, vinsað úr því, heimildir bornar saman, leiðréttingar gerðar, alt frá sannindanna (vísindanna) sjónarmiði. En auðvitað verður ekkert djúp staðfest milli sagnakönnunar og sagnaritunar. Staðreyndirnar heimta búning, og jafnvel þótt reynt sé að láta þær koma fram alveg í nekt sinni, þá kemur a. m. k. efnisvalið upp um smekk, áhugamál og skoðanir höfundarins. Ef sagnaritarinn tínir til alt, sem hann veit, allan sannleikann, þá lýsir það honum á sinn hátt, eins og áður hefur verið sýnt í sambandi við fróðleiksstefnuna. En fari hann að velja aðalatriðin úr, þá er hætt við, að sínum augum líti hver á silfrið. Flestöllum hefur t. d. komið saman um, að Ara fróða hafi í Íslendingabók sinni tekist svo að ná meginatriðunum úr landssögunni, að nær því verði ekki komist. En jafnskarpur könnuður og Andreas Heusler kemst að alt annari niðurstöðu: að í Íslendingabók, sem nú er til, vanti einmitt svo mikið af meginatriðum, að ástæða sé til þess að halda, að hún sé að miklu leyti ekki nema viðbót við hina eldri Ísl.bók og eftirhreyta! (Arkiv. XXIII, 319—337). Jafnvel annálarnir komast, auk efnisvalsins, ekki alveg hjá því að vera persónulegir, t. d. þegar Oddaverja annáll segir að Snorri Sturluson hafi verið „maður vitur og margfróður, höfðingi mikill og slægvitur“. Það er dómur, sem orkað gæti tvímælis á alt annan hátt en t. d. dánarár Snorra, sem er nakin staðreynd.

Ég hef þegar bent á dæmi þess, að fleira en tillitið til sannindanna ræður efnisvali Snorra. Síðar mun ég benda á, að meginreglur hans um þann hlut eru ekki hinar sömu í Ólafs sögu helga og þeim pörtum Heimskringlu, sem síðar eru ritaðir. En

enn þá er eftir að drepa á tvö atriði, sem standa á mótum sagnakönnunar og sagnaritunar.

Snorri leggur víða alúð við að lýsa fornum háttum og menningu, kemur það ekki sízt fram í Ynglinga sögu: um sækonunga, bragafull, víkingalög (Yngl. s., k. 30, 36, 37), smbr. lýsingu blótsiða Hák. s. g., k. 14, á klæðaburði Sigurðar sýr Ól. s. h., k. 33, og reyndar alla þá lýsingu á fagnaðaröli Ástu við syni sínum, sem er stórkostleg tilraun til þess að láta fortíðina rísa lifandi upp úr gröf sinni (smbr. Helge Gjessing, Snorre Sturlasons arkæologiske kundskap, Oldtiden 1913, 1—23). Þessi áhugi kemur víðar fyrir í sagnaritum vorum (t. d. lýsingin á hirðsiðum og klæðaburði í Ólafs sögu kyrra í Morkinskinnu), en mest ber á honum í Heimskringlu. En hann er merkilegur, af því að hann er alveg vísindalegur í eðli sínu, tóm forvitni, fróðleiksþörf. Slíkar lýsingar eru hvorki til eftirbreytni, né skemtilegar í sjálfu sér. Í þeim kemur fram viðleitni til þess að vernda fortíðina, af því að hún var fortíð — insta taugin í öllum sagnavísindum.

Líkt í eðli sínu var annað atriði, sem hlaut að ráða nokkru um efnisval Snorra. Það hlaut að öðru jöfnu að vera hvöt fyrir hann til þess að taka eitthvert atriði í bækur sínar, ef það var ekki áður fært í letur. Með því var þeirri sögu bjargað frá gleymsku, en þó að slept væri úr Heimskringlu annari sögu, sem til var í eldra riti, þá var ekkert í hættu: hún var vel geymd. Þetta hygg ég, að menn ættu að hafa í huga, er þeir dæma um suma hina eldri sagnaritara, sem stóðu við sjálfar lindir munnmælanna, höfund Elztu Ólafs sögunnar, Odd munk, jafnvel Styrmi fróða. Dómgreind þeirra var ekki að því skapi minni en Snorra, sem þeir tóku meira af vafasömum og efnisrýrum frásögnum. Og þetta hefur líka haft áhrif á Snorra. Honum hefur t. d. verið legið á hálsi fyrir, að hann tók söguna um för kunnáttumannsins í hvalslíki til Íslands (Ól. s. Tr., k. 33), úr því hann slepti annars svo mörgum kynjasögum. „Hversvegna gleypti hann þennan hval?“ spyr W. P. Ker (The Early

Historians of Norway). Sagan er skemtileg. Snorri hafði ekki lært neina náttúrufræði, sem braut bág við hana. Hún var eins og svar við erlendum hernaðarætlunum (smbr. að framan 80—81), að því leyti líks eðlis og ræða Einars Þveræings. En ef til vill var helzta ástæðan blátt áfram sú, að þessi saga (hvort sem Snorri hefur nú átt mikinn eða lítinn þátt í að skapa hana) var áður óskrifuð, hún bað Snorra um að færa sig í letur. Óskrifuð efni hafa þessi áhrif á þann, sem er rithöfundur að eðlisfari. „Der var en gång en saga, som *ville bli berättad och* förd ut i världen", segir Selma Lagerlöf (En saga om en saga). Líkt þessu mun standa á með langa kafla í Ólafs sögu helga, og eins með hina nákvæmu frásögn um árás Vinda á Konungahellu (Har. s. gilla, k. 9—12). Sú saga er auðvitað skráð eftir ágætri heimild, en annars mundi það víða verða niðurstaðan, að Snorri er ekki áreiðanlegastur þar sem hann er frumlegastur, heldur þar sem hann vinsar úr ritum annara höfunda.

Eins og úr öllu efni verður að velja, eins verður að raða því öllu á einhvern hátt. Annálarnir leysa úr þeim erfiðleikum á auðveldara hátt en sagnaritunin getur gert, því að hún segir frá atburðunum í samhengi og oft fer þar fram tvennum sögum eða meir, „ok má þó eigi allar senn rita" (Sturl. I, 157). En jafnvel þeirri einföldu reglu, að segja frá viðburðunum í tímaröð, að svo miklu leyti sem því verður við komið, eiga sagnaritararnir örðugt með að fylgja. Skal ég taka eitt dæmi, og það ekki úr lakara verki en Fagurskinna er. Þar er sagt frá ferð Jómsvíkinga í Noreg og orustu þeirra við Hákon jarl á Hjörungavogi. Kemur Eiríkur jarl Hákonarson mjög við þá sögu, sem kunnugt er; var hann þá fulltíða maður og mjög í ráðum með föður sínum. En þegar lokið er þeirri frásögn allri, hefst ný á þessa leið: „Hákon jarl gat son þann, er Eiríkr hét, þá er hann var XV vetra gamall, ok varð hann síðan jarl". Þá er sagt frá því, er Eiríkur feldi Tíðinda-

Skofta, og er þetta niðurlag að: „Þetta er talit hit fyrsta framaverk Eiríks í hans sögu“. M. ö. o.: þessi atburður gerðist löngu á undan orustunni á Hjörungavogi, þótt sagt sé frá honum á eftir. Hér er skýringin auðsæ: höfundur Fagurskinnu setur frásögnina um Jómsvíkinga á dálítið skökkum stað inn í Jarlasöguna, og eru slík missmíði venjulega órækt sönnun þess, að tveim eða fleiri *ritum* sé steypt saman. En Snorri hefur svo mikið yfirlit yfir efni sitt og rétta röð þess, að slík dæmi finnast ekki í ritum hans, þótt leitað sé með logandi ljósi.

Nú skulu sýnd þess nokkur dæmi, hvernig Snorri víkur frá efnisskipun heimilda sinna, og færir atvikin til réttrar tímaraðar. Í Egils sögu (k. 3) segir svo frá þeim Naumdælakonungum: „En er þeir bræðr spurðu til ferðar hans, þá gekk Herlaugr í haug þann með XII. mann, er áðr höfðu þeir gera látit þrjá vetr“. En Snorri (Har. s. hárf., k. 8) segir fyrst frá hauggerðinni: „en er haugrinn var algörr, þá spurðu þeir bræðr þau tíðendi, at Haraldr konungr fór á hendr þeim með her“ o. s. frv. — Þegar Haukur hábrók flytur Hákon góða vestur til Englands og færir hann Aðalsteini konungi, segir Fagurskinna svo frá: „En Haukr stóð fyrir konungi ok hneig honum ekki; hann hafði við vinstri hlið sér snarpt sverð undir skikkju, ok svá váru búnir allir hans menn, ok váru saman xxx manna“ (21). En Snorri segir (Har. s. hárf., k. 40) fyrst frá skipun Hauks til manna sinna, búningi þeirra og tölu, og síðan frá því, er þeir gengu inn í höllina.—Agrip (20. dálki) segir fyrst frá því er Klyppur hersir vo Sigurð konung slefu, og síðan frá sökinni. En Snorri segir fyrst frá því, er konungur lagði konu Klypps hjá sér að óvilja hennar, og síðan frá víginu (smbr. Sn. Hist. 132: Snorre foretrækker *altid* den historiske Orden). — Morkinskinna segir svo frá aftöku Steigar-Þóris: „Þat segja menn, at Víðkunnr Jóansson mælti, þá er Þórir var leiddr til gálgans, ok hann reikaði af götunni, er hann var fóthrumr: „Meirr á stjórn, Þórir — sagði hann — meirr á bakborða!“. Þetta mælti Víðkunnr fyrir því, at Þórir hafði

brent bú hans í Bjarkey, ok skip gott, er hann átti, ok hafði Þórir mælt, þá er snekkjan logaði: „Halt meirr á stjórn, Víðkunnr! meirr á bakborða!“ (135). Snorri fer hér eftir Morkinskinnu, en hann segir frá brennunni í Bjarkey á undan (Magn. s. berf., k. 5), í sambandi við hernað Þóris, og því verður kall Víðkunns undir eins skiljanlegt, þegar það kemur (k. 6), og þarf ekki frekari skýringar. Hér er frásagnaraðferð Snorra vafalaust áhrifameiri, en í hinum dæmunum getur það orkað tvímælis, þó að hún sé allsstaðar sögulegri (Smbr. orð Storms). Þegar Hauk og mönnum hans er lýst um leið og sennan hefst milli þeirra Aðalsteins konungs, minnir það á Njálu, þar sem Skarpheðni er lýst um leið og hann er að ganga inn í búð Þorkels háks: Skarpheðinnn glotti við, ok var svá búinn o. s. frv. Einmitt með því að fella lýsingu Skarpheðins inn í viðureign hans við höfðingjana á þingi, gerir höfundurinn hana áhrifameiri, er vissari um eftirtekt lesandans, en þegar verið er að lýsa nýrri persónu, sem er að koma til sögunnar.

Þá er það viðurkent af öllum, að samhengið milli sagnanna sé miklu fastara í Heimskringlu en í öðrum yfirlitsritum, Snorri er ekki að skrifa sundurlausar æfisögur konunga, heldur sögu konungsættar, landssögu í æfisagnaformi. Smáar athugasemdir „sem fyrr var ritit“, „svá sem ek vænti, at enn skal sagt verða síðarr“ — benda fram og aftur fyrir sig. Þar sem tvennum eða fleiri sögum fer fram í einu, sem víða í Ólafs s. helga, reynir Snorri altaf að tengja þræðina við og við, svo að lesandanum verði tímaröðin ljós, t. d. í k. 111: „Þá hafði Ólafr konungr verit vii vetr í Noregi. Þat sumar komu til hans jarlar af Orkneyjum — — — svá sem fyrr var ritit (í k. 100—101). Þat sumar fór Ólafr konungr um Mæri hváratveggju“, o. s. frv. Frá Ólafi Haraldssyni er sagt í sögu Ólafs Tryggvasonar, frá Haraldi gilla í sögu Sigurðar Jórsalafara. Bændur minna Ólaf Tryggvason (Ól. s. Tr., k. 65) á, hvernig fór fyrir Hákoni Aðalsteinsfóstra, er hann bauð þeim kristindóm, og

Ólafur helgi minnist falls Ólafs Tryggvasonar, þegar liðsmenn hans vilja sigla gegnum Danaher (Ól. s. h., k. 157, smbr. Helgisöguna k. 66). Hvergi er sögum konungsættarinnar og Hlaðajarla slungið saman á svo snildarlegan hátt sem í Heimskringlu. Þeir Hákon Grjótgarðsson og Haraldur hárfagri eru aldavinir, og Sigurður Hákonarson er eins og fósturfaðir Hákonar góða. En einmitt samband hans við Hákon vekur fjandskap Gunnhildarsona, og þegar þeir þykjast þess megnugir, brenna þeir hann inni. Þá rís gegn þeim Hákon Sigurðarson, hinn ríki, og verður þeim að lokum öllum drýgri að ráðum og völdum. En nýr kvistur af konungsættinni rís upp, og barátta þeirra Hákonar og Ólafs Tryggvasonar verður ekki einungis barátta tveggja ætta, heldur líka tveggja siða. Þeir standa hvor í sínu liði við Danavirki, og þegar Hákon ætlar að ráða Ólaf af dögum, grefur hann með því sjálfum sér gröf. Ólafur verður konungur, kristnar landið, og hann stofnar til kaupstaðar í Niðarósi, eins og hann vísvitandi vilji ekki láta höfuðstað Þrándheims vera á Hlöðum. Jarlsættin verður aftur ofan á við Svoldur, og meðan Eiríkur jarl ræður Noregi hrörnar kristninni og húsin í Niðarósi eru látin falla niður. En nú kemur Ólafur helgi til sögunnar. Hann leitar undir eins til Niðaróss og hann kemur í Þrándheim og lætur gera við húsin, Sveinn jarl brennir þau, en Ólafur reisir kaupstaðinn enn þá, bæði Clementskirkju og konungsgarð (Ól. s. h., k. 42, 44, 53), og með því er skorið úr, hvort Hlaðir eða Niðarós yrði höfuðstaður Þrænda, og með því Norðmanna um langan aldur. En þó að þeir Hákon Eiríksson og Sveinn Hákonarson væru flæmdir úr landi, og vegur konungsættarinnar í blóma, var jarlsættin enn hættuleg. Sveinn var tengdasonur Ólafs Svíakonungs, Eiríkur kvæntur Gyðu, dóttur Sveins tjúguskeggs og systur Knúts ríka, en Einar þambarskelfir Bergljótu Hákonardóttur ins ríka. En Ólafur helgi hafði brotist til ríkis Svíakonungs og Danakonungs í Noregi, og sat yfir hlut stórmennis í landinu, og mágsemdir hjálpuðu þeim Hlaðajörlum að ganga á

það lagið, og efla svo ófrið á hendur Ólafi bæði utanlands frá og innanlands. Fyrir því bandalagi (smbr. Ól. s. h., k. 130) verður Ólafur að lúta í lægra haldi, en Hákon Eiríksson drukn-ar á leið til ríkis í Noregi, og virðist sanna spásögn Ólafs kon-ungs, að þeir frændur séu nú farnir að hamingju (Ól. s. h., k. 30). Ólafur konungur fellur að vísu, en með helgi sinni gerir hann konungsættina fastari í sessi en nokkru sinni fyr, og eflir eigi síður Niðarós, eins og dómkirkjan enn ber vitni um. Og þegar Knútur setur erlendan harðstjóra í Noreg, liggja leiðir ættanna enn saman, og Einar þambarskelfir verður sviplíkur styrktarmaður Magnúsar góða og Sigurður Hlaðajarl hafði verið Hákoni góða. Sagan endurtekur sig. Eftir lát Magnúsar erfir Haraldur harðráði hvorttveggja við Einar: fjandskap hans við Ólaf helga bróður sinn og ást hans á Magnúsi. Kon-ungur verður ráðbani þeirra feðga, og Bergljót heitir þar á til hefnda, sem Hákon er Ívarsson, dóttursonarsonur Hákonar jarls ríka. Hin tvíræða afstaða þeirra Hlaðamanna til kon-ungsættarinnar kemur skýrt í ljós í sögu Hákonar, sem er dótturmaður Magnúsar góða og fyrst vinur og síðan fjand-maður Haralds konungs. En þó að alt afkvæmi Hákonar jarls ríka væri fríðara en annað mannfólk og atgerfismenn og göf-ugmenni (Har. s. harðr., k. 41), þá megnaði sú ætt ekki framar að etja kappi við konungana. Hákon Ívarsson bíður ósigur fyrir Haraldi í orustu, en hann tekur aftur merki sitt með fágætu snarræði og hleypir svo út í skóginn. „Lifir jarl; fái mér brynju mína“, segir konungur (Har. s. harðr., k. 72). Á þennan hátt hverfur Hákon Ívarsson, og með honum Hlaða-ættin, úr sögu Noregskonunga.

Þess munu ekki vera nema örfá dæmi í fyrsta og síðasta þriðjungi Heimskringlu, að frásögnin beri þess menjar, að Snorri hafi gleymt því sem á undan var farið. Þegar Haraldi hárfagra eru borin orð Gyðu, þar sem hún hvetur hann til þess að verða einvaldi yfir Noregi, segir hann: „hon hefir mint mik þeira hluta, er mér þykkir nú undarligt, er ek hefi eigi fyrr

hugleitt“ (Har. s. hárf., k. 4). En þó stendur áður (Hálfd. s. sv., k. 8), að höfðingi einn spáði því við Harald sjálfan, að hann mundi ‚eignask allan Noreg‘ Og er slíkt smávægilegt. Aftur á móti má benda á ýmis merki þess, að Ólafs saga helga er samin á undan fyrsta þriðjungi Heimskringlu, og er það ekki furða, þar sem allur bolur sjálfstæðu sögunnar hefur verið settur því nær óbreyttur inn í Heimskringlu, þó að frá sjálfum samskeytunum við sögurnar á undan og eftir hafi verið vandlega gengið. Ég hef í ritgerð minni um Ólafs sögu (10. þætti) bent á hin helztu af þessum missmíðum: sögu Orkneyinga jarla, Hárek í Þjóttu, kvonfang Rögnvalds Úlfssonar o. s. frv., og skal ég ekki endurtaka neitt af því hér. En bæta skal ég við tveim dæmum, sem þar er ekki getið, og eru eigi síður talandi vottur um stöðu Ólafs sögu, þótt smá séu. Í 10. kap. Yngl. s. stendur: „Þá hófsk Upsala-auðr ok hefir haldizk æ síðan“, og síðar í sömu sögu (k. 11, 13) er tvisvar talað um Upsalaauð, eins og það væri alkunnugt nafn. En skýring nafnsins kemur ekki fyr en í 77. kapítula Ól. s. helga: „svá kalla Svíar eign Svíakonungs, kalla Upsala-auð“ — af því að þar kom nafnið fyrst fyrir í sagnaritum Snorra. — Enn þá greinilegra er þetta um Ögvaldsnes. Það er einn frægasti staðurinn í sögum hinna fyrri konunga: þar átti Haraldur hárfagri stórbú og aðsetur, þar barðist Hákon góði í fyrsta sinn við Gunnhildarsonu, þar sótti Óðinn heim Ólaf Tryggvason og sagði honum af Ögvaldi, sem blét kú eina, og nesið og bærinn var við kendur. Þrátt fyrir þetta er staðurinn nefndur í fyrsta sinn í Ól. s. h. (k. 117), sem áður væri hann ókunnr: „Þar stendr bær mikill skamt upp á eyna Körmt, er heitir á Ögvaldsnesi; þar var konungs bú, ágætr bær“. — En til þess að ráða bót á slíku, hefði Ólafs sagan öll þurft nákvæmrar endurskoðunar við, og Snorra hefur ekki þótt það svara kostnaði. En þá, sem af þessu vildu ráða, að Ólafs saga væri feld inn í Heimskr. af öðrum en Snorra, má minna á einstakar umbætur og viðbætur, sem sagan þar hefur fram yfir sérstöku söguna: ættartölu Rúðujarla, frásögnina

um Þrándheimsför Ólafs (smbr. Om. O. h. 179—82). Engum var trúandi til slíkra breytinga, nema höfundinum sjálfum.

Lesandinn nýtur bezt þess viðburðar, sem kemur að honum óvörum, og þó ekki allskostar óviðbúnum. Viðburðurinn verður þá skiljanlegri þegar hann kemur, og skýrir þó sjálfurum leið það sem áður hefur verið sagt. Snorri kann mætavel með þetta að fara. Í Yngl. s. k. 19 stendur: Agni „setti tjöld sín suðr á fitina; *þar var þá skógr*". Hvað varðar mann um þennan skóg? Það sést ekki fyr en síðar: tjald Agna stóð við skóginn og hátt tré yfir tjaldinu, er skýla skyldi við sólarhita. En í því tré var konungur hengdur. — Í Hálfdanar sögu svarta (k. 7) segir um Harald konungsson: „móðir hans unni honum mikit, en faðir hans minna". Auðvitað er engin heimild fyrir þessu, en það undirbýr missætti þeirra feðga út af Finninum og skýrir, að lát Hálfdanar getur verið Haraldi feginsaga (k. 8). — Þessi list að undirbúa kemur þó í stærstum stíl fram í sumum skaplýsingum, eins og t. d. lýsingu Ólafs helga (Ól. s. h., k. 1—3), þar sem saga hans má heita að sé öll í reifum (in nuce). En auðvitað má ekki af slíku ráða, að upphafið sé skrifað síðar en meginsagan. Snorri hefur haft skilning sinn á konungi og megindrætti sögu hans fyllilega á valdi sínu, áður en hann lét byrja að rita hana.

Um slíkan undirbúning varðar miklu, að hann sé í fullu *samræmi* við það, sem síðan kemur fram. Í Fagurskinnu (k. 18) strengir Búi digri þess heit, „at hann skyldi fara í Noreg ok berjask með Sigvalda við þá feðga Hákon ok Eirík son hans, ok flýja eigi fyrr en færi standa upp en fallnir eru, ok halda þó við meðan Sigvaldi vill berjask". Nú kemur Fagurskinnu og öllum heimildum saman um, að Búi flýði alls ekki á Hjörungavogi, og það þó að Sigvaldi héldi undan, heldur steyptist fyrir borð. Því þykir Snorra þessi varnagli í heitstrengingunni spilla, og sleppir honum: „Þá strengdi heit Búi digri, at hann myndi fara til Noregs með þeim, ok flýja eigi ór orrostu fyrir Hákoni jarli" (Ól. s. Tr., k. 35). — Bæði Ágrip og Oddur

munkur segja, að Ólafur Tryggvason léti hengja Kark þræl og Oddur segir draum hans fyrir dauða sínum: „þat dreymdi mik enn, at Ólafr gæfi mér hest mikinn“ (Holm, k. 14). Nú hefur Snorri þá frásögn um dauða Karks, að hann var höggvinn, og til samræmis við hana breytir hann draumi hans: „ek var nú á Hlöðum, ok lagði Ólafr Tryggvason gullmen á háls mér“ (Ól. s. Tr., k. 49). Þó að slík breyting sé eðlileg, lá hún ekki hverjum manni í augum uppi, eins og vel sést af frásögn Helgisögunnar um Björn stallara. Sendimenn Knúts ríka koma til Bjarnar og bjóða honum fé til drottinssvika. En Björn tekur þá hiklaust og lætur hengja þá, en færir Ólafi konungi gullið (k. 76). En samt dreymir Ólaf fyrir komu hans, að bjarndýr kom til hans „ok var glatt ok lék við mik blíðliga, ok *færði mér höfuð sitt*“. En hversvegna átti Björn að færa konungi höfuð sitt, úr því að hann hafði sýnt honum órjúfandi trúnað? Sannleikurinn er sá (eins og sjá má af Flateyjarbók, smbr. Om. O. h., 125, 157), að Helgisagan breytir frásögninni til þess að gera Björn alveg flekklausan. Í eldri sögunum tók Björn fyrst við gullinu, en sá síðan að sér. En skrifari Helgisögunnar gleymdi að breyta draumnum. Aftur á móti gerir Snorri, til þess að fá betra samræmi við drauminn (sem hann reyndar sleppir) sök Bjarnar enn meiri en hún hefur verið í eldri sögunum, fulla dauðasök (Ól. s. h., k. 185—86).

## VIII.

Snorri skrifar formála Heimskringlu um sagnakönnun sína. Á sögu*listina* minnist hann ekki einu orði. Þetta er að vísu eðlilegt. Enginn kemst hjá því að búa frásögn sína, ef hann á annað borð segir frá, í einhvern búning, góðan eða illan. En hjá könnun verður komist með því að gleypa dómgreindarlaust við hverju sem er. Menn urðu að taka sig til, hafa sig upp í hana af ásettu ráði. Einmitt formálinn, þar sem Ara sérstaklega er haldið á lofti, og *viljinn til vísinda* kemur svo skýrt fram, kemur vel heim við það, sem ég hef sagt að framan um

áhrif Ara á íslenzka sagnaritun. Sögulistin, skemtanin, var frumlegra stigið, vísindastefnan sjálfráðari, síðar þroskuð. Auk þess er altaf örðugra að skýra frá aðferðum listarinnar, sem lýsir hinu einstaka, en vísindanna, sem leita hins almenna. Um sagnakönnun Snorra hefur talsvert verið ritað, um list hans sama og ekkert. Er þó sú hlið verka hans sízt ómerkilegri en hin vísindalega.

Frásögnin um hernað Ólafs helga í Leginum (sjá að framan 186—87) sýnir hvernig Snorri getur tekið vafasama sögu og látið sér nægja að gera einstök atvik hennar sennilegri, en honum þótti þau vera í eldri ritum. Auðvitað er slíkt ekki söguvísindi, a. m. k. ekki það sem bætt er við til skýringar. Ýmis önnur dæmi eru þessu skyld. Oddur munkur segir frá því, að eitt sinn þegar Ólafur Tryggvason rak ofan strandhögg á Írlandi, kom til hans fátækur bóndi og bað konung að gefa honum aftur hjörð þá, er hann átti, og Vígi hundur hans kendi til handa honum. Ólafur játti því. „Síðan hljóp hundrinn fram í ótalligan fjölda fjárins ok rannsakaði, ok eigi á hálfri stundu dags var í einum stað alt fé búandans“ (Holm., k. 10). Með þetta var Oddur harðánægður, en Snorri var gæddur of mikilli veraldarvizku til þess að taka bónda skilyrðislaust trúanlegan. Gat þetta ekki verið prettur hans, eða hverja sönnun höfðu þeir víkingar fyrir því, að hundurinn þekti rétt? En í stað þess að sleppa sögunni vegna þessara efasemda, eykur Snorri því inn í, sem hann saknaði: „hundrinn hljóp um alla nautaflokkana ok rak brott jafnmörg *naut, sem bóndi sagði at hann ætti,* ok váru þau *öll á einn veg mörkuð“* (Ól. s. Tr., k. 32).

Yfirleitt varast Snorri að lýsa atburðum, sem enginn gat verið til frásagnar um, né mundi hafa viljað segja frá. Um Alrek og Eirík segir hann það eitt, að þeir riðu tveir frá öðrum mönnum og fundust síðan lamdir í hel. „En ekki vápn höfðu þeir, nema bitlana af hestunum, ok *þat hyggja menn,* at þeir hafi drepizk þar með“. (Yngl. s., k. 20). Snorri er hér jafnvel varkárari í orðum sínum en Þjóðólfur. En hlaut hann þá ekki

samkvæmt því að sleppa sögunni um drauma Karks og síðustu samveru þeirra Hákonar jarls, þar sem þrællinn var einn til frásagnar um þetta, og hann var tekinn af lífi þegar er hann kom til manna? Snorra hefur auðsjáanlega orðið þetta að áhyggjuefni. En það var bæði, að sagan var í aðalheimildum hans, og auk þess svo merkileg, að hann var ófús að sleppa henni. Hann tekur því þann kost að gera hana sennilegri: „hann (= Karkr) *segir ok þá þessa atburði um ferðir þeira Hákonar jarls, sem nú er áðr ritit.* Síðan lét Ólafr konungr leiða hann í brot ok höggva höfuð af“ (Ól. s. Tr., k. 49). Og eins gleymir hann því ekki að geta þess um vísur þær, er þeir Gissur, Þorfinnur og Þormóður ortu áður en orustan hófst á Stiklastöðum, að „vísur þessar námu menn þá þegar“ (Ól. s. h., k. 206) — því að skáldin féllu öll í bardaganum og gátu því ekki kent þær síðar meir. Enda er slíkt miklu sennilegra (smbr. síðustu vísur Þormóðar, vísur Þjóðólfs og Haralds harðráða við Stafnfurðubryggjur) en að Karkur hafi kent mönnum drauma sína, áður en hann var af lífi tekinn.

Oddur segir frá því, að tveir menn, Haukur og Sigurður, komu til Ólafs Tryggvasonar, og boðaði hann þeim kristni, en þeir neituðu. Þá setti konungur þá í bönd, en þeir hlupust á brott og komu fram norður á Hálogalandi, með Háreki í Þjóttu. Tók hann vel við þeim. Einn góðan veðurdag stinga þeir félagar upp á því við Hárek, að hann rói á sjó með þeim til skemtunar. En er þeir komu frá landi, reru þeir með Hárek nauðugan suður til Hlaða, og færðu hann konungi. Höfðu þetta verið samantekin ráð þeirra (Holm., k. 31, 33). Saga þessi virðist ekki ósennileg, eins og Oddur segir hana, enda tekur Snorri hana í Heimskringlu. En hann gerir eina viðbót, sem sýnir, hve gjörhugull hann hefur verið um smámuni. Hann hefur farið að hugsa: En úr Þjóttu og suður á Hlaðir er býsna löng sigling (það eru í raun og veru einir 300 kílómetrar); eitthvað hafa mennirnir þurft að eta og drekka á leiðinni. Því bætir hann þessu við: „en áðr þeir gengi út á skipit, *köstuðu þeir út*

*smjörlaupum nökkurum ok brauðkass, og báru milli sín mungátsbyttu á skipit“* (Ól. s. Tr., k. 75). Að vísu má fetta fingur út í þetta (smbr. ummæli P. A. Munchs um hernað Ólafs í Leginum),og segja, að Snorri hafi komist hjá einu skerinu (nestisleysinu), en strandað á öðru: með því að bera slík föng út á skipið, hefðu þeir bræður hlotið að vekja grunsemdir Háreks. En samt finst mér þetta eitt skýrasta dæmi þess, hve vandlega Snorri hefur hugsað efni sitt.

Margt af þessu tæi mætti benda á. Snorri tekur frá Þjóðólfi þær staðreyndir, að Fjölnir hafi druknað í mjaðarkeri og Dagur spaki hafi farið í herferð til þess að hefna spörs (Yngl. s., k. 11, 18), en hann reynir að skýra þær, og gera þær með því trúlegri. Bæði Ágrip og Fagurskinna segja frá því, að Hálfdan svarti druknaði skamt frá því (þar) er nautabrunnur var, og því trúir Snorri, en bætir um leið við, samkvæmt athugun sinni og reynslu, skýringu á því, hversvegna ísinn hlaut að vera veikari við brunnana en annarsstaðar (Hálfd. s. sv., k. 9).

Þessi dæmi mega heita á takmörkum sagnaritunar og sögulistar, þar sem sagnaritarinn fer að nálgast skapandi starfsemi skáldsins miklu meir en menn alment vilja gera sér grein fyrir. Staðreyndir þær, sem sagnaritarinn oft og einatt fær í hendur, eru eins og punktar. Milli þeirra verður hann sjálfur að draga línurnar, til þess að heil mynd komi fram. Í heimildirnar vantar oft það, sem oss er mest forvitni á, samhengi viðburðanna og lifandi svipur. Nú treystir sagnaritarinn því, þegar hann reynir að reisa fortíðina úr gröf sinni, að hann standi þar betur að vígi en venjulegir lesendur. Hann hefur fyrst og fremst, eins og þeir, almenna þekkingu og reynslu á mönnum og náttúru. „Ef til hefðu verið menn, sem hugsuðu og fundu til alt öðruvísi en vér, elskuðu ekki þegar þeir elskuðu og hötuðu ekki þegar þeir hötuðu, þá hefðum vér engin ráð til þess að komast fyrir sögu þeirra“, segir Bernheim (smbr. Hist. Teknik, 86). Ef náttúrulögmálin hefðu breyzt frá 9. til 13. aldar, svo að svart hefði

áður fyr kastað betur frá sér geislum sólarinnar en hvítt, þá væri skýring Snorra (en er mykrin hafði fallit á ísinn, þá hafði þar grafit um í sólbráðinu) á druknun Hálfdanar svarta röng. Að svo miklu leyti er almenn heilbrigð skynsemi og athugun undirstaða allrar sagnaritunar. En auk þess verður að gera ráð fyrir, að sagnaritari beri af almenningi að skarpskygni og hugkvæmni, hann á að hafa nákvæmari þekkingu á efninu og meira tíma til þess að lifa viðburðina í huga sér og setja sig í spor fyrri alda manna. Þessvegna þökkum vér honum fyrir að reyna að skapa heild úr brotunum, og láta oss ekki eina um það. En auðvitað er heimtað af vísindalegri sagnaritun, að skýrt sé látið koma fram, hvað er víst og hvað eru getgátur. Því að allar eyður í lýsingar sögulegra viðburða, einmitt af því að hver viðburður er einstakur í sinni röð, eru þess eðlis, að það sem í þær er getið, verður aldrei annað en möguleiki. Þannig færist sagnaritarinn frá því sannanlega og sanna, yfir hið sennilega, nær og nær því mögulega. Skáldið er líka háð því sennilega og mögulega, aðeins í nokkuð annari merkingu. Skáldið er háðara og sagnaritarinn frjálsari en menn oft halda. Sagnaritarinn má að vísu aldrei missa fótfestu í heimildunum, ekki skapa frá rótum, ekki segja frá neinu, sem sannanlegt er, að hafi ekki átt sér stað. En höfundar raunverulegra skáldsagna verða líka að gæta hins eðlilega og mögulega og af sögulegum skáldritum er heimtað, að þau brjóti ekki beint bág við þekkingu vora, hvorki á viðburðum né persónum, og þó sízt á anda og menningu þeirra tíma, sem þau lýsa. Markalínuna, þar sem sagnaritun hættir og sögulegur skáldskapur tekur við (þegar hann er bygður á jafnnákvæmri þekkingu efnisins og t. d. Salammbô eftir Flaubert), er örðugt að draga. Munurinn oft sá einn, hvort aukapersónur og smáviðburðir hafa skapast í munnmælum eða í huga skáldsins.

Margar af viðburðaskýringum Snorra fara hvergi feti framar en leyfilegt má telja vísindalegri sagnaritun. Þær skýra samhengi sögunnar, eins og sennilegast er, að það hafi verið, þær eru *pragmatiskar.* Hann lýsir t. d. aðdragandanum að burt-

för Ólafs Tryggvasonar úr Görðum á þessa leið: „En varð þat, sem optliga kann verða, þar er útlendir menn hefjask til ríkis eða til svá mikillar frægðar, at þat verði umfram innlenzka menn, at margir öfunduðu þat, hversu kærr hann var konungi ok eigi síðr drotningu; mæltu menn þat fyrir konungi, at hann skyldi varask at gera Ólaf eigi ofstóran“ o. s. frv. (Ól. s. Tr., k. 21). Má heita, að þetta séu almenn sannindi, sem lá í augum uppi, að áttu við stöðu Ólafs í hirð Garðakonungs. En auk þess sérstök reynsla Snorra, sem sjálfur hafði hafist til stórra metorða við erlenda hirð, og þá varla farið varhluta af öfund þeirri, er slíku fylgdi. — Þegar Magnús góði eignast Danmörk orustulaust eftir andlát Hörða-Knúts, gerir Ágrip það skiljanlegt með því að segja: „þvíat synir beztu manna váru í gislinginni“ (57. dálki). En Snorri heimtar frekari skýringu, og hann nefnir þrjú atriði: eiða ágætustu höfðingja í landinu, að dautt var alt afkvæmi Knúts ríka, að Magnúsi var hið mesta traust að helgi Ólafs föður síns, sem þá var alkunnug um öll lönd. Enginn sagnakönnuður getur annað en viðurkent þessar skýringar, þótt eigi sé sýnilegt, að Snorri byggi þær á öðrum heimildum en skynsemi sinni.

Aftur á móti fer Snorri, og íslenzk sagnaritun yfirleitt, talsvert meira út í að lýsa viðburðum en nútíma sagnaritarar mundu gera. Mér er það óskiljanlegt, að könnuðir eins og P. A Munch og A. D. Jörgensen skuli hafa getað trúað því, að lýsingin á viðtökum Ástu við Ólafi syni sínum hafi getað geymst í munnmælum. Slíkar lýsingar ganga ekki mann frá manni, og þessi á auk þess fáa sína líka fyrir nákvæmni sakir. Snorri hefur skapað hana eftir því, sem hann vissi um skaplyndi Sigurðar sýr og Ástu, og ástandið á Upplöndum á þeim dögum (þótt t. d. lýsingin á búningi Sigurðar eigi ekki við þann tíma), og auk þess hve myndin, sem hann bregður upp, er glæsileg og merkileg í sjálfu sér, á hún að tákna miklu meira en hún sýnir við fyrsta álit. Vér verðum að minnast þess, að hún er upprunalega ekki 32.—35. kapítuli í Ólafs sögu helga í Heims-

kringlu, heldur 33.—35. kapítuli í hinni sérstöku Ólafs sögu. Með þessari lýsingu kom Noregur, einkum Upplönd, í raun og veru fyrst til sögunnar í sagnaritun Snorra. Sigurður konungur á akrinum — það er árið og friðurinn, íhaldssemi bændahöfðingjanna, sem skorti þó ekki tign, ef þeir vildu það við hafa. Inn í þetta kyrrstæða líf „brunar fram merki Ólafs konungs“ — nýjar kröfur, nýjar hugsjónir. Og á undan honum fer orðsending Ástu til bónda síns, að hann skyldi nú „meirr líkjask í ætt Haralds ins hárfagra at skaplyndi en Hrana mjónef, móðurföður þínum, eða Nereið jarli inum gamla, þótt þeir hafi verit spekingar miklir“. Slíkar andstæður renna ekki saman orustulaust. Stiklastaðabardaga hillir upp framundan.

En áður en ég fæst meira við svo vanþakklátt verk sem það er, að gizka á, hverju Snorri eykur inn í frásögn sína, vil ég taka einstök dæmi, þar sem vér sjáum, að heita má, hvernig Snorri smíðar og úr hvaða efni.

Snorri hefur haft sögu um, að Haki var brendur á skipi, er látið var sigla frá landi, smbr. vísufjórðunginn

Haki var brendr á báli,
þars brimslóðir óðu (Skáldsk.m., k. 61).

En sjálf lýsingin á brennunni (Yngl. s., k. 23) er svo lík frásögn Skjöldunga sögu um bálför Sigurðar hrings og Álfsólar (smbr. latneska ágrip Arngríms lærða, Aarb. 1894, 132), að það má telja vafalaust að Snorri hafi tekið hana þaðan, eins og hann myndar líka söguna um haug Freys (Yngl. s., k. 10) eftir frásögn Skjöldunga sögu um Fróða friðsama. Þó er þess hér að gæta, að Snorri veit vel, að Ynglinga saga er vafasamari en sögur um síðari aldir, og því telur hann sér þar frjálsara að fylla upp í skörðin með því sem hönd á festi. En líks eðlis er eitt dæmi, sem er svo merkilegt, að ég get ekki gengið fram hjá því í þessu sambandi, þótt ég hafi áður fjallað um það (Om O. h., 146, 151—52).

Í Fóstbræðra sögu er sagt frá því, að á leiðinni ofan Vera-

dal, að Stiklastöðum, spurði Ólafur konungur Þormóð Kolbrúnarskáld „í gamni ok mælti svá: „hvert myndi nú vera ráð þitt, ef þú værir höfðingi fyrir liði því, er vér höfum nú?“ Þormóðr kvað þá vísu:

Brennum öll fyr innan
inni þaus vér finnum
(land tegask herr með hjörvi)
Hverbjörg (fyr gram verja);
ýs (hafi allra húsa
Innþrændir kol sinna)
angr skal kveykt í klungri
(köld), ef ek má valda.“

Ólafr konungr mælti: „vera má, at þat hlýddi, at væri gört sem þú mælir, en annat ráð munu vér taka en brenna land várt sjálfra; en þó grunum vér ekki þik um, at þú myndir svá gera, sem þú mælir“ (Hauksbók, 411—12). Þetta hefur verið tekið úr Fóstbræðra sögu í Miðsöguna, og þaðan sennilega í líkri mynd í sögu Styrmis um Ólaf helga. En Snorri (Ól. s. h., k. 205) segir allólíkt frá því: „Þá spurði konungr *menn* ráðs, hvat sýndisk tiltækiligast“. Finnur Árnason verður fyrir svörum. Í Fóstbræðra sögu var eðlilegt, að mest bæri á Þormóði. En Snorra þykir hann því ekki vaxinn að hafa svör fyrir liðinu. Aftur á móti var Finnur til þess fallinn, bæði fyrir metorða sakir, reynslu og skaplyndis. Auk þess vildi Snorri láta vera meira í svarinu fólgið en var í vísu Þormóðs. Þar er ráðið til brennu, að því er virðist eingöngu í hefndarskyni, og það kemur líka fram í svari Finns: gjalda svá bóndum drottinsvikin. — En aðalatriðið verður nú, að þetta mundi vera hið viturlegasta herbragð: Finnur vill láta „ræna fé öllu, en brenna — — byggð alla — — Hygg ek, at margr mundi þá lauss vera við flokkinn, ef hann sér heim reyk eða loga til húsa sinna, en veit ógörla, hvat er títt er um börn eða konur — — eða annat frændlið. Vænti ek — — ef nökkurir ráða til at rjúfa samnaðinn, at þá

myni brátt þynnask fylkingar þeira, þvíat svá er bóndum gefit, at þat ráð, er þá er nýjast, þat er þá öllum kærst“ (smbr. „þvíat alþýðan er gjörn til nýjungarinnar, Ól. s. h., k. 35). En þetta er nú sótt, sumt nærri orðrétt, í k. 121 í sömu sögu, um kristniboð Ólafs á Valdresi: „lét þar brenna ok ræna — — brenna byggðina. En þeir búendr, er í samnaðinum váru, þá er þeir sá reyk ok loga til bæja sinna, þá urðu þeir lausir í flokkinum; stefndi þá hverr í brot ok leitaði heim, ef hann mætti finna hýski sitt. En þegar er rof kom í liðit, þá fór hverr af öðrum“ o. s. frv. Og Snorri sýnir, að honum er þetta sjálfrátt, með því að láta Ólaf einmitt minnast þessa hernaðar í svari sínu: „Gerða ek þá þat, at brenna fyrir þeim, er þeir höfðu áðr gengit af trú sinni“. — Eftir að Finnur hefur lokið máli sínu, gera menn góðan róm að því, og Þormóður lætur samþykki sitt í ljósi með því að kveða vísuna, sem tilfærð var. Þannig er öllu snúið við: þessi vísa, sem kjarninn í svari Finns er tekinn úr (og spurning konungs hefur verið tengd við í arfsögninni), er nú látin vera ort út af orðum hans! — Þá svarar Ólafur konungur með merkilegri ræðu. Hann færir tvennar ástæður fram fyrir því, að hann vill ekki ræna landið. Og þær ástæður eru sóttar sín í hvora áttina. Hin fyrri er sú, að það væri persónuleg hefnd. Þegar hann brendi fyr, þá var hann að reka guðs réttar, en þessi uppreisn er þó ekki nema drottinsvik. „Nú á ek hér nökkuru heimilla at veita nökkura frían, er þeir misgera við mik, en þá er þeir hötuðusk við guð“. Sama hugsun kemur fram í bók Styrmis (Flat. II, 303, smbr. Helgisagan k. 75), en í öðru sambandi. Þar sleppir konungur tveim sendimönnum Knúts ríka, sem borið höfðu fé á lenda menn í Noregi: „því skal þetta nú vítislaust, er við mik er afgert, at ek á þat heimilt at fyrirgefa þat“. „Létu vér refsa þá hluti, er guðs rétti var raskat, en þat er nú er við oss misgört, þá megum nú fyrirgefa lítilliga“. — Hér er það dýrlingurinn, sem talar. En í síðari ástæðunni er meira af anda Sverris konungs, er hann hvatti menn sína með herfangsvonum: „en ef vér sigrumk, þá skulu þér vera arftöku-

menn þeira, er nú berjask móti oss, — — en þess nýtr engi, er brent er", smbr. k. 200, 211. Mega þessar ástæður að vísu virðast nokkuð sundurleitar, en sálarfræðislega eru þær fulleðlilegar, því að í Ólafi eru nú, er hann berst til lands síns, bæði víkingur og heilagur maður. Og í heild sinni er þessi kapítuli meistaraverk. Maður er sannfærður um, að með því að fara að ráðum Finns, hefði verið hægt að sundra bændahernum. Ólafur hafði nóg lið til þess að vinna Noreg. Afdrif hans verða skapadómur, og enn þá átakanlegri af því að hið nýja hugarfar hans, mildi hans, átti þátt í þeim. En kapítulinn er settur saman á þann hátt, að hann er skyldari sögulegri skáldsögu en vísindalegri sagnaritun.

Víðar í Heimskringlu er það greinilegt, að ein lýsingin hefur haft áhrif á aðra. Um þá Álf og Yngva (Yngl. s., k. 21) hefur Snorri varla *vitað* miklu meira en stendur í vísu Þjóðólfs: að þeir urðu hvor öðrum að bana „of ábrýði" og að Bera eggjaði þá. En hann skýrir nánar frá upptökunum: „(Yngvi) sat opt við drykkju lengi um kveldum; Álfr konungr gekk opt snimma at sofa. Bera drotning sat opt á kveldum ok hjöluðu þau Yngvi sín í millum". Af þessu reiðist Álfur, og vegur loks Yngva. Þessi lýsing er endurtekin í Har. s. harðráða, k. 76, þar sem sagt er frá veturdvöl Haralds Guðinasonar með Vilhjálmi bastarði: „Jarl gekk optast snimma at sofa, en Haraldr sat lengi á kveldum ok talaði við konu jarls". Jarl reiðist af þessu og grunar þau, þótt þau ráði bót á því í bráðina. Hér hefur Snorri haft sjálfa staðreyndina úr heimild sinni: „var Haraldr með Vilhjálmi um hríð, ok mæltu menn, at hann legði hug á konu Vilhjálms, ok væri þeira ást mikil" (Mork., 123). En atvikunum eykur hann inn í. — Eins er lýsingin á því, hvernig jarlstign er gefin, í Magn. s. góða, k. 23, tekin orðrétt úr Har. s. hárf. k. 8, og breytir Snorri þar alveg lýsingu Morkinskinnu (Flat. III, 273). — Og þá er ekki vandi að sjá, að orð Ástu við Ólaf son sinn (Ól. s. h., k. 35): „heldr vilda ek —

— at þú yrðir yfirkonungr í Noregi, þótt þú lifðir eigi lengr í konungdóminum en Ólafr Tryggvason, heldr en hitt, at þú væri eigi meiri konungr en Sigurðr sýr ok yrðir ellidauðr“ — eru spunnin út af hinum alkunnu orðum Magnúsar berfætts: til frægðar skal konung hafa, en ekki til langlífis. — Eða menn beri saman orð Ólafs Tryggvasonar á undan Svoldrarorustu: „ek hefi aldri flýit í orrustu; ráði guð fyrir lífi mínu, en aldri mun ek á flótta leggja“ — og orð Inga Haraldssonar á undan síðustu orustu hans (Hák. s. herðibr., k. 17): „ek hefi aldri á flótta komit; ráði guð lífi mínu, hversu langt vera skal, en aldri mun ek á flótta leggjask“.

Eins hefur Snorri gjörla skilið, hve líkt var ákomið með þeim Hákoni góða og Magnúsi góða um ýmsa hluti, og fært sér það í nyt í frásögn sinni. Báðir áttu bændum ríki að launa, báðir reyndu að beita þá hörðu, Hákon í kristniboði, Magnús í föðurhefndum, báðir sættu áminningum, skipuðust vel við og hlutu sama viðurnefni. Því minnir ræða Ásbjarnar af Meðalhúsum (þar sem Snorri líka kemur að skaplesti Ynglinga ættarinnar, athugasemd um brunaöld og haugsöld, smbr. formálann, o. fl.), sem alveg er frumsamin af Snorra, mjög á Bersöglisvísur Sighvats. Það er sami blendingur af hyllingu og heitan. Ásbjörn minnir á lög þau, sem Hákon setti á Frostaþingi, eins og Sighvatur minnir á lög þau, er Magnús hét mönnum í Úlfasundum. Og „himin höndum tekit“ í ræðu Ásbjarnar, er beint tekið úr Bersöglisvísum (6. v.). Eins er um orð Sigurðar jarls við Hákon: „konungi myni ekki þat duga at heitask eða herja á innanlandsfólk“ — þau minna á Bers.v. 11:

ofrausn er þat jöfri
innanlands at vinna.

Þegar vér höfum séð, að Snorri getur endurtekið atvik og setningar („gott kvánfang ok makligt“ um þá feðga báða, Björn farmann og Guðröð, Har. s. hárf., k. 36, Har. s. gráf., k. 11) í Heimskringlu, verður meira varið í að benda á staði, þar sem

Edda og Heimskringla líkjast hvor annari. — Þegar Jörmunrekkur konungur lét leiða son sinn til gálga, „þá tók Randvér hauk sinn ok plokkaði af fjaðrarnar ok bað senda feðr sínum“ (Skáldsk.mál, k. 41). Þetta er líklega allgömul saga, og á vel við í því sambandi, sem hún stendur: konungur skilur, að eins og haukurinn var ófleygur og fjaðralaus, svo var hann ófær til ríkis, gamall og sonlaus. En Ólafur Tryggvason „lét taka hauk, er Ástríðr átti, ok plokka af fjaðrar allar, ok sendi henni síðan“ (Ól. s. Tr., k. 57). Virðist þetta vera kynleg aðferð til þess að sýna systur sinni reiði sína, fyrir það er hún vildi eigi giftast Erlingi Skjálgssyni. Engin heimild Snorra hefur neitt um þetta atvik, en orðalagið virðist benda á, að það sé tekið eftir Eddu. Væri það þá ein sönnun þess, að 41. kap. Skáldsk.mála sé allur verk Snorra. — Þá er Ólafur Tryggvason, sem „lék at þrimr handsöxum, svá at jafnan var eitt á lopti“ (Ól. s. Tr., k. 85, smbr. Flat. I, 463 o. víðar), auðsjáanlega fyrirmynd mannsins í dyrum Valhallar, sem „lék at handsöxum ok hafði VII senn á lopti“ (Gylfag., k. 2). Má þetta engu að síður vera, þótt Edda sé fyr í letur færð, því kunnað hefur Snorri sögu Ólafs konungs áður en hann fór að rita hana. — Guðbrandur Vigfússon hefur bent á, hve líkt byrjar tilsvar Ásbjarnar Selsbana við Erling Skjálgsson: Seint er satt at spyrja — — og orð Útgarða-Loka: Seint er um langan veg at spyrja tíðenda. En nærri því orðrétt kemur setningin „skorti þar þá (þá skorti) eigi stór orð“, bæði í Ól. s. h., k. 59 um Ólaf sænska, og í Skáldsk.m. k. 17 um Hrungni. Og kennir þar fyrirlitningar hins vitra manns á hóflausum orðum.

Þess er ekki að vænta, að menn geti verið á eitt sáttir um svo vafasamt efni sem það er, hve fasta mynd frásögur og samtöl hafi verið búin að fá í manna munni, né yfirleitt um afstöðu munnmæla og sagnarita. Enda skiftir það ekki miklu máli í þessu sambandi. Er það hvorttveggja, að enginn hefur haldið því fram á síðari tímum, að konungasögur hafi verið fullsam-

settar á vörum manna, og auk þess vitum vér svo víða um heimildir Snorra, að þær hjálpa oss til þess að greina, hvað er hans verk og hvað er aðfengið. Stutt tilsvör og jafnvel samtöl gátu vel geymst á líkan hátt og vísur, og mikið er af slíku í heimildum Snorra. En ég mun síðar sýna þess dæmi, að hann lagar þau í hendi sér, og meira af list og viti, en af umhugsun um sannindi. Og ég hygg það sé óvefengt mál, að ræður þær, sem hann lætur persónur sínar flytja, hafi hann yfirleitt skapað frá rótum. Hann er hér enn, eins og í viðburðalýsingum sínum, innan vébanda hins mögulega. Tökum t. d. ráðstefnur Upplendinga konunga, fyrst við Ólaf konung helga, svo á móti honum. Málstefnurnar sjálfar voru staðreyndir, en hvernig átti að lýsa þeim? Ýmsir kostir voru fyrir höndum. Hann gat getið þeirra í fám orðum, látið afleiðingar þeirra tala. Hann gat rakið þráðinn í hugsunum konunga, eins og honum fanst sennilegast: Þótti þeim Ólafur nú gerast allríkur og ekki halda heit sín við þá o. s. frv. En hann kaus helzt að herma ræðurnar orðréttar, eins og hraðritari hefði verið viðstaddur og fært þær í letur. Að ýmsu leyti var þetta mikill ávinningur. Hann var frjálsari, gat sagt meira. Að rekja efnið úr löngum umræðum í óbeinni ræðu, er ósögulegt og þreytandi. Eins og list íslenzkrar sagnaritunar var farið, að það þótti ekki vel fara á því, að höfundurinn talaði í sínu nafni, né léti álit sitt í ljósi, þá hafði Snorri ekki annað betra ráð til þess að koma að skoðunum sínum og skilningi á sögunni, en leggja þær í munn söguhetjunum sjálfum. Verður síðar tækifæri til þess að gera nánari grein fyrir þessu. Auk þess hafði Snorri dæmin fyrir sér. Ræður höfðu staðið í íslenzkum sagnaritum frá upphafi, hvort sem erlend áhrif hafa komist þar að (ræður Snorra eru í raun og veru sams eðlis og ræður Þúkydides og Sallústs) eða ekki. Ari hefur kafla úr tölu Þorgeirs í beinni ræðu, tala Óttars birtings (Mork., 217) hefur staðið í Hryggjarstykki Eiríks, smbr. líka allar ræðurnar í sögu Hákonar herðibreiðs. En merkustu ræðurnar, áður en Snorri hóf að rita, voru ræður Sverris konungs í sögu hans,

og þótt engum væri hent að taka þær til fyrirmyndar, gátu þær orðið til uppörvunar. Þó er þess að gæta um allar þessar ræður, að þær voru samdar eftir sögu heyrnarvotta (nema ræða Þorgeirs, enda hafa verið bornar brigður á, að efni hennar sé rétt hermt, sjá ritgerð A. D. Jörgensens, Aarb. 1869, 288), en í Ólafa sögunum eldri virðast engar ræður hafa verið, sem mark var á takandi. Og í Ólafs sögu helga hefur Snorri einmitt flestar ræður og merkastar.

Ég hef áður getið þess, að frá vissu sjónarmiði var það vísindalegra að tilfæra beinlínis samtöl manna og ræður, en að rekja hugsanaferil þeirra og tilfinningar. Þar komast aldrei nema ágizkanir að, en hitt var þó hugsanlegt, að menn hefðu getað numið samtöl og ræður samstundis og munað síðan. Snorri semur ræður sínar, heimildalaust, í skjóli þess möguleika. Það sýnir snild hans og þekkingu, að varla kemur nokkuð fyrir í þessum ræðum, sem hefði ekki *getað* verið sagt. En á hinn bóginn má fullyrða, að það er næsta ólíklegt, að hann hafi nokkurn tíma hitt á orð manna, sem töluð höfðu verið fyrir 2—3 öldum. Að svo miklu leyti sem vísindastefnan átti þátt í ræðunum, vann hún þar einmitt listinni hag, en á móti sannindunum.

## IX.

Aðalviðfangsefni íslenzkrar sagnaritunar eru lýsingar einstaklinga, mannlýsingar. Hún kemst einmitt svo langt í þessu efni, af því að hún lætur hvorki hugsjónir, skoðanir né heildarsýnir glepja sér sýn. Í heimsskoðun hennar er einstaklingurinn það verðmæti, sem skyggir á öll önnur (smbr. sjöunda þátt). En af þessu er aftur skiljanlegt, að mannlýsingar í Íslendingasögum séu á hærra stigi en í Konungasögunum. Noregur átti sér meiri ríkissögu en Ísland, sú ríkissaga var nátengdari konungunum en saga Íslands var aðalpersónum ættasagnanna, viðburðirnir í Konungasögunum voru nógu stórir til þess að draga athyglina að nokkru leyti frá einstaklingunum. Auk þess höfðu

Konungasögurnar ekki skapast jafnmikið í munnmælum, í þeim var minna af sál þjóðarinnar, meira af hugsun höfundanna, minna af list, meira af vísindum. Þó Heimskringla sé að öllu samtöldu jafn stórfenglegt verk og Njála, þá er engin af mannlýsingum hennar, sem stenzt samanburð við lýsingar Njálu á Skarpheðni, Birni úr Mörk, Njáli, heimilinu á Bergþórshvoli. Beztu-mannlýsingar konungasagnanna eru í þáttunum, Sneglu-Halla þætti, Auðunar þætti vestfirzka, Ívars þætti Ingimundarsonar. En þessir þættir eru ekkert annað en stuttar Íslendinga sögur, sem settar hafa verið inn í Konungasögurnar án þess þær séu þeim háðar. Einmitt af því að þeir hafa ekki orðið fyrir neinum áhrifum af rás aðalviðburðanna, trufla þeir hana, þar sem þeir standa, og því hefur Snorri slept þeim flestum.

Með þessu er auðvitað alls ekki sagt, að Snorri hefði ekki getað skrifað mannlýsingar á borð við þær beztu í Íslendinga sögum, ef hann hefði tekið slík efni til meðferðar. Þó að engin mannlýsing Heimskringlu jafnist á við lýsingu Egils sögu á Agli, er það út af fyrir sig ekki sönnun þess, að Snorri hafi ekki getað skrifað þá sögu. En af þessu leiðir, að það er lítils vert að taka til athugunar þær mannlýsingar í sagnaritum hans, sem í engu bera af algengum, vel gerðum lýsingum í öðrum íslenzkum sagnaritum, eins og t. d. á Ásbirni Selsbana, Finni Árnasyni. Vér verðum að leita þess, sem mannlýsingar Snorra hafa sér til ágætis fram yfir aðrar. Og vér finnum það að minni hyggju í tveim orðum: *meira yfirlit.* Skal það nú nánar skýrt.

Yfirlitið kemur í fyrsta lagi fram í almennum athugasemdum, sem er meira í ætt við forn spakmæli og Hávamál en mannlýsingar ættasagnanna. „Alþýðan er gjörn til nýjungarinnar“, gæti vel verið orðskviður, og er þó líklega mótað af Snorra í anda Hræreks og eftir ástæðunum. Hann lætur Ólaf helga skilja það af vizku sinni um þá Orkneyja jarla — „at Brúsi gekk tregliga at öllu sáttmáli, en mælti þat eina um, er hann ætlaði

sér at halda; en þar er Þorfinnr var, þá er hann hafði ráðit, hvern hann vildi upp taka, þá gekk hann glatt at öllum skildaga ok dró um þat engan hlut, sem hann veitti in fyrstu ákvæði; en þat grunaði konung, at jarl myndi gera eptir sumar sættir“ (Ól. s. h., k. 101). En þetta er í raun og veru algild athugun: sá sem ekki ætlar sér að efna heit sín, hefur enga ástæðu til þess að þrefa um skilmálana. — Frá slíkum athugunum er stutt leið til þess að fara að rekja hugsanir almennings. Þegar Orkneyingar létu af hendi óðul sín, þá játuðu þeir því „mest fyrir þá sök, at inir snauðu áttu litlar jarðir, en inir auðgu hugðusk mundu leysa sín óðul, þegar er þeir vildu“ (Har. s. hárf., k. 32). En þetta verður aftur sálarfræði viðburðanna. Hún sést í stórum stíl í hinum snildarlega 181. kapítula í Ól. s. helga, þar sem raktar eru orsakir uppreistarinnar gegn konungi, samkvæmt skapferli hans, fornum landssiðum og skapferli höfðingjanna, hvernig árekstur hlaut að verða, en að þeim kolum blásið af Knúti ríka o. s. frv. En skarplegasta athugasemd Snorra af þessu tæi (sem á sér ekkert samsvarandi í Morkinskinnu), er skýring Tósta jarls fyrir Haraldi harðráða á því, að honum hafði ekki lánast að halda ríki í Danmörku eins og Magnús góði hafði gert: „því eignaðisk Magnús konungr Danmörk, at þarlands-höfðingjar veittu honum, en því fektu eigi, at alt landsfólk stóð í móti þér; því barðisk Magnús konungr eigi til Englands, at allr landslýðr vildi hafa Eatvarð at konungi“ (Har. s. harðr., k. 79). Það hefur verið sagt um Napoleon, að meðan hann barðist við konungana, var hann ósigrandi, en þegar hann fór að berjast við þjóðirnar, varð hann að lúta í lægra haldi. En sagnaritunin var lengi að læra að skilja það, að styrjaldir voru ekki einungis milli herja og herforingja, heldur þjóða. Og það kemur úr hörðustu átt, og sýnir yfirburði Snorra, að þetta skyldi vera skilið á Íslandi á 13. öld. En dæmi Sveins Úlfssonar, sem var bæði „haltur og ragur“, beið ósigur í hverri orustu, átti við einn mesta hermann, sem uppi hefur verið á Norðurlöndum, og hélt þó ríki sínu

fyrir honum — hefur kent Snorra, hver bakhjallur vilji þjóðarinnar var fyrir hermennina. Áður hafði hann í niðurlagi Magnús sögu góða látið sér lynda sömu skýringu og Morkinskinna á því, að Magnús góði barðist ekki til Englands. En nú sá hann aðra dýpri orsök til þess, en tóma meðaumkvun og göfuglyndi Magnúsar, og kemur henni líka að í tilsvari Tósta.

En þegar svo vítt er séð yfir samhengi viðburðanna og sálarfar almennings, þá leiðir beint af því, að menn verða háðir umhverfi, viðburðum, tíma, fleira ræður ferli þeirra en sjálfir þeir og óskiljanleg örlög. Þeir verða ekki einungis einstaklingar, heldur partar í heild, fulltrúar stéttar og stefnu. Frá þessu sjónarmiði lýsir Snorri t. d. þeim Upplanda-konungunum tveim, Sigurði sýr og Hræreki. Báðir eru þeir fulltrúar gamla tímans, íhaldssamir og gætnir. En Sigurður lætur undan Ólafi, af venzlum og hyggindum, og fær að deyja í friði. Meðan Snorri er að lýsa honum hefur hann sífelt Harald harðráða, son hans, í huga. Öll Miklagarðsvist Haralds máir ekki út, að hann er af konungsætt Upplendinga. Hann verður aldrei sannur víkingur: örlátur og áhyggjulaus. Hann er sífelt bóndi í aðra röndina, eins og Egill Skallagrímsson: fégjarn og tortryggur. Andstæðan milli þeirra Ólafs helga og Sigurðar sýr kemur fram á eftir Nesja orustu: Sigurður vill láta kné fylgja kviði, drepa nú sem flesta af höfðingjum óvinanna, Ólafur vill ekki spilla svo fögrum sigri með því, líkt og hann seinna vill ekki drepa neinn af þeim Upplendinga konungum, frændum sínum (Ól. s. h., k. 52, 84, Helgisagan k. 28). En Haraldur hefur erft skaplyndi föður síns, þegar hann vill verða fyrri að bragði og drepa Einar þambarskelfi, af því að hann grunar hann um að hafa uppreist í hyggju.

Aftur á móti er Hrærekur gamla kynslóðin, sem lendir í fullum fjandskap við hina nýju, og verður að lúta í lægra haldi. Hann er ekki einungis tregur að fylgja Ólafi, heldur líka tregur að rísa gegn honum. En hann heldur mótstöðunni áfram fram í rauðan dauðann, blindur og liðlítill,

eftir að hann á annað borð hefur hafið hana. Öll lýsing Hræreks er snildarverk: ræður hans, uppreisnartilraunir, tilræði hans við Ólaf og tilsvör við það tækifæri (k. 84) og síðustu orð hans, sem hermd eru, að honum þótti bezt á Kálfskinni, síðan er hann lét af konungdómi — „því at þar var hann af öllum mest metinn“ (k. 85). Minnir það á hin frægu orð, sem höfð eru eftir Cæsar, að hann vildi heldur vera æðstur maður í litlu þorpi, en næstæðstur í Rómaborg. En hugmynd um það, hvernig Ólafs saga hefur vaxið í hendi Snorra (þótt vér vitum ekki um hlutdeild Styrmis), má fá með því að bera saman frásögn hans um Hrærek við Helgisöguna, sem segir þetta eitt: „Þat er sagt, at þann lét hann einn blinda, er Hrærekr hét, ok sendi hann til Íslands út Guðmundi ríka; ok dó hann þar“ (k. 24).

En merkilegust mannlýsing Snorra er sú, sem var megin-atriðið í fyrra sagnariti hans, Ólafs sögu helga, og ber enn ægishjálm yfir Heimskringlu, eftir að Ólafs sagan hafði verið feld inn í hana.

Í Helgisögunni er lýsing Ólafs öll í molum. Þrátt fyrir alla lofgerðina, gægist óbilgirni hans fram við og við, svo að það er allóeðlilegt, að hann skuli þegar á æskualdri drýgja jarteinir. Enda getur sagan þess beint, að margir „kölluðu hann ríklyndan ok ráðgjarnan, harðráðan ok heiptugan, fastan ok fégjarnan, ólman ok ódælan, metnaðarmann ok mikillátan, ok þessa heims höfðingja fyrir alls sakir“ (k. 30). En þetta er kent tómri vanþekkingu og misskilningi. Þó má einmitt ráða af því, að helgiskoðunin á Ólafi hefur ekki verið ein um hituna, heldur hefur ófegruð mynd hans lifað í minni manna, og haft jafnvel áhrif á söguritun klerkanna, án þess þeir vildu né vissu. En Snorri, sem ætla má, að fyrstur leikmanna hafi tekist á hendur að lýsa Ólafi, steypir báðum þeim skoðunum, sem eru fullar andstæður í Helgisögunni, saman í fullkomna heild. Og það gerir hann einmitt með því að neyta yfirlits síns, sýna *þróunina* í skaplyndi konungs, og áhrif viðburðanna á hann. Með því hefur hann lýst Ólafi svo, að standa mun alla tíma.

Ólafur er í upphafi ekkert annað en víkingur. „Þá er þú vart lítt af barnaldri kominn, vartu þegar fullr af kappi ok ójafnaði í öllu því, er þú máttir“, segir Sigurður sýr við hann (k. 35), og hefur þá m. a. í huga, er Ólafur söðlaði bukkinn handa honum (k. 2). Hann leggur Noreg undir sig af ættarmetnaði og valdagirni, en hugsar þó jafnframt um rétt sinn til ríkisins og ójöfnuð víkingalífsins. Og undir eins og hann þykist fullkominn til ríkis, tekur strangleikur hans, siðavendni og réttdæmi að koma í ljós. Hann fullkomnar verk Haralds hárfagra, að gera Noreg að einu konungsríki, og verk Ólafs Tryggvasonar, að kristna landið. Og hann þorir fyrstur konunga að taka af innanlands hernað, og refsa lendum mönnum, er til saka unnu. Er auðsætt, að slíkt dregur ekki til vinsælda, enda verður Ólafur að flýja land fyrir erlendum og innlendum ófriði, er höndum taka saman gegn honum. Snorra er það fyllilega ljóst, að örlög Ólafs ráða nú sinnaskiftum hans: „Svá er sagt, at Ólafr konungr var siðlátr ok bænrækinn til guðs alla stund ævi sinnar, en síðan er hann fann, at ríki hans þvarr, en mótstöðumenn efldusk, þá lagði hann allan hug á þat, at gera guðs þjónustu; dvaldi hann þá ekki frá aðrar áhyggjur eða þat starf, sem hann hafði áðr með höndum haft“ (k. 181). Og það er ekki fyr en eftir að Ólafur hefur mist ríki í Noregi, sem Snorri leyfir sér að taka jarteinasögur um hann trúanlegar (k. 179, smbr. þó um lækning Egils Hallssonar, k. 155). Samt er hann hófsamur í því efni. Söguna um það, þegar Ólafur hafði telgt í athugaleysi á sunnudegi, og brendi síðan spænina í lófa sér, hafði jarteinabókin talið án þess að geta þess, hvenær hún gerðist. En Snorri segir þessa sögu frá dvöl Ólafs í Garðaríki, og gerir það að þætti í lýsingu konungs: hve fast hann hélt lög og boðorð; og hann getur ekki þess, sem er aðalatriðið í jarteinabókinni, að lófinn hafi verið óbrunninn. En frásögnin um síðustu daga Ólafs er nokkurnveginn í kirkjulegum anda, eins og sjálfsagt var um viðurkendan dýrling. Og þó er

Snorri ekki búinn að gleyma víkingsþættinum í skaplyndi konungs, eins og ég hef áður bent á.

En merkilegasti parturinn af lýsingu Ólafs helga er þó líklega 100. kapítulinn í Haralds sögu harðráða. Virðist hann sýna þess merki, að Snorri hafi vaxið í skilningi síðan hann skrifaði Ólafs sögu. Það er samanburður þeirra bræðra, Ólafs og Haralds, sem varpar nýju ljósi á báða, lagður í munn Halldóri Brynjólfssyni úlfalda, en er í raun og veru andleg eign Snorra í fylsta skilningi. Samt hefur Snorri ekki skapað hann af engu, og vill svo vel til, að benda má á upptökin. Í draumvísu, sem Ólafur kveður fyrir Haraldi konungi fyrir vesturferð hans, segir hann:

Gramr vá frægr til fremdar
flestan sigr enn digri;
hlautk, þvít heima sátum,
heilagt fall til vallar o. s. frv.

Með þessu er samanburðurinn byrjaður. Um flesta hluti eru þeir bræður skaplíkir. En þeir beita ekki kröftum sínum á sama hátt: „Ólafr konungr braut landsfólk til kristni ok réttra siða, en refsaði grimliga þeim, er daufheyrðusk við; þoldu landshöfðingjar honum eigi réttdæmi ok jafndæmi ok reistu her í móti honum ok *feldu hann á eign sinni sjálfs; varð hann fyrir þat heilagr* (hlautk, *þvít* heima sátum, heilagt fall); en Haraldr herjaði til frægðar sér og ríkis; — — fell hann ok á annarra konunga eigu“. Snorri skýrir hér og dýpkar það, sem er ekki nema gefið í skyn í vísunni. Takmark annars bróðurins gerir hann að mikilmenni og verndardýrling þjóðar sinnar, ímynd réttlætis, ríkiseiningar, kristins siðar, takmark hins gerir öll afrek hans ófrjó og orðstír hans misjafnan. Mun þetta (smbr. síðar um vísu Einars Þveræings) vera fallegasta dæmi þess, hve mikið Snorri getur steypt upp úr brotasilfri vísnanna.

## X.

Í raun og veru hefur enn þá ekki verið náð neinum tökum

á því að lýsa stíl manna, fremur en t. d. málróm þeirra. Það má nefna allragrófustu einkennin; stílkæki, mállýti, setningalengd, tölnhlutfall nafnorða og sagnorða, hvort mikið er notað af samlíkingum o. s. frv. En stílsvipnum sjálfum, þar sem insta eðli höfundarins logar við snertingu forms og efnis, er aldrei hægt að lýsa með skýrum orðum, þó að menn finni svipinn, þekki hann jafnvel á fáeinum setningum. Í íslenzkum fornritum má lýsa hinum mikla mun á lærðum stíl og leikum, mun í orðavali og orðaskipun, sem aftur er í nánu sambandi við alla efnismeðferð. En þar sem ritað er jafnhreint sundurlaust mál og í beztu sagnaritum vorum, þar sem fastur svipur er kominn á frásögnina, alla leið frá munnmælunum, er næsta örðugt að greina stíl eins rits frá öðru, svo að gagni sé. Flestum mun finnast þeir kenna sama svips á Heimskringlu frá upphafi til enda, finnast það annar svipur en t. d. á Laxdælu eða Sverris sögu. Mjög smásmugleg rannsókn mundi líka geta fært ýmis rök að þessu, en henni mundi hætta að telja til stíleinkenna sitthvað, sem fremur kemur við efnismeðferð eða setningafræði — tveim grannsviðum stílfræðinnar —, en missa sífelt lífsandans sjálfs í stílnum.

Auðvitað ber Heimskringla þess merki, að efnið var margvíslegt, misjafnlega í hendur búið, og heimildir af sundurleitu tæi. En venjulega breytir Snorri þó svo stíl fyrirrennara sinna, jafnvel þar sem hann víkur ekki svo að teljandi sé frá þeim að efninu til, að frásögnin ber svip hans. Samt eru undantekningar frá þessu. Ég hef þegar bent á, að hann virðist af ásettu ráði hrófla sem minst við stíl sumra jarteinanna. Hann tekur frá Eiríki Oddssyni setninguna: „gott er hverjum er slíkan orðróm getr“, sem hann aldrei mundi hafa skrifað af sjálfsdáðum, og hvorki að efni né formi sver sig í ætt til hans. Þegar orðið *venda* kemur þrisvar fyrir með stuttu millibili í tveim fyrstu kapítulum Haralds sögu hárfagra, tel ég að af því megi ráða, að hann fari þar eftir týndri, skrifaðri heimild, því að hann hefur annars engar mætur á orðinu (í upphafi k. 79 í Har. s.

harðr. hefur hann *snýr,* þar sem heimild hans, Mork., hefur *vendir*). Eins er niðurlagið á Snæfríðarkaflanum: „Seig hon svá í ösku, en konungrinn steig til vizku ok hugði af heimsku, stýrði síðan ríki sínu ok styrktisk, gladdisk hann af þegnum sínum, en þegnar af honum, en ríkit af hváru tveggja“ (Har. s. hárf., k. 25) — tekið óbreytt úr Ágripi. Er slík viðhöfn annars gagnólík Snorra.

En dæmi af stíl Snorra hygg ég bezt væri að velja úr tilsvörum og ræðum. Sumt af því má telja víst, að hann hafi búið til, sumt hefur hann tekið frá öðrum höfundum, en breytt því, um sumt er óvíst. En um alt má segja, að skiftir um, hver á heldur. Í höndum sumra höfunda tekur alt á sig ljóma, aðrir fella móðu jafnvel á það, sem þeim hefur verið fengið skínandi í hendur. Mál manna í ritum Snorra bera þess merki, að höfundurinn var vanur að vera með höfðingjum og vanda orð sín, glæsimenska og veraldarreynsla gera þau sígild. Ef til vill hefur það líka haft sín áhrif, að hann *lét* rita, að hann mælti setningarnar fram jafnóðum og þær voru skrifaðar. Sumir rithöfundar hafa haft þá reglu að lesa alt hátt, eftir að það var skrifað, og leiðrétta jafnóðum. Margir agnúar, sem ber ekki á í letri, verða ásteytingarsteinar í lestri.

Um orustuna við Fræðarberg (Hák. s. g., k. 22—27) hefur Snorri haft frásögn Fagurskinnu, eða aðra þvínær samhljóða henni í sérstakri Hákonar sögu. Efnið er sama að mestu leyti í Fagurskinnu og Heimskringlu, en frásögnin öll fyllri og skýrari hjá Snorra, og furða hvað setningar breyta svip við lítinn orðamun. „Þar stendr ok bautasteinn hár, sem Egill fell“ (Fsk.) verður hjá Snorra: „Háfir bautasteinar standa hjá haugi Egils ullserks“. Þegar Hákon leitar ráðs við menn sína, hvort berjast skuli við mikinn liðsmun eða leita undan og safna meira liði, svarar Egill: „var ek í nökkurum orrostum með Haraldi konungi, feðr yðrum; barðisk hann stundum við meira liði,stundum við minna; hafði hann jafnan sigr; aldri heyrða ek hann leita þesss ráðs, at *vinir hans skyldu kenna honum at*

*flýja*'. Þetta tilsvar, sem hittir eins og óvænt rýtingslag, ber öll einkenni samtalanna í Heimskringlu, enda er ekkert samsvarandi í Fagurskinnu. Enga heimild vita menn heldur að 26. kap. Har. s. hárf.: þegar Haraldur konungur hafði komist að töframagni Snæfríðar finsku, er hún hafði beitt hann lífs og liðin, lagði hann fæð á sonu þá, er þau höfðu átt saman. En Þjóðólfur hvinverski fór til fundar við konung, og bað, að hann skyldi eigi fyrirlíta sonu sína — *því at fúsir væri þeir at eiga betra móðerni, ef þú hefðir þeim þat fengit*". Fullyrða má, að þetta tilsvar eigi sér að speki og list ekki nema örfáa líka í öllum bókmentum. Og þó að Snorri hafi haft hér einhvern söguslæðing, sem tengdur var vísum Þjóðólfs, trúi ég honum betur en öðrum til þess að hafa mótað það.

En af því að það er jafnan vafa undirorpið, hvernig munnmælin hafa búið Snorra í hendur, þar sem ókunnugt er um skrifaðar heimildir, og af því að samanburður er hverri lýsingu skýrari, þá ætla ég að sýna þess dæmi, hvernig þrír af frægustu köflum Heimskringlu eru til orðnir við endurbætur á eldri frásögnum. Getur þetta gefið þeim, sem ekki hafa tækifæri til frekara samanburðar, hugmynd um afstöðu Snorra til fyrirrennara sinna. En ekki tek ég þessa kafla fyrir þá sök, að eigi væru margir aðrir vel til þess fallnir (t. d. sagan um hvann-njólann, Holm. k. 50, Ól. s. Tr., k. 92; samtal Sveins Úlfssonar og Haralds harðráða, Har. s. harðr., k. 22, smbr. Mork. 18—19).

Frásögnin um Ólaf konung helga og bræður hans hljóðar svo í Helgisögunni (k. 29), og má ætla að Snorri hafi fengið hana í hendur nokkru orðfleiri í bók Styrmis, en að öðru lítið breytta:

„Eitt sinni, er þeir ræddusk við mágarnir, Ólafr ok Sigurðr, þá renna að þeim synir Sigurðar, Hálfdan ok Haraldr; Hálfdan var þá VII vetra gamall. Tekr Sigurðr sveininn í kné sér ok spyrr Ólaf, hvat hann ætlar, hversu mikill þessi myndi verða fyrir sér. Ólafr kvazk þat eigi svá glögt mega sjá. Talar

nú við sveininn ok spurði hann, hvat hann vildi flest eiga. „Þat ætla ek, sagði hann, at ek vilda svá margar kýr eiga, at stæði sem þjokkvast öllum megin um vatnit Mjörs". Ólafr svarar: „Ágirni er mikit í skapi þessum sveini, sagði hann; þat ætla ek, að þessi sveinn verði auðigr maðr, ok mikill búandi fyrir sér ok ríkr". Síðan hljóp Haraldr at knjám honum, og setr Ólafr hann í kné sér ok spyrr hann: „hvat viltu flest eiga, frændi?" — sagði hann. „Þat ætla ek, sagði Haraldr, at ek vilda eiga húskarla svá marga, at upp æti kýr Hálfdanar bróður míns at einu máli". „Já, sagði Ólafr, mikit er þér í hug". Rennr hann nú í braut. Sigurðr spyrr, hvers háttar sjá maðr man verða. Ólafr svarar: „Eigi man hann skorta vit né ríki ok fjölmenni, en eigi veit ek, hversu væginn er hann reynisk; eigi man hann skorta frægð, ok mikla sæmd man hann vinna".

Snorra frásögn er á þessa leið:

„Svá er sagt, at Ólafr konungr var á veizlunni með Ástu móður sinni, at hon leiddi fram börn sín ok sýndi honum. Konungrinn setti á kné sér Guthorm bróður sinn, en á annat kné Hálfdan bróður sinn; konungrinn sá á sveinana; þá ylgdisk hann ok leit reiðuliga til þeira; þá glúpnuðu sveinarnir. Þá bar Ásta til hans inn yngsta son sinn, er Haraldr hét, þá var hann iii-vetr; konungrinn ygldisk á hann, en hann sá upp í mót honum; þá tók konungr í hár sveininum ok kipti; sveinninn tók upp í kanpinn konunginum ok hnykti. Þá mælti konungrinn: „hefnisamr muntu síðarr, frændi". Annan dag reikaði konungr úti um bæinn ok Ásta móðir hans með honum. Þá gengu þau at tjörn nökkurri. Þar váru þá sveinarnir, synir Ástu, ok léku sér, Guthormr og Hálfdan; þar váru görvir bæir stórir ok kornhlöður stórar, naut mörg ok sauðir; þat var leikr þeira. Skamt þaðan frá við tjörnina hjá leirvík nökkurri var Haraldr ok hafði þar tréspánu, og flutu þeir við landit margir. Konungrinn spurði, hvat þat skyldi. Hann kvað þat vera herskip sín. Þá hló konungr at ok mælti: „vera kann, frændi, at þar komi, at þú ráðir fyrir skipum". Þá kallaði

konungr þangat Hálfdan ok Guthorm; þá spurði hann Guthorm:„hvat vildir þú flest eiga, frændi?“ „Akra“, segir hann. Konungr mælti: „hversu víða akra myndir þú eiga vilja?“. Hann svarar: „þat vilda ek, at nesit væri þetta alt sáit hvert sumar, er út gengr í vatnit“ — en þar stóðu X bæir. Konungrinn svarar: „mikit korn mætti þar á standa“. Þá spurði hann Hálfdan, hvat hann vildi flest eiga. „Kýr“, segir hann. Konungr spurði: „hversu margar vildir þú kýr eiga?“. Hálfdan segir: „þá er þær gengi til vatns, skyldu þær standa sem þykst umhverfis vatnit“. Konungrinn svarar: „bú stór vilið þit eiga; þat er líkt feðr ykrum“. Þá spyrr konungr Harald: „hvat vildir þú flest eiga?“. Hann svarar: „húskarla“, segir hann. Konungr mælti: „hvé marga viltu þá eiga?“ „Þat vilda ek, at þeir æti at einn máli kýr Hálfdanar bróður míns“. Konungr hló at ok mælti til Ástu: „hér muntu konung upp fæða, móðir“. Eigi er þá getit fleiri orða þeira“ (Ól. s. h., k. 76).

Efnisbreytingar Snorra eru hér ekki stórvægilegar. Tilsvar Haralds er þungamiðja beggja frásagnanna. En Snorri lýsir skapferli sveinanna með miklu meiri list, með því að láta það líka speglast í viðbrögðum þeirra og leikum. Ummæli konungs um Harald eru að því skapi efnismeiri hjá Snorra, sem þau eru stuttorðari. En annars er frásagan öll fyllri í meðferð Snorra. Vér verðum að minnast, að hún er úr Ólafs sögu helga. Aftur á móti styttir hann stórum sögu Odds munks um samtal höfðingjanna á undan Svoldrar-orustu. En þó að Oddur sé þar býsna langorður, verð ég samt að tilfæra frásögn hans í heild sinni (Holm., k. 55):

„Ok þann dag var veðr forkunnar gott ok skin mikit, ok sátu sveitir manna á hólminum, ok sá þeir fara eitt skip mikit ok fagrt. Þá mæltu konungar: „Þetta er mikit skip ok fagrt ok mun vera Ormrinn langi, ok förum til skipanna sem tíðast“. Þá mælti Eiríkr jarl: „látum vera enn; fleiri hafa þeir stórskip en Orminn langa, ok fá hafa enn mikil skip farit“.

Ok svá var; þetta átti Styrkárr af Gimsum. „Ok er víst þetta mikit skip, en þó er meira skip miklu Ormrinn langi''. Þá sá þeir annat skip mikit ok vel búit, ok höfuð á. Ok þá mælti Sveinn konungr: „nú mun hér fara Ormrinn langi, ok verðum nú eigi of seinir í móti þeim''. En þetta skip átti einn konungs frændi. Ok þá varð á hlið nökkut, áðr en sigldi mikit skip ok frítt. Ok þá mælti Sveinn konungr: „ekki ifum vér þetta Orminn''. Eiríkr mælti: „ekki hefir verit meira skip, þat er enn hefir siglt, ok er þó Ormrinn meiri miklu''. Ok hér eptir sigldi annat skip, ok váru þessi jamnmikil. Þessi áttu þeir bræðr, Hyrningr ok Þorgeirr. Ok þá sigldi nökkuru síðarr mikit skip með segl stafat; ok var þat mest skip af þeim, er siglt höfðu; þat var skeið ok ekki höfuð á. „Þá stóð Sveinn konungr upp ok mælti, ok glotti við tönn: „hræddr er hann nú, Ólafr konungr Tryggvason; eigi þorir hann nú at sigla með höfuð skipsins, dreka síns, ok förum nú ok leggjum til hans''. Þá mælti Eiríkr jarl: „herra, eigi er þetta Ólafr konungr Tryggvason; þetta skip kenni ek, ok opt hefi ek sét. Þetta á Erlingr Skjálgsson af Jaðri, ok er betr, at vér leggim um skut honum til þessa fundar; þeir drengir eru þar innan borðs, at sjálfir megum vér þat vita, ef vér hittum Ólaf konung Tryggvason, at oss er betra at missa þessa skips ok sé þar skarð í flota þeira, heldr en sjá skeið bíði svá búin''. Þá mælti Ólafr konungr af Svíþjóðu: „eigi skyldum vér nú æðrask at berjask við Ólaf konung, þótt hann hafi skip mikit; ok er þat sú neisa, er spyrjask mun um öll lönd, ef vér liggjum hér með her óvígjan, en hann sigli þjóðleið fyrir útan''. Þá mælti Eiríkr jarl: „herra, lát sigla skipit; ek kann at segja þér góð tíðendi, at eigi mun Ólafr konungr hafa um oss siglt, ok þenna dag munu þér kost eiga at berjask við hann; ok nú eru hér margir höfðingjar, og vætti ek þó þeirar hríðar, at vér skolum allir ærit hafa at vinna''. Nú sjá þeir mikit skip ok mæltu allir, at furðu mikit skip er þetta, er nú siglir — „ok er eigi at

dylja, at þetta mun Ormrinn langi, ok vill jarlinn nú eigi berjask ok hefna föður síns''. Ok jarlinn stóð upp reiðr mjök ok mælti: biðr þá nú til ganga ok telr meiri ván, at Dönum skal eigi óleiðara at berjask en hans mönnum. Ok gengu ofan til skipanna, ok litu á þau in miklu, er þá váru komin undir hólminn. Ok var á hlið eigi allskamt, ok þá sá þeir iii skip ok öll stór, ok eitt miklu mest, ok hafði drekahöfuð gyld. Ok nú mæltu allir, at jarlinn hefði satt sagt, ok hér ferr nú Ormrinn langi. Jarlinn mælti: „eigi er þetta Ormrinn langi, en þó megum vér nú til leggja, ef þér vilið''. Ok þá tók Sigvaldi jarl skeið sína ok fór út til skipanna, ok skaut upp hvítum skildi, en hinir hlaða seglunum ok bíða. Þetta skip heitir Traninn, ok því stýrði Þorkell nefja konungsfrændi. — — — Þeir Þorkell létu fljóta skipin ok hlóðu seglunum. Ok nú sá þeir Sveinn konungr, hvar sigla iiii skip, ok er eitt miklu mest, ok var þar á drekahöfuð sem á gull eitt sæi, ok mæltu nú allir, at furðu mikit skip væri Ormrinn langi, ok ekki langskip mun slíkt í veröldu at fegrð ok vöxtum, ok mikil rausn er í at láta gera þvílíka gripi. Þá mælti Sveinn konungr: „hátt mun Ormrinn bera mik í kveld, ok skal ek honum stýra áðr sól setisk'', ok heitr á liðit at búa sik. Þá mælti Eiríkr jarl svá at fáir menn heyrðu: „þótt Ólafr konungr hefði ekki meira skip, þá myndi eigi Sveinn konungr við einn saman Dana her vinna á þessu sigr, né þessu skipi stýra. Sigvaldi biðr þá Þorkel nefju dragask undir hólminn; lét þeim veðrit svá standa til at fara landhalt, við skip stór ok byr slævan; ok þeir gerðu svá ok heimtusk undir hólminn. Ok þessi iiii skip er eptir fara, þá er þeir sá sína menn róa undir hólminn, þá gruna þeir, at vera myndi nökkur tíðendi, ok beittu á veðr þeim nærr hólminum ok hlaða seglunum og tóku til ára; ok þetta var Ormrinn skammi. Ok eigi leið langt, áðr þeir sá konungar ok alt liðit, hvar sigldu iii skip allstór, ok et fjórða síðast. Ok sá nú drekahöfuð mikit ok ágætligt, ok langt var at bíða áðr annarr stafn kom fram; ok þetta var búit alt með gulli ok silfri, ok horfðu hér nú allir

á it mikla skipit, ok þótti undr, hvé löng sú stund var, áðr þeir sá skutstafninn. Ok þótti þetta mikil tíðendi. Þá mælti Eiríkr jarl: „standið upp nú ok farið til skipanna; nú mun ek eigi þræta, hvárt þetta er Ormrinn langi, ok þar megu þér nú hitta Ólaf konung Tryggvason''. Ok margir þögnuðu ok mæltu ekki um, ok varð mikill ótti af þessu skipi, ok þar hræddisk margr sinn bana. Ok þá mælti Eiríkr jarl: „makligt er konungi þetta skip, þvíat svá berr hann af öðrum konungum sem skipit af öðrum skipum''''.

Snorra segist svo frá (Ól. s. Tr., k. 101):

„Sveinn Danakonungr ok Ólafr Svíakonungr ok Eiríkr jarl váru þar þá með allan her sinn. Þá var fagrt veðr ok bjart sólskin; gengu þeir nú á hólminn allir höfðingjar ok sveitir með þeim ok sá, er skipin sigldu út á hafit mjök mörg saman, ok nú sjá þeir, hvar siglir eitt mikit skip ok glæsiligt; þá mæltu báðir konungarnir: „þetta er mikit skip ok ákafafagrt; þetta mun vera Ormr inn langi". Eiríkr jarl svarar ok segir, at ekki er þetta Ormr inn langi; ok svá var sem hann sagði, þetta skip átti Eindriði af Gimsum. Litlu síðarr sá þeir, hvar annat skip sigldi miklu meira en it fyrra. Þá mælti Sveinn konungr: „hræddr er Ólafr Tryggvason nú, eigi þorir hann at sigla með höfuðin á skipi sínu". Þá segir Eiríkr jarl: „ekki er þetta konungs skip; kenni ek þetta skip ok seglit, því at stafat er seglit; þetta er Erlingr Skjálgsson; látum sigla þá; betra er oss skarð ok missa í flota Ólafs konungs, en þetta skip þar svá búit".En stundu síðarr sá þeir ok kendu skip Sigvalda jarls, ok viku þau þannug at hólmanum; þá sá þeir hvar sigldu iii skip, ok var eitt mikit skip. Mælti þá Sveinn konungr, biðr þá ganga til skipa sinna, segir, at þá ferr Ormr inn langi. Eiríkr jarl segir: „mörg hafa þeir önnur stór skip ok glæsilig en Orm inn langa, bíðum enn''. Þá mæltu mjök margir menn: „eigi vill Eiríkr jarl nú berjask ok hefna föður síns; þetta er skömm mikil, svá at spyrjask mun um öll lönd,

ef vér liggjum hér með jammiklu liði, en Ólafr konungr sigli á hafit út hér hjá oss sjálfum''. En er þeir höfðu þetta talat um hríð, þá sá þeir, hvar sigldu iiii skip, ok eitt af þeim var dreki allmikill ok mjök gullbúinn. Þá stóð upp Sveinn konungr ok mælti: „hátt mun Ormrinn bera mik í kveld; honum skal ek stýra''. Þá mæltu margir, at Ormrinn var furðumikit skip ok frítt, rausn mikil at láta gera slíkt skip. Þá mælti Eiríkr jarl, svá at nökkurir menn heyrðu: „þótt Ólafr konungr hefði ekki meira skip en þetta, þá mundi Sveinn konungr þat aldrei fá af honum með einn saman Danaher''. Dreif þá fólkit til skipanna ok ráku af tjöldin. En er höfðingjar ræddu þetta milli sín, sem nú var sagt, þá sá þeir, hvar sigldu iii skip allmikil ok it iiii. síðast, ok var þat Ormr inn langi. En þau in stóru skip, er áðr höfðu siglt ok þeir hugðu, at Ormrinn væri, þat var it fyrra Traninn, en it síðarra Ormr inn skammi. En er þeir sá Orminn langa, kendu allir; mælti þá engi í mót, at þar myndi sigla Ólafr Tryggvason; gengu þá til skipanna ok skipuðu til atlögunnar''.

Að undanteknum einstökum smáatriðum, þar sem Snorri þykist vita betur en Oddur (Eindriði í staðinn fyrir Styrkár; Hyrningur og Þorkell nefja eru báðir á Orminum, en ekki skipstjórnarmenn; Sigvaldi jarl er í för með Ólafi, en ekki þeim höfðingjunum þremur), hefur hann engu verulegu breytt. En hann styttir mjög, gerir tilsvörin og frásögnina alla gagnorðari, og um leið skilmerkilegri og áhrifameiri. Þótt lýsing Odds sé að mörgu leyti vel gerð, er ekki laust við að hún sé staglsöm, og stíllinn að vonum ekki fullkominn, enda þýðing úr latínu.

Þá mun ég loks bera saman mannjöfnuð þeirra konunga, Sigurðar Jórsalafara og Eysteins, sem Snorri hefur ritað eftir ágætustu heimild sinni, Morkinskinnu. En þar er hann á þessa leið (tildrögin eru nokkuð öðruvísi greind en í Heimskr., án þess það skifti máli; Eysteinn hefur þegar getið þess, að þeir séu synir Magnúsar konungs jafnbornir):

„Sigurðr konungr mælti: „þat ætla ek, Eysteinn konungr, at ek mun vera maðr sterkari ok syndr betr". „Svá er þat, segir Eysteinn konungr; ek em maðr hagari ok tefli ek hneftafl betr; era þat minna vert en afl þitt". Sigurðr konungr mælti: „þat ætla ek mál manna, at ek muna vera vápnfærr eigi verr en þú, ok at ríða í turniment". Eysteinn konungr svaraði: „þat er satt, bróðir; en sjá þykkjumk ek þat stundum, at menn sækja hingat á fund várn ok þykkjask þurfa órskurða mála sinna, ok sýnisk mér, bróðir, sem nökkuru sé þá um mik þjokkskipaðra, þá er menn sækja örendlaust á þinn fund til nauðsynligra órskurða". Sigurðr konungr mælti: „víst ertu vitr maðr, Eysteinn konungr, ok margir sækja til ráða á þinn fund; en heyri ek suma þat mæla, at þú heitir stundum því, er þú endir ekki af, ok virðir eigi mikils orð þín". Eysteinn konungr svaraði: „satt er þat, bróðir, at margir sækja þeir á minn fund, er ek má eigi svá gott gera, sem vilinn væri til, dæmi ek ok sakar manna eptir sönnum vitnum; en ef nakkvat kemr síðarr sannara upp, þá læt ek hvern réttan dóm hafa, hvat sem áðr hefir dæmt verit. En ek heyri menn þat mæla, at þú þykkir enda heitin, en optast þykkir þú illu einu heita". Sigurðr konungr mælti: „fór ek til Jórdanar ok kom ek við Púl, ok sá ek þik eigi þar; vann ek viii orrostur, ok vartu í öngarri; fór ek til grafar drottins, ok sá ek þik eigi þar; fór ek í ána þá leið, er drottinn fór, ok svam ek yfir, ok sá ek þik eigi þar, ok knýtta ek þér knút, ok bíðr þín þar; þá vann ek borgina Sidon með Jórsala konungi, ok höfðum vér eigi þinn styrk eða ráð til". Þá mælti Eysteinn konungr: „nú greiptu á því kýlinu, er ek hugða, at fyr löngu myndi springa; en hér í móti mun vera smátt at telja: Norðr í Vágum setta ek fiskimanna vist, at fátækir menn mætti nærask til lífs ok hjálpar; þar lét ek ok kirkju reisa ok setta ek þar prestvist ok lagða ek fé til kirkjugerðar, en náliga var áðr heiðit; munu þeir menn muna, at Eysteinn konungr hefir verit í Noregi [síðan telur konungur upp: kirkju

á Þrándarnesi, sæluhús á Dofrafjalli, höfn við Agðanes, höll ok kirkju í Björgyn, Míkjáls kirkju og munklífi]. Þeim Jömtum höfum vér ok snúit undir þetta ríki, meirr með blíðyrðum ok viti, heldr en með ágang. Nú er þetta smátt at telja, en eigi veit ek víst, at landsbúinu gegni þetta verr eða sé óhallkvæmra, en þótt þú brytjaðir blámenn fyrir enn raga karl ok hrapaðir þeim svá í helvíti. En þar sem þú hrósaðir góðgörningum þínum, er þú sóttir gröf drottins, þá ætla ek mér eigi skulu minna vega, er ek lét setja hreinlífismanna líf ok staðinn þar með. En þat er þú reitt knútinn, þá sýnisk mér, at mátt hefði svá verða, at ek riða þér þann knút, er þú værir aldrigi síðan konungr at Noregi; fórt svá fyrst ór landinu, at þér var féfátt, ok gerðum við Ólafr konungr þik í brot sem systur okkra, en eigi náir þú svá landinu, at ek leysa þann knútinn. Líti nú vitrir menn á, hvat þú hefir umfram, ok vita skulu þér þat, gullhálsarnir, at menn munu enn jafnask við yðr í Noregi““ (186—87).

Frásögn Snorra er á þessa leið (Sig. s. Jórs., k. 21):

„Sé ek, segir Eysteinn konungr, at ek verð hefja þessa teiti; mun ek taka þik, bróðir, til jafnaðarmanns mér. Færi ek þat til, at jafnt nafn höfum vit báðir ok jafna eign; geri ek engi mun ættar okkarrar eða uppfæzlu“. Þá svarar Sigurðr konungr: „mantu eigi þat, er ek braut þik á bak, ef ek vilda, ok vartu vetri ellri“. Þá segir Eysteinn konungr: „eigi man ek hitt síðr, at þú fekt eigi leikit þat, er mjúkleikr var í“. Þá mælti Sigurðr konungr: „mantu, hversu fór um sundit með okr; ek mátta kefja þik, ef ek vilda“. Eysteinn konungr segir: „ekki svam ek skemra en þú, ok eigi var ek verr kafsyndr; ek kunna ok á ísleggjum, svá at engan vissa ek þann, er þat kepti við mik, en þú kunnir þat eigi heldr en naut“. Sigurðr konungr segir: „höfðingligri íþrótt ok nytsamligri þykki mér sú at kunna vel á boga; ætla ek, at þú nýtir eigi boga minn, þóttu spyrnir fótum í“. Eysteinn svarar: „ekki em ek bogsterkr sem þú, en minna mun skilja beinskeyti okra, ok miklu kann ek betr á skíðum

en þú, ok hafði þat verit enn fyrr kölluð góð íþrótt". Sigurðr konungr segir: „þess þykkir mikill munr, at þat er höfðingligra at sá, er yfirmaðr skal vera annarra manna, sé mikill í flokki, sterkr ok vápnfærr betr en aðrir menn, ok auðsær ok auðkendr, þá er flestir eru saman". Eysteinn konungr segir: „eigi er þat síðr einkanna hlutr, at maðr sé fríðr, ok er sá ok auðkendr í mannfjölda; þykki mér þat ok höfðingligt, þvíat fríðleikinum sómir inn bezti búnaðr; kann ek ok miklu betr til laga en þú, ok svá hvat sem vit skulum tala, em ek miklu sléttorðari". Sigurðr konungr segir: „vera kann, at þú hafir numit fleiri lögprettu, þvíat ek átta þá annat at starfa, en engi frýr þér sléttmælis, en hitt mæla margir, at þú sér eigi allfastorðr ok lítit mark sé, hverju þú heitr, mælir eptir þeim, er þá er hjá, ok er þat ekki konungligt". Eysteinn konungr segir: „þat berr til þess, er menn bera mál sín fyrir mik, þá hygg ek at því fyrst, at lúka svá hvers manns máli, at þeim mætti bezt þykkja; þá kemr ok opt annarr, sá er mál á við hann, ok verðr þá opt dregit til at miðla, svá at báðum skyli líka. Hitt er ok opt, at ek heit því, sem ek em beðinn, þvíat ek vilda, at allir færi fegnir frá mínum fundi. Sé ek hinn kost, ef ek vil hafa, sem þú gerir, at heita öllum illu, en engi heyri ek efndanna frýja". Sigurðr konungr segir: „þat hefir verit mál manna, at ferð sú, er ek fór ór landi, væri heldr höfðinglig, en þú sazt heima meðan sem dóttir föður þíns". Eysteinn konungr svarar: „nú greiptu á kýlinu; eigi mynda ek þessa ræðu vekja, ef ek kynna hér engu svara; nærr þótti hinu, at ek gerða þik heiman sem systur mína, áðr þú yrðir búinn til ferðar". Sigurðr konungr segir: „heyrt muntu hafa þat, at ek átta orrustur mjök margar í Serklandi, er þú munt heyrt hafa getit, ok fekk ek í öllum sigr ok margs konar görsimar, þær er eigi hafa slíkar komit hingat til lands; þótta ek þar mest verðr, er ek fann göfgasta menn, en ek hygg, at eigi hafir þú enn hleypt heimdraganum". Eysteinn konungr segir: „spurt hefi ek þat, at þú áttir orrustur nökkurar útan lands, en nytsamligra var hitt

landi váru, er ek gerða meðan V kirkjur af grundvelli, ok gerða ek höfn við Agðanes, er áðr var öræfi ok hvers manns för, þá er ferr norðr eða suðr með landi; ek gerða ok stöpulinn í Sinhólmssundi ok höllina í Björgyn, meðan þú brytjaðir blámenn fyrir fjándann á Serklandi; ætla ek þat lítit gagn ríki váru". Sigurðr konungr segir: „fór ek í ferð þeiri lengst út til Jórdánar ok lögðumk ek yfir ána; en út á bakkanum er kjarr nökkut, en þar á kjarrinu reið ek knút ok mælta ek svá fyrir, at þú skyldir leysa, bróðir, eða hafa elligar þvílíkan formála, sem þar var á lagðr". Eysteinn konungr segir: „eigi mun ek leysa þann knút, er þú reitt mér, en ríða mátta ek þér þann knút, er miklu síðr fengir þú leyst, þá er þú sigldir einskipa í her minn, þá er þú komt í land". Eptir þat þögnuðu þeir báðir, ok var hvártveggi reiðr".

Eigi þarf lengi á það að líta, að frásögn Snorra er vaxin upp úr frásögn Morkinskinnu, en það er vel þess virði að athuga breytingarnar. Tildrögin eru sögð á þann veg í Mork., að dramblæti Sigurðar konungs er talið valda fálæti hans, svo að Eysteinn telur jafnvel að bróður hans finnist fátt um að sitja veizlu með honum, enda lýkur hann máli sínu með sveigingarorðum til „gullhálsanna". Snorri er hér sem oftar óhlutdrægur, vill ekki gera Sigurði getsakir, en talar aðeins um, að mungát hafi ekki verið gott og menn hljóðir. Þá finst Snorra hin langa upptalning Eysteins konungs á verkum sínum, sem stendur í Mork., þyngja samtalið um of. Um þau hefur hann því sérstakan kapítula áður í sögunni, en lætur Eystein drepa á þau stuttlega. Aftur á móti bætir hann smáatriðum inn í til frekari auðkenningar, og verður því miklu meiri mannlýsing í Heimskringlu. Og loks blæs Snorri nýju lífi í alt samtalið. Í Morkinskinnu eru tilsvör Sigurðar 4 og Eysteins 5, og er hið síðasta löng ræða. Í Heimskringlu tekur Sigurður 8 sinnum til máls, en Eysteinn 9 sinnum, samtalsblærinn helst frá upphafi til enda, tilsvörin eru hæfilega löng, snörp og markviss, og þykkjan stígur með hverju svari, unz Eysteinn sýnir inst

í hug sinn, að jafnvel hinn bezti maður og spakasti getur af valdaþránni freistast til ódæma. Því að vafalaust hefur Snorri gert sér það ljóst, að síðasta svar Eysteins (sem er aðeins í Heimskringlu), hefur ekki í mannjöfnuðinum hvarflað honum í hug í fyrsta sinn.

En list Snorra, eins og íslenzkrar sagnaritunar yfirleitt, er ekki síður fólgin í því að kunna að þegja yfir en að kunna að segja frá. Í þessu efni tók vísindastefnan listina í skóla sinn, eins og þegar hefur verið bent á og með dæmum sýnt. Fyrst vöruðust menn að segja frá því, sem enginn *gat* vitað. Snorri skýrir frá munnmælum og getgátum manna um afdrif Ólafs Tryggvasonar og Hákonar Eiríkssonar (Ól. s. Tr., k. 112, Ól. s. h., k. 184), en í sínu nafni segir hann ekki, nema það sem víst er: „En hvernug sem þat hefir verit, þá kom Ólafr konungr Tryggvason aldrigi síðan til ríkis í Noregi" — — „En hitt vita menn með sannindum, at Hákon jarl týndisk í hafi ok ekki kom til landa, þat er á skipi því var". Næsta stigið er svo, að segja ekki berlega frá því, sem ósennilegt var, að menn hefðu *fengið* að vita með vissu. Enginn, sem les með athygli, mun ganga þess dulinn, — að Gunnhildar synir höfðu komið sér saman um að svíkja Tryggva Ólafsson, en ósamþykki þeirra var yfirvarp tómt (Har. s. gráf., k. 9—10), — að samningar voru með þeim félögum Hauki og Sigurði og Ólafi konungi, að þeir félagar skyldu taka Hárek í Þjóttu höndum, þótt fjandskapur væri á yfirborðinu, og eins með þeim Háreki og konungi að véla Eyvind kinnrifu (Ól. s. Tr., k. 74—76), — að tilgáta Ólafs konungs um víg Þórólfs úr Dímun er rétt, en ræða Sigurðar Þorlákssonar fals og lygi (Ól. s. h., k. 135), — og að Haraldur vélaði Gyrgi með því að marka sinn hlut eins og hans, og gerði með því hlutanina að hégóma (Har. s. harðr., k. 4). En Snorri segir frá þessu eins og áhorfandi, gerir ráð fyrir, að slík svik séu varla hreinlega játuð, en treystir lesandanum til þess að ráða viðburðina rétt.

„Hugur einn það veit, er býr hjarta nær". Íslenzkir sagnaritarar forðast yfirleitt að gera mönnum upp hugsanir. Og Snorri notar víðast ræður og samtöl til þess að sýna, hvað mönnum býr í brjósti. Þó kemur fyrir, að hann rekur hugsanaferil (t. d. hugsanir Ólafs helga um skapferli Orkneyja jarla (að framan 214—15). Þegar Einar þambarskelfir, sem búist hafði við jarlstign í Noregi, sá, að þangað var sendur Hákon Eiríksson, seinkaði hann ferð sinni af Englandi. Vissi hann, „at mikil ván var, ef Ólafr konungr kæmi austan, at ekki myndi friðsamligt í landi; kom Einari þat í hug, at ekki myndi undir at hrapa ferðinni meirr en svá sem hófligast væri, ef þeir skyldi berjask við Ólaf konung" (Ól. s. h., k. 194). Ætli Snorri hafi haft þetta dæmi Einars í huga, þegar hann forðaði sér burt af Íslandi 1237? Hann hefur skilið, að til úrslitabardaga hlaut að draga með Sturlungum og öðrum höfðingjum, þar sem óvíst væri um úrslit og torvelt að sitja hjá, en sá hefði bezt, sem fjarri væri. — En berum svo saman við þetta niðurlag k. 241 í sömu sögu: „Einarr þambarskelfir hafði ekki verit í mótgöngu við Ólaf konung; hrósaði hann því sjálfr. Einarr mintisk þess, er Knútr hafði heitit honum jarldómi yfir Noregi, ok svá þat, at konungr efndi ekki heit sín. Einarr varð fyrstr til þess ríkismanna at halda upp helgi Ólafs konungs". Nútíma sagnaritari mundi hér ekki stilla sig um að segja, að óánægja með stjórnarfar og vonbrigði höfðingja yfir vanefndum loforðum Knúts ríka hefði stuðlað mjög að trúnni á helgi Ólafs konungs; hún varð pólitískt atriði ekki síður en kirkjulegt. Snorri segir ekkert slíkt berum orðum. En hann raðar hverri staðreyndinni við annarar hlið á þann hátt, að það má vera hugsunarlítill maður, sem órar ekki fyrir sambandinu milli þeirra.

En auðvitað er víða ekki svona auðvelt að geta í eyðurnar — sízt að gera sér ljóst, að nokkrar eyður sé að geta í. Íslenzku sögurnar eru svo blátt áfram, að þær eru auðlesnar hverju barni, en bak vð hina hversdagslegu frásögn er svo mikið fólg–

ið, að fullþroska maðurinn finnur þar nýja og nýja fjársjóði, sem aukin reynsla kennir honum að koma auga á. Manni getur fundist lýsingarnar bregðast einmitt þegar mest á ríður. Snorri er að segja frá því, er Gleipnir var lagður á úlfinn. Hann lýsir hamförum úlfsins, gleði Ása. En hvernig var Tý innanbrjósts, sem lagt hafði hönd sína að veði í munn úlfinum, og hlaut að missa hana, hvernig brást hann við handarmissinum? Snorri segir aðeins: „þá hlógu allir, *nema Týr; hann lét hönd sína*". Þetta er ekki skrifað fyrir lesendur, sem lært hafa að hlaupa á hundavaði yfir 12 álna langar skáldsagnalýsingar á auðvirðilegum atvikum, sem reynt er að krydda sem sterkast með öfgum og íburði. En gat í raun og veru nokkur önnur lýsing á þessu verið samboðin goði hreystinnar?

Þá verður ekki sagt, að frásögn Snorra um siglingu Ormsins langa, sem tilfærð er hér að framan, sé íburðarmikil. Í augum hans hefur Ormurinn verið allra skipa ágætastur, allra skipa frægastur. Hvernig átti að lýsa honum í flota Ólafs Tryggvasonar, svo að sú lýsing bæri af öðrum lýsingum eins og Ormurinn af öðrum skipum? Oddur reynir það, og sú tilraun er allrar virðingar verð. Hann gefur hugmynd um lengd skipsins með því að sýna hann í hreifingu (þótti undr, hvé löng sú stund var, áðr þeir sá skutstafninn). Það er samkvæmt reglum Lessings í Laokoon. En Snorri *lýsir honum ekki með einu einasta orði.* Hann tilfærir heldur engin ummæli um hann, talar ekki um, að ótta hafi slegið á menn (eins og Oddur). Hann lýsir með þögninni einni saman: kendu allir, mælti þá engi í mót, at þar myndi sigla Ólafr Tryggvason. En í baksýn eru lýsingar hinna skipanna, ummælin um þau: það er hægt að mæla stærð Ormsins á áhrifum hans: enginn efast, alla setur hljóða, öllum aðdáunarorðum hefur verið eytt á hin skipin, engin lýsing er fullkosta þessu, sem er langágætast þeirra allra. — Á svipaðan hátt lýsir Hómer Helenu fögru með því að sýna *áhrif* þau, sem hún hafði á öldunga Trójuborgar: „Eigi er það láandi, þó Trójumenn og hinir fagurbrynhosuðu Akkear hafi langan

tíma raunir þolað fyrir sakir slíkrar konu, þar sem hún er mjög lík í sjón hinum ódauðlegu gyðjum“ (Ilionskviða, 3. bók, 156—58). Dýpra verður ekki tekið í árinni, en að fegurð Helenu afsaki sjálft Trójustríðið í augum *öldunga* Tróju! En Snorri er hófsamari. Það er eins og ef hann hefði látið öldungana vera að fárast um styrjöldina og hörmungar hennar, og setja algerlega hljóða þegar þeir sáu Helenu ganga fram hjá.

## XI.

Flest af því, sem sagt hefur verið hér að framan, miðar á einhvern hátt að því að skýra sambandið milli persónu Snorra og verka hans. Vér höfum séð, að andlega starfsemin hefur áhrif á skapferli hans og höfðingjaferil, að veraldarreynsla hans dýpkar skilninginn á fortíðinni og gerir framsetningu sögunnar glæsilegri, að skáldgáfa hans kemur fram í vísindaritunum, vísindamaðurinn í kvæðagerð hans, sagnaritarinn í goðafræðinni. Allsstaðar er samhengi, og verður eigi annað sagt en mynd sú, sem æfisagan og verkin sýna af manninum, sé fullskýr og sjálfri sér samkvæm. Verður ekki fjölyrt um það hér. En þó er enn eftir að benda á einstök atriði, þar sem tilfinningar Snorra og hættir virðast koma fram í söguritum hans.

Það getur engum komið á óvart, þótt íslenzk sagnaritun dragi yfirleitt heldur taum Norðmanna, þegar sagt er frá viðskiftum þeirra við nágranna sína. Olli því bæði meðvitundin um frændsemi, enda höfðu Norðmenn sjálfir eða Íslendingar, sem voru í þeirra liði, upprunalega sagt frá viðburðunum. Alkunn eru ummæli Ólafs konungs Tryggvasonar um Dani, Svía og Norðmenn á undan Svoldrar-orustu, og öll frásagan um þann bardaga gerir vafalaust meiri mun á hreysti Norðmanna og hinna þjóðanna en rétt er. En hér er skilningur Snorra og lýsing á viðburðunum í engu verulegu frábrugðin sögu Odds munks. Á öðrum stað, sem ég veit ekki til að bent hafi verið á, kemur ekki síður fram, að Norðmenn þóttust meiri hermenn en Danir. Ólafur helgi er lokaður inni í Eystrasalti með skipa-

lið sitt, en Knútur ríki liggur í Eyrarsundi með óflýjandi her. Liðsmenn Ólafs vilja sigla norður eigi að síður: „sögðu þeir at Danir myndu ekki þora at þeim at leggja, þótt þeir lægi fyrir með lið mikit“. En Ólafur hugsar um liðsmun þann er var, mintist afdrifa nafna síns Tryggvasonar o. s. frv. — „vissi konungr ok, *at í her Knúts konungs var fjöldi Norðmanna*“. Þessari síðustu setningu er aukið inn í af Snorra (Ól. s. h., k. 157, smbr. Helgisöguna k. 66). En hann veit þó vel, að Norðmenn geta beðið lægra hlut, og er hvergi vísvitandi vilhallur. Hann segir t. d. hlífðarlaust frá óförum Magnúsar berfætts í viðskiftum hans við Inga Steinkelsson, sem Ágrip breiðir yfir (Sn. Hist., 187—88).

Á tveim stöðum snertir frásögn Snorra sjálfstæði Íslands, en það var mál, sem viðburðir í lífi hans sjálfs hlutu að gera honum viðkvæmt. Á kaflann um hamför Finnsins til Íslands hef ég þegar minst, og hygg ég, að þótt talað sé þar um Dani, hafi Snorri í raun og veru beint sögunni að Norðmönnum. Hinn kaflinn, ræða Einars Þveræings (Ól. s. h., k. 125), er kunnur hverju mannsbarni á Íslandi, og ekkert sýnir betur lífsþrótt hennar, en að hún hefur verið prentuð á bréfspjald fyrir fáum árum og beitt sem vopni í stjórnmálabaráttu vorri. Til eru í tveim handritum af hinni sérstöku Ólafs sögu helga (smbr. Om O. h., 79, 88) vísa, sem eignuð er Einari Þveræingi, og ekki er nein gild ástæða til þess að rengja, að muni vera eftir hann:

Trautt erumk lausa at láta
(leið ’s oss konungs reiði),
gjarn er gramr at árna,
Grímsey und (um, Holm 4) tröð fleyja;
höldum vér fyr hildar
(hann ’s dýrr konungr) stýri
holmgjarðar (fremsk hilmir
hagli peitu) nagla.

Sé vísan gömul, eins og málið bendir til, þá hefur hún verið kjarninn, sem ræðan í Ólafs sögu er vaxin upp af. En að

öðru leyti er eðlilegast að hugsa sér, að ræðan sé andleg eign Snorra, sprottin af hugsunum hans um handgöngu við Noregskonung. Á og mest af ræðunni allsstaðar við, þar sem leitað er yfirráða og einstaklingsvalds.

Það sem bezt er í íslenzkri sagnaritun er alt ritað af höfðingjum (leikum og lærðum) fyrir höfðingja. Ekkert er fjær sönnu en að kenna þær við almúga, þótt þær hafi síðar orðið alþjóðar eign, líkt og t. d. þjóðvísurnar dönsku, og þótt ytri kjör söguhetjanna og söguhöfundanna væru eigi svo glæsileg sem andleg menning þeirra. Þessar bókmentir þróuðust meðal manna, sem heimtuðu óbrotna og hófsama frásögn, en líka var óhætt að treysta til þess að finna það, sem vel var gert, þótt það lægi ekki í augum uppi. Sú djörfung í list, sem kemur t. d. fram í frásögn Snorra um Orminn langa, er lesendunum, sem skrifað var fyrir, til sóma, um leið og höfundinum. Og í samræmi við hina einföldu göfgi stíls og listar er óhlutdrægnin og kurteisin. Höfundarnir eru vandir að virðingu sinni. Og sízt er að furða þótt Snorri beri af flestum í þessu efni. Ef til vill var hann eini *skutilsveinninn* meðal sagnaritaranna, og hefur flestum betur kunnað að vera með tignum mönnum.

Frásögn Snorra er yfirleitt ótrúlega óhlutdræg. Hann gerir Sigurði biskupi inum danska upp ræðu gegn Ólafi helga á Stiklastöðum, þar sem konungi er talið alt til foráttu, og margt svo vel athugað, að lesandinn hlýtur að vera sammála biskupi: „ætlið þér hann nú munu yðr linan, er hann ferr með þetta illþýði, er hann gerði þá slík hervirki, er allir löttu hann, þeir er honum fylgdu" (Ól. s. h., k. 218). Og þegar honum þykir ómaklega hafa verið hallað á mikilmenni, eins og Hákon jarl ríka og Harald harðráða, reynir hann að leiðrétta það, skilja í stað þess að ámæla. Þetta kemur líka fram í smáum hlutum. Oddur munkur ber Álfvina, meðbiðli Ólafs Tryggvasonar, allilla söguna: „átti mikla eign, er hann fekk með röngu". Ólafur kemur til hólmstefnu með 12 menn, en Álfvini með 24 (Holm, k. 10). Snorri fer í frásögn sinni um það, er Ólafur fekk Gyðu,

eftir bók Odds; hann lætur Álfvina verða undir í þeim viðskiftum. En hann lastar hann í engu, og lætur hann koma til hólmstefnunnar með jafnmarga menn og Ólafur hefur, eins og um var samið (Ól. s. Tr., k. 32).

Annað lítið dæmi getur gefið hugmynd um, hve smekkur Snorra er næmur. Hann tekur Snæfríðarþáttinn í Har. s. hárf. að mestu leyti orðréttan úr Ágripi, jafnvel þar sem stíllinn er honum ólíkastur. En þegar Svási biður konungsmann að bera inn orðsendingu sína í annað sinn — „ok gaf honum bjórskinn eitt til“ — þá sleppir Snorri þessum orðum: Hirðmenn konunga taka ekki við þjórfé!

Snorri tekur söguna um það, er Ólafur helgi söðlaði bukkinn handa stjúpföður sínum, úr bók Styrmis. En í eldri sögunum lætur Ólafur því fylgja þau orð, að honum þykir Sigurður ekki meiri meðal konunga, en „sá fararskjóti með öðrum riddara hestum“. Þessu sleppir Snorri. Fyrir lesendur þá, sem hann miðaði við, var sagan nógu skýr og áhrifamikil án þess að bæta hana upp með skammaryrðum. Eins var það hvorki samboðið Ólafi Tryggvasyni né sannleikanum samkvæmt að láta hann kalla Sigríði stórráðu „gamla hrokkinskinnu“, enda sleppir Snorri því, þó að hann fari þar eftir frásögn Odds.

Það er nauðsynlegt að hafa þetta sjónarmið í huga: að Snorri hefur engar mætur á því alþýðlega: grófa, barnalega, að hann er sífelt að gæta virðingar konunganna. Annars geta menn misskilið ástæðurnar til þess, að hann tekur eina smásögu og sleppir annari. Helgisagan segir frá því, að Ólafur konungur hafi á páskamorgun verið á gangi uppi í Gaulardal í hvítum hosum, en maður, sem þekti hann ekki, ataði hosurnar í leir honum til háðungar. Virðist sagt frá þessu til þess að sýna, hve lítið konungur hafi borist á, og síðan mildi hans við manninn, sem abbast hafði upp á hann. En Snorra hefur þótt sagan öll ókonungleg og smásmugleg, enda þarf ekki annað en hugsa sér hana inn í miðju Heimskringlu til þess að sjá í hendi sér, að hún væri þar algerlega hjáróma. Sama máli gegnir um

söguna af spá gamla mannsins í Mostur, sem harmaði það, að Noregur mundi missa í einu fjóra sína ágætustu hluti: Ólaf Tryggvason, drotningu hans, Orminn langa, hundinn Víga. Guðbrandur Vigfússon kvartar sáran yfir því, að þessa sögu, sem stendur hjá Oddi og í lengstu Ól. s. Tryggvasonar, skuli vanta í Heimskringluhandritin. Hann vill ekki kenna Snorra um slíkt, heldur kallar það „the most striking instance of the lack of poetic feeling in the abridgement maker“ (Sturl. Prolegomena, 83). En um þetta er engan að saka, nema Snorra einan. Og því veldur ekki smekkleysi á það, sem fagurt er, heldur alt annað. Hann var ekki að krydda fyrir nútíðarmenn, sem leita þess sem er barnalegt og átakanlegt. Hann var að skrifa sögu um konunga fyrir höfðingja. Að setja Ólaf Tryggvason og hundinn Víga hvorn við annars hlið sem tvo ‚ágæta hluti‘, var einmitt alt of búandlegt og barnalegt fyrir Snorra, þótt hann kunni alls ekki að hafa efast um sannindi sögunnar.

Vér sjáum í enn einu atriði, hve mjög Snorri hugsar um virðingu konunganna. Hann sleppir öllu ástarbralli þeirra, þar sem það var ekki nauðsynlegt fyrir sögusamhengið, því að í þeim efnum verður hver maðurinn öðrum líkur; slíkt er mannlegt, en ekki konunglegt. Hann segir ekki frá hinni ágætu sögu um Óttar svarta og Ástríði drotningu (Flat. III, 241—42), af því hún mundi varpa skugga á tign drotningar; hann sleppir sögunni um Ólaf helga og Steinvöru, vísum Ólafs um Ingigerði o. s. frv. Lítið atriði úr Ól. s. h. sýnir, að Snorra var þetta vel ljóst. Konungur spyr þar Dag Rauðsson um skaplöst sinn. „Dagr fann þat til, er konungi þótti rétt“ (k. 164). Þetta er býsna snubbótt, og lesandanum þykir haft af sér. Enda stendur svar Dags fullum stöfum í heimild Snorra, Rauðúlfs þætti (Flat. II, 298): „þat herra, sem flesta hendir, at þú ert kvenhollr“. En Snorra hefur ekki þótt slíkt sæma um Ólaf konung á síðasta ríkisári hans, og rétt áður en jarteinir hans hófust.

Eftir þetta er nærri óþarfi að geta þess, að Snorri tekur ekki klúrar sögur, ef honum þykja þær ómerkilegar, eins og

t. d. um Sigurð Jórsalafara og pútuna (Mork. 194), klámyrði Haralds harðráða við Zóe drotningu (Flat. II, 291) o. s. frv. En auðvitað er hann á hinn bóginn ekki teprulegur. Þó að honum ógni orðbragð Finns Árnasonar við Harald konung eftir Nizar-orustu (Har. s. harðr., k. 66), þá tilfærir hann það samt alt, af því að það lýsir þeim báðum: bráðlyndi Finns og stríðni konungs og umburðarlyndi við klúryrði, sem kemur einkum fram í Sneglu-Halla þætti. Og Snorri kann svo að fara með örðugt efni, að list verði af. Lýsingin á viðskiftum Þórs og Gjálpar (Skáldsk.m. k. 18) er að efni til full af djörfu og klúru hispursleysi alþýðunnar, en Snorri fer með hana eins og hirðmaður. Því að sú íþrótt hefur jafnan þótt góð meðal þeirra manna, sem bezt hafa kunnað að tala, að stikla við yztu takmörk hins sæmilega án þess að skrika fótur. Og ég treysti ekki frönskum aðalsmanni frá 17. öld til þess að hafa farið betur með söguna af Gjálp, en Snorri gerir, ef hann hefði á annað borð neyðst til þess að segja hana.

## XII.

Allir þeir, sem ritað hafa um Ólafs sögu helga í Heimskringlu, viðurkenna, að hún beri af sögum hinna konunganna. Og ýmsar ástæður hafa verið færðar fram til þess að skýra, hvers vegna Snorri lagði slíka alúð við hana: að Ólafur var dýrlingur, saga hans viðburðarík og margþætt o. s. frv. (sjá t. d. Edda, VI, 365, Arkiv XXXII, 305—306). En sjálft eðli Ólafssögunnar getur ekki skýrt það, að hún er hérumbil $^2/_5$ hlutar Heimskringlu, en hefur ekki verið nema hérumbil $^1/_{20}$ (þ. e. a. s. hérumbil 8 sinnum styttri) í hinum yfirlitsverkunum, sem til eru, Ágripi og Fagurskinnu. Hversvegna freistaði kaflinn um Ólaf þeirra höfunda svo miklu minna en Snorra? Í raun og veru verður ekki hlutfallsleg lengd Ólafssögunnar í Heimskringlu skýrð á neinn annan hátt en gert hefur verið hér að framan: að hún er fyrst skrifuð sem sjálfstætt rit, þar

hafði Snorri mest til brunns að bera, mestu við að bæta, þar lifði hann sjálfur mest í efninu. Hinir tveir partarnir eru svo vaxnir utan um þennan kjarna, og þar er ekki hið sama gróðurmagn í meðferð efnisins. Þannig staðfesta eðliseinkenni partanna þá skýringu, sem sönnur hafa að mestu leyti verið færðar fyrir með ýmsum ytri einkennum (sambandi við heimildir o. fl.).

En þá er næst að spyrja: er allur munurinn á Ólafs sögu helga og sögum hinna konunganna sprottinn af því, að Snorri skrifaði hana sem sjálfstætt rit, og lagði því mesta alúð við hana? Er ekki sennilegt, að sumt sé komið af því, að smekkur hans og skoðanir hafi breyzt frá því hann samdi Ólafs sögu og þangað til að hann setti Heimskringlu saman? Getur ekki samanburður á eldra og yngra ritinu leitt í ljós vissar stefnulínur, sem gefi hugmynd um *þróun sagnaritarans?*

Samkvæmt þeirri skoðun á íslenzkri sagnaritun, sem er undirstaða þessa þáttar, hlýt ég að leita að þessari þróun í afstöðu hans til tveggja meginstefna íslenzkrar sagnaritunar yfirleitt: vísinda og skemtunar, sagnakönnunar og sögulistar. Hefur könnunin eða listin orðið ríkari hjá Snorra með aldrinum? Úr því þetta sjónarmið er fundið, má skýra frá niðurstöðu rannsóknarinnar í fremur stuttu máli.

Sú braut, sem sagnaritunin verður að ganga, ef hún á að fullnægja í einu ströngustu kröfum vísinda og listar, er furðu mjó og tæp. Ef oss væri fullkunnugt um allan sannleikann, þar á meðal vinnuaðferð höfundanna, mundi mega taka íslenzkar sögur því sem næst setningu fyrir setningu og sýna fram á, hvernig sífelt annaðhvort vísindi eða list væri fyrir borð borin. En fyrir því getur árangurinn vel orðið ágæt sagnaritun, þ. e. a. s. furðu góð málamiðlun milli þessara tveggja stefna. Á ýmis dæmi þessarar miðlunar hefur verið bent hér að framan. Nú er að athuga, hvort hún er sámskonar í öllum konungasögum Snorra.

Lengd Ólafs sögu helga í hlutfalli við hinar sögurnar bendir undir eins til þess, sem hver maður finnur þegar hann les

Heimskringlu, að þar er miklu meiri frásagnargleði, miklu nákvæmar lýst en í hinum sögunum. Lengd hennar kemur ekki einungis af fjölda viðburðanna, ekki af því að í henni sé meira af sögulegum sönnunargögnum (eins og bráðum mun sýnt), auðvitað sízt af öllu af því að þar sé vinsað vandlegar úr efninu vegna sögulegra sanninda, — heldur af því að höfundurinn skýrir rækilegar frá hverjum viðburði. En þetta er sama sem að segja, að söguListin sé þar hlutfallslega ríkari en í öðrum sögum Heimskringlu, og af því leiðir aftur, að ekki er þá að sama skapi tekið tillit til vitna um hvað eina. Er í raun og veru nóg að minna á hinar mörgu og merkilegu ræður, sem eru í Ólafs sögu, og enginn efast um, að Snorri hafi að mestu leyti frumskapað, — eða þá lýsingar eins og á viðtökum Ástu við syni sínum, friðgerðarsögu, Selsbana þátt o. s. frv. Alt þetta hefði mátt segja í fremur stuttu máli, án þess að missa aðalatriði söguefnisins.

Ég held, að það megi nokkurnveginn hiklaust fullyrða, að Ólafs saga Snorra sé um alla þá viðburði, sem hún tekur á annað borð, rækilegri og skemtilegri en eldri sögurnar, þar sem vér höfum þær til samanburðar. Aftur á móti má benda á dæmi, þar sem sögurnar í fyrsta og síðasta þriðjungi Heimskringlu sleppa pörtum úr frásögn heimildanna, svo að missir er að. Þannig kemur t. d. deilan milli Hákonar jarls Grjótgarðssonar og Atla jarls mjóva alveg óundirbúin í Har. s. hárf., k. 12: „Þá sendi Hákon jarl orð Atla jarli — —, at hann skyldi fara braut ór Sogni, — — en kvað Harald konung hafa veitt sér Sygnafylki“. En Fagurskinna (13—14) skýrir þetta: Atli jarl hafði rekið burt menn þá, sem konungur sendi að taka veizlur í Sogni í sinn stað; þeir kærðu fyrir konungi, og á það lagið gekk Hákon jarl og fékk hann til þess að gefa sér Sogn til yfirsóknar. Líklega hafa sundurleitar sögusagnir gert Snorra hikandi um þetta (smbr. Munch, D. n. F. H., I, 1, 511), svo að hann hefur kosið að vera sem fáorðastur. En ekki getur efi

leikið á því, að Fagurskinna er hér sögu*listinni* samkvæmari með greinargerð sinni fyrir tildrögunum. — Snorri lætur (eins og Oddur) Hákon jarl senda Þóri klökku til Englands til þess að ginna Ólaf Tryggvason til Noregs. En hvað varð um Þóri, fékk hann nokkur erindisgjöld? Heimskringla svarar þessu ekki, hann fylgir Ólafi til Noregs og dettur þar algerlega úr sögunni (Ól. s. Tr., k. 47). En Oddur hefur sögu um það, að Þórir sat um líf Ólafs eftir að til Noregs kom, en Finnur einn gerði Ólaf við varan, svo að Þórir féll í sína eigin snöru og var þar drepinn (Holm., k. 12). Snorri hefur ekki viljað sleppa Þóri alveg, eins og Fagurskinna gerir, þótt sagan um afdrif hans ótrúleg, en ekki gætt þess að setja neitt í staðinn. En frá sögulistarinnar sjónarmiði saknar maður þar parts úr frásögn Odds, þótt óvísindaleg sé, líkt og um kristniboðið á Rogalandi (að framan bls. 190). — Og ekki sízt má benda á það í sögum konunganna eftir 1035, að Morkinskinna hefur ýmislegt fram yfir Heimskringlu, sem eftirsjón er að. „Kálfr segir konungi þat, er hann spurði, en hvergi lengra, og fansk þat þó á, at hann vissi gjörla til“ (Flat. III, 266) — þessi setning lýsir furðu vel þeim Magnúsi góða og Kálfi Árnasyni, þegar þeir eru að skoða orustustaðinn á Stiklastöðum, en ekkert samsvarar henni í lýsingu Snorra (Magn. s. g., k. 14). Eins sakna ég tilsvars Tósta jarls við Svein Úlfsson: „Frændr várir gerask oss fíendr; þeirra fjándmenn skulu þá ok vera mínir frændr“ (Mork., 110). Hjá Snorra verður þetta svar óvenju sviplítið: „minna verðr mitt örendi hingat, en ek hugða at þú mundir vera láta, svá göfugr maðr, í nauðsyn minni“ o. s. frv. (Har. s. harðr., k. 78). En ef til vill hafa honum þótt orð Tósta í Morkinskinnu of hvatvísleg, of hreinskilin af stjórnmálamanni. Og vafalaust er það af slíkum ástæðum, sem hann dregur úr frásögunni um atferli Sveins Úlfssonar þegar honum var gefið jarlsnafn. Í Heimskringlu (Magn. s. g., k. 23) kemur aðvörun Einars þambarskelfis: „ofjarl, ofjarl, fóstri!“ upp úr þurru, og mætti þó reyndar vera, að hann talaði þar bæði af því, sem

hann vissi um Svein og sá í svip hans. En í Morkinskinnu (Flat. III, 273) er samhengið miklu betra: Magnús konungur gefur Sveini einn dag skikkju sína, er skorin var af inum dýrasta guðvef, og þar með mjaðarskál fulla og bað hann drekka mótsminni. „Ok hér með, segir konungr, vil ek gefa þér jarlsnafn ok þvílíkt af landsgæzlu í Danmörku, sem þá viljum vér hafa ákveðit, er vér komum þar“. Sveinn tekr við skikkjunni ok kastar eigi yfir sik, gefr þegar einhverjum sínum manni ok roðnar við mjök, en hann skikkir sjálfr gráfeld einn íslenzkan. Ok er Einar þambarskelfir sér þetta, þá mælti hann: „ofjarl, ofjarl, fóstri!“, segir hann. — En það var bæði, að Snorri áleit ekki skikkju vera meðal jarlsgerða (sjá að framan bls. 209), enda hefur honum þótt ótrúlegt að Sveinn gerði sig þegar í upphafi svo beran að uppreistaranda. Og hann dró úr sögunni, á kostnað listarinnar, vegna hins sennilega.

Um ekkert af efni sagnanna, jafnvel ekki ættartölurnar, er það berara en um vísurnar, að þær standa vegna vísindanna og ekki listarinnar. Þetta á þó auðvitað ekki við þær vísur, sem eru beint hlekkir í frásögninni, á sama hátt og hinar, sem skotið er inn í til sannana. En hér er ein hlið efnisvalsins, sem tiltölulega auðvelt er að athuga. Þó að Ólafs saga helga sé um $^2/_5$ hlutar af Heimskringlu, þá er ekki nema tæpur þriðjungur vísnanna í henni (178, en 415 í hinum tveim pörtunum). Og hlutfallið breytist enn, ef þess er gætt, að af vísunum í Ólafs sögunni eru 50 hlekkir í frásögninni, en 69 í hinum tveimur pörtunum (og af þeim 10 teknar úr sérstöku Ólafs sögunni). Er einkum athugavert, hve mikið Snorri tekur af lausavísum Sighvats. Sumar þeirra lýsa að vísu tíðaranda og atburðum, en langflestar af Austurfararvísum og Vesturfararvísum snerta hvergi aðalrás viðburðanna. Gætum t. d. að Ól. s. h., k. 71, sem varla er annað en vísur. Hann byrjar svo: „Þat hafði verit, áðr Björn fór heiman, at hann hafði beðit Sighvat skáld til farar með sér“. Í svo lausu sambandi stóðu þessar fimm vísur við aðalatriði ferðarinnar (og reyndar mun það vera misskiln-

ingur, að Sighvatur væri í för með Birni), að Snorri gleymdi að tilfæra þær í ferðasögunni sjálfri, og bætir úr því í sérstökum kapítula, sem byrjar ólíkt því, sem venja hans er. Í kap. 91 eru ekki minna en 19 vísur eftir Sighvat, og einar 4—5 í mesta lagi koma erindi hans nokkuð við. Hitt eru tækifærisvísur um smáatvik. Auðvitað megum vér vera Snorra þakklátir fyrir að hafa bjargað ýmsum af vísum þessum frá gleymsku. En sama má ekki síður segja um vísur Sneglu-Halla, Þórarins stuttfeldar, Einars Skúlasonar o. fl. í Morkinskinnu. En ef þær vísur væru komnar inn í síðasta þriðjung Heimskringlu, mundum vér finna, að þær styngju þar mjög í stúf við efnisval og efnismeðferð.

Það hefur verið alment álit, að Snorri væri ólíkur öðrum höfundum konungasagnanna í því að halda fast við meginþráð sögunnar og aðaltoga viðburðanna. Og að vissu leyti er þetta rétt, eins og þegar hefur verið nánar skýrt. Er þarna ærinn munur á Heimskringlu og Morkinskinnu með öllum sínum sögum og þáttum, svo að maður tali nú ekki um samsteypusögurnar frá 14. öld. En mönnum hefur láðst að geta þess, að einmitt í þessu efni kennir stefnumunar í Ólafs sögu helga og hinum konungasögum Snorra. Þó virðast menn einmitt hafa fundið þetta skömmu eftir daga hans. Skrifari Jöfraskinnu,sem annars styttir ekki nema þar sem endurtekningar koma fyrir, dregur svo úr kaflanum um Orkneyja jarla, að ágrip eitt er eftir. Svo það er auðsætt, að honum hefur þótt hann hlutfallslega of langur. Og sá sem setti saman lengri Ólafssögu-formálann ( eins og hann er prentaður í Holm. 2), og auðsjáanlega hefur borið gott skyn á sagnaritun Snorra, afsakar blátt áfram, hve mikið sé sagt frá Íslendingum í Ólafs sögunni: „Veit ek, at svá mun þykkja, ef utanlands kemr sjá frásögn, sem ek hafa mjök sagt frá íslenzkum mönnum“ o. s. frv. Hann hefur haft í huga sögurnar um Sighvat (og vísur hans), Stein Skaftason, Þórodd Snorrason og Þormóð Kolbrúnarskáld. Og hann hefur haft hina parta Heimskringlu í huga, þar sem

gengið var fram hjá slíkum sögum, því að engan hefði furðað á slíku um Ólafs sögu, ef hann aðeins hefði haft bók Styrmis eða Morkinskinnu til samanburðar. En einmitt úr Morkinskinnu sleppir Snorri öllum þáttunum um Íslendinga, og það perlum af frásagnarlist, eins og Auðunar þætti, Ívars þætti Ingimundarsonar, Sneglu-Halla þætti, sem á sinn hátt eiga ekki sína líka í Heimskringlu. Er þar auðsjáanlega meira hugsað um vísindi en skemtun, er slíkt er felt úr.

En athugum svo þættina í Ólafs sögu. Saga Steins Skaftasonar hefur að því leyti áhrif á aðalþráð hennar, sem hún skýrir, hvernig og hversvegna þeir Árnasynir urðu handgengnir konungi. Að því leyti má jafna henni við þáttinn um víg Geirsteins, sem varð upphaf að sambandi þeirra Gregóríusar Dagssonar og Inga konungs (Ágrip, niðurlag, Mork., 228 o. áfr.). Þó var það áreiðanlega miklu meiri viðburður í lífi Inga konungs, að Gregóríus gekk honum á hönd, því að hann var síðan brjóst og skjöldur fyrir ríki hans, en það var fyrir Ólaf helga að fá fulltingi Árnasona. Samt sem áður minnist Snorri ekki einu orði á víg Geirsteins og þá sögu alla, heldur segir aðeins: „réð þá til fulltings við Inga konung Gregóríus, sonr Dags Eilífssonar“ o. s. frv. (Ing. s. og Sig., k. 21). Sérhver maður, að á þessum tveim stöðum er ekki fylgt sömu reglum um efnisval. Og sé saga Steins hlutfallslega lengri en dæmi eru til um slíka þætti í öðrum konungasögum Snorra, þá er saga Þórodds Snorrasonar, annars af hinum íslenzku gislum, það ekki síður. Hún loðir við Ólafssöguna á tveim veikum þráðum: hún segir frá skattkröfum konungs á hendur Jömtum (sem ekkert varð úr) og Arnljóti gellina, sem síðar kom til Ólafs. En mikið af henni er meginsögunni óskylt, og auk þess ýkjukent í meira lagi (um tröllkonuna t. d.). Bæði hún og sagan um Bjarmalandsferð Þóris hunds eru í raun og veru brot af fornaldarsögum, sem líklegt er að komin séu úr bók Styrmis. Auðvitað auðga þær að vissu leyti Heimskringlu, og það er gaman að sjá, að Snorri er ekki algerlega óhultur fyrir

freistingum æfintýranna og fróðleiksstefnunnar. En jafnvíst er það, að slíkir þættir eru að söguefni og sannindum allfjarri því, sem hann tók í yngri parta Heimskringlu.

Um leið og vér þannig höfum komið auga á nýtt atriði í þróun Snorra, má enn reyna að marka skýrar stöðu hans meðal íslenzkra sagnaritara, en að framan hefur verið gert.

Hann er alinn upp við vísindi, fróðleik og skemtun jöfnum höndum, drekkur í sig efni þeirra og anda, án þess að gera sér ljóst ósamræmi þeirra og andstæður. Hann semur Eddu, fyrst og fremst vegna skáldskaparfræðinnar, en þó svo að sögulist hans nýtur sín þar líka, og verkið gefur skemtanarstefnunni meira byr undir vængi en hann hefur sjálfan getað grunað. Hann færir sér fróðleik Styrmis í nyt, og þó að hann brjóti á allan hátt bág við stefnu hans, þá er sú andspyrna um skeið að miklu leyti ósjálfráð, og hann hirðir ekki um þótt frásögn sín beri Styrmis nokkur merki. Á þessu stigi skapar hann Ólafs sögu helga, þar sem vísindi hans og list njóta sín bæði til þeirrar hlítar, sem hægt var að búast við í einni bók, og þar sem jafnvel klerkastefnan og fróðleiksstefnan eru heldur ekki alveg fyrir borð bornar. En með aldrinum verður hann strangari, þurrari, vísindalegri. Ef til vill veldur það miklu um, að hann skilur, að bókmentirnar eru að breyta stefnu sinni, hann uggir, að fróðleikurinn og skemtanin muni kefja vísindin. Og nú rís hann til sjálfráðs viðnáms. Eddu hafði hann að nokkru leyti skrifað af íhaldssemi, til þess að sporna gegn nýjum stefnum í kvæðagerð, sem hann kunni ekki að meta. En í sagnarituninni var mótspyrna hans réttmætari, því að þar átti hann ítök í því nýja eigi síður en hinu gamla, og það voru aðeins óheilbrigðar öfgar, sem hann barðist á móti. Nú skrifar hann Heimskringlu, og í hinum nýju hlutum hennar, fyrsta og síðasta þriðjunginum, eru líklega djúpsæjustu athugasemdir hans, en ef til vill er listinni og fróðleiknum haldið í helzti þröngum skorðum. En einmitt fyrir þessu verki skrifar hann formála sinn, og skipar sér fortakslaust undir merki Ara.

Því er það ekki lítilsvert, hvort menn álíta formálann skrifaðan samtímis Ólafs sögu eða síðar. Einmitt hann sýnir skýrt, að Snorri hafði ekki blindandi sveigt meira í vísindaáttina, heldur gert sér það sjálfum fullljóst.

Enginn sá sem þroskast getur verið fullkominn. Því að öll fullkomnun er kyrstaða, en þroskinn líf og hræring. Snorri hefur orðið fyrir því hlutskifti ýmissa löngu liðinna mikilmenna, að verk hans hafa stundum verið talin gallalaus og alger, og hafa menn þá annaðhvort viljað telja það kosti, sem eru eðlilegir agnúar, eða þá neita því, að hann hafi skrifað þá hluti, sem eru ekki eftir þeirra kreddu. Slíku verður ekki andmælt á annan hátt en með því að láta verk hans og atferli tala sínu eigin máli. Fyrir þeirri lýsingu hverfur þokumyndin, sem menn höfðu viljað kalla fyrirmynd, og í stað hennar kemur fram einstaklingur, undirorpinn breytingum, með rétthverfu og ranghverfu einkenna sinna og eiginleika, en eigi að því síður verður alúðar vorrar og aðdáunar.

---

## Sjöundi þáttur.

# Yfirlit.

---

I.

Íslendingar eru upphaflega brot af annari þjóð. Landnámsmennirnir höfðu horfið frá óðulum sínum til þess að létta af sér því oki, er þeim þótti á sig lagt þegar Haraldur hárfagri gerði Noreg að einu ríki og setti þar nýjan rétt. En eins og öfl höfðu leynst með norsku þjóðinni, sem fyrir eðlilega rás viðburðanna hlutu að leiða til sameiningar fylkjanna fyr eða síðar, hlutu sömu öflin líka að búa í því broti hennar, sem til Íslands flutti. Við búferlin var hægt að fresta þessari þróun, en ekki koma í veg fyrir hana. Smátt og smátt hlutu áþekk skilyrði að raska jafnvægi goðaríkjanna: auknar samgöngur, misjafnir forustuhæfileikar, sameining mannaforráða við erfðir og kaup. Sars hefur skilið það rétt, að saga Íslendinga hlyti að vera samstæð sögu Norðmanna. En hann hefur ekki gætt þess, að landnámsmennirnir fluttu sig ekki einungis úr landi, heldur líka aftur í tímann: þeir komust að sumu leyti á sama stig þjóðfélagsskipunar og Norðmenn höfðu verið á löngu fyrir daga Haralds hárfagra. Landrými var yfrið nóg, baráttan fyrir lífinu þurfti mikilla umsvifa, auðæfi fyrst fram eftir hvergi úr hófi, heröðin sjálfstæð og einangruð, jafnvel ráðgjörnustu mennirnir náðu skamt til. Ófriður Sturlunga-aldarinnar er ekki í eðli sínu samstæður konungsefna-styrjöldinni í Noregi, eins og Sars telur, þó að hvorttveggja gerist um líkt leyti. Til þess eru orsakir og takmörk

of ólík á Íslandi og í Noregi. Sturlungaöldin er einmitt náskyld 9. öldinni í Noregi, sameiningaröldinni. Og barátta þeirrar aldar hefur vafalaust verið bæði langærri og harðari en hægt er að ráða af sögnum þeim um hana, sem Íslendingar færðu í letur 3—400 árum síðar.

Stjórnarskipun þjóðveldisins var svo rúm, að fyrstu sporin til raskaðs jafnvægis urðu stigin baráttulaust. Á 11. og 12. öld eru uppi menn, sem fyrir auðs sakir og ríkis, ættgöfgi og manngildis, bera ægishjálm yfir heilum fjórðungum, og jafnvel öllu landinu, eins og þeir Gissur biskup Ísleifsson og Jón Loftsson. En vald þeirra gekk ekki í arf til sona þeirra, né vald Gissurar til eftirmanna hans á biskupsstóli. Nýir menn og nýjar ættir komu fram og stefndu að sama takmarki. Og það hlaut að því að draga, að til úrslitabaráttu kæmi.

Hversvegna auðnaðist engum íslenzkum höfðingja að vinna verk Haralds hárfagra og gera Ísland að einni ríkisheild undir stjórn sinni? Ef til vill má segja, að vantað hafi réttan mann á réttri stundu. En á ýmislegt annað má benda. Ísland var of fátækt land og strjálbygt til þess að hægt væri að halda þar lengi saman stórum liðsflokkum. Það var hægt að vinna sigur, en aldrei að færa sér hann að fullu í nyt, festa sig nógu vel í sessi. Sameiningu Noregs hjálpaði það, að víkingaferðirnar og nýlendurnar löðuðu ódælustu ættirnar af landi burt. Íslendingar á 13. öld kunnu enga leið utan, nema til Noregs. Þeir urðu annaðhvort að berjast til þrautar í landinu sjálfu, eða hverfa í ríki konungs, sem einmitt sendi þá heim aftur til þess að vinna landið í sínu nafni. Fáir Íslendingar komu svo frá hirð Hákonar gamla, að þeir hefðu haldið geði sínu að fullu, að skuggi konungsvaldsins hvíldi ekki á þeim. Illu heilli bar enginn Íslendingur konungsnafn. Stórbokkarnir vildu heldur lúta erlendum konungi en samlendum manni sér jafntignum. Þannig má telja hverja or-

sökina af annari, sem lögðust á eitt að æsa bál óeirðanna innanlands.

Og þó er ef til vill aðalorsökin enn ótalin. Stjórnarfarslegar ástæður geta að vísu skýrt, hversvegna barist var á Íslandi á 13. öld, en ekki bardagaaðferðirnar. Fullkomið siðleysi: eiðrof, níðingsverk, grimd, lausung, taumlaust sjálfræði og eigingirni í hvívetna — helzt í hendur við óeirðirnar. Siðleysið er ekki beint af þeim sprottið, né þær af því. En ófriðurinn og sundurlausn ríkisins gefa löstunum opinn leikvöll, og spillingin gerir baráttuna svo illkynjaða og úrslitalausa sem hún er. Á slíkri öld var enga samninga hægt að gera, engum heitorðum óhætt að treysta. Auðvitað hefði þetta ástand ekki orðið annað en barnskvilli með stærri þjóð. En sum börn hafa svo litlum manni að má, að þau þola ekki kvellisjúkdóma. Íslendingar gáfust upp í baráttunni og glötuðu sjálfstæði sínu.

En mitt í þessari illu ólgu sjáum vér sagnaritunina, og oss finst hún jafnundarlegt fyrirbrigði og ef vér sæjum lygnan bergvatnsál mitt í freyðandi jökulelfi. Um þessa hlið aldarinnar þegir Sturlunga saga að mestu, en hún og önnur enn meiri meistaraverk eru sjálf minjar um hana. Þessa sögur virðast skrifaðar ofar öllum skýjum, í ótrufluðu heiði, svo rólegar eru þær og stílhreinar. Að þeim kemst engin ástríða, nema ástin á efninu og vísindalegri og listhæfri meðferð þess. Og þó eru einmitt þessi verk ekki samin innan heinna klausturmúra. Þau eru skrifuð mitt í hættum og baráttu, stundum af mönnum, sem tóku drjúgan þátt í hvorutveggja, urðu öðrum að söguefni. Það getur meira að segja komið fyrir, að sami maðurinn lifi viðburðinn og lýsi honum. En jafnvel þá fatast honum ekki hófsemin, hann segir frá sjálfum sér eins og óskyldum manni. Sturla Þórðarson segir frá því, að þeir Snorri Sturluson og Sturla Þórðarson fundust í Víðikjörrum, „og taldi Snorri heldur á hann, og kvað hann vilja deila við frændur sína um hlut annara manna

að ósynju" (Sturl. II, 345). En hann getur þess ekki, að Sturla hafi svarað einu orði sér til afsökunar. Öllu lengra en þetta mun ekki verða komist í óhlutdrægri frásögn.

## II.

Hryðjuverk og sagnaritun — öðrum megin brenna Hrafns á Eyri, Sauðafellsför, Flugumýrarbrenna, hinum megin Morkinskinna, Egils saga, Heimskringla, Sturlunga saga. Hvað getur verið hvort öðru fjarstæðara? Og samt væru það gjaldþrot allra söguvísinda, ef ekki væri hægt að sýna neinn skyldleik með siðleysi, óeirðum og bókmentum Sturlunga-aldarinnar.

Íslendingar höfðu árið 1000 skift um trú eins og þeir væru að gera hverja aðra lagabreytingu. Friðurinn, lögin, völdin voru þeim dýrmætari en hin fornu goð. Þeir mistu ekki mikils. Það af Ásatrúnni, sem átti sér nokkrar rætur, lifði áfram í kristninni. Það er auðvelt að skifta um goðanöfn, örðugra um átrúnað, örðugast um siðferði og erfðavenjur. Kristur varði himnaríki eins og Þór Ásgarð, Ólafur helgi tók að sér að berja tröll í hans stað. Krossinn reyndist sterkara vopn en hamarinn, en baráttan hélt áfram að vera meginþáttur kristninnar eins og heiðninnar í hugum næstu kynslóðanna eftir kristnitökuna. Kristnin var nafnið tómt, það skorti bæði trúarfræðslu og sterkar trúarhreifingar. Þannig gat siðferði heiðninnar, sem var að vísu skapað samhliða trúnni og af sömu rótum runnið, en lítt háð kenningum hennar, lifað áfram fyrstu aldir kristninnar. Þetta siðferði, sem var myndað í baráttu allra gegn öllum, gerði einstaklinginn að þungamiðju tilverunnar (þetta er t. d. greinilegt í Hávamálum, þar sem jafnvel ættarbandanna er furðu lítið minst). Hver var sjálfum sér næstur, en því fylgdi virðing fyrir sjálfum sér. Þessir menn vöruðust að vinna sér til vansæmdar, vegna sín, en ekki annara. Samheldni og samábyrgð ættanna, virðing fyrir eigin samþyktum og lögum, eiðvendni og fyrirlitning á níðingsverkum — þetta gerði unandi við stjórnarskipun Íslendinga fyrstu

fjórar aldir þjóðveldistímans. Hið heiðna siðferði helzt nærfelt tvær aldir eftir kristnitökuna, vald biskupa og klerka gefur því mildara svip, og ástandið er ágætt yfir að líta.

En í raun og veru hlaut kristnin smátt og smátt, með aukinni fræðslu og áhrifum, að naga ræturnar undan hinum fornu siðaskoðunum. Lífsskoðun víkinganna var sjálfstæð og eigingjörn, hörð og tortrygg, glaðlynd og raunsæ — kristnin kendi hlýðni við kirkjuvaldið, uppgjöf sjálfshyggjunnar, líknsemi og viðkvæmni, íhugun á eymd mannanna og syndum, sífelda umhugsun um eilífa velferð. Þær voru altof ólíkar til þess að þær gætu til lengdar þrifist saman eða önnur komið smátt og smátt í hinnar stað. Milli þeirra hlaut að verða siðferðislaust skeið, þar sem gamli siðurinn var í dauðateygjunum og sá nýi enn í reifum. Íslendingar á Sturlungaöld höfðu lært að virða hinar heiðnu manndygðir að vettugi: þeir þektu vald, sem gat gefið þeim lausn fyrir eiðrof og níðingsverk. En hinar kristnu dygðir voru enn ekki komnar í hið auða skarð. Þeir höfðu slept öllum hinum fornu hömlum á ástum karla og kvenna. Kirkjan hafði kent þeim, að lausung væri syndsamleg, en af því að kenningin var magnlaus, varð hún ekki til annars en minna menn á syndirnar og krydda þær með gælismekk forboðinna ávaxta. Almenningsálitið var magnlaust, því að engin hjartfólgin boðorð voru til þess að dæma eftir. Og við þetta bættist svo, að ríkið var í molum, hver höndin upp á móti annari, ekki einu sinni neinn einstaklingur, sem allir gátu virt. Auðvitað á þessi lýsing ekki jafnt við alla. Á slíkum öldum hljóta að vera til einstakir menn, sem hafa ekki mist fótfestu í hinu forna siðferði, aðrir sem hinn nýi siður hefur náð tökum á, enn aðrir, sem virðast eiga lögmál sitt í sjálfum sér. Menn eins og Þórður kakali, sem strengdi þess heit að láta aldrei taka mann úr kirkju, hverjar sakir sem sá hefði við hann, virðist hafa orðið snortinn af riddaralegum hugsjónum í utanför sinni, og svo má vera um fleiri. En einn helzti brautryðjandi hins nýja siðar, Guðmundur biskup góði, var að vísu

guðsmaður mikill, en bar samt öll merki byltingamannsins. Hann stjórnaðist af óskapnaði líknsemdar og trúarhita, en borgaralegu siðferði var hann alla sína æfi til niðurbrots, og af honum stóð ekki minni styrjöld og óáran en verstu stórbokkunum meðal höfðingjanna.

Slíkar siðhvarfaaldir geta vel liðið vígalaust. Það er tilviljun ein, að ófriður og siðleysi verður einmitt samtíða á Íslandi. En úr því hvorttveggja fer saman, hlýtur siðleysið að elna í óeirðunum og styrjöldin að bera svip spillingarinnar. Sagnaritunin skapaðist heldur ekki af þessum tveim meinum, sem henni eru samtíða. Upptök hennar hafa þegar verið skýrð. En hún hlýtur að bera merki þeirra beggja, og líka aftur að hafa sín áhrif á þau, þótt lítils gæti. Snorri Sturluson og Sturla Þórðarson hefðu ekki verið alveg samir sem höfðingjar, og þeir urðu, ef þeir hefðu aldrei fengist við bókleg fræði.

## III.

Ég hef í fimta þættinum hér að framan lýst hugsjón Ara, sannleikanum vegna sannleikans, sem varð leiðarstjarna sagnaritunarinnar á þroskaskeiði hennar, án þess að benda á samband hennar við lífsskoðun 12. og 13. aldarinnar. En þetta samband liggur í augum uppi. Slík hugsjón gæti að vísu komið fram með þjóð, þar sem sterkar trúarskoðanir og siðferðislögmál væru ríkjandi, en hún gæti alls ekki þróast. Sannleikurinn hefur ekki aftur orðið eina takmark sagnaritunarinnar fyr en á 19. öld, einmitt þegar reik var komið á lífsskoðun Evrópu. En það hefur jafnvel þá reynst ótrúlega erfitt að festa sífelt sjónir á þessu marki. Gömlu mörkin, sem veitir auðveldara en björtum og köldum sannleikanum að ná tökum á tilfinningunum, gægjast aftur og aftur fram. Sagnaritunin gengur í þjónustu trúarskoðana, siðahugsjóna, föðurlandsástar, flokksfylgis. Þarf eigi annað en minna á aðra eins sagnaritara og Treitschke, Taine og Carlyle sem dæmi þessa.

Og þó að hlutleysi í lífsskoðunum hafi verið orðið mikið á

Íslandi á öndverðri 12. öld, þá var braut sannleikans samt tæp fyrir sagnarituninna. Hennar var freistað á tvær hendur, eins og klerklegu sagnaritin og áhrif Noregskonunga á einstök verk sýna. Jafnvel hjá Eiríki Oddssyni er tilhneiging til þess að prédika, svo að fyrir kemur, að vér hnjótum um setningar frá honum, þegar þær hafa komist óbreyttar inn í Heimskringlu. En við frekari hnignun ríkis og siðferðis jukust skilyrðin fyrir hlutleysinu. Höfðingjarnir, sem skrifuðu, höfðu ekki trú, sem gat gert þá vilhalla, ekkert lögmál, sem teygði þá til þess að fella tímabundna dóma. Enginn ríkismetnaður, ekkert flokksfylgi komst upp á milli þeirra og efnisins.

Vísindin vegna vísindanna og listin vegna listarinnar eru náskyldar hugsjónir. Báðar taka efnið sjálfs þess vegna, skoða það og skilja frá þess eigin sjónarmiði, án þess að reyna að beita því sem vopni í baráttu, sem er ekki samkvæm eðli þess. En í sagnarituninni má velja efnið með tvennu móti. Vísindin leita þar, sem annars, hins almenna, ríkissögu, yfirlits. Sögulistin leitar hins sérstaka, viðburða, einstaklinga.

Og einmitt alt benti Íslendingum siðhvarfatímanna á einstaklinginn sem viðfangsefni. Frá þeim tímum eru engar lífsreglur, engin boðorð, ekki einu sinni bók um mannasiði á borð við Konungsskuggsjá. Einkenni einstaklinganna og athafnir eru mikils virði eins og þau eru. Þau eru ekki dæmd, af því að þau eru ekki skoðuð sem hindranir þess, að hann lagi sig eftir einhverjum fyrirmyndum eða gangi hina þröngu götu, sem til lífsins liggur. Og ríkið er svo smátt og lítils megandi, að það skyggir ekki á hann. Ari minnist aðeins brennu Þorkels Blundketilssonar af því að af þeim eftirmálum leiddi setningu fjórðungsdóma. En höfundur Hænsa-Þóris sögu hefur ekki hugmynd um þetta samband brennunnar við landssöguna. Setning fimtardóms, í raun og veru afleiðing langrar og harðrar þjóðmálabaráttu, er í Njálu gerð til þess að fullnægja oflæti Hildigunnar. Einstaklingur stendur andspænis einstaklingi, og andspænis forlögunum. Hjá þeim verður ekki komist, á þau er trúað á öll-

um siðleysisöldum, þegar forsjónin hverfur mönnum sýn. Trúin á blind forlög er mynd af stjórnleysi mannlífsins sjálfs, sem varpað er upp á himininn og tekin í guða stað.

Og tækifærið til þess að þekkja menn er einstakt á Sturlunga-öldinni, þegar allar frumhvatir mannsins léku skefjalausar, eins og jafnan þegar gömul menning hefur mist vald á mönnum og nýjar hömlur eru ekki myndaðar í staðinn. Og einmitt hinn frjálsi leikur mannlegra krafta er aðdáunarefni sagnanna. Samúð höfundanna virðist liggja við rót lífsins, þar sem ótamin orkan sprettur fram, án þess þeir geri verulegan mun á því, hvort þessi orka tekur síðan á sig svip þess, sem kallað er gott, eða hins, sem kallað er ilt (smbr. t. d. dóm Snorra um Hákon jarl hinn illa). En aðdáunin fyrir þróttinum, lífinu í öllum þess myndum, en einkum hinum stjórnlausustu, er einmitt lífsskoðun listarinnar. Engin saga kemst af án einhverrar baráttu.

Efnið vegna efnisins. Íslendingar skrifa ekki í neinum tilgangi, aðeins af því að fræðagildi og listargildi efnisins heillar þá. Stíllinn ber þess vitni. Allar tegundir af aukatilgangi setja svip sinn á stílinn: föðurlandsmetnaður Saxa kemur fram í viðhöfn hans og mælsku, Carlyle talar eins og spámaður í hálfyrðum og upphrópunum, klerkarnir verða langorðir og draga seiminn af tómum fjálgleik. En í beztu sögum Íslendinga kemur efnið hvorki fram í rykkilíni né drambhosum, búningurinn er því nærskorinn, eins og á íþróttamanni. Honum er mest prýði að líkamsvexti sínum, og eins vildu sagnaritararnir láta efnið sjálft tala. Eðli hins sundurlausa máls er réttlæti og hófsemi, og það er hvergi ómengaðra en í íslenzkum sögum.

Íslendingar fundu Ameríku, en heimurinn vissi ekki af því, og aðrir menn fundu hana aftur löngu síðar eftir erfiðum leiðum. Þeir eignuðust líka ýmislegt, sem Evrópa hefur leitað síðan, án þeirra hjálpar. Hefur ef til vill eignast það alt á sinn hátt, en eignast það í brotum. Vér vorum of smáir og afskektir

til þess að geta lagt vorn skerf til sögu og menningar heimsins á réttum tíma.

Það er undarlegt fyrir Íslending að lesa bók Burckhardts um menningu Endurreisnar-aldarinnar á Ítalíu, og sjá hann telja þar alt, sem óþekt var í Norður-Evrópu á þeim tímum. Ítalir „uppgötvuðu" einstaklinginn á sinn hátt, einmitt á agasamri öld og með því að leita til fornaldarinnar. Burckhardt telur það mikinn viðburð þegar Ítalir tóku að rita æfisögur afreksmanna, því að í Norður-Evrópu var aðeins ritað um helga menn, konunga eða kirkjuhöfðingja. „Þar vottaði ekki fyrir hugsjón frægðarinnar, persónulegs frama fyrir eigin afrek". Ætli Endurreisnartíminn í Evrópu hafi skapað nokkra æfisögu, sem ber af Eglu?

Íslenzkar bókmentir fara ekki að hafa áhrif á erlendar bókmentir fyr en í byrjun 19. aldar. Og þá falla þær í hendur reyfara: danskra og þýzkra rómantiskra skálda, sem voru þeim furðulega óskyld. Ekkert getur t. d. verið fjær anda sagnanna, eins og Repp sagði, en Grundtvig, þessi Þorgeir hóflausa meðal skáldanna, sem hafði til hvers hlutar meira en þurfti. Tilraunir rómantisku skáldanna til þess að yrkja sögurnar upp, hlaða utan á þær pelli ljóðamáls og líkinga, mishepnuðust algerlega. Sæmilega hefur ekki verið ort út af þeim í þeirra eigin anda, fyr en raunhyggjan setti svip sinn á bókmentirnar. Þá tóku vísindi og list aftur höndum saman, og árangurinn varð svipaður, þótt það væru nú í orði kveðnu náttúruvísindi í stað söguvísinda. Og nú er aftur svipað reik á lífsskoðunum og trú á blind örlög. „Ég er forlagatrúaður eins og Tyrki", segir Flaubert. Hinn óskapaði lífsþróttur er tignaður (Nietzsche), hlutleysið verður hugsjón í vísindum og list. Flaubert gefur listamanninum það boðorð, að hann eigi að vera eins og guð í verki sínu: allsstaðar nálægur, en hvergi sýnilegur. En íslenzkar sögur fullnægja þessari kröfu betur en bækur hans sjálfs, sem eru fullar af samlíkingum og brotum úr ljóðamáli. En aðrir söguhöfundar eins og Maupassant og Verga eru hófsamari í því efni.

En ekkert af þessu hefur gert íslenzkar sögur úreltar. Þær fyrnast ekki fremur en lífið. Og þær bíða þess að heimurinn læri að lesa þær, eins og þær eru, án þess að halda, að um þær þurfi að bæta.

IV.

Snorri Sturluson kemur fram á sjónarsvið íslenzks þjóðlífs um aldamótin 1200. Á þessari fjölbreyttu öld er hann fjölbreyttasti maðurinn.

Auður þessa lífs er furðulegur. Það er eins og nornirnar hafi kepst hver við aðra yfir vöggu hans að velja úr andlegum og veraldlegum fjársjóðum þjóðar hans og samtíðar handa honum. Kyn Sturlu og Guðnýjar, höfðingjaætt, skáldaætt, ætt Egils og Snorra goða, í einu forngöfug ætt, og þó ungur og framgjarn knérunnur, fóstur Jóns Loftssonar, menning Oddaverja, nágrenni við Skálholt og Hruna, ríki Mýramanna, Tungu-Odds, Hafliða Mássonar, Snorrunga, fé Bersa auðga og Kolskeggs auðga, meiri auður en nokkur Íslendingur hefur átt fyr eða síðar, úrval úr íslenzkum höfuðbólum, Borg, Svignaskarð, Brautarholt, Bessastaðir, Stafaholt, Reykjaholt, lögsaga á Alþingi, lends manns réttur í Noregi, gjafir og vinátta erlendra þjóðhöfðingja, metorð og mágsemdir, mannfjöldi og þingríki, skáldgáfa og skáldfrægð, vísindamenska, fróðleikur, list, full afrek í öllum íslenzkum þjóðfræðum, óðfræði, goðafræði, hetjusögur, sagnarit, kristinn siður og heiðinn, Ólafur helgi og Óðinn, fylsta samræmi sanninda og skemtunar, frægastur höfundur þjóðarinnar fyr og síðar.

Örlögin gáfu og buðu. Og Snorri tók við. Hann lagði engin bönd á sig. Hann tók við, og rétti sífelt út hendurnar eftir meira.

En jafnvel valdi örlaganna eru takmörk sett. Þau geta ekki rofið einföldustu og dýpstu lög sálarlífsins. Þau geta gefið allan auð, en ekki um leið þann styrk, sem í fátæktinni

er fólginn. Þau geta leyft að kjósa alt, en þá verður sá sem kýs að taka afleiðingunum af því að kjósa alt — af því að velja ekki um.

Alt sem Snorra skortir, er skortur á takmörkun, skortur á fátækt. Hann hefur allar lífsskoðanir aldar sinnar, og engin þeirra er þá auðvitað lifandi vald í lífi hans. Hann kann ekki að afsala sér, fórna, skynsemi hans er of alsjáandi, það heftir eðlishvötina, hið blinda vit, að njóta sín.

Þannig missir hann margs í lífinu. Hann nær metorðum meir en völdum. Hann fær bandamenn, en ekki vini. Hann eignast margar frillur, en kvænist ekki nema til fjár, mörg börn, en ekki föðurást. En það virðast oft forlög andans mannanna, sem taka lífið hugtökum og ná þar furðu vítt yfir, að þeir verða í staðinn að afsala sér fastatökum á veruleikanum. Og jafnvel í ritum Snorra kemur fyrir, að hann missir kjarnans vegna víðsýni sinnar. Hinn mikli höfundur Völuspár tekur blind örlög heiðinnar lífsskoðunar og gerir þau sjáandi. Siðferðið verður örlögsíma tilverunnar. Baldur og Æsir hníga ekki fyrir ytri forlögum: eiðrof goðanna valda, örlögin koma innan að. Heimurinn er spiltur, þarf að farast, brenna, skírast. Í kvæðinu mynda trú og siðferði þá einingu, sem báðum er eðlilegust. Snorri notar Völuspá meira en nokkurt annað kvæði, notar hana alla, — nema aðalatriðið. Það sést honum yfir. Sturlungaöldin skildi ekki, hvað við eiðrofum lá, hún hélt að örlögin væru blind, sá ekki, að siðferðið er uppistaða lífsins. Siðferðishugmynd Völuspár vantar í Gylfaginningu. Snorri afsakar goðin: „En er Æsirnir sá þat til víss, at þar var bergrisi kominn, þá varð eigi þyrmt eiðunum'' (smbr. að framan 124—125).

Sonatorrek er einhliða. Völuspá er einhliða. Íslendingabók er einhliða. Öll eiga verk þessi til samans ekki nándar nærri annan eins auð og rit Snorra. Og þó á hvert þeirra eitthvað fram yfir hann, hvert þeirra hefur á vissan hátt bætt meira en hann við það, sem áður var til. Snorri er hvorki

spámaður, né brautryðjandi; hann er arfþegi og fullkomnandi. Honum er tamara að móta gersemar úr brotasilfri en að sækja sjálfur málminn inn í bergið. Hér skal ekki dæmt um hvort meira sé. En ekki er það á annara færi en afburðamanna að taka við öllum auði og andstæðum mikillar byltingaaldar, án þess að fara sjálfir í mola, heldur skapa úr þeim verk, þar sem einmitt samræmið ber vott um, hve örðug baráttan hefur verið.

Og auk þess er Snorri annað og meira en ágrip aldar sinnar. Hann sér víðar en aðrir menn, meira samhengi, dýpra skyldleika viðburðanna. Og auðlegð hans gerir hann íhaldssaman, og í því er þó nokkur úrvöl fólgin. Þannig verður hann einn öldinni samboðinn fulltrúi: gegn því, sem aðrir áttu fram yfir hann, leggur hann það, sem hann einn átti fram yfir alla.

## V.

*Nú er hersis hefnd*
*við hilmi efnd.*
*Skalla-Grímur.*

Frelsið hafði verið það agn, sem ginti blómann af norrænum hersaættum til ólandsins norður og vestur í höfum. Á miðri 13. öld höfðu þær int ætlunarverk sitt af hendi: andleg afrek voru unnin, jafnvel sögu og skáldskap annara þjóða var borgið frá gleymsku. Í diglu þessa smáríkis hafði með kynlegum aðferðum verið skírður hinn andlegi Fáfnisarfur Germana. Nú var starfinu lokið. Nú var sama um frelsi og velferð þjóðarinnar. Það er ekki mildi forsjónarinnar, heldur ótrúlegri seiglu kynstofnsins að þakka, að Íslendingar voru ekki frá 1400 dæmdir til eilífrar örbirgðar og áþjánar.

Viðskifti Íslendinga við Harald hárfagra og Hákon gamla eru harla ólík. Þó að hersarnir vestan fjalls lytu í lægra haldi fyrir Haraldi, áttu þeir þó skip sín og opið hafið. Og þætti þeim sér of nærri höggvið, báru þeir vopn á sjálfa

konungsættina. Þeir sigldu glæsilegustu knörrunum úr flota Norðmanna vestur og norður um haf. Fjórum öldum síðar ganga niðjar þeirra á hönd Hákoni konungi hinum kórónaða, og áskilja sér, að sex hafskip gangi til landsins á hverju ári forfallalaust, því að öðrum kosti hafa þeir óttast vöruskort og samgönguleysi.

Skalla-Grímur og Haraldur hárfagri, Egill og Eiríkur blóðöx, — það var barátta tveggja ætta. En hverjum Íslendingi á 13. öld hefði getað komið til hugar að hefna á sifjaliði Hákonar konungs þeirrar hlutdeildar, sem konungur hafði átt í vígi Snorra Sturlusonar?

Hafði þá konungsættin aðeins vaxið, hersaættirnar aðeins minkað? Áttu Íslendingar ekkert, sem gat jafnað hallann? Þeir áttu bókmentirnar, sem þeir höfðu keypt svo dýru verði, sem voru myndaðar af sjálfum meinum þeirra, eins og perlan er sjúkdómur í skelinni. Og þær hefndu, ekki á frændum konungs, heldur honum sjálfum.

Hákon konungur liggur sjúkur í Kirkjuvogi í Hrossey. Hann er á leið heim úr herferð sinni um Vesturlönd, en banasótt hans tekur hann í Orkneyjum. „Í sóttinni lét hann fyrst lesa sér latínubækur, en þá þótti honum sér mikil mæða í að hugsa þar eftir, hversu það þýddi. Lét hann þá lesa fyrir sér norrænubækur nætur og daga, fyrst heilagra manna sögur, og er þær þraut, lét hann lesa sér Konungatal frá Hálfdani svarta, og síðan frá öllum Noregs konungum, hverjum eftir annan. — — Þá er lesið var Konungatal framan til Sverris, þá lét hann taka til að lesa Sverris sögu. Var hún þá lesin bæði nætur og daga, jafnan er hann vakti. — — Nær miðri nótt (laugardag eftir Lúcíumessu) var úti að lesa Sverris sögu. En heldur að miðri nótt liðinni kallaði almáttugur guð Hákon konung af þessa heims lífi“ (Hákonar saga, Flat. III, 229—230).

Það er að nokkru leyti tilviljun, að nokkru leyti smekkur konungs, sem veldur því, að það skuli vera Fagurskinna og

Sverris saga, sem hann lætur lesa. Heimskringla og ýmis önnur rit hefðu verið eins vel eða betur til þess fallin. En hitt er engin tilviljun, að Hákon kýs sér íslenzk sagnarit, og ekki þýðingar þær, sem hann sjálfur hafði látið gera, til þess að gera sér dauðastríðið léttara. Enginn lestur getur verið sjúkum hollari en þessar sögur, einmitt af því að þær eru hreinar og tærar eins og bergvatn. Hugurinn þarf ekki að setja sig í neinar óeðlilegar stellingar til þess að njóta þeirra. Af þeim er ekki neinn mannaþefur. Og búningurinn fellur svo að efninu, að manni þykir þá orðs vant, er annað er mælt. Því getur þreyttur hugur orðið „leiður á öllu utan Íslendingasögum''. Nú stóð Hákon magnlaus frammi fyrir dauðanum, ekki kórónaður konungur, aðeins veikur og vesæll maður. Minningar frá ríkisstjórn hans, sem kostað hafði ýmsar fórnir, hafa sezt að honum. Og þeir menningarstraumar, sem hann sjálfur hafði veitt til Noregs, urðu honum ekki næg svölun. En hið rólega heiði sagnaritanna kældi enni hans, og ef til vill hefur síðasta hugsun hans verið sú, að gott væri að eiga minninguna um sína eigin æfi í höndum slíkra manna. Íslenzka þjóðin, sigruð og flakandi í sárum, rétti honum síðasta svaladrykkinn. Hún hefndi, af auði líknsemdar sinnar, — eins og andinn ávalt hefnir.

---

# Efni.

